# DIPLOMATARIUM ISLANDICUM.

---

# ÍSLENZKT FORNBRÉFASAFN,

SEM HEFIR INNI AÐ HALDA
BRÉF OG GJÖRNÍNGA, DÓMA OG MÁLDAGA,
OG AÐRAR SKRÁR,

ER SNERTA

ÍSLAND EÐA ÍSLENZKA MENN.

---

GEFIÐ ÚT
AF
HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÉLAGI.

FJÓRÐA BINDI
1265—1449.

---

KAUPMANNAHÖFN.
Í PRENTSMIÐJU S. L. MÖLLERS.
1897.

# Formáli.

Registr við þetta bindi höfum við gert þrír: cand. philos. Þorlákr Jónsson, cand. philos. Ólafr Davíðsson og eg. Þorlákr hefir safnað öllu um áhöld kirkna og auk þess gert nokkur drög til hluta og orðaregistrs annars kostar, en þau drög öll hefir Ólafr Davíðsson yfirfarið og safnað að öðru leyti alveg til hluta og orðaregistrsins. Auk þess hefir Ólafr í þetta sinn gert út undir prentun eptir registrsseðlunum alt *N*-ið og *S*-ið, og *K*-ið, nema um búnað kirkju. Það hefi eg sett saman. Staða- og mannanafna registrið hefi eg gert eins og áðr, og hefi að öðru leyti, en nú var talið, sett registrið saman eins og það nú er. Dálítið hefir verið breytt til frá hinum fyrri registrum í ýmsu til styttingar, en þó ekkert felt niðr, sem nauðsyn var að hafa.

Um útgáfuna af Vilchinsmáldaga vil eg geta þess, að eg veit ekki annað en að hún sé áreiðanleg í öllu því, sem á ríðr. En stafsetningin er ekki elt út í yztu æsar í sumum atriðum, enda er hún svo marklaus í handritunum í heild sinni og sjálfri sér svo ósamkvæm, að það hefði eingin eptirsjón verið í því, þótt henni hefði verið breytt gjörsamlega. Eg hefi tekið eptir því, að eg hefi stundum leyst n̄ upp í nn, en stundum látið það standa óhaggað (n̄), einkum þegar það var í þolfallsendingu kvenkynsorða. Þó þori eg ekki að segja að full samkvæmni sé í því. Ekki þori eg heldr að ábyrgjast, að alstaðar sé farið sjálfu sér samkvæmt í útgáfunni með ij og y handritanna, sem þar er mjög á reiki og auk þess opt erfitt að greina að, einkum af því að eingin föst regla er í rithættinum. Optast er þó farið svo með þessa stafi, að ij er látið vera þar sem í skyldi standa í góðum rithætti, og y heldr þá velli þar sem það skyldi standa.

Eg hefi hér um árið getið þess, að um 1600 hafi menn á Íslandi verið farnir að rugla saman eignarfalli af mannsnafninu Björn og Bjarni[1]), og er það að vísu rétt, en þá var mér ekki jafnljóst og nú, að menn voru farnir til þess þá fyrir hér um bil 200 árum. En því get eg þessa hér, að það hefir verið mér til mikils trafala í registrsgerð við þetta bindi, að ekkert hefir verið að marka rithátt bréfanna um þessi nöfn. Sami maðrinn er hvað eptir annað ýmist kallaðr Bjarnason eða Bjarnarson, svo að ómögulegt er að vita hvort rétt er, eða jafnvel hvort það er einn og sami maðr, sem við er átt, og gætu menn þrætzt um það til eilífðar, ef maðr fyndi hann þá ekki líka kallaðan Björnsson, sem stundum ber við, og tekr það af öll tvímæli; en sú mynd er býsna gömul, og kemr fyrst fyrir í frumrituðu skjali 1396 (Dipl. Isl. III, 611) og síðan 1398 og 1399 (DI. III, 626 og 642) og úr því öðru hverju. Hvort mér hafi tekizt að sigla fyrir öll andnes í þessu, veit eg ógjörla, en hinu veit eg að menn ættu að hætta nú á Íslandi, og það er að skæla nafnið sitt í Bjarnarson úr Björnsson, því að menn verða ekki vitund betri Íslendingar fyrir það, en sú skæling getr orðið að miklum ruglingi síðar meir.

[1]) Rit mitt um kveðskap á Íslandi á 15. og 16. öld. Kh. 1888 bls. 461—462.

Kaupmannahöfn 4. Febrúar 1897.

*Jón Þorkelsson.*

# Röð og efni bréfanna.

---

[1]) Hér er alstaðar í þessu registri sett árið 1397 við máldagana úr Vilchinsbók, þótt þeir kunni að vera frá 1394—1396, sé ekki annað ártal beint nefnt í máldögunum sjálfum.

[1] Rómverska talan hér í útgáfu Vilchinsbókar kemr að því leyti heim við skjalaröðina, að í skjalaröðinni eru Hvammsmáldagar í Norðrárdal taldir sem tvö skjöl (þó ekki sé þeir hér prentaðir), og Viðeyjarmáldagarnir sem þrjú skjöl, þótt sumir sé þeir prentaðir annarstaðar.

# DIPLOMATARIUM ISLANDICUM.

*1. 1265. á Alþingi.

Alþingissamþykt um hnífaburð, félausa óskilamenn, konur, sem ósæmdar verða af lausum mönnum og um eiða.

Samþykt þessi er áðr prentuð í II. bindi Fornbréfasafnsins sem Nr. 3, en eptir öðrum handritum en hér og öllum yngri en þeim, sem hér er prentað eptir undir **A** og **B**, og þykir því sjálfsagt að prenta hér þessa texta, að það eru elztar heimildir fyrir samþyktinni, er nú þekkjast, og eru auk þess hvergi til, nema á Bretlandi, svo að ekki er auðhlaupið í þá. **C** og **D** eru og tekin eptir handritum í brezkum söfnum og þykir því réttast að láta þá texta og fylgja með.

**A.**

Add. British Museum 11, 250 (FMagn. 405), blöð úr skinnbók í 4to, og stendr fyrir ofan þær klausur, sem þetta er úr: »Annotationes ex marginib. legisterij Thoruardi legiferi quæ non transtuli in meum legisterium», og er þetta með hendi Gizurar biskups Einarssonar (d. 1548), en Þorvarðr lögmaðr Erlendsson, sem hefir skrifað þetta inn í lögbók sína, dó 1513, og er þetta því langelzta heimildin fyrir þessari samþykt, er nú þekkist.

Þetta var samþykt j laugrettu a alþingi oc dæmt af laugrettumonnum a audru ære eptir frafall virduligs herra hakonar kongs hins koronada

at eingi skal bera uppbundinn hnif þann sem skockr eda hiaullt uæri æ skapti enn ef borinn er suare þriggia aura sekt oc hnifurinn upptækur oc at alþingismanna domrofi [sekr] .iiij. morkum.

---

**B.**

I.

Add. British Museum 11,242. (FM. 206). 4to bl. 36 a. Syrpa(«Dægradvöl», «Sópdyngja») séra Gottskálks Jónssonar, skr. 1543—93, og er þetta því önnur elzta afskript þessarar samþyktar, er nú þekkist.

Samþyckt almvga.

Þetta var samtekit i lavgretto. a alþinge oc dæmt af lavgrettvmonnvm a avdrv are epter frafall virdvligz herra hakonar konvngz enz koronada.

at eingen skal bera upp bvnden hnif þann skockur edur hiavllt væri a skapte en ef boren er svare þriggia avra seckt oc hnifuren vpptækr oc at alþingis manna domrofe sekur iiij morkvm.

II.

Add. British Museum 11, 242. 4to bl. 23b. Syrpa séra Gottskálks Jónssonar í Glaumbæ skr. 1543—93.

Þeir menn sem felauser ero oc oskil giora sem kaupa at monnum godz eda gripe. take aptur huer uid sinu þott ei hafe sier aptr skilid suo framt sem þeir fa vitne til at þeir attu þat er þeir selldu.

en þær konur sem osæmdar eru af lausum monnum skulu eigi gefa peninga til frelsis þeim er þær osæmde til osæmdar aurfum. R. B. h. K.[1])

III.

Add. British Museum 11, 242. 4to bl. 74a. Syrpa séra Gottskálks í Glaumbæ, skr. 1543—93.

---

[1]) þ. e. Réttarbót Hákonar konungs, og vill handritið því halda þetta réttarbót. Í Syrpu séra Gottskálks bl. 51b stendr svo látandi klausa, sem nefnist þar réttarbót:

R. B.

þa skipan hofvm vier a giort vm lienzmenn at þar skulu vera tekner til skilriker bændr þeir sem hier [ero] ættader oc reynder j bygdarlage at godum medferdum oc lavgum oc rettindum vilia svara vid almugan. Enn handgeingner menn vorer vilium vier ei at hafi þui at þat er þeirra starf sem agiarner ero oc prettviser at liggia um kotkarlen þann sem annat hvort kann litid til edur allz ecki.

vr kirkiunar logum oc landzens.

Yngre madr enn xiiij uetra skal ei eid uinna æn f[rænda radi].

Eingin husfreyia utan lof bonda sinz.

Eingin [klerkr] utan formadr hanz lofi.

Eingin nema fastandi.

Eigi [j svivirdi]ligum stodum.

Ei hrapurliga[1]) nie med ordkrokum.

Ei fra IX uikna fostu fram um paska.

Ei fra jol[afôstu] fram um geisladag.

ei æ jmbrudogum.

ei a gagndogum.

enn ef [sver] rangan eid eda ologligan suare sem firir einfalldan hordom.

---

## C.

Advoc. Library Edinb. 17. 8vo (21, 8, 5) bl. 33 skr. c. 1620 eða fyrr.

Alþingis samþyckt
[vm konur þær sem leggia vt peninga firir þa sem osæma þær.[2])

[Þ]essu var jatad oc samþykt j logrettu æ alþingi og dęmtt af logrettumonnum. æ odru ari epter frafall virduligs herra herra hakonar noregs konvngs hinns koronada.

ad eingin skuli bera vppbundinn knif. þann er skockur edr hiollt vęri ad skepti. Enn ef borinn er suari .iij. aura sekt. og knifurinn vpptękur ad alþingismanna domrofi. sekur .iiij. Ꝏorkum.

Jtem þeir fielauser menn sem oskil giora. sem kaupa ad monnum goz manna edr gripi. taci aptur hver vid sijnu. þott eigi hafi ser aptur skilt. suo frammt sem þeir fa vitni til ad þeir attu þat er þeir selldu.

Jtem þær konur sem osæmdar ero af lausum monnum skulu eigi gefa peninga til frelsis þeim er osęmdu þær. ser til osęmdar. oc sijnum ørfum.

---

[1]) svo, hdr.; [2]) [þetta með annari og nokkru yngri hendi.

D.

Add. British Museum 11,092. 4to (FM. 94), bók á pappír skr. um 1750 með góðri fljótaskriptarhendi. Klausur þessar eru á bl. 5b, 26b, 30a—b.

I.

Eida hverier meiga vinna.

Samþyckt a alþingi epter frafall[1]) herra Haconar konungs hins coronada yfer noregs konungs Riki.

ad yngri madur enn 16 vetra skal ei Eid vinna án frænda Ráds.

eingin husfreyia án Bónda sins leifis.

eingi lærdur madur nema formadur hanz leifi.

Eingi nema fastandi oc ei i svivirdilegum stødum edur hraparlega edur med ordkrokum.

Ei fra nijuvikna føstu oc framm um páska.

ei fra Jolaføstu oc framm um Geisladag edur a Jmbridøgum.

ei a Gagndøgum.

Enn ef sver Rangan Eid edur oløglegan. svari sem firir einfalldan hordom.

II.

Køp oskila manna.

Samþykt a alþingi á ødru ári epter frafall Haconar Noregs konungs.

ad þeir feløser menn sem oskil gera oc køpa ad monnum gotz manna edur gripi. taki afftur huor vid sinu þo ei haffi sier afftur skilid so framt þeir fa vitnizburd ad þeir attu þad þeir selldu.

III.

Kon[u]r leysi ei fylgiumenn sina med peningum.

Á ødru ári epter fráfall Haconar konungs dæmt a alþingi.

ad þær kon[u]r sem osæmdar eru af løsum monnum skuli ei gefa þeim peninga til frelsis er þær osæmdu ser til osæmdar oc sinum aurfum.

---

[1]) þannig.

*2. 1265. á alþingi.

Alþingissamþykt um ljóstolla, legkaup og líksaungseyri.

Samþykt þessi er prentuð áðr sem Nr. 4 í II. bindi Fornbréfasafnsins, en eptir öðrum handritum en hér, og er hér farið eptir: Add. British Museum 11,092. 4to (FM. 94) bl. 6 b, 34 b, skr. c. 1750, með góðri fljótaskriptarhendi.

I.

Eindægi a Liostolli og Liksangseyri.

Dæmt á alþingi á ödru ari efter frafall Haconar konungs.

Eindægi á Liostolli friádaginn langa. sekur 12 ørum hvor hann lykur ei.

Eindægi á Legkøpi oc LíksøngsEyri er fimtudagur í fiordu viku sumars so sem Tijundar Eindægi og liggur iij^ia ora sekt vit hvert Legkøp oc Lijksøngs Eyrer sem ei er lukt.

II.

Legkøps og Liksøngs eiriz Eindægi.

Alyktadiz á audru ari epter frafall Haconar konungs a alþingi.

ad Eindagi á Legkøpum oc Liksøngs eiri svari Tiundar Eindaga. sem er fimtudagurinn i fiordu viku sumars oc liggi þryggia øra sekt vit hvort sem ecki er lukt.

---

*3. [um 1285].

Rekaskrá Grundar í Eyjafirði um Tjörnes.

AM. dipl. afskrr. Nr. 230, staðfest afskript: «Svo hliodande mäldaga sem hier firir framan og ofan skrifadur stendur, höfum vier underskrifader menn sied og lesed ritadann nedan ä blad ur gamallre lätinskre messusaungsbok, og var þad burt skored sem þesse mäldage kann hafa leingre vered. Skriften þar ä var ecke riett forn, helldur (sem oss virdtest) hier um 100 ära gömul, og ad visu eigi nyrre. Til sannendamerkis setium vier vor nöfn hier under med eigen höndum i Skälhollte þann 17 Decembris Anno Christi 1710. Arne Magnusson. — Þordur Þordarson. — Ormur Dadason». Um frumritið skrifar Árni svo: «Originalenn (so ad kalla) feck eg til läns hia Odde Jonssyne i Gröf. Eignadist sidan þetta Lappari. Er nu eydilagt». AM. Fasc. LVIII, 13 α, transskript á pappír gert ä

Grund 4. Apríl 1584 (afskr. þar af meðal fornbréfaafskripta AM. 246). Eg hafði ekki gefið gætur að þessum afskriptum skrárinnar, þegar eg lét prenta hana í Dipl. Isl. III Nr. 4 eptir afskript séra Vigfúsar í Hítardal í Landsbókas. 122. 4to. En þessar afskriptir fylla hver aðra þar sem í vantar, og læt eg því skrána koma hér í fullri mynd eptir þeim.

Þessa reka æ grund j eyafirdi æ tiornesi sem hier seiger.

firir hringuers jordu fiordung j vidreka oc j hualreka [oc allt þat er rekur[1]) oc betra er at hafa enn æn æt vera.

J tungu reka ytri helming huals huort sem heldur er fluttur eda rekur med ollum gognum ok skotmans hlut.

allan reka oc flutningar[2]) firir hallbiarnarstodum med ollum gognum oc skotmans hlut nema alnar kefli.

firir isholfsstodum[3]) attung i hualreka oc vidreka med ollum gognum.

firir holi attung med ollum gognum oc i odru lagi .ij. hluter attungz med ollum gognum oc skotmanzhlut oc vidreka.

J haluik[4]) oc i diupavik halfa flutninga oc suo hualreka[5]) oc vidreka[6]) med skurdum oc skothlut.

[J þara[7]) vik oc skipavik firir holi fiordung i hualreka oc vidreka oc flutningar med skurdum oc skothlut.

J furuvik helming o[skierdann. er Jon logman hafde af aurnolfe og halfann helming og fiordung vr fiordunge med ollum gognum og skotmans hlut og vidreka.

J Sandholareka half flutning og halfur hvalreki og vidreki med skurdum og skothlut.

hafde eg Jon logmadur þessa reka alla med kaupe af Halli Jonssyni lögmanne.[8])

---

## 4. 1300.

**Máldagi** milli Kví(g)andafells og Laugardals í Tálknafirði.

Eptir afskript gerðri á Hólum í Hjaltadal 14. Júlí 1704 staðfestri af Jóni Einarssyni og Marteini Arnoddssyni, og er hún gerð eptir transskripti sex manna gerðu í Laugardal á Vincenciusdag

---

[1]) [sl. 122; [2]) flutning 122; [3]) Isolfsstodum 122, Isholstodum LVIII; [4]) Kalvijk 122; [5]) hualreki 230, LVIII; [6]) vidreki 230, LVIII; [7]) [eyða í 122; [8]) [vantar aptan af 230, logmans LVIII.

(22. Jan.) 1557, og kalla þeir þetta «gamallt máldaga Bref laugardals kirkiu i talttnafirdi». Er það auðséð á bréfinu að það er fornt, en að það sé frá árinu 1200, eins og í afskript þessari stendr, getr þó tæplega staðist; er hin fyrsta ástæða móti því sú, að skjal þetta er árfært, því að eingin dæmi eru til þess á Íslandi, að menn hafi sett ártal á skjöl svo snemma sem um 1200; til þess finnast ekki rök fyrri en laungu seinna, í byrjun 14. aldar. Annað er það, að hér er nefndr Þorleifr Eyvenda(r)son, og þekkist einginn maðr um 1200, sem það geti átt við. Þar á móti er um 1300 uppi maðr með þessu nafni einmitt á þessum stöðvum, en það er Þorleifr hinn hagi, sem dó 15. Mai 1315, sonr Eyvindar prests Þórarinssonar í Selárdal, og getr varla hjá því farið, að það sé hann, sem hér er getið um. Eignir þeirra Seldæla stóðu mjög um þær slóðir og hefir Þorleifr átt Laugardal og búið þar. Er því ekki annað sýnna en að síðasta c-ið í ártalinu hafi gleymzt annað hvort hjá þeim, sem afskrifuðu bréfið 1557 eða þeim, sem gerðu það 1704, svo að það, eigi að réttu lagi að vera mccc (1300). Um Þórð Jónsson á Kví(g)andafelli vita menn ekkert með vissu.

Abb incarnacione Domini mcc(c) var þessi máldagi i millum laugardals oc kuiandafels. þa er Þordur Jonsson keypti land oc syner hans. Enn Þorleifur Eyuendason Bio i laugardal. ad kyrkia a halftt annad hundrad j fells landi. Enn land skal vera firer xxx hundrada. suo i Reka sem odrum landzgiædum. Enn Þorleifur hiet ad færa eigi fram̄ lands hlutann firir sijna hǫnd. meir enn leigt uæri firir atian alner medañ þeir fedgar ætti land. Ecki skilldi þessa land(s) selia. med þui Laugardalur a selgiord i fagradal og manadar Beit nott og dag. Enn tueggia manada ef annad huortt er beitt.

afrett i kuijsl oc dal þrimur kuijildum enn kuikfellingar odrum þrimur oc leifa huoruttueggiu annara manna fie ef vilia ef eigi Eijga sialfir fie til.

Laugardaler[1]) skulu hallda vpp haga firir innan ꝍ. Enn kuickfellingar firir vtan.

fiskveide skulu hvorer hafa ad heimelu ur fagradalsꝍ. sem veida til suo langt sem fiskar ganga leingst vpp epter henni.

huoruger skulu hafa i afrett hross nie suijn nema huorttueggiu leyfi.

Kyrkiañ i Laugardal a land firir jnnann a þar i Laugardal oc halft an(n)ad hundrad i kuiandafells landi og kluckur tuær.

[1]) þ. e. Laugardælir.

*5. [1307].

VITNISBURÐR þriggja manna um reka staðarins í Görðum á Álptanesi fyrir Grindavík.

JSig. 143. 4to bls. 209. skr. 1600 í Skálholti fyrir Odd biskup. Bréf þetta er prentað í II. bindi Fornbréfasafnsins eptir afskript í safni Árna Magnússonar, en þessi afskript hér mun gerð eptir frumritinu, og þykir því réttast að prenta bréfið hér aptr eptir henni, því að hún er frumrit bréfsins nú.

Vtskript af gomlum vitnisburde.

In primis so felldann vitnisburd baru þesser menn er so heita.

Ormur Ejnarsson.
Tejtur Glumsson.
Sigurdur Asgeirsson.

ad stadur i gordum ä Alftanese ætte allann vidreka og hvalreka fra Rangagiogre. og lejtukvennu bäsa: ad Kalftiorninga fioru. soru hier epter fullan bokar ejd firir herra Hauke. er þa hafde syslu. enn Þordur sonur sera Jons Þordarson[ar] hafde vmbod faudur sijns. og krafde hier vmm riettar. Enn þar komu ä land .IX. hafurhvaler. Og hofum vier alldrei annad heyrtt enn gardar ætte ejn vid sig og vorer fedur sogdu oss so ad þeir hefde aldrej annad heyrtt og biuggu þeir langa æfe i Grindavijk. Einar og Asgejr og Glumur.

So latande vitnisburdarbrief var ä gordum ä Alftanese innsiglalaust þo med gamallre skrift Anno 1600. og liet herra Oddur Ejnarsson skrifa þetta epter þui til minnis.

---

6. 3. Júli 1308. á alþingi.

ALÞINGISSAMÞYKT, að útlægir menn sæki landsvist sína innan þriggja ára, en sé síðan rétt-tækir utan kirkju ef þeir «sigldi ekki.»

Add. British Museum 11,242 (FM. 206.) 4to bl. 63 b. Syrpa séra Gottskálks í Glaumbæ, rituð á árunum 1543—1593 á pappír. Jón Sigurðsson getr þessarar samþyktar í Safni II, 6, nótn 2., og hefir þar sjálfsagt einungis farið eptir því, sem Finnr Magnússon hefir ritað upp úr þessari syrpu á spássíu við þetta ár í eintak sitt

af Espólíns Árbókum, sem Jón eignaðist seinna. Samþykt þessi finst nú hvergi, nema í syrpu Séra Gottskálks.

War þat dæmt oc samþyckt af badum logmonnum oc logrettomonnum ollum a alþinge at hver vtlægi skylldi sækia sina landzvist sialfr jnnan þrenna xij manada forfallalavst en sidan rett fangen vtan kirkiu ef hann sigldi ecki.

Þetta sama brefit var logtekit j logretto a jslande arum epter gudz burd. ꝏ. ccc. oc viij ar a midwikodagen einne nott epter suiptungz uoku at hiauerundum þessum logmonnum Snore logman narfason oc guttorm biarnarson oc ollum odrum logrettomonnum.

---

*7. 1311.

Skrá um skattbændr á Íslandi.

Add. British Museum 11,242. 4to (= FM. 206. 4to) bl. 45 a á pappír. Dægradvöl (Sópdyngja) séra Gottskálks í Glaumbæ Jónssonar ritað á árunum 1543—1593. Skrá þessi er prentuð áðr í II. bindi Fornbréfasafnsins sem Nr. 205 eptir afskript Finns Magnússonar, ekki í öllu áreiðanlegri, og er því sjálfsagt að prenta hér frumritið að afskriptinni úr því að það er fundið.

vm mantal a islandi skattbændr.

Anno domini[1]) ꝏ. ccc. xj a xij are rikis vorz herra hakonar noregz konungz magnussonar. var svo micit mantal a islande.

j nordlendinga fiordungi. ıxc. manna oc .lxx.

þar af lavkz konvngenum j skatt nivtiger hvndrvd oc .vc. oc tietiger alna.

j avstfirdinga fiordungi .cccc. lxxx. oc .iiij. menn.

skattr .xlc. oc .vijc.

j svndlendinga fiordungi .viijc. xxx. oc .viij. menn.

skattr .lxxxc. oc .ijc. oc .xx. alner.

vestfirdinga fiordungi .dxxxx.[2]) oc .xx. menn.

skattr .lxxx. c. [halft annat[3]) .c.[4]) oc .xx. alner.

---

[1]) domine, hdr.; [2]) þannig; [3]) [halfc ā at, hdr.; [4]) FM. hefir lesið úr þessu s., en það er rangt.

ꝏ sama are j millum hrvtafiardar ar oc siglu fiardar .d. manna oc .xx. manna.

mille siglufiardar oc helkvnduheidar .cccc. oc lx. manna.

Mille helkvnduheidar oc lonsheidar .cc. oc .xl.

mille lonzheidar oc jokulzar .ccxx. oc .iiij. menn.

millum jokvlsar oc þiorsar .cc. xx. oc .viij. menn.

millum þiorsar oc bozar .d. oc .lx.

millum bozar oc langar halft þridia .c. manna.

millum langar oc þorskafiardar ar .d. xl. menn.

millum þorskafiardarar oc hrvtafiardarar .cc. oc nivtiger.

---

8. 1344.

**Máldagar** nokkurra kirkna í Hólabiskupsdæmi eptir «Registrum Egils biskups».

**A.**

Add. British Museum 11, 242 (FM. 206). 4to bl. 16 b. Dægradvöl (Sópdyngja) séra Gottskálks Jónssonar í Glaumbæ, skr. á pappír 1543—1593. Það, sem þektist áðr en eg fann þetta brot (1890) af «Registri Egils biskups», er prentað í II. bindi Fornbréfasafnsins sem Nr. 465 og 509. Það virðist auðsætt, að séra Gottskálk hefir slept miklu úr máldögum þeim, sem hér eru ritaðir.

Registrvm eigils biskups. Datum ꝏ .ccc. xl. iiij.

[I].

Kirkian a holltastodum er helgud med gudi enum heilaga nicolaj.

hvn æ hvam. kirkiuskard. hamra hol halfan et cetera.

þar er tueggia presta skylld. takaz heima fiorar merk[r] i leigu. at skardi .iiij. merkr. at tueim halfkirkium .iiij. merkr.

[II].

Kirkiann a kvlu ꝏ allan reka a hafa mel oc land j slettadal.

[III].

Kirk[i]an æ hialltabakka ꝏ allt land at klifum. oll rutey. selfor j savdadal. avll fiski at helmingi j laxa. alla selueidi j hunauazose vpp til brandanes. allan reka fra blonduose oc til

moz uid giliarmenn. alla þa halfa ueidi j blonduose er liggr til klifa.

[IV].

Kirkian æ marstodum.

hun æ halfa alftueidi ꝏ hunauatne til moz uid þingeyra.

[V].

Kirkia a tiorn ꝏ vaznesi [æ] fiordung j hualreka oc vidreka j spakonu arfi en xvj hlut. af hveriu.

[VI].

[H]uamz kirkia [æ] halfan hualreka at þingeyrasandi oc fiordung uidreka.

[VII].

Vndonfellz kirkia [æ] halfan hualreka at geitafelli. uidreki. iiij. bænhus half mork.

[VIII].

Spakonvarfr er fra vor enni fornu oc vestur til deilldar hamarz.

þa næst mille laxar oc fossar.

þa er [fra ra]udu skridu til hʀamusar.

þa fra hellis uic til markz uid finstadi.

firir finzstodum [er] fimdeilld oc huerfa iij hlutir til spakonu arfs en ij til finstada.

firir arbacka er spakonu [arfr] at aullum hluta en ecki milli finzstada oc arbacka.

þa næst jnn fra þorlaugardys j [midia] seluic.

j spakonu arfi ꝏ hoskulldstader fimtunge mina en helming.

[IX].

[Vid]evalla kirkia [æ] reka a skaga a keflabacka.

[X].

kirkia a silfrastodum a reka ꝏ skaga fra latrtanga oc til hamarz j sanduic[1]) allt ed rekr.

[1]) eða: sauduic.

**B.**

AM. dipl. afskr. Nr. 505, skýring Björns á Skarðá yfir skipting á Spákonuarfi, með hendi Árna Magnússonar. Það er til sönnunar því að séra Gottskálk hafi ekki ritað máldagana upp eins og þeir stóðu í «Registri Egils biskups» án þess að sleppa úr þeim, að Björn getr hér um hluta Márssstaðakirkju í Spákonu arfi, sem ekki stendr hjá séra Gottskálk. Eru því líkindi til að máldagabókin hafi verið nokkurnveginn heil til um daga Björns á Skarðsá. Sbr. **A** VIII.

J registre Eigils biskups um kirkiu eigner seiger og hvar spakonuarfur er, sem saman ber vid þingeyraskrā, þad registrum samanskrifad MCC[C] xliiij. ar. þar seiger:

J spakonuarfi a Höskulldzstader fimtungi minna enn helming.

ad skilia þetta hefr mörgum bägt veitt. Ecki vill þessu og bera saman vid þingeyra rekaskrā, i hvörugu þessu, sem adur er skipt, fā höskulldzstader xlviij. vætter ur c. vættum, sem eru fiorer hluter ur fimtungenum helmingsens, og monnum skilst nær komist höskulldzstader eigi. Enn xij af hundradi.

Eigels biskups Registur seiger og eirnenn ad kirkian a Marstodum eigi i Spakonuarfi hinn xvj. hlut. vill og ecki saman bera. þad er ur c. vættum vij. vætt og iij. fiordungar. Enn hier seigia ǫnnur skipti viij. enn ǫnnur viij. þvi skinia eg ecki (af minni bernsku) hvad riettast er.

---

9. [1378].

**Máldagi** Álptamýrar kirkju í Arnarfirði [er Oddgeir biskup Þorsteinsson setti].

Landsb. 268. 4to bl. 94 b—95 a skr., 1601. Þessi máldagi er eldri en sá, sem stendr í Vilchinsbók, nema hvað Nauthús eru þar ekki talin eign kirkjunnar, og gæti það hafa gleymzt af ógáti afskrifara.

Alftarmyre.

Mariukirkia a alftamýri ā heimaland allt. stapadal oc nauthus.

viij kyr. kirkia a jnnann sig. ij bækur [breferi brefar[1]) fra

---

[1]) [þannig.

paskum thil jolaföstu. psalltarabækur þriar oc biollur þriār. silfurskrijn. kross med lykneski. mariuskript. jonzskript baptiste. eina kerttistiku. glodarker. sæekapa[1]) fornn.

jtem hundradz ross.

---

10. [eptir 14. Febrúar 1381].

Kaupmálabréf Ólafs Sigurðssonar og Jórunar Brynjólfsdóttur.

MSteph. 27. 4to bls. 221—222, Svartskinna, með hendi Benedikts lögmanns Þorsteinssonar, c. 1730. Brynjólfr ríki Bjarnarsson dó 14. Febrúar 1381; bréfið er því yngra, úr því að Björn Brynjólfsson er giptingarmaðr systur sinnar.

Suofellt fiekaup stadfestist i mille Olafs Sigurdssonar og Jorunnar Bryniolfsdottur[2]):

J fyrstu ad Sigurdur Gudmundsson jatadi Olafe syne sinum til eignar og kaups med nefnda Joruni jarder er svo heita:

Selärbacke firir xxc.

Reistarä sidre half firir xxc.

skal Sigurdur þar ur reisa[3]) halft þridia hundrad sem i stendur.

Midskriduland i Oxnadal firir xxc.

þvilijk eign i jordumm og rekumm sem fader hanz Sigurdur vard fremst eigandi ad i grundar Rekum.

J fyrstu er þad fyrst þridiungur i Gunnolfsä.

þridiungur i Jtra latra landi og þvilijkt i rekumm sem hann ätti motz vid adra menn og skrarnar votta. og er þetta allt samt .lxxxc.

þar til .xxxx. kugillde og xxc i bus buhlutum og gripum vöruvirdum.

hier til ätti Olafur adur xxc jord er Bitra heiter. xx kugillde og xxc i virdingarfie.

Jatadi greindur Sigurdur ad brullaupskostnadur xxc skilldi halldast Olafs vegna ä sitt gotz og skierda ecki hans peninga.

---

[1]) sarkapa (!) hdr.; [2]) Brijnerd:, hdr.; [3]) svo í hdr.; réttara mundi: leysa.

skilldi Biorn Jorunni sistur sinne til eignar effter logum af þessum tijutijgum annars hundradz hundrada halfan[1]) siotta tug hundrad(a) i tilgiof af sogdu gotsi og þar til vc i loggiafer Olafs og sæmilega bekkiargiof effter fiarvexti. skal hun og hennar erfingiar eiga obrigdanlega. hversu sem misdaude þeirra kann ad verda. og Biorn kiosa ä a brullaupsdeige hvert hann vill helldur tilgiafarkaup edur helmingarfielag.

Hier i mot jatar Biorn med Jorunne sistur sinne þvilijkt gots sem hennar verdur effter logum og reiknast ä brullaupsdeige.

Jatar Olafur og Biorn ad hallda ad helminge hennar sæmilegt festarol heima a Økrum fyrir næstu fardaga.

---

11. [1387].

**Máldagi** Maríukirkju á Breiðá [er Michael biskup setti].

AM. 259. 4to bl. 108 b með hendi Odds biskups Einarssonar 1592. AM. 263. Fol. bls. 96. skr. 1598. Þessi máldagi er auðsjáanlega miklu yngri en máldagi Jóns biskups Sigurðarsonar frá 1343 (Dipl. Isl. II, 497). Hann kynni að geta verið frá tímum Michaels biskups og getr þó verið yngri.

Breida [gamall maldagi[2]).

Mariukirkia a breida a heimaland allt med gognum oc giædum. med fiorum oc skogum. þeim er fylgia oc fylgt hafa at fornu oc nýu. oc hun a holafioru er sijra fiolsuinnur gaf vijc.

hun a helle hinn eystra oc holaland.

kirkian a halfa windass fioru oc er oll samt hundrat fadma.

helle hinum eystra fylgir ɪxc fioru er liggur fyrir sallthofda.

Finis[3].)

---

12. 28. December 1388. á Urðum.

**Arnfinnr** Þorsteinsson kaupir fimm hundruð í jörðunni Hálsi í Svarfaðardal af Kristínu Oddsdóttur, er hún hafði erft eptir Odd föður sinn.

---

[1]) halfre, í hdr.; [2]) [b. v. 263; [3]) sl. 263.

AM. Fasc. IV, 16. Frumbréfið á skinni. Aptan á bréfinu stendr ártalið 1388.

Kaupbref firir fimm hundrudum̄ j halse j suar[f]adardal[1]).

Jn nomine domini Amen.

var þetta kaup þeirra Arnfinz þorsteinssonar af einne halfu en kristinar oddzdottur af annaʀe ath nefndur arnfinnr keypte ath henne jardar part j halse j svarfadardal er hun hafde erft epter odd faudur sinn þau fim haundrud er hun atte þar j epter godra manna uirding med aullum þeim gognum ok gædum sem jordunne hafua fylgt ath forno ok nyio ok oddr heittin fader adr greind(r)ar kristinar uard fremz eigande ath. Her j mot gaf Arnfinnr adr nefndre kristino æsaudar kugillde ok ku ok þridia kugillde bufiargillt ok cc[2]) j flytiannda eyre fellt huorke til frids ne uðro ok lauka[3]) uth huort er arnfinnr vill æ ij arum eda einho en standa med xij alna leigu þat arnfinnr lykr eige æ hino fysta are huort þat uard helldr j flytannda[4]) eyre eda kugillde med þeim skilmala ath titt nef(n)dr arnfinnr skyllde hallda skiladom fyrir greindum iardar part en þratt nefnd kristin skyllde suara laugriptingum æ græindre iordo ok aullum skada þeim sem æ hefer uordit medan j hennar æbyrgd uar. skilde arnfinnr ser aptr sua margha peningha af fyr nefndre kristin[4]) med sama fridleika sem hann uth greidde fyrir sagda iord ef riftist. skyllde opt nefndr arnfinnr eigha þat er æ reka bære greind(r)ar iardar huort er þat uære uidur eda hualr upp fra þeim deghe er þau kauptu[4]). for þetta kaup fram ath urdum j suarfadardal hin fiorda dagh iola þessum monnum hiauerande berghe elldiarnssöne. þorfinne einnarsone. grimr[4]) ara sone. ok til sanninda her um settu uærr fyrr nęfnder menn uor insigle fyrer þetta kaupbref er giört uar ath urdum j suarfadardal æ sama dege ok fyrr seger æ atta are rikis uors uirdulegs herra herra olafs medur guds nad noreghs. dana ok gota kongs.

Þrjú innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en þau eru nú öll dottin frá.

---

[1]) Með yngri hendi aptan á bréfinu; [2]) Eiginl. skr. «jjcc»; [3]) þannig, skbr. = lúka; [4]) þannig.

**13.** **24. Febrúar 1391. í Vík i Sæmundarhlíð.**

Jón Sighvatsson selr Benedikt Brynjúlfssyni alla jörð á Bessastöðum í Sæmundarhlíð með tilgreindum ítökum og landamerkjum fyrir jarðirnar Mörk, Hvamm og Litla-Vatnsskarð í Laxárdal og þar að auki tíu kúgildi og þvílíkan grip, sem Benedikt vildi til láta.

Eptir kopíu staðfestri af Skapta Jósephssyni og Jóni Steingrímssyni 16. Júlí 1704 við Öxará, en sú kopía var gerð eptir vidisse Gísla Sigurðssonar, Teits Hrólfssonar og Jóns Vigfússonar gerðu á Hofi á Höfðaströnd 5. Marts 1695, en það vidisse var gert eptir transskripti séra Thomasar Þorsteinssonar og Odds Thomassonar gerðu á Sólheimum í Blönduhlíð 16. Apríl 1585, en það var gert eptir frumritinu.

Øllum monnum sem þetta vort bref siä edur heira senda þorvalldur Jonsson. Hoskaulldur þorsteinsson. þorfinnur Einarsson. Christiforus þorkielsson og Jon þordarson k(vediu) g(uds) og sijna. kunnugt giörande ad vier vorum i hiä säum og heirdum ä ad Gili i Skagafirde þridia dag Joola[1]). ad Jon Sighvatsson sellde Benedickt Brinjulfssyne med handabande til fullrar eignar alla Jörd Bessastade i Sæmundarhlijd med ollum þeim gognum og giædum sem nefndur Jon vard fremst eigande ad med fornu og nyu medur þeim ummerkium. ad gardur rædur firer utann og sunnann frä Sæmundaraa og vestur ä fiall. og þadann med ummerkium vestur i Vatnadalsaa og Jord firer austann ä. rædur þar sinn gardstadur hvoriu megenn ur Sæmundaraa og yfer Vatn. Jtem Teig yfer aa myrum firer sunnann Solheimateig med ummerkium.

Hier i mot gaf Benedickt nefndum Jone Jarder er so heita mork. Huamm og Litla Vatnsskard i Laxärdal med öllum þeim gognum og giædum og ummerkium sem greindur Benedickt vard fremst eigande ad effter Brinjulf fodur sinn. og hier til .x. kugillde. og þujlijkann grip sem Benedickt villde til lata.

skilldi huor nefndra manna hallda sijnum Jordum til Laga en (sä) suara Lagarifftingum firer þær er sellt hefde. Benedickt ganga afftur ad þeim eignum er hann sellde suo miked sem rifftist i Bessastada Jord.

[1]) þ. e. 27. Dec. 1390.

Og til sannenda hier um setium vier firnefnder menn vor Jncigle firer þetta bref giort i Vijk i Sæmundarhlijd. Sunnudag næstann effter matthiasmessu postula þa er lided var fra hingadburd vors herra Jesu Christi M. iijC. lxxxx. og .j. är.

---

14. 29. Mai 1391. 27. Febrúar 1393. á Grenjaðarstöðum.

Afhendingarskrá Grenjaðarstaða, þegar séra Þorsteinn (Jónsson) lét laust, en séra Steinmóðr Þorsteinsson tók við.

MSteph. 27. 4to bls. 121—126, Svartskinna, með hendi Benedikts lögmanns þorsteinssonar, skr. c. 1730.

Greniadarstadar Maldage.

Aullum monnum sem þetta bref sia edur heira senda Jon Thorgeirsson. Jörundur Eyreksson. lofftur þorsteinsson. Biarne Arnorsson. Höskulldur Hakonarson og Sigmundur Gudmundsson. Prestar. kvediu gudz og sina kunnugt giorande ad sub Anno gratiæ ꝏ° ccc° xc° primo Manadagenn i fardagaviku a Greniadarstodum i Rejkiadal vórum vier til nefnder af vórum verdugum herra herra Jone med gudz näd godrar minningar biskupe a Holum ad skoda og innvirdulega ad reikna gotz Greniadarstadar kyrkiu fast og laust. frijdt og ofrijdt. innstædu og stadarspioll. þa er sijra þorstejrn liet laust enn Steinmodur þorsteinsson tok vid. hvert ed reiknadest allt samt so miked og so frijdt sem hier seiger.

J firstu heimaland allt med um̃erkium. Brualand. Asgeirsstader. Byrnustader. hrysaland. Klambrarland. Sijlalækur. Eyarland. Geitafell. Breidavijk med ollum gognum. votey. knappey. Arngerdarey. odeiluholmar. torfkrokz holmar. graslauksholmar og smaholmar aller. lækiarteigur. desiarteigur. gardhverfa. krakuvöllur. Breidavollur. soleyarteigur. kietelsteigur. finsteigur. þorunnarey. holmurenn mikle. husabacke. Eingemyre. eskey.

selför til kringluvatns. selför half i Skarde uppe.

sex hrossum̃ hage ä efre Mela enn fiorum̃ ä nedre Mela.

afriett i nattfaravijk halfu fiorda hundrade sauda.

helmingur i þingey vidur Einarstada og backa land.

þridiungur ur hvalreka firir alla nattfaravijk og öll flutning firir istabol. enn firir Midbol half og so vidun og fiskever ad helminge þar og so firir Skaalä.

reke ä sande tolf hundrud fadma med ollum̄ fridendum.

halfur tungureke med ollum̄ fridendum.

þridiungur ur hvalreka a hiallanese.

fiordungur ur langareka.

attungur hvalreka a Kallback med flutningum̄.

laxveidur i ose tveir hluter uns sex hundrud eru. þadann fra öll.

halft eggver i ose.

selveidur öll i fliote.

Reke med ollum gognum̄ a sande. er gudmundur gaf.

vidreke a sande er filgt hefur gardzlande.

fiordungur j hvalreka enn fluttning halfu minne i litlu fioru og ut til svijnär.

Rekar þesser hafa filgt Klifshaga enn nu eiga staderner bader saman. Greniadarstadur tvo hlute þeirra allra enn Mulastadur þridiungenn.

sex vætter i Kleifareka ef ä eru tuttugu vætter. þriar ef minna er. ecke ef minna er. enn niju[1]) vætter af hluta þeim. er att hafde Einar Prestur Hoskulldsson.

Gyarhorn skal liggia vid gnupinn. þad er Rekamark.

sia afreidsla er þar hvert sem fluttur er edur Rekur.

J Holareka sex vætter ef ä eru tuttugu vætter. þriar vætter ef minne er enn ecke ef minna er enn tiju vætter hvert sem rekur edur er fluttur.

J leirhofn attunge minna enn halfur hvalur ef rekur. ecke ef fluttur er.

J griotnes(reka) halfur hvalur hvert sem rekur edur fluttur er. afreidsla tolf vætta ut fra hofdaskäla af oskifftu ef rekur ella ecke. sa reke geingur ut i giä i Raudagnup.

J vellande kotlu vestri halfur hvalur ef fluttur er. enn ef rekur fiordunginn og sex vætter.

Enn i Eistre vellankotlu halfur hvalur hvert sem rekur edur er fluttur. af oskifftum hval skal reida tolf vætter.

---

[1]) tiu, Pétrsmáldagi, Dipl. Isl. III, 579.

a hestanese sex vætter ef adur hefur Mulastadur helming sinn. og sieu þa effter tuttugu vætter edur meira. enn þriār vætter ef minna er. ecke ef minna er enn x vætter.

J straumlone Reka og fluttning med ollum gognum̄ og so fyrer Sigurdarstodum þui staderner eiga londenn bæde og so þorbiarnarstade.

Þesse reke er austur fra straumlons ose og til ossens forna. hier filger og eggver. half flutning medal osa.

a rifsreka sex vætter ef ā eru xx vætter. 3 ef minna er.

so i skinnalone.

so ad tiornum̄ hvert sem rekur [eda er[1]) fluttur.

a Hardbak 20 vætter ef fluttur er. og sie ā hundrad vætta hinum̄ firsta hval enn sex vætter þadann i fra. þriar vætter ef rekur. skotmanshlutur er ad helminge med þeim reka.

A Asmundarstodum fiordungur hvals ef rekur.

J órfyriseyu fimtungur hvert sem rekur edur er fluttur. og af oskifftum þeim fiordungi siottung. enn giallda af hinn sextanda hlut ef rekur af oskifftum hval.

J Raufarhofn helmingur ef rekur og giallda af attung af ollum samann og fiorar vætter og tuttugu.

a hundsnese tolfte hlutur ef rekur.

J Krossavijk sex vætter ef ā eru 20 vætter. þriar ef minna er. ecke ef minna er enn 10 vætter. hvert sem rekur eda er fluttur.

J Kollavijk[2]) slijkt ed sama.

slijkt og i flautafells Reka.

slijkt i Heriolfsvijk ef rekur. af þeim hlut er Einar Prestur atte.

Jtem a Greniadarstadar kyrkia liotstade. hraun. Rauf. Brecku. hol. 24c i Myre ellegar skogarland til leiguburdar.

Anno & die supra scripto reiknadest so miked og margt jnnann kirkiu a Greniadarstodum̄.

J Bokum. 2 bækur fra Jolum og til Paska De Tempore & de sanctis.

2 bækur fra Paskum̄ og til Adventu de Tempore & de sanctis.

Commune suffragium.

[1]) [er eda, hdr.; [2]) Skollavijk, hdr.

Graduale med seqventijs og annar grallare sæmelegur. þridie vondur j tvejmur bokum.

seqventiu skrär tvær ofullar.

lagasaungvabok sæmeleg og onnur vond.

Gudspiallabok med Pistlum per Anni circulum.

Collectarius vondur de Tempore og annar de sanctis.

Commune Missalis de sanctis.

Corporalius sæmelegur.

Ƴalltarar tvejr.

Himnarius vondur.

Ordo. martirilogium hvertveggia vondt.

Martini saga a Latinu og onnur a Norrænu.

Passiones Apostolorum.

Miracula beatæ virginis.

Dialogus.

omelia(e) Gregorij a tvejmur bokum.

sermones Augustjnj.

saugur[1]) heilagra Manna a þremur bokum.

Processionale.

Historia Martinj ä kvere vondt.

Handbok. Artidaskrä.

Jtem Aspiciensbækur tvær og enn flejre skrär Aunguu nejtar.

lesbækur 7 de sanctis & de Tempore allar ofullar.

Þetta j Messuklædum.

Siô manna Messuklæde ad ôllu. fiôgur betre. enn þrenn liettare.

5 betre hoklar og 4 liettare.

Balldeskins kapur tvær.

pellsköpur tvær og 5 kapur liettare.

þriu alltarissklædi betre og þriu liettare og þo ôll slitenn.

ejtt brijkarklædi betra og tvô vond.

alltaressdukar jafnmarger Messuklædum.

blæiur tvær slitnar.

tvejr lectaradukar vonder.

Dalmadikur tvær.

hoklar tvejr. sloppar tvejr.

---

[1]) saungur, hdr.

dukur vondur yfer Martino.
handklæde 2 liett.
paxspiolld .ij.
sacrarium Munnlaug.
vatnskietill.
fontur med ummbunade vondum.
lectarar fiorer.
kirkiu kola.
koparstikur 3. Jarnstikur 3 og hin fiorda stor.
elldbere liettur. glodarkier.
Almarium og Messufata hirdsla.
kalejkar 5. aller lester utann ejrn.
Corporalia 7 i fimm husum.
propitiatorium og annad innann j lijted.
silfurkross lijtell.
skrijn. Textar tvejr.
krossar sex og hinn siounde med understôdum.
Mariulijkneske.

Marteins lijkneske og smalikneske þriu og enn Mariulijkneske sliett pentad[1]).

salltkall. baxturjarn.
gluggar 5 og vóru 2 brotner.
kluckur 5 i stople. siotta j kor og hin siounda bialla.
Biarnfell 2 fanyt.
kista stor jarnud hia sira Kara.
5 alner lerefft.
Corporalius.
Merkisslitur.
Paskablad.

Jtem eodem Anno Eodemqve die Reiknadest so miked lausafie Greniadarstadar kirkiu.

J firstu 40 asaudar kugillde.
halfur fiorde tugur kua.
68 gielldfiär kugillde.

nijutijger og þriu hundrud j vadmälum og virdinga[r]fie. Eru hier (til) 40 hundrada sem luktust j stadarspioll effter sira Biarna heitenn og 50 hundrada er sira Þorsteirn lukte j

[1]) peinad, hdr.

stadarspiõll og ej sijdur 8 hundrada Jlag er þorsteirn leiste ur Andorstodum.

Og til mejre sannenda hier umm settum vier firrskrifader menn vor Jnnsigle fyrer þetta Jnventarium. giort a Greniadarstodum 3 cal. Martij tvejmur ãrum sijdar enn firr seiger.

---

## 15. 29. Marts 1392. í Ósló.

**Réttarbót** Margrétar drottningar Valdemarsdóttur, með samþykki ríkisráðsins, um öreigavíg, um útlegðarverk, um hórdóm, um það ef maðr festir sér konu og veit þó að kona sín er á lífi, um sveinahald og um kaupskap.

Það er víst að þessi skipan hefir að réttu lagi aldrei gilt sem lög á Íslandi, en á 16. öld finnast rök til þess að Íslendingar hafa farið að taka hana inn í lagasöfn sín og síðan hafa þeir beinlínis farið að styðjast við hana, svo sem hún væri góð og gild lög, og í fjölda íslenzkra handrita finst hún allar götur ofan frá 16. öld á íslenzku. Eg hefi enda handleikið eintak af Jónsbókarútgáfunni frá 1707, þar sem kaflar úr þessari skipan voru ritaðir með samtíða hendi (c. 1707) á spassíum sem uppfylling Jónsbókar og vísað inn í textann. Af þessum rökum er skipanin tekin hér, því það getr verið gott að hafa hana við hendina, úr því að henni hefir verið blandað við íslenzka löggjöf um langa tíma, og er hún prentuð hér í tvennu lagi: **A** eptir frumritinu og **B** eins og hún kemr fram í íslenzkum handritum.

### A.

Eptir frumritinu á skinni í Ríkisskjalasafni Dana N. S. 2den Afd. Fasc. II, 1. En til er réttarbótin í fjölda afskripta frá 16. öld. Prentuð áðr í Suhms Historie of Danmark XIV, 566—69; Dipl. Norv. VI, 338.

Marghareta med gudz naadh Noregs oc Swerikis drothnengh ok Danmarks rettar ærfuingæ ok þæs fyrstinna Sændir ollum monnum þæim sem þetta bref sea ædar høyra q. g. ok sina.

Veer gerom ydar kunnikt at anno domini ᗰ°. ccc°. nonagesimo secundo a freadaghen nest firir kærslosunnodagh skipadom veer oc gerdom med allu rikissens raade j Noreghe samþykt at þæir lutir ok þaw maal sæm her æftir fylghia skulu swa vera sæm her æftir sæghir.

Fyrst vm øræighande værdhar slæghin sæm marghar skuldir aa at luka hwat þæt er j giolð sarabøtar kaup vidhar-

skiptj barna fe ædhar adra lute þa skula giolden vændatzst till bota oc hans skulda lausnar en þo at gioldæn dømætzst oc metetzst ærfuingionom. oc var þæt swa wtskyrt at likamer þæn sæm slæghin var attæ þæær skuldir af sik vinna medhan æi var fee till þy skulu giolden sæm firir likama manzens lukas. vændas till botar hans oc skuldalausnar sæm fyrsæghir. En ef flæire ero skuldir en giolden till rækkia allar at luka. þa minke firir hworium sæm tala rænnar till.

Jtem hwarvæthna þær sæm men værda wtzlægher j kristnum rettæ þa skal fee þæs wtzlæga skiptas till hælfningar mellum konongs oc biscops. Oc af þui at vond værk ero hittandæ oc myuklæikar ræfstar gefuar morghum taum till syndar þy var samþykt at hwar sæm gerer till wtslægdar j cristnum rette þa minkar þo æi rettar konongs þo at þæn man gangæ till scripta oc ifuirbota fyr en han værdhar lagdar ædar lystar wtzlæghar þui at þæn er af sialfuum værkum vorden wtzlæghar ok vare sik hwartwæggia vmbodzmadar at hwargen take godzet firir adrum. En ef nokor tækar þa læggi after till iamfnadhar. En ef madhar værdhar tækin vtan fridh konungsens þa ræfsi konongs vmbodzmadhar honom æftir laghum.

Jtem hwat manne sæm afswær horkono ædhar þa adra kono sæm han i mæinbughum hafde oc gerer han þær j motæ æidhæ sinom þa sware þuiliko firir konongsdomenom sæm loghbook vattar vm mæinswøre bædhæ vm sækt oc wtzlægdh ok biscope swa mykit sæm kristinrettar vaattar vm vloghlegho samuero ok æidrof. En vil han fyr hafua fridh en loghbook vattar þa kaupe sik af kononge.

Jtem ef madar fæstir seer kono til æighnar kono ok byr med hænnæ vtan doom hæilagre kirkiu vitande at hans fæstarkona þæn fyrre lifuir þa gerer han j þui wtzlægdar værk. þa aa konongar ok biscopar fe hans alt ef han vil æi aflata sidhan døømft er.

Jtem ængin hafue flæiræ herra swæina oc ængin skærdhæ mæira konongs læidhaugar en han ma med laghum.

Framlæidhes skula landkaup oc strandkaup allulæidhes æftir þy blifua sæm þaw fyrre veret hafua. Skal ok ængin kaupa ædar sælia j kaupstadum vtan a retto torghæ. mistroor oc konongs fowte nokon vm þæt þa skal þæn sæm mistrodhar

værdhar swæria þær firir siælfuar þridhi at han ækki j annan stadh køypte en aa retto torghe ællæghar late samstundes fowtanom kaupet firir swa mykit sæm han þæt køypte ok honom þarfuatzst þær af till konongs behof.

Þænnæ skipan skal standa till þæs er konongen komar till sinnæ ara oc her med er konongdomens rettar ængin ifuirgefuen vtan skal vera vforsømadh wt j allan sin ret.

Ok alla þæssa fyrsagda lutj hafuum veer
Vinaldar med gudz naadh erkibiscopar j Niðaros.
Jacob j Bergwin.
Øystein j Oslo.
Sighurdar j Hamre ok
Halgæir j Færøyium. med samre naadh biscopar.
Gaute Eiriksson.
Jon Marteinsson.
Otte Romar.
Bendikt Niklesson.
Alfuar Haraldzson.
Ogmundhar Bærdhorsson.
Bryniulfuar Jonsson.
Jon Darræ.
Hakon Stampe.
Jæppe Fastalsson.
Nicles Gallæ.
Finnar Gyurdzson ok
Hærlæikar Asulfsson

samþykt med fyrnæmfde waræ kæræ frw drothnengh Marghræte j swa mata sæm fyrsæghir. Oc þy sætium veer vaar jncighlæ med fyrnæmfdre varræ kæræ drothnengh Marghrete jncighli firir þetta bref er gort var j Oslo a dæghi ok are sæm fyrsæghir[1].

---

[1]) Aptan á bréfinu stendr: «Jtem eet myn frwes stadga breff gifwet theim i Norghe vm there priuilegie. — Jtem eet stadhga breff som drotnyng Margrete giorthe met righesens radh j Norghe før æn myn herre konungen war komen til laghe aar.»

## B.

AM. 345. Fol. bls. 169—170, skb. skr. c. 1570 (lögbók Einars Ísleifssonar á Reykjum). Gl. kgl. saml. 1159. Fol. bls. 517—518 á pappír skr. c. 1640 (bók höfuðsmannanna á Bessastöðum). Landsbókasafn 100. 4to bl. 79bff., skr. c. 1700. Réttarbót þessi er til í fjölda íslenzkra handrita, sem hér eru ekki notuð, þar á meðal í skinnbók í Stockholmi C 8. 4to (skr. c. 1608) og lögbók séra Sigurðar Jónssonar á Grenjaðarstað í safni háskólans í Uppsölum í Svíþjóð De la Gardie 9. 4to skr., c. 1587, sem og er skinnbók.

Riettar Bætur margrietar drottningar valldimars dotter anno 1392.[1])

Skipadi[2]) og giordi hogborin̄ frv og forstinna Drottning margrieta drottning[3]) med gvdz nad noregs og sviarikis drottning med rikisins rad og samþyct ad þeir hlvter og mal skvlv halldast vmm alldvr og æfi sem hier seiger.

Fyrst ef oreigi verdur sleiginn sæ sem margar skullder æ ad lvka hvort sem erv manngiolld. sarabætur. kavpa vidskipti. barnafie edur adra hlvti. Þa skulu giolldin þav fyrir þa[4]) koma. verndast til bota og hans skvlldvm til lavsnar og þo ad giolldin̄ dæmist og metist erfingivm. Og var þad svo utskirt ad likami[5]) þess[6]) sem sleiginn var [atti þær skvllder[7]) af sier vinna medann ei var fie til þœ skvlv giolldin̄ fyrir likama mannsins lvkt verndast til bota mannsins og skvlldalavsnar sem fyrr seiger. Ef[8]) fleiri erv skvllder enn giolldin̄ til hrockva avllvm ad lvka þa minkar fyrir hverivmm sem tala rennur til.

Jtem hvervetna þar[9]) sem menn verda vtlæger j kristnumm rietti þa skal fie þess[10]) vtlæga skiptast j helminga þvi ad miog lijtt refstvr giefur morgum[11]) tavm til sinda. Þvi var þad samþickt ad hver sem [giorer til vtlegdar[12]) j kristnum retti þa minkar ei riett kongsins þo sa madur gangi til skripta og yferbota ef hann vard utlægur edur lystur utlægur þvi hann er utlægur af [sins verkum sialfs[13]) og vari sig hvortveggi vmmbodsmadur ad hvorgi taki fie[14]) fyrir avdrvm. Enn ef

---

[1]) 44. 92, (!)345.; 1492, 1159. Riettarbot Margrietar Drottningar Waldemarsdottur 100, og setr á spássiu: «Drottning Margrét deyði 1412, fædd 1353»; [2]) Anno 1392 skipadi, 100; [3]) sl. 1159; [4]) hann 1159; [5]) likann 345; [6]) hins 1159; [7]) [skylldi þær skullder giallda edur 1159; [8]) Enn ef 1159; [9]) sl. 1159; [10]) hins 1159; [11]) sl. 1159; [12]) [giorist vtlægur 1159; [13]) [siaalffs sijns verkum 1159; [14]) gots 1159.

nockur tekur leggi aptvr til jafnadar. Enn ef madur verdur tekinn vtann frid kongs þa refsi kongs vmmbodzmadur honum eptir lavgvm.

Jtem hvad man sem af sver sier horkonv edur þa adra konv sem hann j meinbugi[1]) hafdi og giori[2]) hann j moti eidi sijnvm þa svari slijkv fyrir kongdominvm sem lavgbok vottar bædi sekt og vtlegd og biskupinumm svo mijkid sem kristinn riettvr vottar. Sama er og eidrof. Enn ef hann vill hafa frid sem lavgbok vottar þa kavpi sig j frid[3]) af kongdominvm.

Jtem ef madur fester sier konv til eignar konv og byr med henni vtann domi[4]) heilagrar kirkiu vitandi ad hans festarkona sv hin firri lifer. þa giorer hann vtlegdarverk og eigi kongvr og biskup allt goss hans til helminga ef hann vill ei aptur venda[5]) þa dæmt er.[6])

---

**16.** 2. Mai 1395. i Vik [i Sæmundarhlið].

Ólafr Sigurðsson gefr Benedikt bónda Brynjólfssyni til fullrar eignar með handsölum þá reka parta, sem Ólafr átti fyrir norðan Öxnadalsheiði og þriðjung í Látrajörðu.

MSteph. 27. 4to bls. 222, Svartskinna, með hendi Benedikts lögmanns Þorsteinssonar, skr. c. 1730.

Ollum monnum sem þetta bref sea edur heyra senda Eijrekr Prestr Oddason. Þorgeijr Sigurdsson. Arne Petursson. Þorfinnur brandsson. onundur Biarnarson. Jon þorsteinsson og Einar [. . . . . . . . kvediu guds og sina kunnigt giorandi ad[7]) þridiudag næstan fyrir Jonsmesso Baptistæ a Eyrunum firir nedan Hieradzdal vórum vier i hia. säum og hejrdum ä ad

---

[1]) meinleikum 1159; [2]) giorer 1159; [3]) aptur, b. v. 1159; [4]) dom 1159; [5]) sl. 1159; [6]) Hér kemr í handr. 345 sem áframhald, en nokkru síðar í 1159 (bls. 530):

R. B.

þad barn er ei alid til arfs er madur a vid þeirri konv er hann fester ad sinne konv lifandi ef þav erv ei lavgliga skilin. hann ä a hvorugri riett medann hann breiter suo.

[7]) [vantar í hdr., og lítr út fyrir, að hlaupið hafi verið yfir eina línu í afskriptinni.

Olafur Sigurdsson gaf Benedicht bonda Briniolfssyne til fullrar eignar med handsölumm alla þa reka parta sem nefndur Olafur atti firir nordan Oxnadalzheyde. og þridiung i latra Jordu. effter (þvi) sem hann vard fremst eigandi ad. effter þvi sem þesse Rekaskrā vottar sem hier er medbundin.[1]) ad fra teknum þeim þridiungi ur halfum Gunnolfsär Reka. sem hann hafdi ädur sellt Þorstejnj svart.

Og til sannenda hier umm setium vær fyrnefnder menn vor Jnnsigle firir þetta bref giort i vijk sunnudaginn nærstann effter Tveggia Postula messo Philippi og Jacobi þa er lidid var fra hingadburd vorz herra Jesu Christi M. ccc. Lxxxx og v är.

---

17—300. 1397.

MÁLDAGAR Vilchins biskups fyrir kirkjum í Skálholtsbiskupsdæmi (Vilchinsmáldagi, Vilchinsbók).

Máldagar þeir, sem kendir eru við Vilchin biskup, eru hið elzta alsherjar safn af máldögum fyrir Skálholtsbiskupsdæmi, er nú er til. Þótt mart sé enn til af einstökum máldögum, eru hinar eldri máldagabækr allar glataðar, nema ágrip það úr máldagabók Oddgeirs biskups (1366—81), sem prentað er í II. bindi Fornbréfasafnsins bls 215—235 eptir því, sem Oddr biskup Einarsson lét rita upp 1607 eptir máldagabók, sem hann fékk léða 1606 frá Hítardal. Máldagabók Michaels biskups, sem gerð hefir verið um 1385—1388, fórst á dögum Ögmundar biskups, þegar Skálholtskirkja brann 1526 (sbr. Fornbréfasafn II, 676; Biskupas. II, 266—67; Esp. Árb. III, 84), og það sem þá var eptir af fornum máldagabókum í Skálholti fórst gjörsamlega í staðarbrunanum í Skálholti 1630 á dögum Odds biskups, nema nokkur örmul af máldagabók Stephåns biskup Jónssonar. Vita menn með vissu að til voru enn í Skálholti 1612 og 1615 «tvö afgömul máldagakver lítil» og «máldagaskræða stór» (Fornleifafélagsárbók 1886 bls. 65), auk þess sem getið er um máldagabók Jóns biskups Haldórssonar frá 1326 (Fornbréfasafn II, 676). Í Skálholtsbrennunni 1630 fórst og frumritið að máldagabók Gísla biskups Jónssonar frá 1575—79 og frumritið að sjálfri Vilchinsbók. Hennar er getið þar 1612 og 1615 «í spjöldum með einum spenli» (Fornleifafélagsárb. 1886 bls. 65), en nú er svo um hana eins og nær hreint alla þa máldaga úr Skálholts biskupsdæmi, sem til eru fyrir þann tíma, að hún er nú einungis til í afskriptum,

---

[1]) Sbr. Dipl. Isl. III, 385 og 386.

er stafa frá afskript, er Oddr biskup var búinn að láta gera af henni áðr en frumritið brann.[1]) Allar þessar afskriptir, sem nú eru til af Vilchinsbók í heild, og eru þær margar, eru með einu marki brendar, en það er því, að þær eru allar gerðar hver eptir annari, og stafa allar frá að eins einni afskript, sem gerð hefir verið eptir frumritinu, svo að það, sem þeim ber á milli, er að eins afskriptamunr, sem kemr ýmist af skeytingarleysi afskrifaranna, mislesningu eða því, að þeir hafa ætlað að lagfæra það, sem þeim virtist rangt. Því, sem ein afskriptin hefir hlaupið yfir í frumritinu, sleppa þær allar venjulega. Í Kirkjubæjarklaustrsmáldaga (CCXCVII) sleppa t. a. m. Vilchinsbækrnar orðunum: «jtem iiij gradualia . . . per anni circulum». En í máldagabókinni AM. 263. Fol., sem skrifuð er 1598, eru margar sjálfstæðar afskriptir úr Vilchinsbók eptir frumritinu, og þar á meðal afskript af þessum máldaga, og hún ein hefir þessa klausu, sem hinar fella niðr. Þar með lesa allar Vilchinsbækrnar í sama máldaga «af Dálki» í staðinn fyrir «af Dalbæ», sem rétt er og stendr í 263 einni. Út úr þessari villu «af Dálki» hafa menn svo smíðað þá getgátu, að til hafi verið bær í Skjaldbreið á Síðu, sem Dálkr hefði heitið (Eldrit séra Jóns Steingrímssonar). Vilchinsmáldaga afskriptirnar eru hver annari svo líkar, að þegar búið er að bera saman nokkrar þeirra helztu, þá er búið að bera þær saman allar, því eingin tekur annari verulega fram; aptr eru aðrar til lakari og fullar af afbökunum og ánákvæmni og er því samanburðr við þær einungis til að villa. Afskript sú sem Oddr biskup lét gera af Vilchinsbók eptir frumritinu var «handskriptuð» (þ. e. undirskrifuð til staðfestingar) af honum og Gísla

---

[1]) Oddr biskup hafði sent séra Sveini Símonarsyni í Holti í Önundarfirði 1596 afskript af Vilchinsmáldaga, og getr Árni Magnússon hennar við eitt af skinnblöðum þeim, sem nú eru í safni hans 238. Fol. á þessa leið: «Þesse blöd voru utan um Vilkinsmaldagabok er Snæbiörn Palsson liedi mier 1710. tok eg þau þar utan af, og liet annad i stadenn. Vilkinsmaldaga þessa hafde herra Oddur Einarsson biskup sent Sira Sveine Simonarsyne 1596 (sem aptan ä þä var ritad med hendi sialfs herra Oddz). Sidan hafde þä eignast Are Magnusson, sem siä var framan ä þeim. Sidan hafde þä ätt Sira Jon Jonsson i Hollte sem og var af qverenu ad siä. Snæbiörn hefur þä feinged med konu sinne, enn hvad leinge þetta pergament hafe þeim fylgt, er ovist. Enn firir laungu voru þeir innfester. Þo (so sem mier virdist) epter þad þeir hafa komed ä Vestfiordu, þvi i sama volumine var meira af Sira Sveins Simonarsonar chartequm». Árni virðist hafa skilað bókinni aptr. Það er mjög líklegt, að afskript séra Jóns Arasonar í Vatnsfirði frá 1655, sem nú er í JSig. 147. 4to sé gerð eptir þessari bók séra Sveins. Jón Sigurðsson hefir og ætlað, að handrit hans 377. 4to með hendi séra Magnúsar sonar Snæbjarnar Pálssonar, sé og gert eptir þessari bók, og er það mjög sennilegt.

biskupi Oddssyni, og var hún enn í Skálholti 1643, en nú er hún ekki til, og eingin er afskript nú eldri til af bókinni í heild en frá dögum Brynjólfs biskups og því á aðra hönd eða leingra frá frumritinu, og nær allar stafa þær afskriptir, sem nokkurs er um vert, frá Brynjólfi biskupi, og skal eg nú gera nokkra grein fyrir handritum af máldagasafni þessu.

I. Handritið AM. 260. Fol., sem er afskript af Vilchinsbók á pappír ritað um 1640 á að gizka, af séra Jóni Erlendssyni í Villingaholti fyrir Brynjólf biskup Sveinsson, er höfð að grundvelli útgáfu þessarar, en við þessa afskript eru borin saman þessi handrit og eptir þeim teknar ýmsar leiðréttingar og orðamunr:

II. AM. 259. Fol., afskript af Vilchinsbók gerð um sama leyti og sú næsta hér á undan fyrir Brynjólf biskup Sveinsson, og er með hendi séra Jóns í Villingaholti.

III. AM. 256. 4to afskript af Vilchinsbók á skinni gerð 1640 fyrir Brynjólf biskup; aptan af þessari afskript vantar mikið og hættir hún miðja vega í Gufudalsmáldaga (CLXXXII). Afskript sú sem hér er af Bakkamáldaga í Hrútafirði (CXLVII). Kálfanesmáldaga (CLI) og Snjófjallamáldaga er staðfest 28. Február 1640 í Skálholti af Jóni presti Daðasyni, Þórði presti Guðmundssyni og Hákoni Ormssyni, og segjast þeir ýmist fara eptir «gömlu Vilchinsbók», «gamalli máldagabók», eða að sé «borið saman við Vilchinsbók Hítardalskirkju».

IV. Landsbókasafn 350. 4to, sem er afskript af Vilchins og Gíslamáldaga með hendi séra Bjarna Gizurarsonar í Þingmúla 1643, þá biskupsskrifara, og er afskriptin gerð fyrir Brynjólf biskup. Bók þessi er komin til safnsins frá frú Herdísi Benediktsen í Reykjavík ásamt öðrum handritum Brynjólfs Benediktsens manns hennar. Aptan við þessa afskript Vilchinsbókar stendr svo látandi staðfesting með eiginhandar nöfnum þeirra, er undir rita:

«Anno 1643. 26. Junij. Samanlesid og samhlioda giort vid Vilchins mäldagabok sem i Skälaholltti er handskrifftud af herra Oddi Einarssyne og herra Gijsla Oddssyne til vitnis vorar eigin hendur.

| | |
|---|---|
| Brynolfus Svenonius<br>Scalholtinus mppa | Finnus Jonas<br>Studiosus mppa |
| Hallus Arnerus past.<br>Templi Cath. m. ppa | Biörn Þorvalldsson<br>Byskups s(mä) sueirn e h. |
| Petrus Gissurius schol. cath.<br>colleg. m. ppa | Gunnar Magnusson.<br>Biarne Gissursson<br>biskupz skriffare e h.» |

Þetta er því sú eina afskript, sem til er staðfest eptir staðfestri afskript af frumritinu.

V. Skjalasafn biskupsdæmisins á Íslandi 2. 4to, mest megnis ritað á 17. öld. Á þessari bók, sem bundin er af Páli stúdent Pálssyni, er þetta:

1. Vilchinsbók með góðri settri hendi frá 17. öld (nema tvö fyrstu blöðin, sem eru skrifuð á öndverðri 19. öld með góðri hendi; gömlu blöðin hafa verið dottin sundr af fúa). Afskript þessi er óstaðfest og í aungu betri en hinar aðrar skárri afskriptir máldagabókarinnar. Aptan við máldagabókina eru hér tveir vitnisburðir:
   a) Vitnisburðr Ögmundar Jónssonar um reka Skálholtskirkju með norðaustrströndum. Svalbarði í þistilfirði 20. Júní 1614.
   b) Vitnisburðr Magnúsar Óblauðssonar um sama. Eydölum 10. Júní 1597.
2. Gísla máldagi með fljótaskriptar hendi, og virðist afskriptin gerð í Skálholti 1685 á dögum þórðar biskups þorlákssonar. Aptan við Sunnlendingafjórðung er hér með yngri hendi:
   a) Tveir vitnisburðir frá 1716 um reka Skálholtskirkju á Langanesströndum.
   b) Brautarholtsmáldagi (ártalslaus).
   c) Brautarholtsmáldagi 1692.
   Aptan við máldagabókina sjálfa:
   d) Michaelsmáldagi fyrir Hofskirkju í Öræfum frá 1387 (Dipl. Isl. III, 345).
   e) Bréf Magnúsar biskups Eyjólfssonar um Hof frá 1482 í ódagsettu transskripti, og það transskript transskriberað á Eiðum í Útmannasveit 16. Aug. 1585, og enn aptr í Oddgeirshólum 8. Júní 1652, og enn að síðustu í Skálholti 25. Febr. 1752 af Einari skólameistara Jónssyni, sem segist færa þetta inn í bók eptir lausum blöðum frá séra Benedikt Jónssyni í Bjarnanesi, og hafi Jón biskup Árnason skipað sér það fyrrum.
3. Registr yfir prestagarða í Skálholtsstipti 1583, með sömu hendi og Gísla máldagi (bl. 113—140).
4. Máldagar eptir bréfabók Sigurðar lögmanns Jónssonar, bl. 141—145.
5. Registr og reikningar kirknanna í Skálholtsstipti 1685, þórðar biskups þorlákssonar. «Skälhollte d. 8. Septembris Anno 1685.» Alls. 223 máldagar.
6. Registr yfir bókina. þetta handrit er nefnt hér Bp í orðanum.

Í erindisbréfi biskupanna 1. Júlí 1746 § 16 mun sérstaklega miðað við þessa afskript, þar sem Vilchinsmáldagi er löggiltr sem áreiðanlegt sönnunarskjal fyrir eignum kirkna í Skálholtsbiskupsdæmi.

VI. Safn Jóns Sigurðssonar 147. 4to, sem hefir inni að halda Vilchins og Gísla máldaga ásamt synodalia 1561—1647 með hendi séra Jóns Arasonar í Vatnsfirði 1655. Afskript þessi er nokkuð víða raung, en leiðréttir þó sumt. Hún mun vera gerð eptir afskript þeirri, er Oddr biskup sendi séra Sveini Símonarsyni 1596.

VII. Bók í 4to með hendi Þórðar Jónssonar 1665, þess er mest skrifaði fyrir Magnús Jónsson digra í Vigr. Léði mér hana 29. Nóv. 1892 Björn kaupmaðr Sigurðsson í Flatey. Var þar á: Vilchinsmáldagi, bls. 1—374.
Gísla máldagi (Vestfirðingafjórðungr) bls. 375—476. Aptan við Vilchins máldaga var þetta ritað:

«Skrifad og Endad ad Lætrum vid Mioafiörd Anno Salutis 1665 þann 21. februarij, med mesta Hast ä 14 dögum mille annara verka. Bidiande alla goda menn ad Leidrietta og Lesa i mäled misstöfun og ivöntun hvar hun kann að vera, Befalande fromann lesara Gude, Vale.
Thordur Jonsson.»

Þetta handrit er kallað Látrabók eða Látrab. eða Látr. í orðamun. Afskript þessi kynni og að stafa frá Vilchinsbók séra Sveins Símonarsonar.

VIII. Handrit, sem Dr. Björn Magnússon Ólsen í Reykjavík á, er haft hér og hvar til samanburðar. Er það í 4to og ritað með góðri og gerðarlegri hendi um miðja 17. öld. Á því er Vilchins og Gísla máldagi og eru afskriptirnar af báðum af betra tagi. Aptan við Gísla máldaga steudr þar með annari en ekki miklu yngri hendi:

«Anno 1643 27 Junij: samanlesid og samhlioda giort vid visitatiubok herra Gijsla Jonssonar sem i Skälahollti er handskrifftud af herra Oddi Einarssijne og herra Gisla Oddsijne till vitniss vorar eiginn hendur Skalahollti ut supra

| | |
|---|---|
| Brÿnolfur(!) Suenonius Scalholt. | Finnus Jonas S. Theolog. Stud. |
| Hallur Arnerus past: Templi cath. | Biörn torvaldsson bishop S. Sueiu |
| Petrus Gissurius scol. Cathed. colleg. | Biarne Gissursson bishops Shriffare og |
| | Gunnar Magnusson.» |

Ekkert af þessum nöfnum er hér með eiginhöndum þeirra, er undirskrifa, enda er þessi klausa öll einungis ónákvæm afskript af staðfestingunni aptan við Gísla máldaga í Landsbókasafni 350. 4to. Framan á handriti Dr. Björns stendr: «E libris R. M. Olsonii 1850».

IX. AM. 263. Fol. máldagabók skrifuð fyrir Odd biskup Einarsson 1598. Á þeirri bók er meðal annars, eins og fyrr var getið, mart af máldögum úr Vilchinsbók, og hafa þessar afskriptir það til mætis sér, að þær eru gerðar beint eptir frumriti Vilchinsbókar meðan það enn var til; eru þær og sumstaðar réttari en aðrar afskriptir. Þær hafa allar verið bornar nákvæmlega saman við það, sem hér er nú prentað, og sumstaðar prentað eptir þeim. Á bókinni eru þessir Vilchinsmáldagar, og er venjulega «Vilchinsmaldage» haft að fyrirsögn í handritinu við þá máldaga, sem úr Vilchinsbók eru teknir:

1. Möðrudalr bls. 1.
2. Skeggjastaðir bls. 2.
3. Refstaðir 2.
4. Gröf (í Árnessýslu) 49.
5. Miðfell 49.
6. Langholt 49.
7. Einiholt 50.
8. þrándarholt 50.
9. Reykir 50.
10. Hjálmholt 50.
11. Skálmholt 50.
12. Oddgeirshólar 50.
13. Sandvík 50.
14. Hæringsstaðir 51.
15. Gegnishólar 51.
16. Egilsstaðir 52.
17. Kolsholt 52.
18. Efri Brú 52.
19. Laugarvatn 52.
20. Apavatn 52.
21. Árbær 52.
22. Ferja 52.
23. Auðsholt 52.
24. Torfastaðir 52.
25. Bilzfell 52.
26. Öndverðsnes 53.
27. Vaðnes 53.
28. Gnúpar 53.
29. Breiðabólstaðr (í Ölfusi) 53.
30. Nes í Selvogi 53.
31. Ölfusvatn 55.
32. Hamrar 57.
33. Vetleifsholt 57.
34. Hvammr á Landi 57.
35. Fellsmúli 57.
36. Flagbjarnarholt 57.
37. Lúnansholt 57.
38. Hlíðarendi 58.
39. þorvarðsstaðir 58.
40. Lambey 58.
41. Ey 58.
42. Fíflholt (Maríukirkja) 58.
43. Fíflholt(Stephanuskirkja)58.
44. Kirkjulækr 58.
45. Hof 59.
46. Kirkjubær (á Rangárv.) 59.
47. Snjallzhöfði 59.
48. Kirkjuból (syðra) 61.
49. Hólmr 61.
50. Bíasker 61.
51. Vogar 61.
52. Galmatjörn 61.
53. Vatnsleysa 62.
54. Njarðvík 62.
55. Bessastaðir 62.
56. Hólmr 63.
57. Varmá 63.
58. Reykir 63.
59. þerney 63.
60. Hof 63.
61. Mýdalr 63.
62. Eyjar 63.
63. Hvammr 63.
64. Ingunarstaðir 64.
65. Varmilækr 69.
66. Kroppr 69.
67. Skáney 69.
68. Skarð 69.
69. Lækr 69.
70. Heynes 69.
71. Hólmr ytri 69.
72. Sygnaskarð 69.
73. Hítarnes 73.
74. Saxahvoll 73.
75. Öndverðareyri 73.
76. þykkvaskógr 73.
77. Miðhlíð 79.
78. Kirkjuból 79.
79. Kálfanes 79.
80. Kirkjubæjarklaustr 86.
81. Flaga (í Skaptárt.) 93.
82. Hlíð (í Skaptárt.) 93.
83. Hrífunes 93.
84. Ytri Ásar 93.
85. Holt á Síðu 93.
86. Hraunsmúli 93.
87. Breiðibólstaðr (á Síðu) 93.
88. Keldugnúpr 93.
89. Reynivellir 93.
90. Borgarhöfn 93.
91. Geithellur 97.
92. Bessastaðir 97.
93. Arneiðarstaðir 97.
94. Víðivellir 97.
95. Krossavík 97.
96. Torfastaðir 97.

97. Bustarfell 97.
98. Fossvellir 98.
99. Ketilsstaðir 98.
100. Kóreksstaðir 98.
101. Þórarinsstaðir 98.
102. Sómastaðir 98.
103. Helgafellsklaustr 101-103.
104. Viðeyjarklaustr 105-106.

X. Safn Jóns Sigurðssonar 143. 4to bls. 281—286. Þar er ágrip ýmsra máldaga úr Vilchinsbók, meðan frumrit hennar enn var til, með hendi Odds biskups ritað um 1600. Kallar hann það »Registur vpa halfkirkna eigner j Skalholltzstiktti epter gömlu maldögunum«. Er það hér alt haft til samanburðar.

XI. AM. 59. 8vo bls. 165—182. Þar er ágrip af 22 máldögum úr Vilchinsbók, meðan frumrit hennar enn var til, með hendi Hallsteins Jónssonar 1593 og er gert fyrir Odd biskup Einarsson, en máldagarnir eru þessir:

1. Staðr í Grindavík 169—71.
2. Krýsivík 171—72.
3. Strönd í Selvogi 173 (sbr. Dipl. Isl. III. 180).
4. Arnarbæli 173.
5. Reykir 173—74.
6. Hjalli 174.
7. Þorlákshöfn (eyða) 174—75.
8. Kaldaðarnes 175—76.
9. Vogr 176.
10. Hvalsnes 177 (sbr. Dipl. Isl. III. 206).
11. Kirkjuból 177.
12. Útskálar 177 (úr Hvalsnesmáldaga, Dipl. Isl. III, 206).
13. Galmatjörn 178.
14. Bessastaðir 178.
15. Garðar 178.
16. Seltjarnarnes 178—179.
17. Eingey 179 (sbr. Dipl. Isl. III, 281).
18. Viðey 179—81.
19. Laugarnes 181.
20. Varmá 182.
21. Reykir 182.
22. Þerney 182.

Hafa þessir útdrættir verið hafðir hér til samanburðar.

XII. Afskriptir (transscripta) bæði á skinni og pappír af einstökum máldögum, sem gerðar hafa verið eptir frumriti Vilchinsbókar áðr en það brann, og er þeirra getið sérstaklega við hvern máldaga. Er stundum prentað hér eptir slíkum afskriptum, þar sem þær voru til.

Auk þessara handrita og afskripta, er nú hefir verið getið um og hér er notað, eru til allmargar aðrar afskriptir af Vilchinsbók, einkum frá seinni tímum, allar mjög misjafnar að gæðum, og skal eg nú geta um það helzta af því tagi, sem fyrir mér hefir orðið.

AM. 910. 4to er brot úr Vilchinsbók frá c. 1750, að eingu liði.

Gl. kgl. Saml. 1282. Fol. í Kongsbókasafni í Kaupmannahöfn er afskript frá c. 1770—80 af Vilchinsbók, gerð eptir AM. 259. Fol. og er því alveg ónýt.

ÍBfól. Kh. 59. 4to er brot úr Vilchinsbók allmikið, ritað c. 1750 eða nokkru fyrri, til lítilla brigða.

Landsbókasafn 104. 4to hefir inni að halda afskript af Vilchins og Gísla máldaga, og er hún gerð seint á 18 öld; er hún með

registri eptir Steingrím biskup, sem hefir átt bókina. Bók þessi kallast «Klerkatitta», og hefir Finnr Magnússon ritað framan á hana:

«Þessa Klerkatittu í lausri ræðu á prófastr herra Steingrímr Jónsson með öllum rétti: Vitnar að Odda þann 18da Julii 1816.

F. Magnússon.»

En þetta ritar Steingrímr biskup framan á bókina:

«Séra Ólafr Einarsson prófastr í Múlaþingi skrifaði út úr máldagabókum í Skálholti máldaga kirkna í Múlaþingi . . . .[1]) árum áðr en herbergin brunnu Anno 1630.

Eptir eiginhendi séra Jóns Haldórssonar.

St.»

Landsbókasafn 105. 4to hefir inni að halda ágrip úr Vilchins og Gísla máldaga, gert hér um bil 1750—60. og er það alveg ónýtt. Þar með eru afskriptir af nokkrum rekaskjölum Skálholtsstóls, mest eptir frumritum í Biskupskjalasafni.

Landsbókasafn 332. 4to hefir inni að halda afskript af Vilchins og Gísla máldaga; er sú afskript gerð snemma á 19. öld og virðist stafa frá afskrift séra Jóns Arasonar í Vatnsfirði (JSig. 147. 4to); hefir séra Ásmundr Jónsson í Odda átt þetta handrit og er það komið frá erfingjum hans gegnum Pál málfærslumann Melsteð til Landsbókasafnsins. Það er ekki til mikils.

Í safni Jóns Sigurðssonar 146. 4to er afskript af Vilchinsmáldaga og nokkrum hluta Gísla máldaga, gerð seint á 18. öld. Á handritið skrifar Jón Sigurðsson: «Frá séra Guðmundi E. Johnsen í Arnarbæli $^{10}/_{11}$. 69; hefir verið eign séra Jóns í Möðrufelli». Á því er ekki mikið að græða.

Í Jóns safni Sig. 148. 4to er enn afskript af Vilchins og Gísla máldaga frá 1673, rituð af Þórði Jónssyni á Strandseljum hinum sama, er skrifað hefir Látrabók 1665, sem áðr er getið, að hér sé höfð til samanburðar.

Í JSig. 377. 4to er ennfremr «Wilchinsmáldagi ritaðr að mestu með hendi Magnúsar Snæbjarnarsonar prófasts í Ísafjarðarsýslu» eptir því, sem Jón Sigurðsson segir, og ætlar hann það handrit stafi frá afskript þeirri, sem Oddr biskup sendi séra Sveini Símonarsyni 1596. Séra Magnús dó 1783. Þessa afskript, sem ekki er góð, rangfærir mart og hleypr stundum yfir heila máldaga, hefir Jón Sigurðsson borið saman við Nr. 2. 4to í Biskupsskjalasafni og Nr. 350. 4to í Landsbókasafni meðan það enn var í eigu frú Herdísar Benediktsen; þar með hefir Jón og ritað nokkurar athugasemdir við handritið.

JSig. 413. 4to er afskript, ekki stafrétt, er Jón Sigurðsson hefir látið gera eptir AM. 260. Fol. og ætlað að nota við útgáfu máldagans.

---

[1]) eyða fyrir tölunni.

Við útgáfu þá, sem hér birtist, er eins og fyrr var getið, haft að undirstöðu handritið Nr. 260. Fol. í safni Árna Magnússonar, en orðamunr við það allr sá, er máli skipti, tilfærðr eptir þeim handritum, sem borin hafa verið saman við það og nefnd eru hér áðr; er og leiðrétt eptir þeim það, er þau sýndust hafa réttara. Ritbætti þessa handrits er og haldið nokkurn veginn svo sem þörf er á, þar sem ekki er prentað eptir öðru, og er hann þó miklu líkari því sem tíðkaðist á 17. öld heldr en um 1400. Aðgreiningarmerkjum handritsins er að eins fylgt þar sem þau mátti til sanns vegar færa; annars er þeim ekki gefinn gaumr, heldr sett málsgreinamerki þar sem þurfa þótti til þess að gera skilning máldaganna sem auðveldasta. Eg hefi og sett máldagatal við hvern máldaga með rómverskum tölum, eins og gert er við útgáfurnar í safni þessu af Auðunarmáldaga, máldaga Jóns skalla og máldaga Péturs biskups Niknlássonar.

Þótt máldagasafn það, sem fer hér á eptir, sé kent við Vilchin biskup og hann hafi látið rita þessa máldaga alla á eina bók 1397, er því þó aungvan veginn svo varið, að hann hafi sjálfr sett alla þá máldaga frá stofni, er hann hefir látið rita á bókina, heldur hefir hann látið færa inn í hana máldaga hinna fyrri biskupa suma óbreytta og með litlum eða aungum viðbótum, suma uokkuð aukna og suma margaukna, og bætt þá sjálfr við því, sem framar var að greina um hans daga. Sumt er jafnvel svo fornt í bókinni, að það er frá hér um bil 1186, svo sem kafli úr Helgafellsmáldaga (cxcix, Dipl. Isl. I, 69), eða að heimfæra verðr til tímanna kringum 1200, eins og ferjumáldagann á Ölfusá (xxvii; Dipl. Isl. I, 86) og fyrra hluta Bessastaðamáldaga í Fljótsdal (ccLiv, Dipl. Isl. I, 92). Annað er nokkru yngra, og þó fornt, svo sem frá dögum Staða-Árna, Árna biskups Helgasonar, og mart í máldögum þessum stafar frá Jóni biskupi Haldórssyni, Gyrð biskupi, Þórarni biskupi og Oddgeiri biskupi, en langmest virðist vera stuðzt við máldagabók Oddgeirs og Michaels biskups. Það kemr svo opt fyrir hér í bókinni: «Kirkjan á auk þess, sem skrifað er í máldaga herra Michels» eða því um líkt, að það sýnist nær deginum ljósara, að Vilchin biskup hafi beinlínis látið skrifa upp máldagabók Michaels biskups og lagt hana til grundvallar fyrir siuni bók, að minsta kosti um Árness og Rangárþing[1]), og aukið svo aptan við máldagana, og mun það vera hvorttveggja, að hinir fornu máldagar sé komnir inn í Vilchinsbók gegnum bók Michaels, og að Vilchin hafi sjálfr látið innfæra í bók sína máldaga beint úr söfnum fyrri biskupanna, því hann nefnir forna máldaga er hann byggir á, t. a. m. á Torfastöðum (xvii), á Breiðabólstað (Lxi) og víðar. Ýms forn skjöl hafa og verið færð inn í bókina. En hins vegar er mart í Vilchinsbók, sem er yngra en frá hans dögum, því biskuparnir eptir hans daga hafa látið rita

[1]) Í Rangár og Árness þingi eru yfir 30 máldagar hjá Vilchni bygðir á máldögum Michaels biskups.

mart inn í bókina til aukningar máldögunum; sumt af því er erfitt um að segja, hvaðan stafar, þótt auðsýnt virðist að yngra sé en Vilchins tíð. Annað getr maðr með vissu deilt og stafar sumt af því frá Jóni biskupi Gerrekssyni, Goðsvin biskupi, Gottskálki Hólabiskupi Kænekssyni, Sveini biskupi, Stepháni biskupi, Ögmundi biskupi og enda frá dögum Marteins biskups. Öllu slíku, bæði eldra og yngra, sem hægt hefir verið að marka bás, hefir verið kipt út og fært til þess tíma, sem það átti heima á eða virtist eiga að heimfærast til, en vandlega er þess getið hér í bókinni hvervetna, hvar þess sé að leita, sé það prentað, eða verði að leita, ef það er yngra og enn óprentað.

Um Vilchin biskup er þess að geta, að hann er sagðr danskr að kyni, og segir Lögmannsannáll að hann hafi vígzt í Róm 1391 til biskups í Skálholt, þegar Michael biskup sagði af sér, en ekki kom hann út fyrri 1394, og reið þá í vísitazíu vestr um land, og sagt er, að hann hafi vísiterað á hverju ári (sbr. F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 134); aðra vísitazíuna gerði hann 1395; 1396 og 1397 reið hann yfir Austfjörðu. Við bréfagerðir kemr hann lítið á Íslandi aðrar en máldaga, og er þar einna helzt að geta skipanar hans frá 27. Júní 1396 (Dipl. Isl. III, 512). Árið 1400 eða 1401 hefir hann farið utan, því 27. Aug. 1401 er hans getið í Helsingjaborg (Dipl. Isl. III, 559), en 1403 kom hann út aptr, og kemr hann síðast við bréfagerðir 1. Apríl 1405 (Dipl. Isl. III, 577); fór hann utan hið sama sumar í Hvalfirði með Birni Jórsalafara, og andaðist um haustið í Björgvin. Þótti hann hafa verið einn hinn merkilegasti og gagnlegasti maðr. Máldagabók hans er og, þótt þar ægi saman bæði fornu og tiltölulega nyju, stórmerkileg í alla staði, og er eiginlega það eina, sem menn altaf verða að flýja til, þegar rannsaka á aldr alls þess aragrúa af öðrum lausamáldögum frá fyrri tímum, sem til eru úr Skálholtsbiskupsdæmi.

Í safni þessu hefir hér opt áðr verið getið um máldagabók, sem til hafi verið í Hítardal á 16. öld og fram á 17. öld, og er mest frá henni sagt í III. bindi Fornbréfasafnsins bls. 214—235. Bókar þessarar er fyrst getið í Bessastaðabók (AM. 238. 4to), sem er rituð að miklu leyti um 1580 af Vigfúsi sýslumanni Jónssyni á Kalastöðum. Ritar hann inn í sína bók ýmsa máldaga og getr þess við suma þeirra, að þeir sé teknir eptir «Hítardalsmáldagabók» (sbr. Saurbæjarmáldaga á Kjalarnesi, Dipl Isl. III, 287). 1606 fékk Oddr biskup þessa máldagabók frá Hítardal léða og lét 1607 rita upp það, sem Vilchinsbók og henni bar á milli og þar með marga máldaga, sem Hítardalsbók hafði framar en Vilchinsbók og enda sumt, sem var máð af hjá Vilchni, svo sem Hofstaðamáldaga í Miklaholtshrepp (Dipl. III, 250). Fyrir öllu þessu er gerð grein á áðr nefndum stað hér í Fornbréfasafninu (III, 214—235), þar sem afskript sú, er Oddr biskup lét gera, er prentuð. Það, sem menn vita síðast til þessarar Hítardals máldagabókar að segja, er það, að hún er enn til 1640, þótt lasin væri hún orðin þá fyrir nær 40 árum, þegar Oddr biskup hafði hana 1606—1067. Er

hún þá 1640 enu í Skálholti, því þá er þar borinn saman við hana Bakkamáldagi í Hrútafirði (AM. 256. 4to; hér: cxLviii), og segja Skálhyltingar svo: «Borið saman vid gamla Wilchinsbok Hijtardalskirkiu og er ej greinarmunur að ridum». Er á því auðséð það, að Skálhyltingar (Brynjólfr biskup) hafa baldið, að þessi Hítardalsbók væri máldagabók Vilchins biskups, og er það að nokkru leyti rétt, því að bæði við Galmanstungumáldaga (Fornbréfas. III, 224) og Bjarnarhafnarmáldaga (Fornbr. III, 226) er það tekið skýlaust fram í Hítardalsbók, að þeir sé settir í vísitazíu Vilchins biskups 1394, svo að auðsætt er að Vilchin biskup hefir látið rita máldaga í þessa bók. Hins vegar eru óræk merki þess, að í Hítardalsmáldagabók eru máldagar frá dögum Oddgeirs biskups, sem ekki eru teknir upp í Vilchinsbók, svo sem Kirkjulækjar í Fljótshlíð 1371 (Fornbr. III, 216, 263) og Lundar í Reykjadal 1368 (Fornbr. III, 222, 248—249), sem báðir eru tilfærðir með ártali í Hítardalsbók, auk fjölda annara máldaga og annars, sem þeim bókum ber á milli. Af því að nær alt það, er bækr þessar skilr á um og í Hítardalsbók stendr, virðist með vissu stafa frá Oddgeiri biskupi Þorsteinssyni (1366—1381), þá hafa menn ætlað að bók þessi hafi upphaflega verið máldagabók hans og kemr það vel heim við það, að Oddr biskup segir 1607: «Virðist mér Vilchinsbók í Skálholti muni vera skrifuð seinna en hin, því Hítardalsbókin er fornskrifuð og víða rotin og útgerð» (Fornbr. III, 231 - 32). Það gæti enda verið umtalsmál, hvort stofn bókarinnar hefði ekki verið enn eldri, og Oddgeir biskup hefði svo einungis aukið aptan við eldri máldaga og bætt nýjum máldögum inn í bókina. En það, sem Vilchin biskup á í Hítardalsbók, ætla eg sé að skilja svo, að fyrst í stað hefir hann á vísitazíum sínum haft með sér og notað máldagabók Oddgeirs biskups og fært inn í hana það, sem framar reyndist að kirkjurnar ætti, hvort sem það var í meira hlut eða minna, og þar með aukið aptan við máldaga þeirrar bókar og svo bætt nýjum máldögum við, þegar svo bar undir. En síðar hefir hann séð að hentugra væri, og handhægara að safna bæði sínum og öðrum máldögum, er honum hefir þótt mestu varða, á bók fyrir sig, og hefir þá látið rita í eitt safn máldaga þá, er nú köllum vér Vilchinsbók. En hvernig máldagabók Oddgeirs biskups hefir orðið innligsa í Hítardal er óvíst, en hitt er víst, að hún er enn til 1640, eptir að Vilchinsbók þá er brunnin fyrir 10 árum, en á dögum Árna Magnússonar og séra Jóns Haldórssonar hefir hún verið glötuð.

Anno Domini Millesimo. ccc.° xc.° vij.°
Factum est registrum istud sub fratre Wilchino
[Episcopo Schalholtensi[1]).

I. Middalur.

Mariu kirkia j midium dal a heimaland allt med gognum oc giædumm.

Hun a ix. kyr oc viij ær oc xx. saud veturgamlann. eitt Ross oc hundrad vadmāla.

Hun a innann sig krossa tvo med lykneski. Mariuskript. kaleik. messuklæde. alltaraklædi tvo. alltarisdvkar ij. kiertistikur ij litlar med kopar. Glodarkier. psalltari oc bok de sanctis. Missale. pistlar oc Gudspioll per anni circulum. skijrnarsār. fonts vmmbuningur. Brykarklædi. kantarakāpa slitiñ. kluckur fiorar. kirkiukola.

kyr. xj. asaudur xxx. j ross.

c. vadmala.

forn portio iij merkur.

portio Ecclesiæ vmm ix ar næstu cc. oc halfur atti eyrer.

Giefist til sydann Herra Michels maldagi var giôr.

cc. vorugilld oc[2]) kugillde. fellur nidur firir kirkiu vppgiaurd er sira Biorn liet vppgiera kirkiuna epter þvi sem metiñ var ad auk þess vidar er[3]) adur var j kirkiunne vc. er þad portio Ecclesiæ oll oc c. oc mork af tillaga gozse.

II. Hlyd.

Mariu kirkia j Hlijd a heimaland halft med gognum oc giædumm.

xiij. kyr oc naut tuævett. eina ā oc xx.

halft annad hundrad vôru.

x aura j vaxe.

messuklædi þrenn. kaleik. klukkur iiij ok ij biollur. alltaraklæde v. iij dvkar. tiolld vmhverfis sig vtan ei vtar vm þvert. silfurkross buinn. Mariuskript. merki ij. glodarkier ok elldbera·

[1]) [Schalholtensi episcopo 256, 259, 350, 147, Lâtrab., Bp, BÓ.; [2]) .i. b. v. 350, BO.; [3]) sem, Bp.

kertistikur iij litlar oc ein jarnstika stor. mvnnlaugar ij. messingarkier. messufatakistu.

Tuo hundrud j bokum.

þangad liggia vij bæer ad tiundumm oc lysetollumm.

þar skal vera prestur oc diakn.

ein[1]) sierdeilis diaknaklædi. vtan dalmatika. þollaks skriptt. [merki. psalltare[2]). sloppar ij. [mvnnlaug. stolar ij[3]).

portio Ecclesiæ vmm. v. ãr iijc[4]).

Mariukirkia i Hlyd a yfer[5]) þad framm sem j maldaga herra Michels er skrifad.

tuær kyr oc xij ær oc hest.

Bryk yfer[6]) alltari sæmileg.

communisbok[7]). missale oc matutinale.

portio Ecclesiæ vmm næstu vj[8]). ar medan sira Oddur hefr buid cc oc xij alnar.

vmm iiij ar þar fyrer næstu c ok ix aurar.

forn portio halft þridia hundrad. fiell nidur þar af hunndrad er Jon heitinn liet giora veggi vmm kirkiuna oc rietta hana.

tvær kantarakapur. tvenner fordukar med alltarisklædumm. bialla lijtel.

## III. Haukadalur.

Kirkia[9]) j haukadal efra j biskupstungumm a fiordung j heimalande.

Lx asaudar oc ij ær. ix. kyr. iij hross.

þangad skal giallda fra Gyiarhvole hvort haust tvo saude veturgamla.

fra felle saud veturgamlann.

vr Einiholti[10]) saud veturgamlann.

fra Holumm annadhvort xx. alner vadmals edur saud tuævetrann a vorid.

vr Bratthollti ein ær hvert vor.

---

[1]) Jtem 256, 259, 350, 147, Látrab. Bp., BO; [2]) psalltari m̃e̊n(!) Bp.; [3]) [sl. 256; [4]) iijc, Bp.; [5]) allt, b. v. 256, 350; [6]) fyrir 259; [7]) communie bók, Bp.; [8]) xj, Bp.; [9]) hér stendr í máldagabókinni klausa frá 1541 um eign Haukadalskirkju, þegar Ögmundr biskup fór frá; [10]) Einhollti 256, 259, Bp.

vr Hafi vætt miôls edur v. aurar vôru.

Hier med liggur til kirkiunnar tiund af ellefu bæiumm. vtann vr Einihollti[1]) er heima tiund heimamanna. og i nedra haukadal half kirkiutiund oc halfur lysetollur.

fimm rossa beit j Kelldnahollti.

þar skal vera prestur og diakn oc syngia annan hvern dag helgann. syngia eingann helgann dag þar aptansông nie ottusông vtann bondi i Haukadal vilie. vtan þollakzmessu.

J nedra Haukadal skal syngia enn fiorda hvern dag sem hlijtz til bænhvss.

Sôngur er j mvla. j Brattholltt[2]). hola. kelldnahollt. drumboddzstadi[3]).

Kirkiañ a ein messuklædi. tuær kantarakapur. en þridia brunniñ oc rotiñ. tvo alltaraklædi oc annad med pell. Textar ij buner[4]). merki.

Jtem laus stola oc handlyn.

Jtem a kirkiañ vijc. j metfie oc ijc. sierdeiliss er Þorgeir var skylldugur kirkiunne fyrer jarn oc adra smahlute.

portio Ecclæsiæ vmm iiij är mork hins fiorda hundradz.

Kirkia j Haukadal a yfer þat framm sem adur er skrifad j maldaga herra Michels v. kyr oc c vôru.

portio Ecclesiæ vmm x är c a hveriu äre edr þar nærre so leingi sem þorgeir heitinn hefr buid.

IV. Tvnga.

Andres kirkia j Tungu æ so mikid j heimalande sem prestskylld heyrer.

ij. kyr oc xij ær.

messuklædi þrenn. kantarakäpu. haukul lausann med pell. iij alltaraklædi. Mariuskript. Andresskript. tiolld vmmhverfis sig. slopp. kiertistikur ij. munnlaugar ij. glodarker. elldbera. kluckur iiij. biollur iij. dukar iij. kross oc bryk yfer alltare. merki ij. vatzkietill. fonts vmmbuning. glerglugga[5]). kaleika tuo.

þangad liggia. iij. bæer ad tiundumm oc lysetollumm.

Sôngur er j Skiphollt. takast þadann[6]) ij merkur.

þar skal vera prestur.

---

[1]) Einhollti, Bp.; [2]) Brattholite Bp.; [3]) dramboddzstadi 256; [4]) bruner 256(!); [5]) glerglugg 350, Látrab., BO.; [6]) af b. v. Bp.

kirkiañ a hundrad vðru.
portio Ecclesiæ vmm x. ar vijc.
reiknadist[1]) aptur cc fyrer kirkiubot.
Jtem cc. i portionem vmm ij ār.
Hun a sijna portionem vmm næstu xx. ar xvc.
forn portio medann Biorn bondi hefr buid adur viijc[2]) og þat meira sem lagdist fyrer þad er hann hafde ad kirkiunne giora lāted.

V. Reykiardalur.

Mariu kirkia j Reykiardal[3]) a heimaland allt.
skogartwft j Luciuhofda.
v. kyr. xxx. asaudar. ij ross.
halft þridia hundrad vðru.
ij merkur vax.
kantara kapu. ein messuklædi oc lausan hokul. kaleik. glodarkier. artijdaskrā kluckur iiij. alltaraklædi v[4]). ij alltarisdukar. iij[5]) krossar. Luciuskript. tiolld vmm kirkiu og messufata kista. vatzkietill. kiertistikur ij. skrijn med [helgumm domumm[6]). munnlaug[7]). fonts vmbuning. iij bækur fornar.
þar liggia til v. bæer ad tyundumm oc lysitollumm.
þar skal vera prestur heimilisfastur.
Reiknadist portio Ecclesiæ medann sira Helgi hafde[8]) halldit kirkiuna vmm x är iij hundrud. fiellu[9]) þar af ij fyrer kirkiu adgiord.
Lagdi sira Helgi til ij. kiertistikur med kopar oc elldbera. er hann nv kvittur af portione Ecclesiæ slyk[10]) sem fallid hefr [til hier[11]) j annare vmferd herra Otthgeirs.
Þetta hefur sijdann aukist sem hier seiger ok reiknad var j fyrstu visiteran herra Wilchins biskups.
ad Mariu kirkia j Reykiardal [æ oc[12]) syna portionem vm næstu xij är fyrerfarandi v. aurar æ hveriu äre.
Jtem forn portio adur cc.
fellur nidur oll portio fyrer [atbot oc vppgiord[13]) æ

---

[1]) reiknast 350, BO.; [2] viij ár, Bp.; [3]) Reykjad. 147; [4]) og, b. v. Bp.; [5]) iiij, Bp.; [6]) [helga doma Bp.; [7]) mundlaug, Bp.; [8]) hefur Bp.; [9]) fiell 256; [10]) slíkt 256, 147; [11]) [hier til Bp.; [12]) [á í BO, 350; í, Bp., Látr.; [13]) uppbot og adgiord, Bp.

kirkiunne er sira Odkell hafde lated giora vpp og var metid af vj monnumm þat hann hefde hætt fyrer halft siounda hundrad.

VI. Tungufell.

Kirkia j Tungufelli a so mikid i heimalandi sem prestskylld heyrer til.

kyr ij. eina a oc xx.

messuklædi. kaleik. krossa iiij. tiolld vmmhverfis sig. sloppkantara kapv[1]. kluckur iiij[2]. kietil. merki. mvnnlaug. kiertistiku. glodarkier. alltaraklædi iiij[3]) med dvkum. paxspialld[4].) x. aura j bokumm.

iij merkur allt samann vax oc reykelsi.

fontklæde. Andres skrift.

þangad liggia vnder ij hæer.

þar skal vera prestur heimilisfastur.

Reiknadist portio ecclesiæ vmm viij ar halft þridia hundrad. oc fiell nidur fyrer kirkiu vppgiörd[5]).

VII. Hrune.

Kirkia j Hruna a heimaland allt oc kalldbak oc þorarinsstadi og Forsiä og skal þar greida af ij merkur fatækumm monnumm hinum skylldustum af ætt Arnsteins. Skal Hrunastadur fa til vidu vr skogum stadarins til fiarhwsa. enn ef norrænn vidur er til lagdur þorarinstada þa falli af landzleigv.

Grafarkirkia liggur til saungs j Hruna oc Langhollt hid efra. Hrafnkielstader oc Hellisholt. Backi og Brydiuhollt oc Berghylur. kalldhakur. Hörksholt[6]). laxardalur. Soleimar[7]).

Tiunder liggia til Hruna af þessum fyrnefndum bæium. nema Grof oc langhollti half.

Af þessum bæiumm er oc tiund j Hrunaselium badumm oc Jsahacka.

Lysitollar aller eru til Hruna vr heimaþijngumm oc af Backa. og aller vr Grafar þingumm.

Groptur er i Hruna af ollumm þessumm bæiumm sem

---

1) kapa, Bp.; 2) vij Bp.; 3) sl. Bp.; 4) paxspiölld, Bp.; 5) uppbót, Bp.: 6) hörtsholt, Bp.; 7) Solheimar 256, 147.

fyrr eru nefnder. og þessum til logdum Kogsvatn oc Laugar tuennar. Skipholt. Haukhollt. Eta oc þorarinsstader.

kirkia j Runa a fiogra vetrunga eldi j Langholt. skal sa vid taka er þar byr ad Michaelsmessu oc annast til fardaga oc abyrgiazt sem log votta.

Runa kirkia a veide j Laxæ hina litlu tuo daga j hverri viku vt i Laxäros fra vppsprettumm. skal sa er Runa kirkiu æ kiosa[1]) Mariumessu sydare hveria daga hann vill hafa þau missere.

Stadurinn j Runa æ torfskurd j Backaland a Torfmyri so sem hann þarf til elldividar oc fiogurra hesta beit medann torfverk eru hofd.

Stadurinn a oc beit j Haurghollt ij manadi ollu fie j annad mäl sydan lomb eru færd fra saudumm.

þessa æ Runi skoga. Hellisskoga. Alftavollu. þorsteinshaufda. Mariuhrijs oc Knosa med ollumm fornumm vmmerkium.

Þessi er kiennimanna skylld j Hruna. presta tveggia oc messudiakns.

þetta æ Hrunakirkia j kvikfie. xiij kyr. lxx. asaudar oc ij ær. xc. j hrossumm.

Kirkia j Hruna a vjc innann veggia i bvhlutumm. ma þad greida j Reckiuklædumm mat edur heyumm. bvsbunadi[2]) oc audru þvi sem þarf ad hafa oc virda til frijdz.

Þetta er[3]) j kirkiuskruda. fimm prestum messuklædi. ij. Dalmatikur. sloppar iij. kantarakapur ij. viij alltaraklædi oc dvkar ij glitader. kaleikar ij. oc stendur annar vj. aura enn annar tuær orttugar hins týunda eýris oc gylltur. vj merkur vax oc Reykelsis.

Aspiciensbækur tvær er taka xij manudi. iiij lesbækur er taka xij manudr[4]). [Gudspiallabækur ij er taka xij manudi[5]). Gradall oc collectarius oc sequentiubok er taka xij manudi. hymnarius. commune suffragium oc capitularius. alltarisbok. rijm ij. artijdaskra. Davidspsalltare oc Mariupsalltare oc Mariu saga oc Kross sögur badar. vppreistar saga oc Jons saga postula oc Clemens saga. formæli. Ceciliu saga. Maria jardteikner a Latinv.

---

[1]) ä ä kiosa 256; [2]) husbunadi 256, 259, 350, 147, Bp. Látrab.; [3]) ä hun Bp.; [4]) manude, Bp.; [5]) [sl. 259.

Glodarkier. glergluggar iij. kiertistikur iiij. rodukrossar ij smelter. oc iij hiner. Mariuskript ein gyllt oc onnur skript steind. fonts vmbunadur oc lysikier. skrijn[1]) oc tiolld vmmhverfis sig. Jnnan kirkiu jarñstika stor. iij lectarar. ij merki. klukkur vij. pascha kierti af trie. Ampli. kirkiu munnlaug. einn stoll. vatskietill. elldberi. kiertastikur. oblatubudkar iij. handklædi iiij. messuklædakista. krismakier. slykisteinn.

Þetta gaf Þorarinn Hrolfsson til Hrunastadar. Laxargliufur oll nordur j frã Kalldbakslandi. skal sa þo er j Haurkshollti byr fa ij menn til safns med Hrunamonnum a Kalldbaksheijdar huert haust til allra logrietta.

Enn slyka peninga sem sira Svarthofdi tok j stadarspiöll logdust til ad giaura ad stadnum. er hann nv kvittur fyrer þa bot sem hann hefur lagt a stadinn.

portio Ecclesiæ oreiknad vijc oc xv aurar.

Þetta hefr aukist vmm þat framm sem j Maldaga herra Michels stendur.

gafst hestur oc kyr medann sira Oddur var. fiell nidur firir stadarbot oc iijc af stadarspiollumm. er metinn var [vij hundrada[2]) bot æ stadnum. er hann hafdi bata[3]) lãtid.

medan sira Þordur hiellt gafust vj ær oc kyr. hundrad j haustlagi.

Jn ornamentis Pæls lykneski. kross steindur med vnderstôdumm oc bryk yfer alltari er Svarthøfdi prestr lagdi til· Dvkur yfer Pæls lykneski.

Mariu jardteikner nyar.

portio Ecclesiæ vmm næstu ix ar[4]) fyrerfarandi[5]) xj. hundrad.

## VIII. Grøf[6]).

Pieturs kirkia j Grøf æ eina kv. kluckur iiij. einn slopp. kantara kapa. glodarkier. ij krossar. Pieturs skript. þollakz skript forn.

---

[1]) b. v. 259, 350, 147, Látr., Bp.; [2]) [vijc hundrada, Bp.; [3]) bæta 256, 259, 350, 147, Látr., Bp.; [4]) 147, BO; sl. 260, 256, 259, 350; [5]) [fyrirfarande ár, Bp., en ár bætt inn með hendi Páls Pálssonar; [6]) Vilchinsmaldage 263.

portio Ecclesiæ su sem falled hafde vmm xx är reiknadist xvij aurar.

fiell nidur af portione viijc firir kirkiu vppgiaurd.

Þetta til aukist sydann gierdizt maldagi herra Michels.

vj ær oc kv.

Jnnann kirkiu. Mariuskript væn. kiertistika med jarn tinud. vattskall.

portio Ecclesiæ vmm næstu ıx är vij hundrud oc mörk.

forn portio medann Jon Biarnarson hafdi buid vmm xx är ıx hundrad.

## IX. Midfell[1]).

Jons kirkia postula j Midfelli æ eina kv. eitt alltaraklædi. eina kiertistiku. ein klucka. einn kross. Mariuskript. Jacobsskript.

Þetta hefer tillagizt[2]) sydann maldagi herra Michels var skrifadur.

ein kyr. kross smelltur. alltarisklædi. kiertistika. paxblad. sacrarium munnlaug.

portio Ecclesiæ vmm xvj ar næstv ccc oc x aurar.

Jtem lagde byskupp Gottskalk j sinne visitatione eitt kugillde fra Runa[3]) oc sira Jon Jonsson af hennde[4]).

## X. Hoolar.

Þessi er kirkiumaldagi ad Holumm j Hrunamannahrepp.

hun a heimaland allt med gognumm oc giædumm. Backaland.

xx kyr. lx asaudar. vj hross.

xiij hundrud j bvshlutumm[5]) oc vöruvirdumm eÿri:

Skog æ Steinastodumm oc j Aslákstungumm.

hrutahöfn i Hagaeÿ fra veturnottum til hrutmäls[6]).

Soleimingar skulu einer hallda gardi medal landa.

alls fiar afriettur j Sandafell[7]) oc annar til þorarinsstada.

---

[1]) Vilchinsmaldage 263; [2]) tillagzt, sum; [3]) Hruna 143; Runa 256, 147, Látr., BO.; Runo, hin; [4]) þessi klausa er frá c. 1452; [5]) buhlutum 256; búsbúhlutum 350, BO.; [6]) hrutsmals 256, 259; [7]) Sandafell 260, 256, 259, 350, 147, Bp., BO.; Saudafell, Látr.

Eingiar æ Skeidumm j Seydissholumm.

Messuklædi fern. kluckur fiorar. biollur ij. tiolld vond. smelltur kross oc iij krossa adra. pells alltaraklædi oc iij onnur. glodarkier. lioskier ij. langstolar ij. kiertistikur tuær. sacrarium mvnnlaug. skyrnarsær. Gudspiallabok per anni circulum. glerglugg. iiij merkur vax oc reykelsis.

þar skulu vera prestar tveir oc diakn.

þangad liggur tiund af v. bæiumm oc lysitollar.

halfur[1]) lysitollur vr Midfelli oc Langhollti nedra oc Vnnarhollti.

Groptur af ollumm þessumm bæiumm.

kaleik. hwslkier med silfur. Olafsskript. sloppar ij. budkur[2]) med helgum domum. font[3]) klædi. [dvkur glitadur[4]). dvkur yfer Olafsskriptt. merki ij. messingarkietill. kiertaklofi.

kirkiañ æ beit æ Galltafell[5]) xx kvm oc hundradi asaudar .ij. manudi j annad mäl er Gunnar Nikulasson gaf kirkiunne.

Reiknadist portio Ecclesiæ medann sira Biarne hiellt vmm viij ar vc.

þetta hefur til aukist vmm þat framm sem j maldaga herra Michels stenndur.

iij kyr oc eitt hross er giefist hafa til medann sira Asgrijmur hefur buid.

portio Ecclesiæ vij hundrud wmm næstu xij är.

Jtem forn portio vc.

fiell nidur xc. af portione epter godra manna mäte firir þat er sira Asgrijmur hafdi läted vppgiaura kirkiuna.

er hann nv skylldugur cc kirkiunne i portionem[6]).

---

[1]) sl. 259; [2]) budkar 350, BO.; [3]) fonts 350, BO.; [4]) [dukur fatadur, Látrab.; [5]) um máldaga Hrepphóla, sem gerðr er 1440, er það tekið fram, að þar sé ekki getið beitar á Galtafelli; er því annaðhvort, að hér hafi verið autt bil í frumriti þessarar máldagabókar (Vilchins og Michaels), og þessi klausa um gjöf Gunnars á beitinni á Galtafelli hafi síðar (á 15. öld) verið skrifuð þar inn, ellegar þá að þessi beit hafi einhvern veginn verið geingin undan kirkjunni 1440; [6]) Hér aptan við er í máldagabókinni klausa um Langholts kirkju neðri frá tímum Gottskálks Hóla biskups (1452).

## XI. Gnvpur.

Olafskirkia ad Gnvpe a so micid j heimalandi sem prestz skylld oc diakna heyrer til.

xj. kugillde.

iiij merkur vax.

smelltann kross. alltaris[1]) klædi ij oc einn dvk. Mariu-skript. Olafsskript. messuklædi. kaleik. glodarkier. kantarakapv. kiertistikur ij. alltarissteinn. kluckur iiij. slopp. kolu. fontklædi.

þar liggia vnder xj bæer ad tiundumm oc lysitollum.

Reiknadist portio Ecclesiæ mǫrk hins þridia hundradz vmm vj ar.

Jtem hundrad vm ij ar.

Jtem reiknadist j annare visitatione[2]) herra Oddgeirs. sira ormur lauk ijc vadmala.

hun a hokul.

Wmm næstu xvj är xijc oc xij alner.

Jtem forn portio viijc oc xv aurar.

Jtem hefur giefizt kirkiunne xiiijc. fellur hier nidur af xiijc fyrer vppgiaurd kirkiunnar er Halldor Helgason hafdi giaura latid epter māti.

Lagdi Halldor þetta til kirkiunnar. messuklædi sæmileg ad ollv. slopp. vatsskall med kopar. Mariuskripter ij oc onnur med alabastrum. Olafsskript. kiertistikur ij med jarn fyrer lykn-eskiumm oc ein med kopar. fontsvmbuningur med krosse. spiolld ij. refuil nyiann med nyium dvk xiiij alna langur. var þetta allt samann meted firir c oc xx. enn hann nv skylldugur kirkiunne xvij aura. enn kvittur vmm allt annad.

Þetta a kirkiañ ad fornv þat ei er skrifad. bryk yfer alltari. kross. sacrarium mvnnlaug. bokastoll. lectare. spialld. Jtem ij hross.

## XII. Steinshollt.

Mariukirkia i Steinshollti a so micil[3]) kuikfie. viij kyr. xij ær. iiij hross. eitt gielldfiar kugillde[4]).

Jtem skog j Dimuni er lokinn var fyrer[5]) hundrad.

---

[1]) alltara Bp.; [2]) visitatiu Bp.; [3]) mikid 256, 147 Látr. Bp., BO.; [4]) hundrad 256; [5]) j., b. v. 256.

Jtem hundrad vadmala.

hun a tvenn messuklædi. onnur vond. alltarisklædi ij med dvkumm. kross yfer alltari oc silfurbuin stông vnder. Mariuskripter ij. rodukross. Thomas skript. merki. kluckur ij. biollur iij. sacrarium mvnnlaug. kiertistikur iij. paxspialld. glodarkier. lectari. bokastoll. fontklædi oc kross. skyrnarsär. lysikola. ij psalltarar vonder.

ccc j wirdingarfie.

## XIII. Hof.

Mariukirkia ad Hofi j eystra hrepp a heimaland allt. Skammbeinstadi.

vj kyr. halft fiorda kugilldi i asaud.

hefur gefist til medan sira Eyolfur bio. ij kyr. ij hross. hundrad voru gilld.

Hun a jnnann sig kross smelltann. Mariuskripter ij. þollaks lykneski. paxspialld. Magnus lykneski. kiertistikur ij. sacrarium mvnnlaug. fonts vmbuningur. skyrnar sär. glodarkier. kluckur ij. þridia brotiñ kolflaus. messuklædi tvenn oc onnur dvklaus. alltarisklædi oc dvkur. sloppur. kantarakâpa. hvorutveggia fahæft. seqventiubok. Gudspiallabok oc pistla. De sanctis per anni circulum.

portio Ecclesiæ vmm iiij ar oc xx. cc.

var[1]) sira Eyolfi gior cccc firir kirkiu vppgiaurd.

þetta lagde til sira Eyolfur. kantarakâpv. alltaraklædi steint med dvk oc fordvkumm oc tvo alltara klædi. onnur med dvkum oc med audru fordvkar. Brijk yfer alltari sæmilig med brijkarklædi. fonts vmbuningur med kross. Mariuskript buin[2]) sæmiliga. merki steint. Magnus lykneski. pentadur kor framann. lectare a alltari. steintiolld half ellefta aliñ tvibreid.

var þetta allt samann virdt firer viijc.

portio Ecclesiæ oll cc. oc vc þad goz er gefist hefur til sydan sira Eyolfur kom til. er kyrkiañ honumm nv skylldug vc.

kirkiañ æ skog a Tungunne fyrer ofann Biarnargôtv oc eingi æ Skeid j Blesastada jordu.

---

[1]) er. Bp.; [2]) sl. 256.

XIV. Länghollt[1]).

Mariukirkia j Langhollti æ iij[2]) kugillde. ij hundrad j metfie.

biollur tvær. krossa ij. oc Mariuskript. Pieturs lykneski. sacrarium mvnnlaug.

portio Ecclesiæ vmm fimmtye ära v huñdrad. enn vj hundrad fiellu nidur firir adgiord æ kirkiu oc bot. olukt ixc.

Hun æ sijna portionem vmm næstu firirfarandi x är tvo hundrud.

XV. Einihollt[3]).

Kirkia j Einihollti æ kv oc vj ær.

Hun a jnnann sig einn kross med koparlykneski gylldu oc ij krossar adrer. Mariuskript forn. alltarisklædi ij. oc einn dvkur med. glodarkier. paxspialld. sacrarium munnlaug. kluckur ij. tiolld vm kor vond. dvkur yfer krosse.

portio Ecclesiæ vmm næstv iij ar vj. aurar oc ij alnar. vmm næstu xviij ar þar fyrer ijc oc xiiij aurar.

XVI. Þrandarhollt[4]).

Þollakskirkia j þrandarhollti a xxc i heimalanndi. vij ær.

Hun ä jnnann sig kross. Mariuskript. þollakslykneski. klucka ein. kiertistikur ij med kopar. paxspialld. alltarisklædi. dvkur. glodarkier. mork vax.

portio Ecclesiæ vmm xv är næstu cc.

fiellu nidur xviij aurar er Eirekur liet bva þollakslykneske oc giaura paxspialld oc hlada veggi vmm kirkiu oc þekia.

XVII. Torfastader.

Mariukirkia a Torfastôdumm a heimaland allt med gôgnum oc giædum.

skogharteigh i Sandvatzhlyd. afriett firir nordann vôtn. iiij kyr. iiij ær oc xx.

messuklædi ij. kaleik. smelltann kross oc Textum Evange-

---

1) Vilchins maldage 263; 2) iiij, 256; 3) Vilchins maldage 263; 4) Vilchins maldage 263.

liorum. alltaraklædi iij oc tvo dvka. kiertistikur iiij. kluckur v. oc biôllur ij. mvnnlaugar ij. tiolld vmm kor oc vtar audrumeiginn. brykarklædi tvo. glodarkier. elldbera. iiij merkur j bokumm oc pund vax.

þangad liggia vnder xj bæer.

Til fells er sungid hinn fiorda hvern dag oc tekst heima half mork tiundar oc halfer lysitollar. skal syngia fyri nichulasmessu. tekur prestur mork.

j Myklahollti vj aura.

ad Watnlausu halfmork.

þar skal vera prestur oc diakn.

Þetta hefur[1]) aukist vmm þat framm sem kirkiunnar maldagi forn vottar.

kvijga tuævetur. vj ær. eitt hross. c. ofrijtt vôruvirdt. ix merkur vax.

portio Ecclesiæ vmm næstu tvo âr er sira Biorn hefr verid xij. aurar. Enn vmm viij ar þar fyrer er Eysteinn prestur hiellt stadinn half mork æ hveriu âre.

## XVIII. Olafsveller.

Andreskirkia æ Olafsvollum a heimaland allt med gognum oc giædum.

viij. kŷr. ein ær oc .xx. tvo hross. gielldingur tvævetur.

tvenn messuklædi. kaleik. alltaraklædi med dvkumm. glodarkier oc elldberi. sacrarium mvnnlaug. vatzkietill[2]). merki. kantarakapa. sloppar .ij. krossar .iij. skryn med helgum domumm. Andriesskript. Mariuskript alllitil[3]). Hundradzlag i Bokumm. kista .ij. kiertistikur .ij. kluckur .ij. biollur. viij. merkur vax.

Skogur j Rossatungumm.

ccc. j Busbuhlutumm[4]).

portio Ecclesiæ .xiij. aurar.

Þetta hefur til aukist sydann Maldagi Herra Michels var giôr. kirkiu tialld[5]) .v. alnar. Skogarteig æ[6]) Bvrfellshâls.

---

[1]) til b. v. 259, 147, Látr., BO.; [2]) vatzkall 256; [3]) alllitid 256; alltt til(!) Bp.; [4]) bwshlutum Bp.; [5]) tiolld 350, BO.; [6]) i, 256.

## CCXCVII. Maldagi Kirkivbæiarklausturs.[1]

Suo mikinn skrvda ā kirkian j kirkivbæ. iiij oc xx hoklar. xiij kapur. v dalmatikur. sloppar iiij. Alltarissklædi til haalltariss ix. til vtalltara v. oc til hvers ferner dvkar til haalltaris med fordvkum. x glitader dvkar. viij manna messvklædi. oc ij messvserker lavser vijgder. vj corporalia. baglar ij. Textar iij. ij. Tabvle. oc ij brijkur. iiij glodarker oc xx glergluggar. ij. lektarar. kirkia tuitiolldvt sæmiligvm tiolldvm oc þrir biorar. jtem fostvtialld. pæskakerti. jarnstikur ij. skrijn med helgvm domvm. krossar vj. marivskrift. katrinarskrift. þorlaksskrift. Cecilivskrift. Agnesarskrift. matheusskrift. clemensskrift. ix sma kertistikur. fylbeins[2]) budkur er fyrer huslker er haft.

Sacrarivm mvnnlaug. skijrnar ketill. tuenn baksturjarn. ij. merki. Textakoddi. ij. paxspiolld.

songbækur tuennar j huorn[3]) kor per anni circulum. [jtem iiij gradvalia. Liber Evangeliorum oc Epistolarum. hin þridia ferivbok. fernar sequenciubækur. jtem tuennar songbækur fornar. capitularij tuenner. lesbækur per anni circulum.[4]) jtem ordobok. processionale. ymnabækur xiiij oc xx latinv bækur og norrænv.

Suo margar jarder a klaustrid j kirkivbæ.

J dal leiga xx avra vett smiors.

J dal odrvm leiga vett smiors oc xx avra vorv.

A Avxlandi[5]) iiij merkur vorv og x fiordvngar smiors. viij navta fodur.

J Auredal[6]) leiga ccc.

A breidabolstad leiga vj avrar oc c vorv.

A Backa leiga ij vetter smiors oc cc vorv med kalfi [a Auxlandi.[7])

J Mortvngv ij vetter smiors oc avrar xiiij.

A geirlandi ij vetter smiors og cc.

---

[1]) Máldagi þessi er hér prentaðr eptir AM. 263. Fol. bls. 86, sem skrifuð er 1598, eptir Vilchinsbók á meðan frumritið enn var til, og hér kallað »Vilchins maldage«. Vilchinsbækr hafa að fyrirsögn: Kirkiubær; [2]) filsbeins 259, 260, 147, Bp.; [3]) hvern 259, 260, 350: [4]) [allar Vilchinsbækr hlaupa yfir; [5]) = Haurkslandi = Hörgslandi; [6]) = Haurksdal = Hörgsdal; [7]) [b. v. Vilchinsbb.

j mork ij vetter smiors oc c.
J ytrabæ ij vetter smiors oc c.
A Heidi vett smiors og xiiij avrar vorv.
A nýabæ vett smiors oc x avrar.
J Tvngv ij vetter smiors og c.
A Karsstodvm vett smiors. og fodra ij kyr oc x avrar.
A erfstodvm[1]) half vett smiors oc fodra ij kýr oc x avra.
J Selbvdvm vett smiors oc fodra ij kyr. oc c.
A efri steinsmýri xx skiolur savlltv oc xx hesta lenur.
Ad fliotum xx skiolur savlltv oc xx hesta leenur. fæda iiij navt gelld.
A nedri steinsmyre xx skiolur savlltv oc xx hesta leenur. fæda viij navt a annann vetur.
A Seli vett smiors oc fæda kv oc vj avrar.
a slýivm vett smiors oc v avra vorv.
j hollti vett smiors. fodra iiij navt gelld oc halfmork.
vnder hravnj vett smiors oc xiiij avra.
Ad felli cccc skreidar oc ij malkerolld lysiss.
Ad breckvm vij[c] skreidar oc x avrar vorv. oc fara med skip stadarins. oc kosta þat ad ollv.

þessar jtolur a stadurinn.

fra þverä skvlv lukazt ix avrar vorv huort vor.
fra kelldvgnvpi halfmork vorv.
Af Horkslandi mork vorv.
Af Breidabolstad mork vorv. huort vor.
Af dalbæ[2]) half mork vorv. oc tueggia vetrvnga fodur.
Af vppsolvm half mork vorv.
Af þyckvabæ halfur fiordi eyri(r).
Af Selbvdvm v avra.
Af Asgarde c vorv. oc vj avra.
J Hatunvm skal fodra iiij kyr oc vetrvng. og greida vett miols.
J efri vijk ij kýr.
J Asgarde skal fodra[3]) [vetrung . . . . .[4])

---

[1]) = Refstaðir í Johnsens Jarðatab.; [2]) Dalki(!) 260, 259, 350, 147, Bp.; [3]) sl. 263; [4]) [Niðrlag máldagans vantar bæði í 263 og Vilchinsbókar afskriptirnar, og hefir því verið glatað úr frumriti Vilchinsbókar 1598.

CCXCVIII. Kirkjubær.

[= Kirkjubæjarmáldagi í Vestmanneyjum frá c. 1269, prentaðr í Dipl. Isl. II Nr. 23 bls. 66].

CCXCIX. Skrá um rekaskipti á Rosmhvalanesi.

[frá c. 1270, prentuð í Dipl. Isl. II Nr. 25 bls. 76—78].

CCC. Rekaskrá Skálholtsstaðar.

[frá c. 1270, prentuð í Dipl. Isl. II Nr. 24 bls. 67—72].

CCCI. Eydala máldagi.

[frá c. 1562[1]), og verðr látinn fylgja máldögum frá tímum Gísla biskups Jónssonar].

---

*301. 29. Marts 1398. á Möðruvöllum.

ÚRSKURÐR Steinmóðar officialis þorsteinssonar um mál Erlends Bergþórssonar, er setið hafði heimildarlaust á Hnúki í Skíðadal, jörð klaustrsins á Möðruvöllum, og þar með haldið ófrjálsum kúgildum klaustrsins.

JSig. 343. 8vo bl. 77—78 skr. c. 1650 (Dómabók frá Upsum). Bréf þetta er prentað áðr í III. bindi Fornbréfasafnsins sem Nr. 522 eptir fúinni og gallaðri afskript, en af því að þessi afskript, sem síðar hefir fundizt, er betri, er það nú prentað hér aptr.

Domzälit ef madur situr ä otekinne Jördu.

(Þ)at giöre eg Steinmodur prestr þorsteinsson hola kirkiu officialis (ollum monnum kunnigt) ad Anno 1398. föstudaginn fyrir palmasunnodag æ Mödruwollum j hörgardal kom æ stefnu fyrir mig sira Sueirn Magnusson j fullu vmbodi klaustursins ä Mödruvöllum og herra Pietur biskup af ejrne alfu. enn Ellendr Bergþoorsson af annare. huðrier þar lögdu vnder minn vrskurd med handabandi hvylykra suara og seckta greindur Ellendur væri skylldugur klaustrino ä Mödruvöllum fyrir þa sauk er sira Suejrn kiærdi til hanz sem var ad hann hefdi setid æ stadarins jördu otekinne ad heymilld er hnjvkur heiter og halldit þar

---

[1]) Jón Sigurðsson hefir ætlað (JSig. 377. 4to), að þessi máldagi væri frá 1589, en það mun þó ekki vera, heldr mun hann einmitt vera frá 1562.

med viij kugilldum heymilldarlaust fyrir stadnum fra næstkomande fardôgum og þar til þa var komit. Nv sakir þess ad ellendur gat ôngua votta leydtt ad sýra Sueirn hefdi bygdt honum þa Jôrd edur kugilldinn vm fyrsagdan tijma þess og annars. ad sira Sueýrn sor og fullann Bokareyd med hvijlijkum skilmâla hann hefdi Bygtt ellende adur sagda Jôrd fyrra ärid og huôrt fortak hann hefdi þar med sett. huor Bygging mier leyst eckert afl hafa ellende til neins frelsis edur asetu sagdri Jôrd. Suo og liet sira Sueirn sveria. ad hann hefdi krafid og Beydst sagdrar Jardar ad næstkomande fardôgum er var. og so kugilldanna af ellende og ofrelsad honum allt þad til äsetu og medferdar enn feingit þa ecki. So og var þar suared fyrir mier ad sira Sueirn hefdi sagt ellendi vm haustid. ad hann villdi ecki ad Ellendur Bygge leingur a sagdri Jôrd enn til næstkomandi fardaga epter. Medkendist ellendr ad hann hefdi a fyrsagdri Jordu setid sijdann fardaga og til þess nu er komit og so ad stadurinn ætte so morg kugillde hia sier sem sira Sueirn til sagdi. Þvi j guds nafne Amen seigi eg ädur skrifadur med fullum laga vrskurdi og samþýckt med râdi þeirra bestu manna er hia mier nu voru greindan Ellend sitia æ otekinne og ofrialsre Jôrdu hnjvke og setid hafa sijdann fardaga j vor. og allar þær landsnytkaner og avoxtu af henne med oheimilld haft hafa j þessum tijma ollum. sem sira Sueirn kiærdi ellend vm. og hann þar fyrir fallinn j Bann af sialfu verkinu og skylldugan ad taka lausn og skripter. hier med dæme eg ellend skylldugann ad hafa sig Burt fært fræ Jordunne hnývke. med allt sitt jnnann fimm natta hiedann j frä. Enn klaustrino a Môdruwollum dæme eg ôll þau hey til eignar og torf sem saman standa æ adurtiedre Jôrdu hnýuke og þar æ ofann lvke ellendur klaustrino .xv. merkur j sitt fullriette ad næstum fardôgum. og xij aura j landnam. og þar til averkaboot epter giord vj manna þeirra er eg þar til nefne. Jtem fyrir hey og torf þad sem hann hefur grafid og elldt skal hann enn lvka stadnum so marga peninga sem goder menn giora ad þad hafe vert verid þegar sied verdur huôrsu vijdtt ad sleigit hafe verid Jôrdinn og suo torfgrafer huad vijdar vera kunna. Skyllde þessir aller peningar vpplvkast ä hnjvke j fardôgum. med sama vrskurdi sagdi eg ellend skylldugan ad afhenda sira Sueyne ôll þau kugilldi sem hann hefdi med þeirre Jôrdu

halldit nu jnnann fyrsagdra fimm nätta heyma ad hnivke. Enn j avöxtu þar af skylldi hann lvka stadnum ad næstum fardögum veturgamlan saud epter huöria æ. og kalf af huörre kv. enn xij alner frijdar af huöriu gielldfiär kugillde. og þar til skyr. smiör og syrv og vll af mälnitunne. so micid huort vm sig sem goder menn giöra. edur og nefne til so langan tijma. sem hann hefur kugilldunum ofriälsum halldit. enn adra peninga hier fyrir ef eý er skileyrer til. dæme eg og adur nefndan sira Sueijn skylldugann ad vera kominn til hnijuks jnnann. v. nätta. þessa peninga ad medtaka. nema þeim semie hier vm annad sijn a mille. Og til sanninda hier vmm.

---

*302. 11. Júní 1398. á Hnúki í Skíðadal.

Mat sex manna útnefndra af Steinmóði officialis Þorsteinssyni á því, hve mikið Erlendr Bergþórsson væri skyldugr klaustrinu á Möðruvöllum fyrir slátt og torfskurð í Hnúksjörð í Skíðadal.

JSig. 343. 8vo, bl. 78b—79, skr. c. 1650 (Dómabók frá Upsum). Bréfið er prentað áðr í III. bindi Fornbréfasafnsins, sem Nr. 523, en eptir nokkuð gallaðri afskript. Er það því prentað hér aptr að þessi afskript, er síðan hefir fundizt, er betri.

Sv seijrne alycktun þessa mälefnis.

(Þ)at giörum vier Jon Þordarson. Jndridi Asgrimsson. eiolfur Jonsson. prestar. Pietur gunnarsson. Jon Þorgilsson og Þorsteirn Botolfsson leikmenn godum monnum kunnigt. ad æ þvi äre 1398 fymtudag j fardögum. ad Hnyuke j Skydadal vorum vier til nefnder af sira Steinmodi Þorsteinssyni Hola domkirkiu officialis ad meta virda og alijta huorsu marga peninga ellendur Bergþorsson være skylldugur klaustrino ad Mödruvöllum fyrir heý þau öll sem hann hefdi sleigit a Jördu þeirre þad fyrir farande är. og torf þau sem hann skored hefdi ä sömu Jördu. og fyrir Beýt er hann hefdi haft ä þeirre Jördu fyrnefndan tijma. fyrir huad allt eitt med ödru. ad vær giörum full .xvc. halft huort vöru. Enn fyrir averka sem hann hefur giört a sagdri Jördu giorum vær .vc. j hafnarvodum edur ödru frijdvirtu fie. Jtem fyrir vll af .xv. äm og .x. saudum viij fiordunga vllar. enn smiör af greindum äm og .iiij. kvm. giörum vær 26 fiordunga. enn skýr 39 skiolur og þar til halfa enu fiordu tunno syru. Enn ef þesse skileyrer er ecki allur

til giördum vær þar fyrir iij kugillde og ijᶜ vadmäla. og verda nu þessir peningar allir eptir vorre giörd. sem ellendur B(ergþors)s(on) er klaustrino skylldugur xj kugillde .viijᶜ· vôru og vijᶜ vadmala edur annad fie frijdvirdt. ef þesse skileyrer er ecki til.

Og til sanninda hier vmm.

---

303. **1400.**

Máldagi og landamerkjaskrá Hjallakirkju í Ölfusi.

AM. 66 A 8vo bl. 5 a—b, og er það afskript frá 1612 gerð fyrir Odd biskup Einarsson og segir hann: «Anno 1612. 19 Septembris liet eg skrifa þetta eptir maldagablade Jnsiglalausu ä Hialla i Ølvesi.» Á sama blaði hefir og verið afhending Hjallakirkju 1549, þegar Eyjólfr Jónsson afhenti Páli syni sínum. Ljósast er, að þessi máldagi sé hinn sami og Páll Eyjólfsson á Hjalla lýsti í Skálholti 22. Mai 1624 fyrir Oddi biskupi, að Hjallakirkja ætti á gamalli saungbók. Segir Páll biskupi, að hann hafi selt Gísla lögmanni Hákonarsyni «allan reka frá Máfagnípu og að Þrívörðum, því það hafi altíð verið eignað Hjallakirkju.» «Og til merkis sagde hann ad þar ä Hialla være gamall Mäldage skrifadur ä Ejnnre gamallre saungbok sem hann sagdest þad hafa epter skiled og hann hielldi grejnelega bæde vm̄ reka Hialla kyrkiu og landamerkie. Enn øngvann inusigladann maldaga sagdist hann hafa afhendt logmannenum Gijsla Hakonarsyne. Enn päll sagde ad sä mäldage sem skrifadur er ä saungbokenne ä Hialla sie so latandi ad kyrkiann ä Hialla eige allann reka j Keflavijk og fiörufar» (AM. 261. 4to bls. 101—102).

Maldage Hialla kirkiu.

Suo mikid gotz kirkiunnar ä Hialla og stadarens.

Jn primis J firstu einn gradall vondur og annar alfær.
ottusonguabok.
salltare.
vondan kirial.
einn kalekur.
ij messuklæde.
iij klukkur.
iij tinföt.
ein skaptpanna.
einn pottur.
xix kyr.
xxx asaudar.

Jtem a Hiallakirkia landed (ä) Backa frä Sandvade sionhendijng j klettinn fyrer austan backa j huerholmunum. Og þadan j þufuna fyrer austan hellrana og so j austanverdann hest.

Hier med a Hialle landed vestur j lækiarbotnalæk og j gard þann sem liggur firir utan borgarstīgenn j gŏturñar under fialled og fialled alltt gagñvartt a motz vid skog hlijdararenda enn ytra.

alla lŏnguhlijd j sanddale.

rædur þa merkium gata su er þar liggur.

a þa Hialle enn nordara partt. reykiafell og laka med.

Somuleides a Hialle hws og skipstŏdu frij j Thorlakshŏfñ. enn þeir sem j Thorlakshŏfñ bua eiga stodhrossa beit j Melsmyre.

So og a Hialla kirkia reka og fiŏrufar a Keflavijk ä motz vid nes.

datum m. cccc.[1])

## 304. 1402.

Máldagi Víðimýrarkirkju í Skagafirði.

MSteph. 27. 4to bls. 76, Svartskinna, með hendi Benedikts lögmanns Þorsteinssonar c. 1730. Á undan er Auðunarmáldagi og Ólafs máldagi Rögnvaldssonar, og er þetta úr hvorugum þeirra. Víðimýri er nú ekki í Pétrsmáldagabók. Gæti því verið, að svo stæði á, að Víðimýrarmáldagi hafði verið glataðr úr bókinni áðr en hún var afskrifuð á 17. öld (1639), og að þetta væri leifar af honum, sem stafaði frá afskript úr máldagabókinni áðr en þessi máldagi var týndr. A eptir kemr klausa í handritum úr rekaskrá Jóns skalla 1374.

Jtem i þridia mäldaga sem dateradur (er) Mcdij.

Kirkiann a vijdemyre er helgud sællreMariæ og Petre postula.

hun ä land a Hole.

viij kyr. asaudar kugillde.

Jtem hualreke og vidreke a Hualnese halfur motz vid stad.

## 305. 1415.

Skiptabréf milli fimm syskina, tveggja bræðra og þriggja systra, óvíst hverra.

Add. British Museum 11, 242 (FM. 206) 4to bl. 42 b. Syrpa sira

[1]) Hér eptir kemr í handritinu afhending Hjalla frá 1549.

Gottskálks Jónssonar í Glaumbæ skr. 1543—93. Vér þekkjum nú ekki bréfið öðruvísi en í þessu ágripi hjá séra Gottskálki.

Reiknaz svo micill partr tveggia sona oc þriggia dætra vr þrim hvndrvdum. c.

Skulu þeir hafa hver um sig tivtige hundrada oc ij^e betur oc .x. ærgilldi at avk oc ij alner voru. Enn þeim systrunum þrimr hverre þeirra fimtigi hvndrada oc eitt .c. betur. mork oc halfr eyrer betur. oskipt þrim (.c.) uoru med þeim ollum saman. anno domini ꝏ .cccc. xv skrifadiz þa þetta bref uar giort.[1])

---

## 306. 19. Janúar 1416. á Mel í Miðfirði.

Úrskurðr Rafns lögmanns Guðmundssonar um þrætu milli Þorleifs Marteinssonar og Þorleifs Árnasonar um það, hversu Guðný og Helgi börn Jóns Hákonarssonar hefði erft Víðidalstungu eptir hann.

AM. Fasc. VII, 9, frumbréfið á skinni. Innsiglin eru dottin frá. AM. dipl. afskrr. 423 (eptir frumbr.). Pappírsafskriptir nokkrar aðrar eru til af þessu bréfi.

Videdalstungubref.[2])

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia æðr heyra sendir Rafn gvðmunðzson logman norðan ok væstan a islanði kvæðiu guds ok sina kunnigt geranði at þa ær lidit war fra burd kristz þushundrut fiogr hundrut ok sextan ær a laugardagin næsta efttir festum antonii æ torfustodum j midfirdi. kuomu æ stæfnu fyrir mig þorlæifr martæinsson ok þorlæifr arnason. ok saker þæss at þorlæifur arnason hæfir bæitt mic ok kraft vrskurdar æ. huad gudnyiu jonsdottur hæfir fallit j ærfd eftir jon hakonarson faudr sinn eðr helga jonsson broðr sinn i iordunne wididalstungu ænn þorlæifur martæinsson ær aðr næfnda jord hellðr. her med logum fyrir kallaðr. hæfir þorlæifur

---

[1]) Hér neðan við stendr:

x gelldingz gærur æ havstit firir skatt.

halfur en þridie þumlungr af hueriu c. þann sitr opt upp æ domstolen ei kann at skipta sadi bland hunda.

[2]) Aptan á bréfinu með fornri hendi.

martæinsson birt fyrir mer bref wndir godra manna jnziglum at jon hakanarson hæfði wnt helga syni sinum jordina alla j vididalstungu til æignar æftir sinn dag til iafnadar vid aunnur syskin sín. enn mer litz fadir mega giora iafnadar skipti med bornum sínum samþycktu ok þæssa hans giorð med Rettum fiarskiptum logarfar aðr næfnz jons þeir sæm mæganði menn woro fyrir sig.

j annarre græin hefir þorlæifr martæinsson synt mic kaupmala bref hælga jonssonar ok margretar dottur sinnar hvert at wottar wm þeirra helmíngarfelag enn míns herra kong hakonar Rettarbot seger at frændr geri kavpmala ok hælmíngarfelag eptir þui sem þeim semur. þui at til kaullvðum þeim bæzstum monnum sæm hia mær woro ok mer samþyckivnndum. at svo profuðu sæm nu ær fyrir mig komit seger ek Rafn guðmundzson logmann j guds nafne amen med fullum laga vrskurdi. helga jonsson ætt hafa alla viðidalstungu æptir jon faudr sinn eptir þui sæm þar hafa skipti a gæingit j millum hælga ok syskina hans ok þorlæifvi martæinssyni til erfdar hafa fallit half iordin viðidalstunga. eptir margretu dottur sína. konu títth næfndz hælga enn half iordin viðidalstunnga hefir fallit gvdnyiu jonsdottur systur helga. eptir helga jonsson broðr sinn at Rettum erfdum. enn nu þorlæifi arnasyni til fullrar æignar eptir kaupi sínu sem hann hefir kæypt med suæin bergdorsson ok optnæfnda gudnyiu konu hans ok þorlæif martæinsson skyllðugann at syna fyrir fardaga med skilRijki æða vottum ath ærfingiar helga jonssonar hafi afhent honum æðr skipt honum halfri jordinne æða hvert frælsi hann hefir haft fyrir þeirræ halfre er fæll j erfð eptir helga jonsson af gudnyiu eða hennar wmbodsmanne eða auðrum erfingium helga. skal þorlæifr martæinsson leida þessi prof firir sýslumanni eda logmanni jnnan nefndz tíma. en ef hann leidir eigi þessi prof. þa skal þorleifr marteinsson luka þorlæifui arnasyni a næstum fardogum heima j wididalstungu allar landskylldir af vididalstungu med leigum ok leiguleigum þær sem hann getr eigi af battad æftir þui sem jordiñ hefir tiundut werit hundrat af huerium tiju hundrudum er j jordu liggr. skolu leigurnar wera halft huart j fridu gozi edr vfridu en jordina til skiptis a næstum fardogum ef eigi eru lagaskipti adr a hana geingit.

Ok til sannennda hær wm setta ek mitt jnsigli fyrir þetta

wrskurdarbref gert a mel j midfirdi a sama ꜵ́ri degi sidar enn fyr segir.[1])

---

## 307. 13. August 1416. að Helgafelli.

Prófentusamningr þeirra Vermundar ábóta á Helgafelli og Árna Helgasonar, og gefr Árni með sér til klaustrsins jarðirnar Látr í Aðalvík og Höfða í Grunnavík og tólf kúgildi.

AM. Fasc. VII, 12, frumbréfið á skinni. Fimm innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en þau eru nú öll dottin frá. AM. dipl. afskrr. 1661 (eptir frumbr.)

vm latr j adalvik.[2])

Jn nomine domini amen.

var þetta kaup þeira herra vermundar med guds nad abota ath helgafelli med samþykki conventobrædra ok arna helgasonar. ath nefndr arni gefr klaustrino ath helgafelli til fullrar eignar fimtigi hundrada med þessum fridleika. jord a latrum j adalvik fyrir þria tigi hundrada ok þar til adra jord er heitir ad hofda fyrir atta hundrut er stendr j grunnavikrþingum ok þar til tolf kugilldi atta med latrum enn fiogr med hôfda. gefur hann þessa peninga klaustrino j sína profento. her j mot skilr adr greindr

---

[1]) Á blaði hjá afskript þeirri af bréfinu, er Árni hefir látið gera, hefir hann ritað þessa ættartölu:




En samkvæmt dómi Rafns lögmanns frá 22. Dec. 1427 er þetta þó ekki allskostar rétt rakið. Ólafr staði var Marteinsson og bróðir Þorleifs. Dætr hans hétu Þuríðr og Solveig og Sveinn maðr Þuríðar er þar nefndr Bjarnason.

[2]) Aptan á bréfinu; þar stendr og: »Brief vm lꜵ́tur i adalvijk.«.

arni ser af klaustrino æuenliga sæmeligan kost sem adrer profentomenn hafa þeir sem vidrlika peninga hafa gefith ok þionosto ok tuitoga vod til kklæda[1]) ser arliga. hann skal hafa sæng til klaustr(s)ins en klaustrid skal hallda henni sidan ok eignazst eftir hans dag. skal þratt nefndr arni koma j profento sína þegar hann vill en klaustrid skal eignazst alla þessa peninga vpp þadan. hefir ok þrattnefndr arni mer ok klaustrino þessa adr greinda peninga lukt ok afhent suo mer vel anægir. þuí gerir ek títtnefndan arna j þesso sama profentobrefi ollungis kuíttan vm adr greinda profento fyrir mer ok ollum mínum eptir komandum klaustur(s)ins vmbodsmonnum. samþickti ok virdoligr herra herra arni med guds nad biskup j skalhollti þessa profento giof med handabandi stodugliga ok ohræriliga fyrir ser ok sínum eftirkomandum. for þetta profentokaup fram j stora[1]) stofunni ath helgafelli þessum kaupuottum hia verondom lopti gutthormssyni gunari gudmundarsyni joni þorgilssyni ok gizsuri Runolfssyni ok morgum odrum godum monnum.

Ok til saninda her (vm) setto þessir fyrnefndir menn sín jnsigli med convento brædra jnsigli fyrir þetta bref gert ath helgafelli idus augusti anno domini m°cd° sexto dicimo.

---

## 308. 13. August 1416. í Reykholti.

Árni Ólafsson biskup í Skálholti fær Halli Þorgrímssyni jörðina Hof í Vatnsdal og Eyfre-Tungu í Vatnsdal til fullrar eignar og kvittar hann fyrir andvirði jarðanna, en jarðirnar hafði Árni biskup feingið hjá þeim hjónum Styr Snorrasyni og Þuríði Jónsdóttur.

AM. dipl. afskrr. Nr. 754, «Ex originali», með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna. «Brefed er ä kalfskinn, og er orded miög blackt, enn þo allt med giætne læsilegt. Jnnsigle eru oll j burt, enn epter þrir þveinger, hafa og ecke Jnnsigle fleire vered.» Bréfið var á Hofi í Vatnsdal 1729.

Wær arne med gudz naadh biskup j skalholti gerom ollum godum monnum viturligt oc kunnikt med þesso varo opno brefe ath wer hafum fengit halli þorgrímssyni jordhina hof j vatsdaal sæm er sextigi hundrada jordh at fornu oc eyfre tungu sæm er tuttugu hundrada jordh ath fornu er oc liggr i uatzsdaal adr

[1]) þannig.

greindum medr ollum þeim goghnum oc gædhum sæm huorre þæira vm sigh hafuer fylgt ath fornu oc nyiu honum oc hans ærfvingium til æuenligrar æignar. oc freals forrædis fraa oss oc vorum ærfvingium þessar[1]) jardær sæm ecki koma vidr æign kirkiunar j skalholti. sæm styr snorrason oc þurídr jonsdotter kona hans fengu oss sialfuom til auenligrar[2]) æignar af ath gera huat oss likadi. hefuer sagdur hallr lokit oss huern peningh heilan oc halfan suo sæm oss uel anæger firir sagdar jarder af þui sæm i okart kaup kom þij firirbiodum vier hueriom manne lærdum sæm læikum hindra edr talma edr akæra sagdar jorder[2]) firir greindum halli vtan med retto. Oc til sanenda her vm oc meiri stadfesto setto ver uortt jnsigle oc hallr olafsson oc audun salomonsson er hia uoru ath sogdh hion styr snorrason oc þuridr jonsdotter handlagdo oss sagdar jorder[2]) til æuenligrar æignar af ath gera huat oss likadi þy setto þæir sín jnsigli med voru fur þetta bref ær gert var j Reykholti i borgarfyrdi fimtadag nesta firir marie messo fyrri anno ꝏ⁰ cd⁰ sexto decimo.

---

## 309. 25. December 1416. á Hofi á Höfðaströnd.

Þórðr Örnólfsson afhendir Finni Gamlasyni í umboði Valgerðar Vilhjálmsdóttur konu hans, jarðirnar Barð í Fljótum, Reyki, Grilli, Steinavöllu, Illugastaði, Nes, Yztamó, Móskóga og Laugaland.

AM. Fasc. VII, 10, frumbréfið á skinni, og eru bæði innsiglin fyrir bréfinu. AM. dipl. afskrr. 295 (eptir transskr. frá 1487). Bréf þetta er víða til í pappírsafskriptum.

laugaland og bard.[3])

Mote þessu brefe hlyder vrskurdur Hrafns gudmundzsonar lögmans. hann vrskurdar magnuse fra þessum finne gamlasyne jordina Bard. Dat. j vrskurdi Hrafns er 1417 þridiudaginn fyrir Jonsmessu.[3])

Þat gerir eg jon ketilsson og elldiarn stufsson godum monnum kunnigt med þessu ockru brefi at þar voro ver j hia

---

[1]) þriar, afskr.; [2]) Svo; [3]) Aptan á bréfinu með hendi frá 16. öld; [3]) þessi klausa er aptan á bréfinu og er með hendi Guðbrands biskup.

saum og heyrdum a þat er þordr ornnolfsson afhennti finne gamlasyni j umbodi ualgerdar vilhialmsdottur konu hans iardir þessar er suo heita. bard j fliotum og þar med reyki og grilli steinauollu og illugastadi nes og yzstamo moskoga og laugaland og þar med allan halfann rekann fyrir litla backa huals og uidar og flutninga merkigardana a milli laugalandz og stærra backa liggia þessar allar jardir j bardz kirkiu sokn sagdiz hann eigi uita annat sannara en þessar greindar jardir hafi fallit j erfd eptir margretu þoruallzdottur fyr nefndri ualgerdi. Og til sannenda hier um settu vid fyr nefndir menn ockur jnsigli fyrir þetta bref er gert var a hofi a hofdastrond in natiuitas domini anno domini ꟍ° cð° sexto decimo.

---

**310. 26. Febrúar 1417. á Grund í Eyjafirði.**

Loptr Guttormsson og þrír menn aðrir transskríbera testamentisbréf Haldórs prests Loptssonar.

AM. Fasc. VI, 14, frumtransskriptið á skinni; öll innsiglin eru dottin frá. Prentað í Tímariti Jóns Pétrssonar IV, 76, 80. AM. dipl. afskrr. 625.

Aullum monnum þeim sæm þetta bref sia edr heyra senda lopthr Gutthormsson magnus jonsson sigurdr jonsson þoruardr æinarsson kuediu guds ok sína kunnigt gerandi. a grund j eyiafirdæ sæm wær ok ýfer læsum testamentum bref halldors prestz lopthzsonar sua latanda ord eptir ord sem her segir.

[Hér kemr sálugjafabréfið frá 8. December 1403, Dipl. Isl. III, 573].

ok til mæire sanninda her vm settum vær fýrr nefnder (menn) vor jnzsiglæ firir þetta transkripta bref gert a grund j eyiafirde faustudagin næsta eptir matthias ꟍesso. anno domini ꟍ°. cð°. septo[1]) decimo.[2])

---

**311. 6. Marts 1417. á Seltjarnarnesi.**

Árni Ólafsson biskup í Skálholti vottar, að hann hafi séð bréf Gríms lögmanns Þorsteinssonar [frá 1346, Dipl. Isl. II, 514] með heilu innsigli, og staðfestir bréf Jóns biskups frá 21. Júlí 1413 [Dipl. Isl. III, 626].

---

[1]) mun vera misskrifað fyrir: septimo; [2]) Efst á spássíu transskriptarbréfsins stendr þetta með samtíða ef ekki sömu hendi: »arne minn havskavlldzson haf þu«.

AM. 238. 4to bl. 36 skr. 1570—80 (í transskr. frá 1475); AM. 65. 8vo (eptir 238); AM. dipl. afskrr. Nr. 1792 (eptir 238).

Vær herra Arne með gvðz nað biskup j skalholltti giorvm goðvm monnum kvnnigtt með þessv voro brefi at þetta bref herra grims þosteinssonar riddara sem hier er með bvndit sa eg og yfer las viður hans heilv og oskoddv hanganda ínsiglle þott þat sie nv fyrer farið og hier epter villivm vier sveria ef þvrfa þýcker og hier með eigi siðvr samþyckvvm vær bref herra jons biskups sem hier er með bvndit með ollvm sínvm greinvm og articvlis [myndu]gtt j alla stade. Og til sannenda hier vm settvm vær vortt ínsigle fyrer þetta bref er giortt var æ seltíornnarnese lavgarðaginn næsta fýrer gregorívs messv Anno domini m cd xvij ar.

---

## 312. 12. Maí 1417. í Skálholti.

Samningr og sáttargerð þeirra Árna Skálholtsbiskups, Lopts bónda Guttormssonar og Halls Ólafssonar, og kvittaði Loptr Hall um meðferð á peningum Ingibjargar Pálsdóttur konu sinnar, er hann hafði haft umboð á þeim, en Árni biskup lauk fyrir Hall hundrað hundraða, og var þar í jörðin Staðarhóll.

AM. Fasc. VII, 18, frumbréfið á skinni. Sex innsigli hafa verið fyrir því, en þau eru öll dottin frá. AM. dipl. afskrr. 1449 (eptir frbr.).

Aullum monnum þeim sæm þetta bref sia æðr hæýra sænða þorkell magnusson gæirmunðr heriulfsson pall halldorsson. gunnar annðresson þorkell gautzson ok grimr ægilsson kuæðiu guðs ok sína kunnigt geranði ath þar vorum wer j hia sægum ok hæýrðum vpp æ ath þeir toku hondum saman hæidrligr herra herra arne mæðr guðs næð biskup j skælholti. loptr bonði guthormsson ok hallr olafsson. skilðizt þat vnðir þeirra handaband ath þeir loptr ok hallr skylldu ælsattum sattir vm allan þann peninga ræikning sæm þeirra hafdi j millum farit. suo æi siðr vm þa medferd hallr hafdi haft æ godzi jngibiargar palsdottur konu loptz þa hann hafdi hennar vmbod ath þeim jordum vndanskildum sæm nefndri jngibiorgu palsdottur fiell j ærfð ath helmingi vith Ragnhilldi systur sina eptir flosa þordarson ok hallr lofuadi nu framlæidis ath afhænda lopti bonda suo honum vel ænægdi ædr hans vmbodsmanni æ næstum

farðogum. Hær til lukti biskup arne lopti bonða hundrað hunðraða a vegna hallz olafssonar var þar vt j jordin half ath staðarholi j saurbæ firir sextigi hunðraða medr þuilikum gognum ok giæðum sæm þeirri jorðu fylgir ok fylgt hæfvir ath fornu ok nyiu ok biskup arne vard fremzst æigandi ath. æn aðra sextigi hunðraða skylldi loptr bondi taka nærr sialfum sier j suo mæta ath biskup arne giordi hann kuittan ok ækiærulausan firir þa peninga sæm hann var kongdominum skylldugr j ræikningskap a vegna jnngibiargar konu sinnar firir þat hirdstiornar vmbod sæm pall þoruardzson fadir jngibiargar hafdi yfuir allt jslanð af vigfusi jfuarssyni ok æenn her til æru loptr ok hallr huor vm sik skylldugir biskupi arna sex tigi hundraða j aðr græindann Reikninngskap. Ok til sannenða hær vmm settum wer fyrnefnðir menn vor jnnzsigli firir þetta bref gert j skalholti miduikudagh næsta firir halluarðzvoku. anno domini ᴍ⁰ cð⁰ decimo septimo.

jtem j annare græin gerði loptr bondi hall olafsson jafn vel kuittan vm medferd jarda ok kugillða ær fiellu j erfd eftir flosa þordarson jngibiorgu palsdottur sæm vm allt annat goðz þat hallr hafdi med farit hennar vegna þott þat sie glæymt j brefinu samþyckium ver þetta allir saman.[1])

---

## 313. 18. Mai 1417. á Gilsbakka.

Sex menn votta, að Þorkell Magnússon handlagði Árna biskupi Ólafssyni jörðina Bakka í Bæjarþingum í Borgarfirði, og að Kolbeinn Þorgilsson handlagði biskupi jörðina Þingnes til æfinlegrar eignar.

AM. Fasc. VII, 19, frumbréfið á skinni. Öll innsiglin eru dottin frá.

Um Backa i Bæiarþingum og Þingnes.[2])

Ollum monnum þeim sem þetta bref sea edr heyra senða auðun salomonsson. þorsteinn olafsson. snorre torfason. helge

---

[1]) þessi viðbót er með sömu hendi og bréfið; [2]) Aptan á bréfinu með hendi Árna. Á lausum miða segir Árni: »Backe þesse mun vera Backakot, Bæiarkirkiu eign. Þingnes er nu bonda eign«.

guttþormsson. pall halldors(son) ok þorarinn gizurarson. kuediu guds ok sina kunnegth gerandi at vær worum þar j hia sagum ok heyrdum æ handaband þeirra af einne halfu herra arna med guðs nadh biskups j skalhollti ok af annarre þorkels magnussonar. skilldizst þat undir þeirra handa bandi at nefndr þorkell handlagdi fyrr saugdum biskup arna jördina æ backa er liggr j bæiar þingum med öllum þeim gognum ok gæðum sem greindri jördu fylgir ok fylgt hefir at fornu ok nyiu ok hann vard fremzst eigandi at.

Jtem j annarre grein vórum vær j hia sagum ok heyrdum æ ath kolbeinn þorgylsson handlagði nefndum biskup arna jördina j þingnesi til ęfinlegrar eignar med þeim öllum gögnum ok gædum sem henne fylgir ok fylgt hefuir at fornu ok nyiu ok hann vard fremzst eigandi ath.

Ok til sannenda her vm settum vær vor jnzsigli fyrir þetta bref skrifuat a gylsbacka þridia dagh næsta fyrir vppstigningar dag. anno domini ꝏ° cð° decimo septimo.

---

314. 31. Maí 1417. á Hólum.

SVEINN Hallvarðsson selr Árna biskupi Ólafssyni, með samþykki Ástríðar Jörundardóttur konu sinnar, jarðirnar Borg og Ýrafell í Tungusveit, en Árni biskup selr honum á mót Ríp í Hegranesi og þar með tíu kúgilldi (sbr. bréf 1. Júní 1417, Nr. 316).

AM. Fasc. VII, 15, frumbréfið á skinni. Sjö innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en nú eru að eins eptir brot af fjórum.

bref vm borg ok yrarfell j skagafirdi.[1])

Ollum monnum þeim sem þetta bref sea eðr heyra senða olafr arnason. þorkell þorðarson prestar arne guðbiartzson finnr gamlason. biarne ottarsson. gunnarr biarnarson ok grimr egilsson kuediu guds ok sína kunnegth geranði ath wær worum þar j hia sagum ok heyrðum æ hanðabanð þeirra af einne halfu ærligs herra ok anðaligs föður herra arna med guðs nædh biskups j skælhollte ok af annarre halfu sueins halluardzsonar ok hans kuinnu astrídar jörunðardottur. falst þath ok skildizst

[1]) Aptan á bréfinu.

wndir þeirra handabanði ath nefndr sueinn med samþýcki kuinnu sinnar selldi nefndum biskup arna tuær jarder er suo heita borg ok yrafell er lig(g)ia j tungusueit j skagafirde med öllum þeim gögnum ok gædum sem greindum jördum fýlgir ok fýlgt hefir at fornu ok nýiu ok hann ward fremzst eiganði ath. wndan ser ok sínum erfingium enn nefndum biskup arna til æfinlegrar eignar ok hans eftirkomendum. Skal nefnðr biskup arne greinðar jarðer hafua fýrir fimtigi hundrata. Her j moth selr hann nefndum sueine sína jörd er heitir æ Ríp er liggr j hegranesi j skagafirðe. med öllum þeim gögnum ok gædum sem þeirri jörd fýlgir ok fýlgt hefir at fornu ok nýiu ok hann ward fremzst eigandi ath fyrir fioratigi hunðrata ok þar til tíu kugillðe nefndum sueini til æfinlegrar eignar ok frials forrædis. ok hans erfíngium. Skal aðr nefndr biskup arne suara lagaʀiptíngum a sinne jörd enn nefnðr sueinn hallda til laga.

jtem skýlldi nefnðr sueinn suara lagaʀiptíngum a sínum jördum enn adr nefndr biskup arne hallda til laga.

Ok til sannenda her wm settum wær wort jnzsigle fýrir þetta bref skrifuat æ holum j hialltadal mannadaghinn j huítasunnu wiku anno domini ꝏ° cð° decimo septimo.

---

## 315. 31. Maí 1417. á Hólum.

Árni Ólafsson Skálholtsbiskup og umboðsmaðr heilagrar Hólakirkju tekr Ástríði Jörundardóttur í prófentu upp á Hólastað með samþykki Sveins Hallvarðssonar bónda hennar, og gefr hún með sér jörðina Vallholt í Skagafirði fyrir fjörutíu og fjögur hundruð.

AM. Fasc. VII, 16, frumbréfið á skinni. Innsiglin eru dottin frá.

bref (vm) walhollt.[1])

Wær arne með guðs næðh biskup j skalhollte ok wmboðsmann heilagrar holakirkiu gerum goðum monnum witrligth með þessu woru brefue ath wær höfum tekit astríði jörundardottur

---

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi.

til æfuinlegrar profentu konu wpp a holastað j suo mata ath hun gefr með sampÿcki sueins halluarðzsonar bonða síns wallhollt er liggr j skagafirðe fÿrer fiögur hundrut ok fioratigi. ok þar til sextan kugillde. Skulum wær greinða jörð gefa mega eðr selia huerium sem oss lystir enn gefa staðnum aptr aðra sextigi hundrata j profentu fÿrer greinða astríðe. Skal hun hafua hws a staðnum síðan hun kemr j profentuna. þau sem köllud eru ómaga hws. hun skal hafua sæng ok kistu til stadarins. skal staðrinn hallða sænginne línlaka lausre wm hennar daga. enn eignazt huorttueggia eftir hennar dagh. hun skal ok hafua tuítuga wodh a hueriu are síðan hun kemr ok par skoo. ok lika bordhallð sem aðrir profentumenn þeir sem wiðrlika penínga gefua. jtem skal hun hafua fiórar alnar lerepth a hueriu ære. hun skal ok frialslega hafua ser þiónostu konu a staðnum j suo mæta ath hun skal sialf leggia kost fÿrir hana. Ok til sannenða her wm settum wær worth jnzsigle ok nefnðr sueinn sith jnzsigle fÿrer þetta bref skrifuat a holum j hialltaðal manaðagin j huítasunnu wiku. anno domini. ᴍ⁰. cd⁰. decimo septimo.

---

## 316. 1. Júní 1417. á Hólum.

Árni biskup Ólafsson selr Sveini Hallvarðssyni jörðina Ríp í Hegranesi fyrir jarðirnar Borg og Ýrafell í Tungusveit, og geldr biskup Sveini upp í mismun tíu kúgildi.

AM. Fasc. VII, 21, frumbréfið á skinni. Innsiglin eru dottin frá, en annar innsiglisþveingrinn er fyrir, og er á hann ritað upphaf annars frumrits af þessu bréfi.

Þetta bref og annad til. her vitne ad anno 1417. hefur biskup Arne verid a holum. oc kann vera þar vtgiefid ku(i)ttan honum brandi. þvi at liklegt er hann hafe Rijdit hingat arliga til hola. Datum j vrskurde hrafns. er 1417 þridiudaginn næstan fyrir Jonsmesso. þvi er hier af augliost. hafe biskup arne giefit þa kuittan anno 1417 þa hann var a holum. þa er su kuittan elldre. enn vrskurdur hrafns og kaup brandz a bardi.[1])

Vær arne med guðz nadh biskup j skalholte gerum goðum monnum witrligth med þessu woru brefe ath wær höfum sellt

[1]) Aptan á bréfinu með hendi Guðbrands biskups.

sueine hallvarðzsyne[1]) wora jôrð er heitir Ríp ok liggr j hegranesi j skagafirðe med ôllum þeim gôgnum ok gædum sem henne fylger ok fylgt hefir at fornu ok nyiu ok wær wrdum fremzst eiganðe ath. Skulum wær suara lagariptingh æ jôrðenne enn hann hallda til laga. Her j móti fær hann oss tuær jarðer er suo heita. borg ok yrafell er liggia j tungu sueit j skagafirðe með ôllum þeim gôgnum ok gædum sem þeim jôrðum fylger ok fylgt hefir ath fôrnu ok nyiu ok hann warð fremzst eiganði ath. Sellði hann oss greindar jardir wnðan ser ok sínum erfingium. enn oss til æfinnlegrar eignar ok wórum eptir komendum. Skylldi hann suara laga Riptingum a sínum jôrðum enn wær hallða til laga.

jtem j annarre grein fyrir þat er hans jardir woru betri enn wor jôrð skylldum wær fæ honum tíu kugillðe.

Ok til sannenða her vm settum wær wort jnzsigle ok nefnðr sueinn sitt jnzsigle fyrir þetta bref skrifuat æ holum j hialltadal tyrsdaginn j huíta sunnu wiku. anno domini. ꝏ°. cð°. decimo septimo.

---

## 317. 6. Júni 1417. í Krossavík.

Járngerðr Ormsdóttir selr Gunnlaugi Guðmundssyni jarðirnar Torfastaði og Skálanes nyrðra í Vopnafirði, hvora um sig fyrir hálfan þriðja tug hundraða, en hann geldr í lausafé, og tilgreinir hún ítök jarðanna og hlunnindi.

AM. 273. Fol., bréfabók Brynjólfs biskups XII, 100, með hendi Odds skólameistara Eyjólfssonar eptir transskripti frá 6. Maí 1457.

Bréf um Torfastaði og nyrðra Skálanes í Vopnafirði.

Öllum mönnum þeim, sem þetta bréf sjá eður heyra senda Erlindur Pétursson, Jón Magnússon, Eyjólfur Mánason, Magnús Tjörvason, Andrés Þorkelsson, Ólafur Skæringsson kveðju guðs og sína, kunnugt gerandi, að þá liðit var frá hingaðburð vors herra Jesu Christi 1417 ár, trinitatis sunnudag í Krossavík ytri í Vopnafirði vorum vér í hjá, sáum og heyrðum á handaband þeirra af einni álfu Gunnlaugs Guðmundssonar, en annari

[1]) Hingað má lesa á innsiglisþveinginn.

Járngerðar Ormsdóttur með þeim skilmála, að Járngerður seldi Gunnlaugi jarðir þær, er svo heita, hálfa Torfastaði í Vestradal og hálft Skálanes, hvort um sig fyrir hálfan þriðja tug hundraða tíundarvirt, með öllum þeim gögnum og gæðum, sem þessum jörðum hafa fylgt að fornu og nýju, að tilreiknuðum torfskurð í Ljótzstaða jörð, hálfur hvalreki og viðreki fyrir Ljósalandi, viðarteigur í Núpsmó hinn syðra, stillisveiði á Gnípssandi og í Ós alla selveiði.

Kendist nefnd Járngerður að Gunnlaugur hefði lukt henni hér fyrir vj° í vaðmálum, fjögur kúgildi, þrjár stikur klæðis og ketil.

Jtem fjögur kúgildi bænhúsinu á Torfastöðum. Skildi hún af sér fyrnd á þeim, en Gunnlaugur skyldi eiga sókn að þeim, sem á hefði búið jörðunum ólögliga, eða bænhúsið hefði eigi feingið sínar skyldur af þeim.

Jtem þrjár kýr Eyjólfi Mánasyni og tvö naut tvævetur, en þau sjö hundruð, sem þá standa eptir, skyldi Gunnlaugur lúka í fríðum peningum og ófríðum, þeim sem honum hentaði vel að lúka, en henni að taka, og lúka aungva fémissu af til næstu fardaga.

Skyldi nefnd Járngerður svara lagariptingum á áðurnefndum jörðum, en Gunnlaugur halda til laga. Skildi Gunnlaugur sér aptur svo marga peninga og svo fríða, sem hann lyki fyrir og viðurlíkum saladögum. Léti Gunnlaugur bæta jarðirnar, þá skyldi hann hafa þar fulla peninga fyrir ef jarðirnar riptist. Gekk Gunnlaugur í borgun að lúka þau fjögur kúgildi, sem hér standa skrifuð, bænhúsinu.

Og til sanninda hér um settum vér fyrrnefndir menn vor innsigli fyrir þetta bréf gert í stað, degi og ári sem fyrr segir.

## 318. 22. Júní 1417. á Hólum.

Rafn lögmaðr Guðmundsson úrskurðar Finn Gamlason skyldugan að afhenda Magnúsi presti Böðvarssyni jörðina Barð í Fljótum til fullrar eignar.

AM. Fasc. VII, 13, frumbréfið á skinni. Sex innsigli hafa verið fyrir því, en þau eru nú öll dottin frá. Pappírsafskriptir af bréfinu eru nokkrar til. Elzt þeirra er afskript Guðbrands biskups

í syrpu hans í AM. 242 A. 4to bls. 467—72, 475. Í IBfél. 67. 4to bl. 47 (Iclis) er ártal «MCDLxx og eitt».

vrskurdur hrafns logmans vm bard sijra magnuse til handa[1].

Ollum monnum sendir hrafn gudmundsson logman nordan oc vestan a islande q(uediu) gudz oc sijna kunnugt giorande ad þa er lidit var fra hingad burde vorss herra jesu christi m cd oc xvij ar a þridiu dæginn næstan firir ionsmesso baptistę kom æ stefnu fyrir mic æ holum i hialtadal magnus prestur boduarsson og[2]) finnur gamlason. Kiærde adur nefndur magnus epter barde i fliotum eignarhlutanum. Liet titt nefndur magnus sveria ad þora magnusdotter moder hans hefde lyfat svein magnusson broder sinn.

item i Annare grein var þar suarid ad Rannueg moder sveins hefde profentad sig til adurnefn(d)s sveins oc giefid med sier eignarhlutan i barde i fliotum med samþycke sona sinna magnus press og halls press. Afhendu og fyrrnefnder prestar sijra sveine broder sijnum titt nefnda iord. atte oc sveinn buskap æ greindre iordu þa ed hann deyge.[2]) var og eii sijdur suarin lysing ranvegar oc sveins um nefnda profentu. enn mier lyst sem þora hafe erft svein broder sinn enn nefndur sijra magnus moder sijna þoru. Krafde adur greindur sijra magnus mic urskurdar a. hvert afl hafa skillde þesse hans profaleidsla.

Nu saker þess ad svarin var eign sveins vpp a jordune og[2]) hans buskapur stod þar æ. og[2]) arfurinn hefur so fallid sem adur hefe eg[2]) greint: Þvi at til kolludum þeim bestu monnum sem hia mier voru og[2]) mier samþyckundum og[2]) ad so profudu sem þa kom firir mig sagde eg[2]) i gudz nafne amen med fullum laga urskurde adurnefndum magnuse preste til hallds og[2]) eignar iordina bard i fliotum. þar til sem annar leidde sig til þann sem framar stendur edur iafnframt erfdum og[2]) adurnefndan finn skylldugan at afenda innann halfs manadar fyrr nefnda iord sijra magnuse bodvarssyne og[2]) sveria eineide ad hann hugde þat sinnar konu eign og[2]) erfd oc vera þar med kvittur um medferd æ jordinne enn ef hann sværi ei þa skyllde hann luka land-skylld af iordunne so leinge sem hann hefde a buit.

Og til sanninda hier um et cetera.

[1]) Aptan á bréfi, að því, er virðist, með hendi Guðbrands biskups;
[2]) þannig, frbr.

319. 30. Agúst 1417. á Höfða á Höfðaströnd.

HALDÓRA Broddadóttir, Brandr Brandsson og Ingimundr Sighvatsson selja Jóni Þorvaldssyni vasa jörðina Laugaland í Fljótum.

AM. Fasc. VII, 17, frumbréfið á skinni. Bæði innsiglin eru fyrir bréfinu. Bréfið er með sömu hendi og Nr. 327, og mun það vera hönd Stúfs Haldórssonar.

vm laugalandt i fliotum.[1])

Þat gerir eg jon ketelsson og stufur halldorsson godum monnum kunnigt med þessu ockru brefi at þar voro vid j hia saum og heyrdum a at þau toku hondum saman jon af einni alfu þoruallzson vasa og halldora broddadotter og brandr brandszson og jngimundr siguaszson at þau selldu jordina a laugalandi j fliotum er liggur j bardsz kirkiu sokn fyr nefndum jone til fullrar eignar fra sier og sinum erfingium (og) eptirkomendum fyrer .xx. hundrud rettlukt j ollum peningum og voro þar giord fim hundrud þegar af þessu iardar uerdinu undir eyiolfi loptzsyni. skylldi berþor biarnarson eignasz þessa penninga fyrer þa peninga er hann atti undir þorkatli bonda hennar.

jtem j annare grein voru lukt avnnur fim hundrud j uadmalum smiori og slatre[2]) brandi brandzsyni og jngimundi siguaszsyni j fyr greint jardar uerd.

Og til sannenda hier um settu uid fyr nefndir menn ockur jnsigli fyrer þetta bref skrifat a haufda a haufdastrond manudagin næstan epter bartholomei apostoli þa lidit var fra higat burd vors herra iehsv christi þusund þriu hundrud ellefutigir og sio ær.

---

320. 1417. á Grund í Eyjafirði.

INGIBJÖRG Loptsdóttir handleggr Magnúsi Jónssyni og Inguni konu hans hálfa Grund í Eyjafirði, Dvergstaði, Eyrarland, Kotá, Hrafnstaði í Kræklingahlíð, Snartastaði í Gnúpasveit og Leirhöfn á Grjótnesi upp í þá peninga, er Ingibjörg hafði tekið að sér og Inguni höfðu fallið til erfða.

---

[1]) Aptan á bréfinu; þar stendr og: »lauga land j fliotum«;
[2]) slat', frbr.

AM. Fasc. VII, 20, frumbréfið á skinni. Átta innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en nú er að eins eptir innsigli síra Kálfs og Lopts, og eru þó bæði bráknð. Bréf þetta virðist vera með sömu hendi og AM. Fasc. IX, 21, frá 1. Okt. 1432, og af því að Höskuldr Runólfsson er með að gefa út bæði bréfin, en eingir hinna, er það líklega hans hönd, sem á bréfum þessum er.

Grund. Duergstade. Eyrarland. Kotaa. Raffnstadi j Kræklijngahlijd. Snartastade og Leirhoffn ahræraude.[1])

Þeim godum monnum sæm þetta bref siæ ædr hæyra senda kalfr prestr jonsson. lopthr guthormsson. hauskaulldr Runolfsson hælge biarnarson. Runolfr jonsson. biorn nikolæsson kuædiu guds ok sina kunnigt gærandæ ath þa ær lidit war fra hingat burd vars herra jehsu christi þushundrat fiogur hundrat ara ok siautian æR. æ grund j æÿiafirdæ voru vær j hia sæm ok heÿrdum æ handaband jngibiargar lopzdottr af æinnæ hælfu ok magnus jonssonar ok jngunnar konu hans af annaræ at sua firir skildu at fÿrr nefnd jngibiörg handlagdi adr greindum monnum magnuse ok jngunnæ þessar jarder til fullrar æignar halfa grund j æÿiafirdæ. duergstadi. eÿrarland. kotæ. hrafnstader j krækliugahlid. snartastader j gnupasueit ok her til tiu kugilldæ. skÿlldu þau þessar jardir eiga ok medtaka æ næstum fardaugum med aullum þeim gaugnum ok gædum sæm þæssum jördum hefer fÿlgt at fornu ok nÿiu ok hun vard fremst æigandæ ath enn jordina læirhaufn æ griotnesi æfter sinn dagh til fullrar æignar. ænn hier j mot handlaugdu fÿrr nefnder menn magnus ok jngunn titt næfnda jngibiörgu kuitta ok liduga firir sier ok sinum epterkomendum wm alla þa peninga sem hun hefer at sier tekit ok vt lated fasta ok lausa frida ok vfrida ok jngunnæ hefer til erfda fallit ok aull þau skiptæ lauglig hallda sæm hun hæfer skipt edr skipta lætid jarder ædr lausa godz j burtu fæinngit. Ok til mæ(i)ræ stadfestu hier wm setti jngibiorg loptzdottir ok magnus jonsson sin jnziglæ med varum jnzsiglum firir þetta bref gert j sama stad sæm fÿrr segir.

---

## 321. 1417.

Bréfságrip um Arney á Breiðafirði.

AMagn. 252. 4to bls. 53, skr. c. 1660; AM. 430. 4to c. 1730 (séra Jón í Hítardal); AM. dipl. afskrr. Nr. 1570.

---

[1]) Aptan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

Arney.[1])

Lofftur[2]) Guttormsson sellde klǒstrinu a Helgafelle Jǒrdina Arney[1]) og gaff kuijtt anduirded Anno 1417.

---

322. 1. Júlí 1418. á Þingvelli.

Árni biskup í Skálholti, umboðsmaðr heilagrar Hólakirkju, visitator og hirðstjóri yfir alt Ísland, selr Guðina bónda Oddssyni jörð sína Hamraenda, en Guðini selr honum jörðina Snóksdal, er báðar liggja í Breiðafjarðardölum.

AM. dipl. afskrr. Nr. 1432, auðsjáanlega eptir frumriti.

Wær arne med guðs nædh biskup j skalhollte oc vmboðsman heilagrar hola kirkiu visitator oc hirdstiore ýfer allt jsland gerum godum monnum viturligt med þessu voru opnu brefi at vær hǒfum sellt gudina bonda odzsyni vora jǒrd er heiter hamraendar oc liggia j breidafiardardǒlum med ollum þeim gǒgnum oc gædum sem henne fýlger oc fýlgt hefer at fornu oc nýiu oc vær vrdum fremzst eigande at. honum oc hans erfingium til æfinlegrar eignar oc frials forrædis oc vndan oss oc aullum vorum erfingium oc efterkomandum. gaf[3]) greinda jǒrd kirkiunne j hiardarhollti sira jon langr. hier j mot seldi guðine bondi oss sína jǒrd er heiter snoksdalr oc liggr j breidafiardardǒlum oc fýlger . . . . . .[4]) med ǒllum þeim gǒgnum oc gædum sem henne fýlger oc fýlgt hefer at fornu oc nýiu oc hann vard fremzst eigandi ath oss oc vorum erfingium til alldrs oc odals oc æfinlegrar eignar enn vndan sier oc sínum erfingium huat af at gera sem oss lýsti. skulum vær suara laga riftingum a vorre jǒrdu. enn gudine bondæ hallda til laga. jtem skal gudine bonde suara riptingum a þeirre jord sem hann oss selldi enn vær hallda til laga. Oc til sannenda her vm settum vær vort

---

[1]) Korney(!) 430; [2]) Fyrst hefir verið skrifað Lofftur, en það svo strykað út, og skrifað Leyffur, sem líklega er rangt; 430 hefir Liefur(!); [3]) þetta orð er hér sett að ágizkan, því að í afskriptinni hefir gleymzt eitthvað úr, og getr verið að sama gleymzka hafi orðið í frumritinu; [4]) eyða í afskr. fyrir svo sem ²/₃ úr línu, og er eins og eitthvað hafi ekki orðið lesið í frumritinu.

jnzsigle firir þetta bref skrifuat a þinguelle jn octaua sancti johannis baptiste anno domini ꝏ°. cd°. xviij°.

---

## 323. 11. Júlí 1418. í Vatnsfirði.

**Þorleifr** Árnason kaupir af Þorsteini Sigurðarsyni og Helgu Þórðardóttur konu hans jörðina Bæ á Rauðasandi fyrir hundrað hundraða í jörðum »forngilt«, og er þar í tilskilin jörðin Laugardalr í Tálknafirði.

AM. dipl. afskrr. Nr. 1144 og Nr. 1349, eptir frumbréfinu frá Bæ á Rauðasandi, »collata accurate«.

Þeim godum monnum sem þetta bref sia eðr heyra senða æinar markusson ok biorn amunðarson quæðiu guds ok sína kunnigt geranði ath þar worum vid j hia savm ok heyrdum wpp æ j bæ æ rauðasanði. þridia dag næsta epter pascaviku[1]) þa lidit war fra hegatburd wors herra iehsu christi þushundrut fiogur hvndrut ok atian ær. at þau hellðu haunðum saman þorlæifr arnason af einne alfu enn þorstæin sigurdarson ok helga þordardotter hvstrv hans af annare at suo firir skildu. at fyrnefndr þorlæifur keypti jordina j bæ æ rauðasanði med aullum þeim gognvm ok gædum sem bæ hafði fylgt at fornu ok nyiu ok þau þorstæinn ok helga fyrnefnd havfdu fremzst eigandi at worðit. Her j mot skylldj þorlæifur gefa þeim þorstæine ok helgu hundrað hunðraða j iordum fornn gillt. war þar fyrst æ nefnd jordinn laugardalr j talknafyrði. ok þar til flæire iarder þær sem þorlæifur kynne at fa j ta(l)knafirdi suo allar saman yrði hundrat hundraða forngillðar. skilðu þav fyrnefnd hion þorstæinn ok helga j hanðabandinu at bua æ bæ wm æitth ær eðr tuo ef þau villði. ok suo at luka jarðagodz þar æ sandinum j kirkiugodzit j bæ ef þeim þætte ser þat betur henta. enn þorlæifs æign jordin j bæ wpp fra næstum fardogum. skylldu huorer hallda sínum jordum til laga er keypti enn æbyrgiazst laga Riptingar firir þær hvor er selldi ef æ kynne koma. Ok til sanninda her wm settum vid fyrnefnnder menn ockur jnzsigle firir þetta bref skrifuat j watzfirdi j isafirði manadagin næsta firir festum diuisioniss apostolorum a sama æri sem fyr seger.

---

[1]) þ. e. 5. April.

324. **23. Júlí 1418. í Skálholti.**

Árni biskup Ólafsson, visitator og hirðstjóri yfir alt Ísland, kvittar Pál Runólfsson fyrir víseyri (og) landskuldum, sem hann hafi sýslu haft og umboð milli Jökulsár og Norðfjarðarnípu.

AM. Fasc. VII, 25, frumbréfið á skinni, og er innsigli Árna biskups fyrir bréfinu.

ein kuittan arna biskups.[1])

Wær arne med gudz nadh biskup j skalholti vmboðzmann hæilagrar holakirkiu visitator oc hyrðstiori yfer alt islanðh gerom ollum goðum monnum kunnikt med þessu uoru opnu brefe ath pall hrunolfsson hefer giortt oss fullan oc allan ræikninghskap af visæyre lanðskylðum sæm hann hæfuer syslu oc vmboðh vors herra kongsins oc uortt haftt j millom jokulsaar ok norðhfiarðarnípo suo ath oss uel anæghir. Þui gerom wer sagdan paal Runolfsson allungis quíttan fræalsan liðugan oc allungis akærolausan vm græint maal firir oss oc ollum vorum æfter komanðhum vors herra kongsins hyrðstiorum oc vmboðzmonnum. Oc til sanninða her wm sættu wer uortt jnsigli firir þetta quíttencias bref ær gert var j skalholti laugarðagen næsta æfter translacionem sancti thorlaci Episcopi anno domini ꝏ° cð° decimo octauo.

---

325. **11. September 1418. á Höskuldstöðum.**

Þorgrímr Sölvason kvittar Ólaf Ormsson fyrir tuttugu hundruðum, er hann átti hjá honum upp í jörðina á neðri Mýrum í Höskuldstaðaþingum.

AM. Fasc. VII, 14, frumbréfið á skinni. Fjögur innsigli hafa verið fyrir bréfinu. Þrjú hin síðustu eru nú dottin frá.

nedre myrar bref.[2])

Þeim godum monnum sem þetta bref sia ædr heyra senda jon hugason. einar kætilsson. helgi þormodsson ok ormr biarnarsonn kuædiu guds ok sína kunnigt gerandi at þa er lidit var fra

---

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi; þar stendr og: »biskups arna bref«; [2]) Aptan á bréfinu.

hegatburd vars herra jehsu christi þusundrat fiogur hundrat ok siaytian[1]) ar vorum vær j hia sam ok heyrdum æ handaband þeirra þorgríms sauluasonar ok olafs ormssonar at fýrrnæfndr þorgrímr gerdi olaf ormsson allungis kuittann vm þau xx hundrat er[2]) hann atti at luka firir jordina æ nædri myrum j hoskolldsstada þíngum. ok til sannynda her vm sættum vær fýrnæfndir menn vor jnsigli firir þetta bref gert æ hoskolldstodum æ skagastrond sunnudagin næstan eptir mariiumesso ari sidar en fyrr segir.

---

326. 13. September 1418. á Núpi i Dýrafirði.

Vitnisburðarbréf níu manna, að Guðmundr Arason hafi greitt hústrú Þorgerði Ólafsdóttur þá peninga í mála hennar, að henni vel ánægði, og voru þau þá alsátt um allan sinn reikningskap.

Landsbókasafn 115. 4to I, 139—40. Bréfasafn séra Jóns Haldórssonar í Hítardal, skr. c. 1730; IBfél. 126. 4to bls. 48—49. Ártal þessa bréfs er athugavert, því að af því mætti ráða, sem Ari faðir Guðmundar sé dáinn, en 27. Maí 1420 er hann enn á lífi. Dáinn virðist hann samt vera 7. Okt. 1423. Ætti því bréf þetta að vera nokkru yngra en hér er talið, sé þessi Þorgerðr, sem hér er nefnd, kona Ara.

Afhendingar Bref peninga Þorgerdar Olafsdottur Anno 1418.[3])

Øllum mønnum sem þetta Bref siä edur heÿra. senda Biörn prestur Sigurdsson. Gudne Bonde Odsson. Þordur Jörundsson. Kodran Jörundsson. Eÿolfur Jonsson. Petur Þordarson. Sigurdur Þordarson. Halldor Jonsson. Þorer Steinsson Q(uediu) g(uds) og s(ina). kunnugt giörande sub Anno gratiæ 1418 vorum vier i hia og heyrdum ä under Nupe i Dyrafyrde ä ord þeirra og handaband. af einne hälfu heidurlegur mann Gudmundur Arason enn hustru Þorgerdur Olafsdotter[4]) af annare. Enn þad falst under þeirra handabande ad Gudmundur Arason lukte mäla

---

[1]) þannig sýnist skrifað, en eitthvert pírumpár stendr uppi yfir y-inu, eins og það gæti verið x, en er þó óljóst. Aptan á bréfinu stendr ártalið 1417 þrem sinnum; og það er víst að lesa á ártalið siaytian, svo að gerningr þessi er bréfaðr 1418; [2]) tvískr.; [3]) »1428 edur 1410«, setr séra Jón á spássíu; [4]) »Þorgerdur þessi mun hafa verid stiupmoder Gudmundar enn sijdare kona Ara Gudmundzsonar«. Séra Jón á spássíu.

Þorgerdar Olafsdottur. v. hundrud hundrada effter þvi sem utvijsar opid Bref Ara Bonda Gudmundssonar. so miked i Jördum og lausagotse. sem hier seiger.[1])

Jtem Kyrkiubol j Rosmhvalanese. fulavik. Þorersstader. Rafnkelstader firir .j. hundrad hundrada.

Jtem Rafnseyre i Arnarfijrde firir .j. hundrad hundrada.

Jtem Horn. Kyrkiubol og Skog. þessar þriar Jarder j Mosdal. Dyniande. half Borg. Skialldfönn. älfadalur ä Jngialldssande. þessar jarder firir .j. hundrad hundrada.

gaf tijttnefndur Gudmundur Þorgerdi Olafsdottur Bardsvik. sem liggur ä Ströndum fyrer utan allann reikningskap med öllum þeim gögnum og giædum sem til hennar hafa leigid fra fornu og nýu. og med so miklum vide sem nu liggur ä Bardzvik til obrygdanlegrar eignar. skal Gudmundur svara lagarijfftingum ä ollum þeim Jördum. sem hann til lagdi mäla offtnefndrar Þorgerdar. enn hun edur hennar umbodzmann hallde til laga.

Jtem .xl. hundrada i öllu samt gripum og virdingagotse i smiore og skreid og riklinge. festum og skipum. þar med .Lxxx. hundrada i kugilldum. þetta allt saman firir .j. hundrad hundrada.

voru þesser peningar fyrrskrifader afhendter og afgreidder. so Þorgerde husfreyiu i alla stade vel ä nægdi. þvi voru þa offtnefnder menn Gudmundur Arason og Þorgerdur Olafzdotter alsatter um allann sinn reikningskap.

Og til sanninda hier um sette Gudmundur Arason sitt Jnnsigle med vorum Jnnsiglum firir þetta Bref sem giört var under Nupe i Dyrafyrde þridiudaginn næstann effter Mariumessu sijdare ä þvi äre sem fyrr seiger.

---

327. **22. September 1418. á Barði.**

Fjórir menn votta, að Jón Þorvaldsson hafi greitt Haldóru Broddadóttur, Brandi Brandssyni og Ingimundi Sighvatssyni fult verð fyrir Laugaland i Fljótum, og að hlutaðeigendr hafi kannast við það.

---

[1]) »NB hier synist vanta i Brefid .j. hundrad hundrada. sem verid munu hafa Reykholar«. Séra Jón á spássíu.

AM. Fasc. VII, 23, frumbréfið á skinni, og virðist vera með hendi Stúfs Haldórssonar. Fjögur innsigli hafa verið fyrir brefinu. Tvö af þeim eru dottin frá. Sbr. Nr. 319.

vm laugaland i fliotum.[1])

þat gerir eg jon aurnolfsson og stufr halldorsson einar teitzson þorsteinn þorsteinsson godum monnum kunnigt med þessu voro brefi at þar voru uer j hia saum og heyrdum a at halldora broddadotter og branndr branndzson og jngimundr sigvazson med kennduz at þau hefdi uid tekit og upp borit af jone þoruallszsyne alla þa penninga sem hann vard þeim skulldugr firir jordina a laugalandi j fliotum j bardz kirkiu sokn hefir hann lukt oss med solum og frideika allt verd firir jordina a laugalandi eptir þui sem j kaup vort kom. hier med gafu þessir fyr nefnder menn greindan jon kuíttan og akiærulausann med handabandi firir sier og sinum erfingium eptir komendum um fyr greint jardar uerd. ok til sanninda hier um settum ver fyr nefndir menn vor jnsigli firir þetta kuíttunarbref skrifat at barde j fliotum fimtudaginn næstan eptir mathei apostoli um haustit þa lidit uar fra hingatburd vorss herra jehsu christi þushundrat þriu hundrut ellefu tiger og atta ar.

---

## 328. 18. Oktober 1418. á Gunnsteinsstöðum.

Styrr Snorrason selr Einari Bessasyni jörðina Vatnahverfi í Höskuldstaða þingum með öllum gögnum og gæðum fyrir lausafé.

Add. British Museum 15, 898, frumrit, keypt af Charles Devon 12. Apr. 1862. Fyrir bréfinu hafa verið fjögur innsigli, en nú eru þveingirnir einir eptir. AM. dipl. afskrr. Nr. 424 «Ex originali sira Sæmundar Hrolfssonar.» Árni lýsir frumbréfinu.

þeim godum monnum sem þetta bref sea edr heyra senda thumi berþorsson gisle sigurdarson biarne bardarson oc juarr þordarson kuediu guds oc sina kunnickt gerandi at ver vorum þar í hia a gunnsteinsstodum i langadal in festo luce ewanngeliste anno domini ᴍ° cccc° xviij° saum oc heyrdum a handaband þeirra styrs snorrasonar oc einars bessasonar at suo firir skilldu

---

[1]) Aptan á bréfinu.

at adrnefndr styrr selldi fyrrnefndum einari iordina alla a vatnahuerfi er liggr j hauskaulldzstada þingum med aullum þeim gaugnum oc gædum sem adr greindri iordu hafer fylgt at fornu oc nyiu oc hann oc þuridr jonsdotter kona hans vard fremzst eigandi at apter logum. her i mot gaf þrattnefndr einar optnefndum styrr atian hundrvt med þessum fridleika. x bufiar kugilldi. halft kyr oc halft asaud oc þar til þriu hundrvt i slatrvm oc ijc í smiore oc iij hundratzs hesta oc luka ut a nęsta vori vj kugilldi oc iij hesta a næsta hausti allt smiorid oc slatvrid a adru vori fiogur kugilldi med femissa. skillde tittnefndr einar suara fyrnd a kirkiu allri þeirre er styrr atti at suara. skilldi adrgreindr einar hallda títtnefndri iordu til laga enn styr suara lagariptingum a iordunni ef a kynni at verda. oc til sannennda her um settum vær fyrr nefndir ꝍenn vor incigli firir þetta bref er giort var j sama stad degi oc ari sem fyr seger.

---

## 329. 29. Oktober 1418. í Ási í Öxarfirði.

Árni biskup Ólafsson kvittar Finnboga Jónsson (gamla), svein sinn, fyrir öllum þeim peningum, sem hann varð honum skyldugr.

AM. Fasc. VII, 24, frumbréfið á skinni, og er innsigli Árna biskups fyrir því.

enn kuittan arna biskups.[1])

Wer arnæ med guðz nadh biskup j skalhollti gerom ollum godum monnum viturligt oc kunikt ath wer hofum gifuæt finnboga jonsson vornn swæin allungis quíttan fræalsan oc liðughan oc allungis akærolausan firir þau sæxtighæ handraðha sæm hann warðh oss skyldugr af þui hann hæfer blifuæt j woru fullo oc allo minnæ suo ath oss væl anæghir vm sagda peningha firir oss oc ollum vorum æfter komandum biskupum a holum. Oc til sanninða her vm sættu wer uort jnsighli firir þetta bref gert var j asæ j auxarfirði laugardagen næsta firir allra hæilagra messo anno domini ꝍ° cd° decimo octauo.

---

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi.

330. 1. Júli 1419. á þingvelli.

HYLLINGARBRÉF Íslendinga til Eiríks konungs af Pommern.

Ríkisskjalasafn Dana «Island og Færöe» Fasc. I, 3, frumritið á skinni. Fyrir bréfinu eru 24 innsigli; flest bráknð. Prentað í Safni til sögu Íslands II, 172—173; Dipl. Norv. II, 485—486.

theres breff aff islande at the aff gantzæ island haue hyllet myn herre konung Erik. 1419.[1])

Worum wyrdolighum herra herra Eirikæ met gudhz naadh Noreghz swærikis Danmarcks gota kononge oc hærtuga yfuær Pomren Heilsum wij allr almughæ lærdhir oc læikæir a yslandæ. kærliga met gudz quediu oc worre audhmiukre þenostu.

kunngerandi ydr naadh ath wer lofum ydr vora troo þenostu: oc vilium ydr hylla oc hafua firer Rettan konongh yfuer oss oc enghan annan oc vndir binddum oss ath wæra ydhr hollir oc truer. sæm rettum þænorum ber sinom herra ath wera oc wor loghboc vt visar oc vorer forfedr hafua ueitt ydrum foruerorum Rettum Noreghs kononghum jattandi ydr þar medr skatt oc alla hlydskyldu af landino sæm loflighum landhsins vana bær kongdomenum gera. Her j moti bidium wij ydr nadher audmiukligha ath ij holden oss met fridh oc lagh: oc latir oss niotandi wærda allra þæira rettar bota sæm landit er adr suoret krononne oc kongdomenum.

Kom oc ydart bref hit j landhit til oss j huerio ij forbudut oss ath kaupslagha met nokora vtlendska mænn. En worar rettarbeøtr giora suo raadh firer ath oss skyldæ koma sæx skip af noreghi arligha: huat sæm æi hefuer komit vpp a langha tima: huar af ydr naadh ok þetta fatæka landh hefuir tækit grofuan skada: þy vpp aa gudz naadh. oc ydart traust hofum wij wordit kaupslaga met vtlændska menn sæm medh fridh hafua faret oc Rettum kaupninghskap oc til hafua siglt. En þæir duggarar oc fiskarar sæm reyfat hafua oc ofridh giortt þæim hofum wij refsa latidh. Nw star til gudz nadh oc ydr ath ij scrifit oss til huor(s)u wij mættum bestan fridh hafua oc ydan vinskap oc hylli. her met befalom wij ydr gudh oc alt himenrikis hærskap.

---

[1]) Aptan á bréfinu.

Oc til mæiri stadfestu[1]) oc audsyningar wors troskapar met ydr þa hofum wij hengt wor Jnsigli a almugans wegna: fyrær þetta bref er suo hæita.

anfinnr þorstæinsson ydra forældra hirdmann.
Rafn loghman. oddr loghmann.
lopptr gudþormsson. gislæ andresson.
hallr olafsson. hauskauldr hrunolfson.
olafr jonsson. arnnæ einarsson.
audun salomonsson. þorualdr oddzson.
helgi styrsson. siugurdr arngrimsson.
gudyne oddzson. asgæir arnason.
siugurdr þorualdzson. semundr oddzson.
magnus jonsson. ghæir arna son.
bryniolfr stæinraudarson. jon Egillsson.
sighmundr oddzson. boduar hrafnsson
oc hælgi biarna son.

giortt a þinghuælli laugardagen næsta eftir petrs messu vm sumaret Anno domini ꝏ° cd° decimo nono.

---

331. 13. Júli 1419. i Hafnarfirði.

Arnfinnr hirðstjóri Þorsteinsson veitir tveim utan ríkis kaupmönnum verzlunarleyfi á Vestmannaeyjum og um land alt, svo og leyfi til fiskiveiða («útróðra»).

Ríkisskjalasafn Dana «Island & Færöe» Fasc. I, 4, frumritið á skinni; innsiglið er dottið frá. «Island & Færöe» Suplem. I, 4, afskript frá 1749, með hendi Jóns Marteinssonar gerð fyrir Klevenfeld. Sbr. Tidsskr. for nord. Oldkyndighed 1833, II, 115, 138. Finnr Magnússon telr eptir enskum sið Margrétarmessu 20. Júlí, og ætlar bréfið þá dagsett, en það mun þó varla vera.

Þath gærer egh arnfinnr þorsteinsson hirstiore yfuer allt island godum monnum kunnickt med þessu minu brefvi ath egh hefuer gefit þol[2]) til tua kauplyd[3]) af kristaforu[4]) sem nu

---

[1]) stadfeffu, frumritið; [2]) = leyfi; [3]) = kauffleute = kaupmenn, sem munu hafa verið þýzkir; Finnr Magnússon ætlar þeir hafi verið enskir (Tidskr. f. Oldn. II, 115), en þetta orð bendir að vísu á þýzkan uppruna; [4]) Kristaforus er skipsheiti.

er j hafnarfiord. skulu þeir kaupa ok selia fyrer mek ok alla syslumenn j landit oklagader. j vestmannaeyiom. ok vm allt land huar er þeir vilia. skulu þeir hafua sitt skip til vtrodrar þar er þeir vilia j landit. med suo marga menn sem vel nægher til vtrodrar til fiska eitt aar. Ok til sanninda her vm setta egh mitt jnscigle fyrer þetta bref er gert uar j hafnarfiord jn festo sanctę margarete virginis et martiris anno domini ꝏ⁰ cccc⁰ decimo nono.

---

332. [1419].

Máldagi Jónskirkju í Vallanesi [er Árni biskup Ólafsson setti].

AM. dipl. afskrr. Nr. 2002 «ex orig. membr. fra Vallaness kirkiu», sem er vidimus Jóns biskups krabba frá c. 1463. Árni biskup Ólafsson reið yfir Austfjörðu 1419 (Ann.), og virðist þessi máldagi geta verið frá þeim tíma.

Kirkia hins helga johannes baptiste[1]) j vallanesi æ heimaland alltt oc huamsland. saudaga land allt oc uigingsstada land.
afret j fagradal oc under skagafelli.
selfor ad tunguseli j eÿuindardal.
skogarteig j milli þrælarar oc holknar.
annan skogarteig [milli] ualagilsar oc eÿrar ar oc skogarteig j kettelsstada land oc skogarteig j hofda merki firir austan sionaras oc ad læknum er þar fellur firir austan.
skogarteig j sanfell id nedsta.
tueir skogarteigar j sanfel ed efsta.
skog j medalnes land.
halfer aller krosskogar.
attungur j hualreka j ofærv rekum.
attung j kilmana teig. halfuan uidreka uid sledbriotzmenn j siau hundrudum en fiordung hualreka uid kirkbæinga. tueir hluter uidreka j þrimr hundrodum oc suo j hualreka.
þriar uetter liggia til uallanes (æ) eÿiar sandi.
halfuan reka uid sandbrekkumenn j x hundrudum.
halfir osrekar bædi hualrekar oc uidreka(r) stærri en alnar keffli.
fiordung hualreka a gripdeild.
xij tung uid gallstædinga.

---

[1]) baztptiste, afskr.

annan tolftung milli þeista(va)gs oc spakardals oc slik(t) j fluttninghi huar sem a land kemr.

fiordungr j hualreka uid snotrunesmenn under uagsfiolðum[1]) sunan fra sundi oc til gripsgiar.

tolftung a hrollaugstada sandi.

hualfuan hualreka a eyri j borgarfirdi milli drangs oc kambs.

attung j hual j brunauik oc j kiolsuik oc j hualuik oc j suínauík huar sem a land kemur.

stigaas allan. grindar as allann.

kirkian æ fiorar kýr oc xx^er. tuau kugillde oc xx^er j asaud oc tueimur am betur. v. vxar gamler. xic.[2]) vj. naut tuæuetur. vj ueturgaumul. iiij sauder oc xx^er. veturgamler xj. c. [i] gelldum saudum oc enn .ij. k(ugilldi) j gelldfe. vj kalfar. xij hestar. v. c. j hrossum oc ath auk tau hross klyfbær. xj. c. j virdingarfe oc xvj. c. j fridvirttum peningum.

Suo margar bækr æ kirkian j uallanessi. jn primis .ij. alltaris bækr .ij sequencio bækr .ij. graduale .ij. capitularius. ordubok .ij. ottusaungsbękr er taka vm xij. manade. oc adrar .ij. fra aduentu oc framan til paska .ij. salltarar. gaumul ottusaunguabok per anni circulum oc .iij. adrar lesbękr.

Jtem v manna messokledi: at aullu oc at auk .iij. hauklar .v. kapur. ij. sloppar. viij. alltariskłędi. iiij. med fordukum. iiij. dukar glitader oc adrer. iiij. liettare. vj. adrer vigder dukar med brunum. ij. kalekar gyllter. einn ogýlltur. iiij. alltaris steinar.

Jtem silfurkross med festi er vegur vart vj aura .ij. ymnabękr oc kiriale. processionale. de sanctis bok æ sumar. missale. prima lestur. bok gaumul. iiij les skrar vondar. gudspialla bok vond æ vetrin. ample oc vatzhorn. iij. paxblaud oc paskablad. sacrarium munlaug oc ij. sacrarium handklędi.

Jtem ij brikarklędi. subtill oc dalmatika.

---

[1]) uagsfiolð, hdr.; uágsfjöllum, Oddgeirsmáld. 1367; vágsföllum, Sveinsmáld. 1471; [2]) «ita extat. sed delendum» (AM.).

333. 31. December 1419. á Hólum.

Sex manna dómr útnefndr af Jóni biskupi á Hólum um prófentusamning Ástríðar Jörundardóttur, er hún hafði gert við Árna biskup Ólafsson, þá er hann var umboðsmaðr Hólastóls.

AM. Fasc. VII, 26, frumbréfið á skinni. Sex innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en þau eru nú öll dottin frá, nema annað innsiglið.

bref vm valholt.[1])

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda herra hannes palsson jonn biarnarson are þorbiarnarson kalfr jonsson. petur kollason prestar ok þorsteinn olafsson leikmann. kvediu guds ok sína kunekt gerandi ath þa lidit var fra burd iehsu christi ꝏ⁰ cd⁰ ok nítiann ar vorum vær j dom nefnder af biskup jone atth holum huortt su prouentta sem astridr jorundardot(t)er gaf med ser til æuinligrar framfærslu þa biskup arne hafdi vmbod holastadar mætti halldazst edr eigi. nu saker þess ath astridr fyr nefnd sór fullann bokareid ath hun gaf til hola kirkiu j prouenttu med ser jordina j vallhollti ok hun gaf alldri samþycki til atth jordinn skylldi seliazst edr gefazst j adra stadi helldr skylldi hun vera æfinlig (æign) kirkiunnar ath holum. þui dæmdum ver astridi jorundardottur fylgia eigha prouentunne þar til sem vitad er hvortt biskup arne edr hans epterkomendr vilia luka kirkiunne fullt epter þui sem hans bref vottar þar vm giortth. kann kirkian öngua penninga fæ suo hunn se skadlavs af þeim astridr gaf. skal prouentann eingi vera. vtann med þui ath kirkiunne her atth holum dæmizst aptur jordinn j vallhollti med suo mørghum kugilldum sem astridr gaf þa skal prouentann henne æuinlig med ollum sinum skildaga eptir þui sem hennar prouentubref vottar. Ok til sanenda her vm ok fullz vittnisburdar vors doms. settum vær vor jnsigle firir þetta bref giortth atth holum jn festo siluestri pape a þui are sem fyr segir.

---

334. [um 1420—1445].

Skrá um peninga þá, er Úlfrún Þorsteinsdóttir lukti kirkjunni í Sælingsdalstungu, en Gunnar Jónsson tók með.

[1]) Aptan á bréfinu.

JSig. 143. 4to bls. 301, skr. c. 1600. Þessi skrá er eldri en máldagi Gottskálks biskups frá hér um bil 1452; er því annað hvort að séra Þorkell Ólafsson hefir látið sjá að um Tungukirkju nær 1420 í fyrsta lagi, þegar Árni biskup bróðir hans fór af landi burt, eða í síðasta lagi um 1445, þegar Goðsvin biskup fór burt og biskupslaust var syðra um hríð.

Þessa peninga lucktti Vlfrun Þorsteinsdotter kirkiunni j tungu. enn Gunnar Jonsson tok med. (jord at) saurum j Laxardal jtelulausa sem forn maldagi vottar. viij kugilldi oc þar til jörduna þambarvøllu j bitru fyrer xvj$^{c}$ j so mata ad Gunnar Jonsson skal leysa til sijn firrgreinda jörd fyrer xvj$^{c}$ j þridiungagosse nær sem hann vill.

Jtem reiknadist j kÿrkiubot er Gunnar liet giora ad kyrkiunne j Tungu. vrdu þat vj$^{c}$. er metin var kirkian er siera Þorkiell olafsson liet ad sia.

Þetta hefur Gunnar (lagt) til kyrkiunnar. vors herra lijkneski yfer kordyrum. alltarisdukur. ij. koparstikur. ij. med jarn.

vidreka oc hualreka æ kyrkian j tungu j stikuvijk. xij manna jferd j saurbæiar fioru (suo sem) hinn forni mældagi vottar.

---

## 335. 24. Janúar 1420. á Munkaþverá.

Dómr tólf manna útnefndr af Rafni lögmanni Guðmundssyni um jörðina Grund í Eyjafirði, hvor þeirra væri réttr eigandi hennar Magnús Jónsson, er hélt jörðina, eða Þorleifr Árnason er kærði til hennar fyrir hönd Kristínar Björnsdóttur konu sinnar og Solveigar Þorsteinsdóttur teingdamóður sinnar.

AM. Fasc. VII, 29, frumbréfið á skinni. Tólf innsigli hafa verið fyrir bréfinu. Sex af þeim eru fyrir, og er fyrst þeirra innsigli Lopts ríka (S. LOPTONIS GUTTORMI), og er höggormsmynd í miðjunni.

grundarbref.[1])

Ollvm godvm monnvm þeim sem þetta bref sia edr heÿra. sennda loptr gvttormsson. gamli marteinsson. olafr eyiolfsson. gvnnar anndresson. rvnolfr stvllvson. helgi biarnarson. gvttormr

[1]) Aptan á bréfinu.

biarnarson. sigvrdr þorvalldzson. steffan gvnnlavgsson. gvnlavgr teitzson. hallr olafsson ok oddi þosteinsson. kvediv gvds ok sina kvnnigt geranndi. at. sub. anno. gracie. m°. cd°. vicessimo. at hrafnagili. j. eyiafirdi. æ. þridivdaginn næsta fyrir palsmessv. vorvm vær j dom nefndir af ærligvm manni. hrafni gvdmvndzsyni lavgmanni nordan ok vestan af islanndi. at dæma i millum þorleifs bonda arnasonar ok magnvs bonda ionssonar. kærdi þolleifr til magnvs. at hann hefdi at hallda. hælfa iörd grvnd .j. eyiafirdi. er hann kalladi eign solveigar þorsteinsdottr. enn arf kristinar biörns dottr. hvstrv sinnar. birti fyrr nefndr þolleifr kavpmalabref solveigar þosteinsdottr ok biarnar bonda einarssonar huert er svo hliodadi. at helmingarfelag hafi verit lagt med fyrrnefndvm monnvm æ þeirra brvdlavpsdegi.

jtem. i annari grein syndi. ædr greindr. magnvs. bref vnndir godra manna innsiglvm. at tittnefndr biörn einarsson hafdi sellt halldori prest loptzsyni. ædrgreinda halfa jörd er Magnvs hefir at hallda fyrir tivtigi hvnndrada. medr keundizt þorleifr fyrir oss. at biörn hefdi lyst fyrir ser. at hann hefdi alla peninga vpp borid fyrir fyrrgreinda halfa iörd. af sira halldori ok ingibiorgv loptzdottr. svo mikit sem. a. hennar þria parta kom ok hvn hafdi þa at hallda.

nv sakir þess at vors herra hakonar kongs rettarbot er svo latannda. at einginn madr skal selia eignir hvspreyiv sinnar edr þat sem þav eiga bædi saman vtan hennar samþycki ok fyrir fvlla navdsyn ok þa þo med skynsamra manna radi. þvi dæmdvm uær fyr greinnder menn medr þvi at magnvs var þar med lavgvm fyrir kalladr hann skylldvgann fyrir fardaga. at syna ok leida þav prof at solveig hefdi samþykt þessa iardarsaulv biarnar bonda einarssonar bonda sins. skal þessi prof fram koma at hrafnagili i eyiafirdi fyrir hrafni lavgmanni. edr þeim sem hann skipar til ok ef magnvs getr þessi prof leitt. standi iord sem komin er j eigu magnvsar. en ef hann leider eigi þessi prof. þa dæmdvm vær þorleifi arnasyni. i vmbodi solveigar ok kristinar fyrr nefnnda halfa iörd grvnnd i eyiafirdi ok þorleif bonda skylldvgann at lvka fyrr nefnndvm magnvsi atta tigi hvnndrada ok nitian hvnndrvt i fridvirdv godzi skvlv þeir atta tigir hvnndrada lvkazt i iordvm innan fiordvngs a næstvm fardavgvm.

Ok til sannennda her vm settvm vær fyr nefnndir doms-

menn vor innsigli fyrir þetta bref skrifat a mvnkaþvera i eyiafirdi .a. sama ari degi sidar enn fÿrr segir.

---

336. 11. April 1420. i Vestmannaeyjum.

Sex enskir kaupmenn, sem höfðu haft vetrsetu í Vestmannaeyjum og verzlað þar og reist hús í óleyfi, lofa herra Hannesi Pálssyni og Helga Styrssyni sýslumanni í Vestmannaeyjum fyrir sig og sína sveina að koma til næsta alþingis og hlýða þar góðra manna umdæmi.

Ríkisskjalasafn Dana «Island & Færø» Fasc. I, 5 b, frumbréfið á skinni; eitt (fyrsta) innsiglið er dottið frá, en fimm eru fyrir. Sbr. Finn Magnúss. Om de Engelskes Handel paa Island í Nordisk Tidsskr. for Oldkyndighed 1833 II, 138—39. Segir Finnr ranglega, að bréfið sé dagsett 4. Apr. Nafnatal Eingleudinga hjá Finni er og ekki vel nákvæmt.

Ek Rafliin tiringtun. Jon efrardh. [thomas kodrel. Thomas Castel[1]). nicles wanflit oc Richardh plebel enske kaupmen liggiande j westmannaøyum nv j vetter er var kenvmfzst þat med þesso varo brefue at af þui heiderligher mæn herra hannes paalsson agætz herra kongs Erix Capellan oc sændebodh oc helghe styrsson sysloman j westmannaøyum. hafa talat til oss. a kongdomsens vegna. vm vettersætu ok vm þat veer hofum sæt vp hws j westmannaøyum vttan nokors manz løyfue. þa lofuom veer aller saman oc huer vaar serliga fyrer sek oc vara sueina sæm er ek rafliin furnefndr fyrer mek oc fyrer richard plebel. robert bulintun. richardh brillintun. jon wachfeld. Thomas krathorn. jon gatrey oc jon durdey. ok ek jon efrardh fyrer mek oc fyrer richardh stokeley. at veer fyrnefnder sex mæn skulom koma til alþingis vm petursmesso nv nest komande til þinguualla vttan alt hindr edr motemæle oc vden all hyelperthe at suara ok lydha godra manna vmdøme. vm furnefndar sakar þar a alþinge. badhe fyrer oss oc fyrer vaara sueyna furnefnda. þetta furskrifuada lofuom veer aller saman oc huer vaar serliga a vaara tru sanninda oc æro oc vare þat sua sæm gudh fyrerbiodhe at nokor af oss kome eigi oc giorde eigi sæm fyr sæghir.

[1]) [úr þessum tveim nöfnum gerir FMagn. eitt: Thomas Cadsel(!).

þa skal hann þar fyrer hafua fyrergiort liifui oc godze oc skal vera tøker oc godz hans vptøkt vttan landz oc jnnnan þat vilkorom wer oss med varom friom vilia.

Ok til sanninda her vm sættom wer vaar jncigle fyrer þetta bref er gort var j vestmanna øyum. þorsdagen nestan tiburcij oc valeriani martirum Anno Domini ꟿ cd vicesimo.

---

337. [1420].

Kaupsetning á Vestmannaeyjum.

Add. British Museum 11, 250 (FMagn. 405) úr bók í 4to á skinni, og er þetta með hendi frá 15. öld, samtíða. Kaupsetning þessi er prentuð í ritgjörð Finns Magnússonar um verzlun Englendinga á Íslandi á 15. öld í Nord. Tidsskr. f. Oldk. II, 146—48, með danskri þýðing og skýringum. Finnr segist (nefnt rit, bls. 165) hafa feingið þessi skinnblöð frá séra Gísla Jónssyni (Teitssonar), en hann hafi feingið þau eptir Hálfdán rektor Einarsson teingdaföður sinn.

(Ek) ꝁ ꝁ set hier j dag almenniliga kaupstefnu a millvm þeirra eingelskra ok islenskra manna sem hier eru komnir med godum fride ok riettvm kaupskap ok a millvm þeirra jslenskra manna ok eyfastra sem hier vilia sinn kaupskap giora. Set eg hier þessa kaupstefnv fyst med fride ok lagagridum. huorer vid adra. suo at huer sie sialfradur sins radandi huad sem hann selur eda kauper.

Gillding a skreid iiij ꟿarka fiskur ok fimm marka enn þa j fiorda uætt. j. c. ef eigi semur vm gilldingina.

Lag a warninge iiij stikur klædis ok xx med þribreitt gott warningsklædi firir hundrat.

fiorar stikur liereptz ok .xx. med tuibreitt firir hundrat.

vj tunnur mallz firir hundrat.

iiij tunnur varnings miols firir .c.

ij tunnur med hueite (firir hundrat).

iiij tunnur biors firir hundrat.

tunna smiors firir hundrat med hreinnt ok klart.

tunna vins firir klent .c.

tunna biks firir lxxx fiska.

tunna hratioru firir lx (fiska).

jarnfat firir hundrat. ok teliezt ur iiij^c.

hunangs attungur firir xv fiska.
lyses attungur firir xv fiska.
iij fisk mork uegen j godvm eirkotlvm.
eindubladir suartaskor firir iiij fiska.
konuskor firir iij fiska.
varnings aklædi uppa xxx fiska.
alin j borduide ok arvm firir v fiska.
salltattungur firir v fiska.
vax mork firir iiij fiska.
vnder v hesta jarn firir xx fiska.
enn hufur ok hnifa(r) eda annat smakram sie epter þui sem sialfum semur.

Minne eg a alla bædi almuga folk jnnan af lande ok suo hier eyiamennina. ad þier giorid þeim ecki jslangur[1]) eda omak upp fra því sem uaukumerki er upp sett nema þeir vilie sialfer lofa. allt þeirra riettarfar eykzt at helminge sem hier erv uanvirter med ordum eda uerkvm.

Suo ok eigi sidur minne eg kaupmennina ad þeir hafi riettar stikur. ok rietta mæling. a aullv þvi sem lauginn skipa. suo sem er a smiore uine eda bior. miole eda mallte. hunang eda tioru suo at einginn hafi fals eda svik vid annann j sinvm kaupskap. huer þad giorir uist uitandi er sekur bædi wid kongdominn sem hann hefdi stolit audru jafnmiklv ok suo onytt kaupit. en þeim riett sinn epter dome sem suikinn war.

fordumzt nu godir menn allann von(d)skap ok uielar. uppsteyt eda oroa. helldur sie huer annars uin. ad uielalausu ok haulldum suo grid ok gamlann landzins sid og sitied j gudz frid.

---

338. 14. April 1420. á Hofstöðum i Skagafirði.

Kaupmálabréf Einars Jónssonar og Sigríðar Einarsdóttur.

AM. Fasc. VII, 28, frumbréfið á skinni. Fjögur innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en þau eru nú öll dottin frá. AM. dipl. afskrr. 589 (eptir frbr.).

---

[1]) þannig hefi eg lesið (get *nú* ekki vitað hvort rétt er). Finnur Magnússon og Eiríkr Magnússon lesa: slangur.

Kaupmalabref.[1])

Jn nomine domini amen.

birtizst ok stadfestizst svo felldr kavpmali a brullaups degi j mille einars jonssonar ok sigridar einarsdo(t)tr atth þav laugdu helminga felag med ser feingins fiar ok ofeingins. skÿlldi huortt þeirra eiga kiorgrip af annars goze vm fram helming er leingr lifdi. voru þessir festingarvo(t)tar a brullavpsdegi kalfr prestr jonsson olafr hallzson ormr einarsson þorarenn einarsson. ok til sannenda her vmm setthvm vær fyrr nefnder menn vor jnsigle fyrir þettha kavpmala bref er giorth var a hofstodvm j skagafirde jn festo tiburcii et valeriani. anno domini m^mo cccc^mo vicessimo.

---

339. 27. Mai 1420. undir Gnúpi i Dýrafirði.

Ari Guðmundsson gefr Oddfríði dóttur sinni til kaups við Haldór Jónsson hálfan Valþjófsdal fyrir sextigi hundraða, en seldi honum hálfan og tekr fyrir jörðina Álfadal og á Vífilsmýrum; gerir hann þetta með samþykki Guðmundar sonar síns, og kvittar Haldór fyrir andvirðinu.

AM. Fasc. VII, 27, frumbréfið á skinni. Bæði innsiglin eru dottin frá: «feinged af þorbiörgu Sigurdard(ottur) ä Kulu» (AM.). Afskr. í AM. 253. 4to, bls. 151—152, eptir transskr. frá 30. August 1428.

Þat giavrer ek are gvdmvndsson godvm monnvm kvnnigt med þessv minv brefui ath ek hefver gefvit oddfride dottvr minni til kavps vid halldor jonsson halfan valþiofsdal fyrir sextigi hvndrada enn halfan hefver ek sellt halldore jonssyni med þvilikvm vexti ok fridleika og j moti teket hvndrat ok tvttugv vpp j iavrdina alfvadal ok javrdina a vifuilsmyrvm fyrir tvttugv hvndrvt ok her a ofvan ellifv kvgilldi ok fiora hesta med avllvm þeim gavgnvm ok giedvm er adrnefndvm javrdvm hafva fÿlgt j valþiofsdal ath fornv ok nÿiv ath vndan teknvm mosdal. [skal hvar fÿʀ nefndra manna halldor ok are. svara lagariptingvm fyrir þer iardir er sellt hafva en hallda hinvm

---

[1]) Aptan á bréfinu með yngri hendi.

til laga.[1]) hefver gvdmvndr arason samþykt þessa adr greinda giavf ok jarda savlv. þvi giavrvm vid þessar adr greindar jardir avllvngis qvittar ok akiervlavsar fyrir ockr ok avllvm ockrvm epterkomendvm.

Ok til sanninda her vm settvm vid fyʀnefndir menn ockr insigli fyrir þetta kavpbref ok qvittan er gert var vndir gnvpe j dyrafirdi manvdagenn nęsta eptir hvitasvnnv. anno domini ꝳ° cccc° xx°.

---

## 340. 22. Juni 1420. hjá Vestenskógskirkju á Lágalandi.

Árni Ólafsson biskup í Skálholti lýsir því, að hann skuldi Eiríki konungi af Pommern þrjú þúsund góða, fullvektuga gamla enska nóbela eða jafnmikið í öðrum reiðupeningum upp í gjöld konungs af Íslandi um sjö ár, er biskup var umboðsmaðr hans, og skuldbindr hann sig til að hafa greitt þetta fé fyrir Michaelsmessu næsta ár, og ganga fimm menn í borgan fyrir skuldinni.

Ríkisskjalasafn Dana «Island & Færø» Fasc. I, 9, frumritið á skinni og eru öll (sex) innsiglin fyrir. Sbr. Danske Magazin. Anden Række I, 1794 bls. 2.

Wy arne med gudz nadh Biskup j Skalholtæ j islande widergaungom med þesso ware opna brefue at wer sculduge ero af Rætte sculd hôchbornom oc mægtugan herra oc føsta herra Erike med gudz nadh noregs danmarks Swerigs Wenda oc gota kononge oc hertughe yuer pomern wor nadhige herra þryþusande gode fulwegtuge gamble ængelske nobelæ. ædher sua meghet lødegt silfwer æder redho penninga gode oc gefwe sæm ein god man ma giøre annen fult med fire suadan oc sua mange nobelæ sæm førscrefuet stander. at betale for jnnan þetta oc sancti mikiels dagh nw nest komende vm ett aar huilke forscrewne nobelæ wer hafuum lofuet oc en nw lofwom med fullo ja oc handerbande at betale oc wpluka adrnemdom warom werdhiligom herra herra Eriki noregs kononge. ædher þeim sæm þetta wart bref hafua vpa hans nades wegna. oc han hafuer befalet vpa sina wegna þesso adrnemdo nobelæ vtkrefuia oc aname. j þan rekingscap sæm wer hanom plichtuge ero af þui at wer hafom haft hans nades vmbode i islande. fylgt oc

[1]) [Á spássíu bréfsins með sömu hendi, en er ekki vísað inn.

vpborett hans jngielldom oc kronono j norege med allom konungligom Ræt j siaw aar. kan oc ytermere spørias eder befinnæs at wars nadigs herra konongs rekingscap af fornemdo islande þan høygre draghe j sua mange aar sæm for ero næmpt. Þa scal wær nadhige herra konung Eriker blifue þar vti j alle mate vforsømet. Samuledes oc vm jsland ekke sua meghet rænter j forscrewne siaw aar. at þat komme os til godhe sua at wer blifue þar vti oc vforsømet. Oc scule wer aldre vt af berghwin at kome før en þetta wart bref er haldet wtan med þirras minnæ oc wilia sæm for os hafua lofuet. oc sagt hafua for adrnemdo gull. sæm þetta wart bref hafua sæm før er sagt. En vm þat atande aret oc huat sæm forscrewne island þa rænte kan. kiennæs wer. at wer þat vpa godh tro hafua vnnder fullan grein oc rekning af fornemde ware nadige herra konung Erike. Alle þesso forskrewne stykkia oc artikle oc huart serdelis firer sich lofwe wer fornemde Biskup arne oc ware ærfuingia oc efterkommende adrnemde ware nadige herra konung Erike oc hans erfuingia oc efterkommende ædher þeim sæm þetta wart bref hafua vpa hans wegna sæm før er sagt stadugt fast oc vbrydeligt at halde wider ware gode tro oc ære oc wider þan eidh er wer hafuum sworit war nadige herra konung Erike oc kronono oc Riket j norege. wtan all lengre tøfring. vnderfundh edher argheliist. Oc til ytermeire oc fullare bewarinng alle þesso forscrewne stykkia. Þa hafuum wer bidet oc en audmyukelige bidiom þesse ware werdhiligre herra oc winir. Biskup Aslac af berghwin Biskup andbiðrn af hamre herra jønis jacobsson profaste j Roskyldo. herra andres jacobsson oc herra benedictus pogwiisk Riddere. at þeir lofwe firer os oc med os for adrnemdo gull. þrotnæmpdo wor nadige herra herra Erike noregs konunge. hwilko adrnemdo gode mæn wer scule j alle mate skadelause halde wider ware gode tro oc sanninde. Hafuum wer fornæmpd Biskup arne sua oc wer adrnemde Biskup aslac Biskup andbiðrn. jønis jacobsson profaste. andres jacobsson oc benedictus pogwisk Riddere latet ware jnsigle til meire wissu oc witnisburd alle þesso forscrewne stykkia hengæs fore þetta bref Er gort war hia westenskogh kirkiu j lalande loardagen nest fire jonswaku a .xxxj. are Rikes herra Eriks med gudz nadh Noregs konungs.

341. 1. Júlí [1420]. á þingvöllum.

Bréf frá alþingi til Eiríks konungs af Pommern um erindi Hannesar Pálssonar og þorleifs Árnasonar af Íslands hálfu.

Ríkisskjalasafn Dana «Island og Færø» Fasc. I, 6, frumritið á skinni. Fimm innsiglu eru fyrir bréfinu. Prentað í Safni til sögu Íslands II, 174.

Serenissimo principi ac domino domino Erico dei gratia Regnorum norwegie. dacie. swecie slauorum gothorumque regi illustrissimo domino nostro gratiosissimo. Hec littera humiliter presentetur.

Vtmynka oc skuldugha thiænista te foren sænd. Ma idhar nadh wita at idher nadhes thiænare oc capellan her hanes pauelson hawer hær warit i rikesens landsens oc idher nadhes ærande æfter thy som idher nadh hanum befalat hafdhe. thær hawer han sik trolika oc wæl vt i bewist. can han oc thorlef arneson idher nadh beræta yterlika om landsens nødh. nøthorft oc gagn ytermeer æn wi idher nadh til skriua kunna thy at thet ær them ganze kunnukt om alla stykke huru hær nu stander oc standit hawer. oc huru thet beleghligt ær i allæ mata. thet ma idher nadh oc wæl tro hwat the idher beræta thær om. thy havom wy oc ganze almughen som nu ware hær saman pa landsthinget troet them thær til oc befalat. guthi befale wy idher nadh ewinnelik. scriptum a thingwallum in octaua sancti johannis baptiste sub sigillis.

Jon met gutz nadh biscop a holum.
Rafn oc odder laghmæn.
thorsten helmingson oc helghe styrsson hirdhstiora.
lofter guthormson. haller olafson. arnfin thorstenson.
are gutmundson. gutloger gutmundson. oc audur.[1]) salmonson.

---

[1]) þ. e. Auðunn (Salomonsson), sem nefndr er einnig í bréfunum fyrir og eptir; hann bjó á Hvanneyri í Audakil, og var dóttursonr Gunnars bónda, sem þar var á Hvanneyri þegar Wilchins máldagi var gjörðr (Sjá Nr. 346).

342. 28. Júli [1420].

Jón biskup á Hólum ritar Eiríki konungi af Pommern meðmælabréf um Hannes Pálsson kapellan konungs, er verið hafði á Íslandi í umboði hans.

Ríkisskjalasafn Dana «Isl. & Færø» Fasc. I, 7, frumbréfið á skinni. Innsiglið, sem hefir lokað bréfinu, er nú dottið frá.

Serenissimo principi ac domino domino erico dei gracia noruegie. dacie. suecie. slauorum. gothorumque regi illustrissimo domino meo graciosissimo presentetur L(itera) h(ec).[1])

Mina vtmyuka thyænistæ te foren sænd. nadhige herra ma idher nadh wita at tha jak war i fiordh i berghen tha war mik swa mekit sacht vm her hanes pauelson idher nadhes capellan af some at iak hiolt hanum ganze vmær. oc war mik mykit radhit at iak skulde haua forstyyrt at han skulde ikke haua komit til island. hwar fore the thet giordhe thæt ma nu ither nadh wæl befinna. mæst for thy at iak hauer enkte af hanum befunnet vtan got oc stoor troskaap eki at eens til meek. vtan swa oc i alla idher nadhes ærende i alla matæ. oc ær thet stoor nytta at han hiit kom. æn tho at soma hafdhe giærna seet at han hafdhe eki komet hær i landit thy at hanum ær nu witerlikt vm allæ stykke huru hær staar oc standit hauer. oc hwat skadhe riket mate haua fanget hær af oc fanger om hær wardher ikke radhit boot a oc ma idher nadh wita for sanninda at han ær idher nadh een ganze nyttugh man e hwat idher nadh hanum befaler nær ællær fiærn.

thær med befale iak idher nadh guthi oc sancto Johanni. datum yslandie in profesto beati olaui regis et martiris meo sub signo.

Johannes dei gracia episcopus holensis.
vestre serenitatis capellanus.

343. 14. August [1420]. á Íslandi.

Stephan Schellendorp, er sendr hafði verið til Íslands, ritar Eiríki konungi af Pommern kæru um yfirgang Englendinga þar, bæði kaupmanna og sjómanna, og reki það svo á eptir, að hætt sé við, að landið gangi undan krúnunni, sé ekki reistar skorður við sigling þeirra til landsins; segist hann hafa verið til aðstoðar

[1]) Þetta er utanáskriptin.

(herra Hannesi Pálssyni) fógeta konungs, en ekki muni skaða, þó að fleiri væri konungssveinar á Íslandi; hafi herra Hannes riðið víða um land og viti hvernig ástatt sé; segist Stephán gjarnan vilja vera í konungs þjónustu enn honum til gagns og góða.

Ríkisskjalasafn Dana «Island & Færø» Fasc. I, 8, frumritið á skinni. Sbr. Tidsskr. for nord. Oldkyndighed II, 1833, bls. 118.

An den durchlucchtichsten fursten vnd grotmechtigen hern van godes gnade konyng Erik ouer Norwege Sweden Denemark mit wirdecheit kame disse breff.[1])

Minen vnder denyngen dinst. nw vnd tho allen tyden to voren gesant.

Wetet liue gnedige herre dat ik toch to yslande vmme vorsendes wille vnde mende dat ik flochz wolde weder to juwen gnaden komen hebben. nw ist it hir also gelegen dat dit lant steit vnmaten varliken van der engelschen wegen de hir groten schaden don beyde komplůde[2]) vnd vyschers dem ryke vnd der cronen dat dar var an is. wirt dar nicht eyn rat to vim̄den[2]) dat de segellacio wirt vorkert. dat wol steit to donde. so geit dit lant van der cronen. secht juwer gnade anders ymant de wil sin beste liuer weten wen des rykes. dar vmme so bleaf[2]) ik hir by juwen fogede dat ik im sollde behulplik wesen so lange so dat ik tydinge hebbe van juwen gnaden vnd dat enschade nicht dat gij juwer knechte mir hir hedden. se solden sik wol suluen mit rechte louen dar jw recht nw vnder licht. so hebbe ik ok mit her hans reden jn juwen dinste also he jw wol vor richten kan. ijm ist ok alle ding wol witlik wo it hir steot[2]) wente he heft nicht up eyner stede gelegen vnd heft dat lant dar vnn dar reden vnn heft jw beste weten vnd dan. anders kunde ik van im nicht ir varen. liue gnedige herre nw wil ik hir gerne bliuen jn juwen dinste vnd wil jw beste weten also ik schuldik bin vnd wil gerne vor teren vnd to setten wat ik hebbe. god geue dat ik it jw dinste mit vnn profit don múchte. an dem willen sollde it nicht brechen. dat steat[2]) to gade vnn to jw. wo juwe gnade by my don wil dar late ik my gentzlik to. dar mede beuele ik jw gnade gade vnd der juncvrauwen marien vnd sinte johannes.

scriptum Jslandie vigilia assumpcionis beate marie virginis meo sub sigillo.

Steffan schellendorp.

[1]) Utanáskript bréfsins; [2]) þannig.

**344.** 15. August 1420. í Brautarholti.

GUÐRÍÐR Ingimundardóttir, kona Vigfúsar Hólms, handleggr herra Hannesi Pálssyni konungdómsins vegna það góz alt, sem hún hefir með að fara laust og fast og Vigfús átti, í konungdómsins vald og heitir að fara á konungs fund næsta sumar og hafa og njóta hvað, sem hans náð vill hér um gert hafa.

Ríkisskjalasafn Dana «Island & Færø» Fasc. I, 5 a, frumbréfið á skinni. Tvö innsigli fyrir. Sbr. Tidsskr. for nord. Oldkyndigh. 1833, II, 143.

Øllum monnum þeim sæm þetta bref sea eðr hôra sender helghe styrsson hirdstior(i) svnnan ok austan a jsland ok stefan skeldindorp Q(uediu) g(uds) ok sina kunnigt giorande at anno domini ꝏ⁰ cd vicesimo a mari(u)messo aftan fyrra warom wer j broterholte saghom ok hyrdom[1]) a sammtall skilordh ok handerband af einæ halfuo heiderlllighs mans herra hannes paalsonar a kungdomsins vegna en af andra halfuo erlligrar kuinno hustrv gudriidar ingemvndzdotter a sina vegna ok sina barna vegna vigfus yfarssonar eruingia vm þat at war nadighe herra kungr hafde bodhet fyrnemdom herra hannes palssyni at anama alt þat godz efter vigfus fyrnemdan efter þui som wars nadighar herra kungsins bref wtviste ok han þa lesa léét oc han ofta med henne fyrr þar vm talat hafde. skylldest þau swa attt[1]) vm þat erende at fyrnemdh hustrv gudrid handlagdhe fyrnemdom herra hannese a kungdomsins vegna godz alt þat som hon hafuer med at fara laust ok faste ok vigfus atte j wars nadughar herra kungsins valld ok traust oc at hon skal koma til hans nadhe at somera nv næst komande ok hafua ok niota hwat sæm hans nadh vill her vm giort hafua oc skal hon giora honom fulla grein fyrer swa mykit sæm alt godzen renta kunno her fyrer jnnan swa at herra hannes see her vm skyldelaus at hann eigi her vm swa yterlligha giordhæ sæm honom war vmbodhet skal hon koma fram sæm fyr seiger vtan alle hielpreidhe nema swa stor forfald bannæ at warum nadughum herra kungenom sialfuom synizst þau vera full ok laglighar oc þakkade hon fyrnemdom herra hannes mykeligha at han giordhe med henne swa vinligh ok wel up a wars nadighe herra kungsins nadh traust oc mildan herradom.

[1]) þannig.

Datum anno die et loco quibus supra nostris sub sigillis presentibus coappensis.

345. 10. September 1420. í Björgvin.

»Arno dei gracia Scalholtensis et Anbernus eadem gracia Hamerensis ecclesiarum episcopi« rita Marteini páfa hinum fimta með því nafni og fara þess á leit við hann, að Munkalífsklaustr í Björgvin mætti hér eptir verða sett undir reglu heilags Benedicti. »Datum Berghen anno domini mcd°. xx°. feria tercia infra octauas natiuitatis beate virginis sub sigillo mei Arnonis atque mei Anberni secreto presentibus appensis.«

[Dipl. Norv. IV, 810, eptir afskript bréfsins í Vadstenabréfabók í Konungssbókhlöðunni í Svíþjóð].

346. 22. Nóvember 1420. í Stafholti.

Jóhannes Koðránsson, tveir prestar aðrir og tveir eða þrír leikmenn votta um skoðunargjörð og mat, er þeir, eptir tilnefning síra Þorkels Ólafssonar í sérlegu umboði Árna Skálholtsbiskups [bróður hans] frömdu á jörðum þeim, er Auðun Salomonsson lukti Hvanneyrar kirkju í Borgarfirði í portionem fyrir þann tíma, er Gunnar móðurfaðir hans hafði búið þar.

AM. dipl. afskrr. Nr. 1733, með hendi Árna Magnússonar. »Epter original-kalfskinns-brefe hia S[r] Þorde Jonssyne ä Stadarstad« (AM.). Þar með fylgir afskript af niðrlagi bréfsins eptir afskript með hendi Páls Gíslasonar á Hvanneyri alþingisskrifara (d. 1678). »Blöden med hendi Pals gaf eg S[r] Þorde Jonssyne ä Stadarstad, eiganda Hvanneyrar« (AM.). Frumbréfið var grantfúið, þegar Árni ritaði það upp.

Ollum [monnum þeim sem] þetta bref sia edur heyra senda Johannes Konradsson. Olafur ey[uind]sson. brandur h[ogna]son [prestar skalholltz biskupsdæmis] . . . . . .[1]) arne Magnusson

[1]) »Sira brandur Högnason er i domi andress garda biskups 1461 um prestinn i Hruna. prestar Skalholltz biskupsdæmis mun hafa staded i eydunne og sidann nafn eins leikmans sem burtu er.« (AM.).

ok jon . . . gilsson leikmenn qvediu guds ok sina. kunnikt [giorandi] ath [þa er l]idit v[ar fra hingatburd var]s herra jehsu christi þushundrat fiogur hundrat ok tuttugu ær[1]) laugardaginn i gangdagaviku[2]) . . . . . . . [vorum] vær til nefnd[ir] af sira þorkeli olafssyne j serligu umbodi herra arna med guds nad biskups i sk[alholl]ti ath skoda ok meta iardir þær sem Audun Salomonsson let i frammi til ath luka kirkiunne a Hvanneyre i portionem er fallit hafde medan gunnar modurfader hans hafdi buit. voro þat fimm iarder er svo heita. asgardur. ausa. kista. horn. ok eyr.[3]) en saker þess ath ur sor uoro geingnar taudur ok hus voro eingi matum vær allar þessar nefndar iarder firir halfvan fimta [tug] hundrada. Lyste adurnefndur audun firir oss ath hann lykte þessar iarder allar [sa]man i portionem greindrar kirkiu epter voru mati. Saum [vær] ok skodudum maldaga kirkiunnar ath[4]) honum bar ecki minna ath luka.

Ok til sannynda hier um [seti]um vær fyrrnefnder menn vor insigli firir þetta bref er giort var i stafhollti in festo sancte cecilie virginis æ sama are ok fyrr seger.[5])

---

[1]) »ärstaled er i allann mata skirt og læselegt, hvad eg annotera, so eg ei þurfi sidar þar um ad efast« (AM.); [2]) þ. e. 18. Mai; [3]) »Eg las i fyrstu: kista. biaurg (biourg). eyr. og ætlade ad biörg þesse munde þad sem nu heiter Hamrakot, og liggur samtynis vid Hvanneyre. Sidan sä eg ad ein af Hvanneyrar kirkiu iördum er Horn. og gat eg þä grant lesed þetta, þott nockud oskirt sie i originalnum, og stendur þar: kista. horn. z eyr.

| | |
|---|---|
| asgardur er nu . . . . . | xij^c. |
| ausa . . . . . . . . . . . | xij^c. |
| kista . . . . . . . . . . . | xij^c. |
| Horn . . . . . . . . . . . | xij^c. |
| stora Drageyre . . . . . | xij^c |

og eru allar þessar enn nu Hvanneyra kirkiu eign.« (AM.) þvi næst tilfærir Arni »Ur kirknaregistre Skalholltzstiftes 1583« þetta: »Kirkian ä Hvanneyri a 10 kyr, og 10 äsaudarkugilldi, 10^c j gelldum saudum og kôplum. þessar jarder. Asgard. Ausu. Kistu. Horn. Jtem Eydijôrd Drageyri. fastagotz 2^c hundrada xtigier og 4«; [4]) Hér byrjar afskript Páls Gíslasonar; [5]) Aptan við ritar Árni: »Jnnsigled er fra slited, og brefed sialft til storskemda fued og trosnad. Utan ä brefenu stendur skrifad med hendi ei miôg gamalle. Dyrleike kirkiu iarda ad Hvanneyre.«

347. [um 1420].

Bréfságrip um Böðvarsholtsreka í Staðarsveit.

AM. 252. 4to bls. 50, skr. c. 1660; AM. 430. 4to bls. 10, séra Jón í Hítardal c. 1730; AM. dipl. afskrr. Nr. 1569. Afskript séra Þorkels Eyjólfssonar staðfest 24. Febr. 1887 eptir skjölum Staðastaðarkirkju.

Bǫdvarshollts reke.[1])

Þad vottar Magnuz Þordarson og Arne Þorleiiffzson. ad þa Herra Vermundur abote fieck Jǫrdina Bǫduarshollt Halldore Smid Vermundzsine. þa skildo Herra abote frä rekann. Anno.[2])

---

348. [fyrir 1421].

Landamerki Sjáarborgar í Skagafirði, þegar Benedikt Brynjólfsson afhenti Geir Árnasyni frænda sínum jörðina.

Dóma og bréfabók úr safni Jóns háyfirdómara Péturssonar, í 4to, bls. 206, merkt Ψ b, skr. c. 1630—40. Hér prentað eptir afskript með hendi cand. theol. Hannesar Þorsteinssonar. Geir Árnason var höggvinn 1421 fyrir áverka við Brand Haldórsson (Ann.).

Borgar maldage.

Med þessum landamerkium afhenti Benedict Briniolfsson Geir Arnasyne frænda sijnum Jordina Sioarborg.

wr gardsendavijk Riettsyne og ofan j fuglstapa þufur sem hver (er) upp af annari. og þadan fram j sio og sijdan alla Jord Jtolulausa austur ad Osum og upp j laxavijk og alla skoga wpp ad myrlæk sem rennur wr miklavatni og ofan j kvislina. er fellur ofan j laxavijk og landeign wpp ad gardi þeim sem geingur ofan j votnin og wpp j hvǫrfin milli Borgar og Kimbastada.

Rædur gardur firir sunnan Borgargerdi. wr vatninu wpp i hol lijtinn a myrinni. sem kallast Einbwe.

þadan rettsyne j gardzenda firir sunnan Brennigerdisslæk og i klett framan i fiallinu og i fuglstapaþufu wpp ä bruninne. þadan vestur i Saudaa.

---

[1]) 430; [2]) ártalið vantar í 252, 430.

Rædur þa Saudaa merkium ā motz vid gard þann sem geingur ā millum Saudar og Ashilldarholltz.

Borg ā selfor i Kalfārdalzjord firir bwfie þad sem fædist ā Siafarborg og tuo selhross.

---

349. 8. Febrúar 1421. í Stafholti.

**Þorkell** prestr Olafsson og sex menn aðrir votta, að Ari Guðmundsson hafi á Reykhólum 9. August 1416 handlagt Árna biskupi Ólafssyni til fullrar eignar þau tuttugu hundruð, sem Magnús Hallsson skuldaði Ara upp í verð jarðarinnar Hjarðardals í Önundarfirði, en Árni biskup handlagði þau aptr Magnúsi; kvittar Ari þá Magnús fyrir jarðar verðinu og handleggr honum tveggja ára leigur og leiguleigur af skuldinni.

AM. Fasc. VII, 11, frumbréfið á skinni. Sjö innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en þau eru nú öll dottin frá, nema hið 2. og 7.

Hiardardalsbref ytra i onundarfirde.[1])

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda þorkell prestur olafsson audun salamonsson þorkell Magnusson hakon einarsson geirmundur heriulfsson kolbeinn þorgilsson ok loptur haldanarson leikmenn quediu guds ok sina kunnickt gerande ath þar vorum uær j hia j storastofunni æ Reykiolum[2]) Manudaginn næsta eftir olafsvoku sidarri anno domini M°. cd°. decimo sexto[3]) saum uær ok heyrdum æ handaband herra arna biskups olafssonar ok ara gudmunzsonar ath greindur are handlagdi herra arna til fullrar eignar þau tuttugu hundrot sem magnus hallzson uar skylldugur adurnefndum ara fyrir jordina j hiardardal enn ytra j onundarfirde ok j saumu handabande handlagde biskup arne fyrr greindum Magnusi þau somu tuttugu hundrot til fullrar eignar.

Jtem j annarri grein handlagdi tittnefndur are optnefndum Magnusi enn j saumu handabande til fullrar eignar þær leigur ok leiguleigur sem hann uar honum skylldugur fyrir adurgreint iardaruerd um tuau ær ok þar med adur greinda jord hiardardal handlagdi hann honum ollungis frialsa ok akærulausa fyrir ser

---

[1]) Aptan á bréfinu; [2]) þannig; [3]) þ. e. 9. August 1416.

ok sinum erfuingium med ollum þeim gognum ok gædum sem henne fylgia ok fylgt haua ath fornu ok nyiu ok hann uard fremzt eigande at. skyllde tittnefndur Magnus hallda jordinne til laga enn are gudmundzson suara lagariptingum æ þrattnefndri jordu.

Ok til sannynda hier um settum uær fyrrnefndir menn uor innsigle fyrir þetta bref er skrifuat uar j stafhollti sexto idus februarii anno domini. M°. cd°. vicessimo primo.

---

350. 9. Febrúar 1421. á Myrká.

Þrír menn votta um vitnisburði tveggja manna um reka jarðarinnar á Brimnesi í Svarfaðardal.

AM. Fasc. VII, 31. Frumbréfið á skinni. Þrjú innsigli hafa verið fyrir bréfinu og eru tvö af þeim dottin frá.

vitnisburdur um reka Brimnes i Suarfadardal.[1])

Þat gerum vær jon magnvsson. halldor jonsson ok steingrimr bergfinzsson godum monnum kunnikt at vær vorum j hia sam ok heyrdum a at olafr nicholasson. ok haukr hakonarson handfestu sua felldan vitnisburd birni jonssyni. at þeir uissu fyrir full sannendi at jordin a brimnesi j suarbadardal æ reka allann. fra steini hinum stora er stændr j flædinni. gegnt gardzendanum. at sunnan verdri dælinni storu. sudr fra bænum. ok vt at brimness osi hinum forna ok sua vissu þeir at þorsteinn logmadr vrskvrdadi þessi somu reka mork. þa vm var kiært. ok sijdan var þetta rekamark haft akallzlaust. huat sem a bar sua leingi sem þeir mattu muna. ok hier eftir villdu þeir sueria ef þurfa þickir.

Ok til sannenda her vm settum vær fyrrnefndir menn vær jnzsigli fyrir þetta bref giort at myrkæ j horgardal svnnudagin j fostugang. anno domini M° quadringentesimo vicessimo primo.

[1]) Aptan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

351. 6. Marts 1421. á Hólum.

Jón biskup á Hólum lýsir því að hann hafi «unt» systrunum á Stað í Reynisnesi staðinn að Hofi á Skagaströnd um aldr og æfi forfallalaust præter porcionem ecclesiæ.

AM. Fasc. VIII, 1, frumbréfið á skinni. Innsigli Jóns biskups er dottið frá, en hefir verið fyrir bréfinu enn 1640, því aptan við afskript sína í AM. 277. 4to bls. 36, segir Guðmundr Andrésson: «medur jnnsigli Biskupsins». Nokkrar fleiri afskriptir eru til af bréfinu, en það er ekkert gagn í þeim, úr því frumritið er til. Árni ritar aptan á bréfið: »R[eynistaðar] kl[austrsbréf]».

vm hoff.[1])

Uær jonn med gudz nád biskup a holum gerum godvm monnum viturligt med þessu voru brefi ath vær hofvm vnntth[2]) sýsturrnum ok klavstrinv ath stád j Reýnisnesi stadinn atth hofi er stendr a skagastrond med ollum þeim gognum ok gædum sem honum fylgir ok fýlgtt hefir atth fornu ok nýiu. preter porcionem ecclesie. skulu þær lia ok leigselia mega sagdann stad huerium er vilia stadnum ath skadlausu ok hafa vm aldvr ok æfi forfallalavst.

datum holis feria v^a annte dominicam passionis anno domini ꝏ° cð° xx° j° nostro svb sigillo.

---

352. 30. Marts—5. April 1421. í Glaumbæ.

Dómr tólf manna geinginn að Sauðá eptir útnefning Þorsteins Guðmundssonar, í umboði Þorsteins hirðstjóra Ólafssonar, um kæru Þorleifs Árnasonar, í umboði Kristínar konu sinnar, til Margrétar Eiríksdóttur, að hun héldi nokkrum jörðum og lausafé, er Kristínu hefði fallið til erfða eptir Jón Jónsson, son sinn, en hann hefði erft eptir Sophíu Eiríksdóttur, föðurmóður sina, en hún hefði erft eptir Ásu og Ingileifu systur sínar.

AM. dipl. afskriptir, Nr. 5663, «Ex originali» með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna. «Brefed er ā pergament, med sex jnsiglum,

---

[1]) Aptan á bréfinu; wmm Hoff. Beneficium AM. 280. 4to; wmm Hoff a Skagastrond 277; [2]) í frumbréfinu stendr að vísu vnntth; Guðmundr Andrésson les það: virt; Hákon Ormsson (AM. 280. 4to) les wnt eða wurt.

tvejmur þveingjum, og fjorum þveingförum. Jnnsiglenn oskir ad lesa.» Afskript Jóns er, eins og vant er, mjög nákvæm, en bréfið hefir verið orðið skemt í annan endan, þegar hann afskrifaði, svo að vantað hefir nokkuð aptan af hverri línu, en þær hafa alls verið átján með síðustu línunni, sem var stutt. Eru því eyður í afskript Jóns, en flest af þeim má fylla út svo víst sé. En bréf þetta er merkilegt í ættfræðislegu tilliti.

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edr heyra senda illugi biorgolfsson. suæinn biarnarson. oddi þorstæinsson. biorn amundarson.[1]) sigurdr þorualldzson. snorre olafsson. halldor þordarson. suæin hall[uardzson . . . . . . .]sson. jon jonsson. juar hallzson oc biarne snorrason. kuædiu guds oc sina kunnigt gerandi at þa er lidit war fra hegatburd vorss herra ichsu christi þushundrud fiogr hundrut tuttug[u oc eitt ar[2]) . . . .] dag næstan epter pascaviku at saudæ j skagafirdi worum wær i dom næfnder af þorstæine gudmundzsyni sem lauglegt vmbod hafdi þorstæins olafssonar hirdstiora [nordan oc vestan a islandi] at dæma millum þorlæifs arnasonar i vmbodi kristínar konu sinnar af æinne alfu. enn margretar æireksdottur af annare. kærdi þorlæifr til margretar at hun helldi. [fyrer sier þær] jarder epter asu oc jngilæifu æreksdætur er suo hæita siofarborg j skagafirdi. asgrimsstadi. gil. helluland oc þær adrar flæire jarder sem i arf hafua fallit epter jngilæifu. oc sv[o tede þor]læifr adr nefndr bref fyrer oss vnder godra manna jnzsiglum at jngilæif fyrnefnd tiundadi halft fiorda hundrad hundrada. suo oc kærdi þorlæifr vpp a margretu vm a[dra peninga frida] oc vfrida. oc jardar parta sem kristínu biornsdottr hafdi fallit i arf epter jon jonsson son sinn enn honum epter faudr modr sina sophiu æireksdottur oc sophiu epter systr sina[r adrnefndar jngilæ]ifu oc asu. oc saker þess at margret þrattnefnd kendizst fyrer oss oc lysti ath biorn æinarsson hefdi sellt þessa saumu jardar parta oc lausa godz sem þorlæifr kærdi [til bonda sinum benedickt bry]niolfssyne oc vændist þar wottum ath. syndizst oss margret optsaugd lauglega fyrer kaullut. þui dæmdum vær þorlæifui arnasyni vegna kristínar konu sin[nar adrnefndrar] alla þessa jardar parta oc lausagodz sem fallit hefer epter ingilæifu oc asu æireksdætur svo mikit wr jordum oc lausa

[1]) þannig; [2]) Sbr. Nr. 355 og 356.

godzi sem at Rettu til ber honum i s[itt hlutskip]ti[1]) med adra. at Rettum erfdvm epter fyrgræindar systr. nema margret syne her i dag med wottum edr skylrykium ath biornn æinarsson hafui sellt i loglegu vmbodi [kristínar dottur] sinar þessa saumu jardar parta oc lausa godz benedickt bryniolfssyni oc fulla peninga fyrer lukt birne adr græindum. leider hun eigi her prof sveri hun fullan [bokareid her æ þingi]nu at hun skal þeim æinum profum vænazst sem hun hýggr saunn vera. vill hun ei sveria þa er hennar profuum fyrer skotid. enn ef hun sverr sem dæmt er. þa læidi hun laga [vitni til fulln]adar her at saudæ fyrer þorstæini hirdstiora eda hans wmbodsmanne. enn ef þa fallazst titt nefndri margretu vitni. þä dæmum vær hana sk[ylduga til ath giallda þo]rlæifui arnasyni fulla femissu epter hvert hundrat. sem han hefer ætt i jordum oc lausagodzi. þar til sem þorlæifr krafdi benedickt peningana. enn sydan [med laga vô]xtum oc þar a ofan sex merkr j fullRette þorlæifs fyrer þat hann let sveria tvo skylRijka wotta at hann hafdi kraft benedickth peningana. skulu þær sex merkr vera [luktar sid]azst at saudæ a næstum fardogum. enn abatin af godzunum þar hver sem fallit hefer oc luki margret þrattnefnd þetta godz wt at næ[stum fardogum þorlæ]ifui eda hans vmbodzmanne. Oc til sanninda her wm settum wær fyr skrifuader menn wor inzsigle fyrer þetta bref skrifuat i glaumbæ j skagafirdi æ sama ari degi] sidar enn fyr seger.

---

353. 5. Mai 1421. í Glaumbæ.

Sex menn votta um jarðakaup þeirra Þorleifs Árnasonar og Kristínar Björnsdóttur konu hans af einni hálfu og Ásgeirs Árnasonar og Guðfinnu Þorgeirsdóttur konu hans af annari.

AM. Fasc. VIII, 2, frumbréfið á skinni. Innsiglin eru dottin frá.

bref fyrir hvamme. ok fyrir audrum jordum.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia ædr hæyra sænda þorstæinn gudmundzson biornn amundason gudmundr þordarson iuar hallzson branndr gunnarsson ok gunlaugur þorgilsson. q(uediu) guds ok sina kunnigt gerandi at þar worum vær j hia saaum ok hæyrdum æ j glaumbæ j skagafirði at þorlæifr

[1]) i s . . . . . . tr, afskr.; *tr* mun ranglesið fyrir *ti*.

arnnason selldi asgæiræ arnnasyni med samþycki kristinar biornsdottur konnu sinnar jardir ær suo hæita huamr j huammsuæitth kyrinastadir skarfstadir glerarskogar ok leysingiastadir hueria vm sig med aullum þeim gôgnum ok gædum sæm þæssum jordum hæfir fylgt at fornu ok nýiu ok hann varð fræmzst æigandi ath. sagdi þorlæifr at kirkian j huamæ atte jordina a akræ ok æfra hvamm. hær j motæ gaf asgæir fyr nefndr med samþyckæ gudfinnu þorgæirsdottur konnu sinnar þorlæifui þessar jardir halfuar audkulu j suínnadal. halft mosfæll halfua gæithamra halfua grund halfua liotzhola halfua snædinngstadi half hrafnabiorg ok halft hollt huoria wm sig med aullum þeim gognum ok gædum sem hann vard æigandi ath ok gudfinna kona hans ok þar til gaf asgæir fyr næfndr þorlæifui alla jordina j tungunæsi med þui sæm hænne fylgdi at fornu ok nyiu skylldi huor hallda þeim jordum til laga ær kæypte ænn (sca) suara laga Riptingum fyrir þær er selldi æf þær genngi med laugum af. woru þæsser aller fyr næfnder menn j einu handabandi er kaupiñ foru fram þorlæifur kristínn asgæir ok gudfinna. Ok til mæire stadfæstu her vm settum vid ockr jnzsigli med fyrnefndra manna jnzsiglum fyrir þetta bref skrifuat j glaumbæ j skagafirde manadag næsta æptir krossmæssu wm worid anno domini ᴍ° cð° vissæsimo primo.

---

354. 9. Mai 1421. á Vatni enu syðra.

Pétr Ormsson lýkr klaustrinu á Reynistað með samþykki Sigríðar konu sinnar allan Fossárteigsreka fyrir þrjú kúgildi.

AM. 277. 4to bl. 7 b, skr. 1640, með hendi Guðmundar Andréssonar.

vm forsarteigs Reka.

Þad giore eg petur Ormsson godum monnum kunnugt. medur þessu mijnu Brefi. ad eg hef lukt stadnum j Reininesi Rekan allan fra forsärteig a Reykiaströnd til æfinligrar eignar. med samþycke sygrijdar konu minnar. firir þriu kugilldi. er þat reka mark vti midia forsā. oc sudur til mots vid fagranes. skylldi stadur eiga bædi vidreka oc hualreka oc allt þat er til gagns kann ad koma. skal þat eign stadarins obrigd enn fra

skilid forsarteig. oc ollum þeim er hana eiga oc a bua. Og til sannenda hier vmm setta eg mitt jnncigli (firir) þetta Bref. huort ed giort var a vatni enu sydra j Skagafyrdi. fostudag næstann firir Botolffsmesso Anno 1421.

---

355. 4. Júní 1421. í Glaumbæ.

Dómr tólf manna geinginn daginn áðr að Sauðá eptir útnefning Þorsteins hirðstjóra Ólafssonar um kæru Þorleifs bónda Árnasonar til Guðmundar bónda Ólafssonar, sem hafði löglegt umboð Margrétar Eiríksdóttur, að hann hefði rofið á sér dóm, og ekki goldið það jarðagóz og lausafé, er Margréti var dæmt að greiða Þorleifi, og er Guðmundr nú dæmdr til að halda dóminn.

AM. dipl. afskrr. Nr. 5664, «Ex originali» með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna. «Brefed er med. 8. Jnnsiglum, og 4. þveingjum. Jnnsiglenn eru oskir.»

Þeim godum monnum sem þetta bref sia eda heýra senda sveinn biarnarson. hallr olafsson. þorsteinn gudmundzson. lytingr hialltason. einar magnusson. gudmundr þordarson. olafr leifsson. hilldibrandr þordarson. magnus þordarson. kaarr biarnarson. einar olafsson oc einar olafsson Q(uediu) G(uds) oc sina kunnigt gerandi at þaa er lidit var fra higat burd vors herra iehsu christi þushundruth fiogur hundruth tuttugu oc eitt aar aa þridivdagen næsta post octavam corporis christi. aat saudaa j skagafirdi aa almenniligv þingi voru vær i dom nefnder af erligum manni þorsteinni olafssyni hirdstiora nordan oc vestan aa islandi ath dæma i millum þorleifs bonda arnasonar oc gudmundar bonda olafssonar. kiærdi nefndur þorleifr til gudmundar ath hann hefdi rofit aa honum dom oc eigi lukt honum þa penninga sem honum voro dæmder af margretu eireksdottur epter því sem domsbref þar vm giort vottar. oc saker þess ath greindr þorleifr let þar sueria tuo skilrika votta at fýrr nefndr gudmundr hafdi tekith fvllt oc laugligt vmbod margretar eiriksdottur firir fardaga i gagndaga viku.[1]) suo oc var suarith af teimr skilrikum vottum ath laugligur vmbodsmadr þorleifs hafdi beitt oc kraptt penninganna a faustudagin j fardaugum[2]) oc

[1]) þ. e. 27. Apr.—3. Maí; [2]) þ. e. 23. Maí.

fenngit ecki. því dæmum vær opttnefndan gudmund olafsson dominn rofit hafa oc vera enn skýlldugur hann ath luka epter þvi domsbrefi sem hier var lesit i dag jnnann siau nœtta oc hier œ ofan firir halld oc rangliga medferd fullretti þorleifs sex merkr i voru edr voruvirdu godzi oc mork i domrof oc lukizt heima i glaumbæ innann halfs manadar. Oc til sanninda hier vmh settum vær fýr nefnder menn vor inzcigli firir þetta domsbref er giortt var i glaumbæ i skagafirdi a sama œri deigi sidar enn fýrr seger.

---

356. 30. Júni 1421. í lögréttu.

Rafn lögmaðr Guðmundsson úrskurðar þá dóma, sem geingið höfðu í máli Þorleifs bónda Árnasonar og Margrétar Eiríksdóttur, löglega í alla staði (Nr. 352 og 355).

AM. dipl. afskrr. Nr. 5666, «Ex originali» með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna. »Brefed er ā kalfskinn með einu brotnu Jnsigle, enn Þveingurenn er slitenn ódrumeigin og þvi laus fra þaug bref sem þar hafa vered med fest, so sem urskurdurenn seiger.»

Þeim godvm monnum sem þetta bref sia edr heyra sender hrafnn gudmundsson laugmann nordan oc vestan œ jslande Q(uediu) G(uds) oc sína kunnigt giorandi ath sub anno gracie ꝳ° cccc° vicessimo primo manudag næstan epter peturs ꝳesso i lavgrettv æ jslandi kom firir mic þorleifur bondi ærnason birtandi mier domsbref ath dæmt hafdi verith i milli adrnefnz þorleifz oc margretar eireksdottur. Jtem i annari grein tedi œdr nefndur þorleifur mier domsbref er dæmt hafdi verith i milli tittnefnz þorleifs oc gudmundar olafssonar i lavgligv vmbodi margretar eireksdottur. beiddi oc krafdi þrátt nefndr þorleifur mic vrskurdar œ hvort þesser domar edr domsbref væri lavgligh edr eigi. nv saker þess ath egh invirdiliga skodadi þessu saummv domsbref oc litvzt þav mier j alla stadi lavglig. þvi at til kavllavdvm þeim bestvm monnum er i hia mier voru oc mier samþýckiandvm sagda eg j guds nafni amen med fvllvm laga vrskvrdi œdr nefnda doma laugliga i alla stadi oc þessi domsbref bædi lauglig er hier er(v) med fest þessv minv vrskvrdarbrefi med aullvm sinum greinvm oc artikvlis oc obrigdi-

liga halldazt eiga. Oc til sanninda hier vm setta eg mitt jnzcigli firir þetta mitt vrskurdarbref er giort var i sama deigi oc œri sem fyr seiger.

---

## 357. 8. September 1421. í Bræðratungu.

Einn prestr og tveir leikmenn transskríbera máldaga Bessastaða í Fljótsdal og Njarðvíkr í Borgarfirði eptir Vilchinsbók (1397).

AM. dipl. afskrr. Nr. 2011 «epter originalbriefe fra Niardvik i Mulasyslu». Prentað í Tímariti Jóns Pétrssonar III, 99.

Ollum godum monnum þeim sæm þetta bref sea ædhr heyra sænda þorkell gissorarson prestr þorualdr oddzsson oc Jon Egilsson læikmænn Q(uediu) gudz oc sina kunnikt gerandi ath mær saghum oc jnwirdoliga yfuerlasom maldagh(a) þessara kirkna bessastadær j fliotzdaal oc niarduik j borgarfyrdi er liggia j austfiordum suo latandæ huor þeirra vm sigh ordh fraa ordhi med ollum sinom græinom oc articulis sæm her sæghir. [Hér koma máldagar Bessastaða frá 1397 (sbr. Dipl. Isl. I, Nr. 92 ár 1203) og Njarðvíkr frá 1397; sjá hér að framan Vilchinsbók CCXLIX bls. 212 og CCLXVII bls. 222].

Oc til sanenda her wm setto wer furnæfndir mænn wor jnsigli firir þetta bref er gert var j tungu er liggr j biskups tungom marie messo sidaræ anno domini ꝏ⁰ cd⁰ vicessimo primo.

---

## 358. 18. December 1421. í Tungu í Fljótum.

Höskuldr Runólfsson selr Arnfinni bónda þorsteinssyni jörðina Tungufell í Svarfaðardal, en Arnfinnr gefr á mót jarðirnar Lund og Nefstaði í Fljótum og þar með tíu kúgilldi.

AM. Fasc. VII, 30, frumbréfið á skinni. Sex innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en nú er að eins brot eptir af 2. og 4.

Tungufells Breff[1]).

Þat gærer ægh hauskulldr runolfsson godum monnum kunnigt med þæssu minu brefi at æk kænumz at ægh hæfer

[1]) Aptaná bréfinu með yngri hendi.

fæingæt arnnfinnæ bonda þorstæinssýnæ til fullrar æignar jôrdæna tungufæll ær liggr j suarfadardal med ollum þeim gôgnum ok gædum sæm fýlgt hæfer at fornu ok nýo ok ægh hæfer fræmzst æigandi at vordætt.

Hier j moti gaf arnnfinnr mier jôrdæna lund ok næfstadi badar j fliotum med ôllum þeim gognum ok gædum sæm græindum jôrdum æ at fýlgia at laugum. æru þær vtluktar ok afhændar sua mier væl anægir [ok þar med tiu kugilldi[1]). þui gærer æk adr næmdan arnnfinn bonnda allungis kuittan fýrir mier ok ollum minum æftir komandi af greindu jardar værdi.

for þetta jarda[2]) kaup fram a vôllum j suarfadardal olafs messo fýrri[3]) þa lidæt var fra burd kristz þusund fiogr hunndrat ok xx ar þæssum godum monnum hæa verandum olafæ æýolfssýnæ gudlæiki þorstæinssýnæ hauki gudmundzsýnæ ok birtinngæ jonssýnæ.

Ok til sanænda hier um sættum vith hauskulldr ok arnnfinnr ockr jnzsigli med fýr næmdra manna jnzsiglum fýrir þetta bref skrifuat j tungu j fliotum fimtadagh næstan fyrir jol ari siidar æn fýr sæghær.

---

359. 16. Febrúar 1422. á Egilsstöðum.

Dómr Orms Jónssonar, kongs umboðsmanns í Múlaþingi, og þeirra dómsmanna, er hann útnefndi, um vígsbætr eptir Sigurð Þorsteinsson, er Pétr Tumason óforsynju í hel sló.

Ny kgl. Saml. 1945. 4to bl. 53 a, skrifað af Hannesi Gunnlaugssyni 1666.

Domur vmm vijgsbætur epter Sigurd Þosteinsson.

Þad g(iörum) v(ier) Jørundur Vijgfusson. Eivindur Gudmundsson og Jon Jonsson g(odum) m(onnum) k(unnugt) m(ed) (þessu) v(oru) opnu brefe ad Anno m. cccc. xx og ij är mänudaginn næsta fyrir Simonsmessu. ad Eigelstödum j fliotsdalshierade þingstad R(iettum) v(orum) v(ier) j d(om) n(efnder) med odrum 12 dandemönnum af velbornum manne Orme Jonssyne

---

1) [ritað á spássíu og vísað inn; 2) nokkuð óljóst; 3) þ. e. 29. Júlí 1420.

kongs vmmbodsmanne j Mwlaþinge ad d(æma) hvorsu hāfar bætur skyllde koma effter Sigurd heitenn Þosteinsson er Petur Tumason oforsyniu j hel slo.

nw af þvi vær vrdum ā eitt samþycker. þā dæmdum vier 27e j vijgsbætur effter greindann Sigurd ef hann hefde vered saklaus j hel sleigenn. en þa skyllde falla af þessum vijgsbotum ef greindur Sigurdur hefde hoggved þad sama hogg sem Petur fieck j hofuded ā þeim sama funde. so og dæmdum vier Arna Þosteinsson skylldugann ad selia greindum Petre Tumassyne (grid). so og sellde Arne greindum Petre med handsolum effter vorum dome erfingianna vegna grid og frid.

d(æmdum) v(ier) f(yrr) n(efnder) d(oms)m(enn) tijttnefndann Petur wtlægann.

Samþycte.

---

## 360. 22. Júní 1422. á Torfustöðum.

Dómr tólf manna útnefndr af Ásgeiri Árnasyni, kongs umboðsmanni í Húnavatnsþingi, um nokkur fjármál Jóns Arnbjarnarsonar og Rafns Sveinbjarnarsonar við Þorvarð Ólafsson.

Eptir dómabók í 4to, bls. 51—52, sem eg á, skrifaðri um 1608 (= *a*), og AM. 211c. 4to, bls. 149—150, skr. c. 1680—1700 (= *b*). Dómrinn er prentaðr í Sýslumannaæfum Boga Benediktssonar I, 442—444.

Domur vm [Rangligt halld œ peningum[1]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia eda heyra senda Matteus Pietursson. Hakon Magnusson. Arnbiorn Einarsson. Gudmundur Þorlaksson. Kolbeinn Andriesson. Ari Vigfusson. Þorualldur Berþorsson. Þorarinn Oddzson. Þorkiell Asbiarnarson[2]). Magnus Þormodsson. Ofeigur Þorgeirsson. [Suartur Stephansson[3]). kuediu Guds og sijna. kunnigt Giorandi a Torfustaudum j Midfirdi œ almenniligu þingi. vorum vier i dom nefndir af ærligum manni Asgeiri Arnasyni er þa hafdi kongs[4]) vmbod yfir allt Hunauatzþing. Ad dæma œ milli þeirra Jons[5]) Arnbiarnarsonar. Hrafns Sueinbiarnarsonar[6]). og Þoruardar Olafs-

---

[1]) [ranglegt peninga halld *b*; [2]) Asbiörnsson *b*; [3]) [Einar Jonsson *b*; [4]) kongsinz *b*; [5]) *b*; Jón, *a*; [6]) Snæbiarnarsonar (!) *b*; af einni hálfu b. v. Sýsl.

sonar af annari alfu. og Greindur Þoruardur var [þar þa Riettiliga[1]) firir [kalladur og[2]) stefndur. og sakir þess ad adur [greindur[3]) Jon og Hrafn. kiærdu þad til Þoruardz Olafssonar ad hann hefdi ad hallda vostack[4]) med Briggishnappa med vir og spensl med silfur. er Katrin modir hans hafdi skipad sera Asgrimi Snorrasyni firir Bord og kenzlu Þoruardar sonar sins og hennar bref þar firir[5]) giort uottar.

Þui dæmdum vier þrattnefndir domsmenn. þrattnefndann Þoruard[6]) Olafsson skylldugann ad afvenda og luka adurgreinda Gripi Jone Arnbiarnarsyni og Hrafni Sueinbiarnarsyni[7]). eda þeirra laugligum vmbodzmanni jnnann manadar ad[8]) heyrdum dominum. hier œ Torfustada þingi j midfirdi ef þeir ero til. Enn ef þeir ero eigi til þa adra suo goda[10]) vndir sinn suarinn eyd. nema hann syne med suornum vottum ad þeir sieu afhendtir adur.

Jtem j annari Grein [suoru tueijr skilrikir[11]) vottar. ad tittnefndur Þoruardur hefdi [handlagt sera asgrijme[12]) Snorrasyni j fiarskipti og Reikningskap. fimm kugilldi til fullrar Eignar.

Þui dæmdum vier opt nefndann Þoruard skylldugann ad[13]) luka ad næstum fardaugum. fimm kugilldi [med þessum frideijka[14]). ku og asaudar kugilldi med fullum lauguoxtum[15]). og þriu Gielldfiar kugilldi med leigum [og leiguleigum[16]). ef [þeir[17]) gieta þad synt[18]) ad þeir hafi beitt og krafit ad laugum. Enn þeim fullrietti[19]). Jone. v.[20]) merkur. Enn Hrafni 4[21]) merkur. Riett lukt j aullum laugaurum jnnan manadar. hier œ Torfustaudum[22]) ad heyrdum dominum.

[Enn ef þeir syna eigi ad þeir hafi krafit ad laugum. Gialldi þœ med leigum þessi fimm kugilldi. nema tittnefndur Þoruardur gieti synt ad hann hafi lukt adur. Skal hann aull sin prof leida hier œ Torfustaudum j Midfyrdi. firir kongs vmbodsmanni jnnan manadar ad heyrdum domnum.

---

[1]) [Riettiliga þa *a*; [2]) [sl. *a*; [3]) greinder menn *b*; [4]) vastach *b* og bætir »med« framan við; [5]) vm *b*; [6]) Þoruardz (!) *a*; [7]) Snæbiarnarsyne (!) *a*; [8]) af *a*; [9]) profasta (!) *a*; [10]) jafngoda *b*; [11]) [suo . . . . . ilrikir *a* (rifið) og bætir »Jtem« við í upphafi greinarinnar; [12]) [ha . . . . . *a* (rifið); [13]) sl. *a*; [14]) [sl. *b*; [15]) lagavôxtum *b*; [16]) [sl. *b*; [17]) þeirra, *a* (!); [16]) [þad synest *b*; [19]) [sl. *b*; [20]) iij *b*; [21]) iiij *b*; [22]) Thorfastôdum *b*.

Jtem i þridiu grein vm þann eid er Þorarinn Halluardsson sór og tueir uottar adrir soru eins vitnis. þann eyd og skra dæmdum vier til laugmannz og suo mikid sem oss bar ẏfir ad taka[1]). en kongi Riett eptir bok.

Og til sanninda hier vm setium vier fyrnefndir menn vor Jnnsigli firir þetta domsbref skrifad[2]) ꝍ torfustaudum i Midfirdi manudæginn firir [Jonsmesso baptista[3]) anno dominj ꝏ⁰. cd⁰. xx⁰. secundo.

---

## 361. 13. Júlí 1422. í Skriðu.

Rafn lögmaðr Guðmundsson samþykkir og staðfestir dóm tólf manna frá 22. Júní 1422 (Nr. 360).

Dómabók í 4to, bls. 52—53, sem eg á, skrifuð c. 1608 (= *a*); AM. 211c. 4to bls. 150—51 skr. c. 1680—1700 (= *b*).

Vrskurdur Hrafns laugmannz yfir[4]) þennann dom.

Þeim godum monnum sem þetta bref sia eda heyra. Sendir Rafn Gudmundzson laugmann nordan og vestan ꝍ Jslandi. kuediu gudz og sijna kunnigt giorandi. ad þa lidit uar fra hingadburd vors herra Jehsu christi [þusund iiijc xx og ij[5]) ar ꝍ manudæginn næstan firir Þorlaksmesso ꝍ skridu j Reykiardal.[6]) kom firir mic Jon Sæmundarson j [laugligu vmbodi[7]) Jons Arnbiarnarsonar.[8]) [Tiaandi mier[9]) dom [vndir godra manna Jnnsiglum. huer ad[10]) dæmdur hafdi verid j millum[11]) [adur nefnds[12]) Jons Arnbiarnarsonar[13]) og Þoruardz Olafssonar. Beiddi [og krafde[12]) fyrnefndur Jon mic[14]) vrskurda [vm ad[15]) huort þessi domur væri laugligur edur eij. Enn sakir þess ad ec [jnnuirdiliganna skodadi[16]) þennann dom og domsbref. og leijst mier þad i alla stadi lauglegt.

Þui ad til kaulludum þeim[17]) bestu maunnum er[18]) hia mier voru og mier samþyckiundum.[19]) Sagda eg i Gudz nafni amen med fullum laga vrskurdi. adur nefndan dom laugligann

---

1) [vantar í *b*; 2) sl. *b*; 3) [Johannem Baptista *b*; 4) vppa *b*; 5) [M. cccc. xxij *b*; 6) Vykiedal (!) *b*; 7) [vmbode lỏgligu *b*; 8) arnbiðrnssonar *b*; 9) [og med *b*; 10) [sem *b*; 11) mílle *b*; 12) *b*; rifið úr *a*; 13) sl. *b*; 14) ad b. v. *b*; 15) sl. *b*; 16) [skodade jnnvirdulega *b*; 17) sl. *b*; 18) sem *b*; 19) samþickendum *b*.

j alla stadi og þetta domsbref statt og staudugt er hier er med fest þessu minu vrskurdarbrefi med aullum sijnum greinum og articulis halldast eiga obrigdugliga.[1])

Og til sanninda hier vm setta ec [firir þetta mitt vrskurdarbref mitt Jnnsigli giort i sama stad deigi og ari sem fyr seigir.[2])

---

362. **10. Oktober 1422. í Brautarholti.**

Jón biskup á Hólum kvittar Steindór Andrésson um hálfa jörðina Brúarland í Óslandshlíð.

AM. Fasc. VIII, 4. Frumritið á skinni; innsigli biskups er dottið frá «þetta bref er skrifad med sömu hendi sem þad Jons biskups bref er liggur i Archivo Regis Daniæ. þad man eg glögt» (AM). [Sbr. Nr. 342] AM. dipl. afskrr. Nr. 296.

brvarland.[3])

Ver Jon med gudhz nadh Biskup a holom giorom godhom monnom vitterleight med þesso. war(o) brefi þat om alle þan rett oc tiltala som wi hafom til steindor andresson om þan halfua Jærd bruærland sem ligger j ouslandz lidh. gifom wer honom quitt. free oc freels fyr oss oc allom warom æfter kommandom om fyr nemda jærd. Oc til sanninda her om settiom wer wart jncigil fyr þetta bref er giort war j bryterholte liogerdagen nest fyr calixte pape Anno domini ꝏ° cccc° xx° ij°.

---

363. **21. Oktober 1422. á Torfustöðum.**

Dómr útnefndr af Guðmundi bónda Arasyni um kæru Péturs Finnssonar til Þorvarðs Ólafssonar um þá peninga, er Ingibjörgu Klementsdóttur féllu til erfða eptir Margrétu móður sína.

Dómabók í 4to, bls. 53—54, sem eg á, skrifuð c. 1608 (= *a*); AM. 211c. 4to bls. 151—152 skr. c. 1680—1700. Dómrinn er prentaðr í Sýslumannaæfum I, 444—445.

Domur vm [Rangligt penninga halld.[4])

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edur heyra. Senda Hallur Þorgrimsson. Pietur Þordarson. Jon Þorgrimsson. Arn-

---

[1]) obrigdannliga *b*; [2]) [mitt Jnnsigli firir þetta vrskurdar breff Anno die et loco vt supra *b*; [3]) Aptan á bréfinu með fornri hendi: [4]) [penningahalld Rangligt *a*.

biorn Einarsson. Gudmundur Þorlaksson. Biarni Gunnarsson.[1]) Hallur Þorkielsson. Þorkiell Asbiarnarson.[2]) Colbeinn Andriesson. Einar Þordarson. Þorarinn Asbiarnarson.[3]) Jon Oddzson. Suartur Stephansson. (kuediu gudz og sina). kunnigt giorandi ad þa ed[4]) lidit uar fra hingad burd uors herra Jehsu christi [ꝏ° cð°[5]) visessimo secundo[6]) miduikudæginn[7]) fyrstann i vetri vorum vier i dom nefndir. Af Gudmundi bonda Arasyni ꝏ Torfustaudum[8]) i Midfyrdi ꝏ þingstad ʀiettum. ad dæma i millum[9]) pieturs finnssonar og Þoruardar[10]) Olafssonar vm þa penninga. er Jngibiorgu Clemensdotter til erfda[11]) fiellu eptir margrietu modir sijna. og Þoruardur[12]) tok ad sier eptir Margrietu modir þeirra. og suarid er af tueimur skilrijkum vottum ad magnus grimsson ʀeiknadi niutie hundrada sier og sinni kuinnu hid næsta haust adur hann deydi. og uann þar ꝏ fullann bokareyd.

Þui dæmum[13]) vier adur nefndum pietri j vmbodi kuinnu sinnar halfan fimta taug hundrada[14]) af þeim [nietiu hundrudum.[15]) med leigum og [leigu leigum[16]) sidan hann fieck Jngibiargar til þess er pietur beiddi og krafdi. sidan dæmdum vier med fullum[17]) laga auexti vm þau tuo ar ad suarit var ad pietur hefdi bædi beytt og krafit.

Jtem dæmdum vier Þoruard Olafsson skylldugann ad luka þessa peninga heima ꝏ audunarstaudum ad næstum fardaugum.[18]) Skylldi tittnefndur Þoruardur syna med suornum eidum huort meira væri fritt ędur ofrijtt. jnann manadar særra daga. Enn ef eigi verdur synt. þa dæmdum vier þridiung ofritt enn tuo hluti frijtt. Annad enn þad j Jaurdu lyggur. Skal Þorvardur[19]) þessi prof leida firir Gudmundi syslumanni edur hans laugligum vmbodzmanni.

Sidan dæmdum vier optnefndum pietri. v. merkur j sitt fullrietti ꝏ huorri krauf.[20]) og lukast[21]) jnnan manadar heima ꝏ Torfustaudum[22]) ad heyrdum dominum j aullum laugaurum.

---

[1]) grijmsson *b*; [2]) Asbiornsson *b*; [3]) *b* bætir hér rangliga inn aptr: »Einar þordarson«; [4]) sl. *b*; [5]) dc, misskr. i *a*; [5]) [M. cccc. xxij, *b*; [7]) midkudag *b*; [8]) Torfastöðum *b*; [9]) mille *b*; [10]) þorbiarnar (!) *a* (hér, en þorvarðr síðar í bréfinu); [11]) Clemusdóttur, *b*, og bætir við: til erfða; [12]) þoruardur *b*, Olafur *a*; [13]) dæmdum *b*; [14]) sl. *b*; [15]) [niutigum hundrada *b*; [16]) þannig *b*; leigu leigu leigum *a*; [17]) fullkomligum *b*; [18]) og. b. v. *b*; [19]) þorgrimur *a* og *b*; [20]) kröfu *b*; [21]) lukest *b*; [22]) Thorfastôdum *b*.

Og til sanninda hier vm setium vier fyr nefndir menn vor Jnnsigli firir þetta domsbref giort[1]) i sama stad [deigi og ari sem fyr seigir.[2])

364. 12. Janúar 1423. á Torfalæk.

Tveir menn votta, að Þorsteinn Þorgrímsson hafi samþykt sölu Þorgríms föður síns á jörðunni Neðstabæ í Norðrárdal til Helga Þormóðssonar, og að hann kvitti Helga um greinda jörð.

AM. Fasc. VIII. 6, frumritið á skinni. Bæði innsiglin eru dottin frá.

Nedstabæiar bref.[3])

Þath gerum uid einar hallfredarson ok markus eÿiolfsson godum monnum viturligt medr þessu ockru brefe ath a mardargnupe j uatzdal fiorda dagh jola voru uid j hia sam ok heÿrdum a handaband þeirra helga þormodssonar af einni alfu en þorsteins þorgrimssonar af annarre ath sua firir skildu ath þa somu jord nedstabæ j nordrærdal sem þorgrimr fader hans hafde sellt fÿrr nefndum helga samþykte adr nefndr þorsteinn a sinna vegna huort sem hann hefde j att meira edr minna ok þui gerde hann þrattnefndan helga ollungis kuittan ok akærulausan firir ser ok sinum erfingium edr umbodsmonnum um adr greinda jord. ok til sanninda her um settum uid fÿrr nefnder menn ockr jnsigle firir þetta bref skrifat a torfalæk j hialltabacka sokn eine natt firir geisla dag anno domini ᴍ° cccc° xx° tercio.

365. 3. Apríl 1423. á Möðruvöllum.

Michael prestr Jónsson lýsir því að Jón biskup á Hólum góðrar minningar hafi kallað sig frá Noregi til að gerast prestr í hans umdæmi, og hafi biskup veitt sér Breiðabólstað (í Vestrhópi), og hafi hann meðal annars gerst fjarráðamaðr biskupsstólsins, og á deyjanda degi hafi Jón biskup, er hann sá af forvitru sinni og lækniskunnustu, að sjúkleikr sá, er hann hafði tekið, mundi draga hann til bana, skipað sig til officialis og hafi

[1]) sl. *b*; [2]) [etc. *b*; [3]) Aptan á bréfinu með fornri hendi.

það verið samþykt af mörgum lærðum og leikum, en því embætti hafi hann lítt náð, og kennir það ofríki séra Þorkels Guðbjartssonar og séra Ara Þorbjarnarsonar, er prestafundr á Möðruvöllum kaus til officialis, og stefnir hann þeim því báðum á ársfresti fyrir erkibiskupinn í Niðarósi.

AM. Fasc. VIII, 5, frumrit á skinni, og er stungið saman við bréf Hannesar Pálssonar og fleiri manna frá 15. Apríl 1423. Aptan á bréf þetta er ritaðr með hendi frá c. 1500 dómr visitatorum frá 7. Nóv. 1357 um laxveiði Grenjaðarstaðar í Laxá (sjá Dipl. Isl. III, Nr. 85). Skjal þetta fékk Árni Magnússon frá séra Skúla Þorlákssyni á Grenjaðarstað. Afskript af þessu bréfi er meðal fornbréfaafskripta Árna Nr. 161, gerð eptir þessu frumriti: «Ex authentica tabulâ pergameuâ et appensis originalibus literis.» Um bæði bréfin, sem hér eru samfest, fer Árni þessum orðum: «Utrumque horum documentorum exaratum est manu Norvegi cujusdam, non vero Islandico calamo. Jn utroque eadem manus esse videtur. Communicavit autem hæce mihi Dominus Sculo Thorlacius Sacerdos, Greniadarstadensis.» — Þess er getið í bréfinu frá 15. Apríl 1423 að þetta bréf hafi upphaflega verið ritað á pappír, og eru það hin elztu rök, er vér nú vitum til að pappír hafi verið notaðr til ritgerðar á Íslandi. Bréfið er prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. IV, 229—232.

Jn nomine domini amen.

Vniuersis præsens scriptum cernentibus michael johannis presbyter et officialis Ecclesie holensis notumfacio per presentes quod Reuerendus in christo pater et dominus dominus johannes bone memorie dei gracia Episcopus holensis me ad ecclesiam suam holensem caritatiue uocauit cum a(u)tem ad presenciam suam perueneram literas testimoniales quas de noruegia et patria mecum portaueram super conuersacione fama et natalibus diligenter inspexit et attente examinauit. quo facto. cognouit parentes meos securus factus de fama et conuersacione hactenus habita petiuit et optauit me fieri clericum Ecclesie sue holensis peticioni uero et voluntati suis gratuitis humiliter acquiescenti contulit mihi canonice Ecclesiam vacantem jn breidabolstadha et cum hoc prepposituram adiacentem que vulgariter dicta est hunauatzthing et super utroque dedit michi suas patentes literas sub sigillo suo maiori impendente. precedente uero tempore. tradidit mihi thesaurum suum necnon et ecclesie sue holensis custodiendum me in diuersis ecclesie negocijs et procuratorijs sepius experiendo. Comperiens autem me fidelem in commissis assiduum et vigilantem in omnibus proposuit me ulterius pro

ecclesia sua debere sustinere labores et ut onus honor consequeretur prepositi ut uoluit prout juris est Ecclesie sue et sibi suisque successoribus juramentum fidelitatis. Elapso tandem paruo tempore cepit ipsum repentina infirmitas et licet lente ipse tamen ut erat sapiens et expertus in medicinis cognouit quod sibi non esset spes de vita. cepit igitur statim disponere de rebus ecclesie de familia et familiaribus et officialibus et procuratoribus qualiter post mortem suam melius staret ordinauit eciam et fecit testamentum de singulis prout de jure potuit conuocauit tamen clericos et laicos et colonos ecclesie quos protunc habere potuit habens colloquium et maturam deliberacionem cum ipsis de singulis. Placuit autem sibi et omnibus protunc presentibus concorditer ut me eligeret et constitueret officialem tam in temporalibus quam in spiritualibus. et licet uoluntati sue et consensui eorum in hac parte sepius resisterem requisitus tamen ab ipso sub iuramento per me ecclesie et sibi prius prestito mandato ipsius et uoluntati eorum acquiescens assumpsi mihi onus et officium et potestatem officialatus et procuratorium et yconomiam de manu domini mei quibus assumptis idem dominus meus jn continenti assignauit michi propria manu omnes claues res et clenodia curam et liberam administracionem omnium rerum ecclesie omnem eciam insuper familiam et familiares et officiarios qui mihi omnes juxta mandatum domini mei sponte promiserunt fidelitatem ex parte ecclesie quousque successor canonice intrans superueniret. super istis autem fecit dominus meus immediate literas fieri quas propri(i) sigilli munimine pluribus fidedignis presentibus roborauit. jstis autem factis disposui de munitis[1]) officijs cuilibet prout necessitas exegit. jllis tamen qui prius habuerant hoc adiecto quod omnes in fidelitate mea prout promiserant ex parte ecclesie prouenirent. Defuncto tandem domino meo conuenerunt aliqui clerici et laici qui omnes unanimiter dederunt mihi consensum ad premissa inter quos primus erat thorkillus gudberti presbyter qui mihi super omnes fidelitatem et firmam assistenciam in omnibus promisit conficiens super hijs literas quas ipse primus et ante alios contentos in eadem litera sigillo suo proprio sigillauit. Conuocantur postmodum alij clerici et laici et conuenerunt die

[1]) AM. les: munitur, og vill leiðrétta í: iniunctis.

statuta videlicet dominica proxima post purificacionem in cenobio modruualla ut et eorum consensum acquirerem non quod jus hoc exegit sed propterea ut singulorum fauorem desideraui efficiuntur modo aliqualiter discordes et hoc propter aliquos qui omni nisu conantur effici officiales non propter commodum ecclesie nec ob salutem animarum sed solomodo propter temporale lucrum volentes vocari rabi et sic dissipare bona ecclesie decerpendo eciam populum ducendo ceci cecos et sic vtrique in foueam cadentes. jnter quos principales erant thorkillus presbyter prelibatus qui michi ut premittitur fidelitatem et assistenciam prius promiserat et alter cum eo aro thorberni presbyter qui se jam gerit pro officiali de facto licet de jure minime possit. hij in tantum clamorem et inauditos strepitus prorumpunt quod ex hijs tumultus magnus generatur in populo. Jam omnes surgunt iam pro maxima parte parant se ad dominum dicentes se nec velle nec posse se ulterius intromitti de istis. sed quasi vna erat vox omnium quod ille sit et maneat officialis qui de jure et iusticia esse poterit. et sic dispersi quilibet arripit viam suam nisi solummodo thorkillus et aro prenominati et complices sui. hij dictant hij scribunt et conficiunt literas secundum velle suum quod aro sit officialis et aliam quod ego renunciaueram juri meo inferentes in hijs literis presentes et absentes qui nunquam in eodem facto fuerant nec aliquem discretum credo easdem literas sigillaturum quia multa falsa et plura non verisimilia jn eisdem leteris aperte continentur. fferia vero iij[a] proxima veni ad ecclesiam holensem et curiam holensem credens omnia in pace et tranquillitate et fidelitate mea fore ut antea fuerant. peruenerat ibi dictus thorkillus presbyter ad curiam et ecclesiam holensem et omnes claues vi prodicione et fallacia jam adeptus fuerat et omnes qui mihi fideles ut promiserant esse uoluerunt extra curiam violenter expulerat clausit curiam clausit domos infra ponendo armatos clausit quoque et serauit ecclesiam retinuit vi et violencia cum armata manu quasi laicus pluribus armatis stipatus omnes res meas et libros et seruitorum meorum similiter et omnes literas meas quas portaui de noruegia et patria ac eciam literas domini mei episcopi holensis super ecclesia bredabolstadh et prepositura prenominatis et licet sepius ablata petierim mihi restitui subiciens me velle stare jure semper non

potui rehabere jota unum. Sequenti uero die venit aro presbyter et omnia que thorkillus prefatus iam gesserat et attemptauerat collaudat et ratificat sibi assistenciam in premissis omnibus faciendo et me et meos in fugam propulerunt et nisi sic spoliatus absque dilacione vias transissem ipsi cum suis complicibus me et meos aut occisos seu laceratos dimisissent aut captos in custodia tenuissent donec securi facti fuissent quod propter jniurias et dampna et prodiciones mihi et meis per ipsos factas nunquam agerem contra ipsos. nunc vero de nouo ut prius feceram te aronem thorberni presentem et thorkillum presbyteros moneo primo 2° 3° et peremptorie ut michi omnia ablata infra x dies ab ista die computando jntegre restituatis. alioquin sentencias excommunicacionis quas vos ipsi ipso facto incurreratis propter premissa ac eciam propter sequentia faciam ammodo denunciari. nam primo vltimam voluntatem domini mei episcopi et vestri impedistis ymouerius fraudulenter et perperam de facto licet de jure nullatinus unquam poteratis infregistis. Secundo injecistis manus violentas in aronem. thorgremum et steinmodum dyaconos ipsos incarcerando[1]) crudeliter tractantes quia noluerunt sic eciam non potuerunt fouere jniusticias vestras. Tercio nitimini cotidie infringere facta domini nostri premissi ipsos destituendo quos ipse instituit tam in ecclesijs per ipsum rite collatis quam in prepposituris et alijs perpetuis officijs illos destituendo qui vestre violencie et injusticie noluerint esse participes volentes uero instituendo nam thorstano helming laico contulistis ecclesiam curatam in myklebæ destituendo asgrimerum stendori dyaconum qui ad eandem ecclesiam est ordinatus et quam plura alia inaudita que ad presens nimis longum esset enumerari que tamen suo loco et tempore enumerabuntur. Jnsuper presentes te aronem thorberni presentem et thorkillum presbyteros ad sedem metropolitanam cito peremptorie ita ut uos personaliter infra annum a crastino tiburtij et valeriani proxime futuro computando coram domino meo metropolitano nidrosiensi compareatis mihi de omnibus et singulis premissis et de ceteris alijs causis que inter nos vertuntur seu verti poterint secundum iuris exigenciam responsuri obligans me vna vobiscum ad penam

[1]) incerando, skbr. AM. leiðrétti.

tallionis jnhibens uobis firmiter in virtute sancte obediencie et sub pena excommunicacionis ne uos ulterius in negocijs sic violenter et jniuriose adeptis ammodo jntromittatis precauens eciam omnibus et firmiter jnhibens[1]) ex parte dei et officij michi commissi sub pena excommunicacionis ne predicto aroni tamquam officiali cum non sit nec de jure esse poterit ammodo obediatis nec sibi aut socio suo uel complicibus suis aliqualem assistenciam jn premissis contra deum et justiciam faciatis omnibus eciam ex parte ecclesie loca et beneficia predia et terras tenentibus mando ut ad me absque dilacione veniatis et nichil contra me seu absque consilio et consensu meo incontentis faciatis nec alteri redditus seu prouentus Ecclesie holensis soluatis preter michi et quibus ego commisero subleuanda. nisi quicunque contra fecerit voluerit bis reddere id ipsum et preter hoc ecclesie et mihi pro inobediencia et omni dampno jnteresse et injuria secundum leges jntegras respondere.

Datum modruualla jn eyafiord anno domini ꝏ⁰ cd⁰ xxiij⁰ iij nonas aprilis meo sub sigillo.

---

366. 15. Apríl 1423. á Möðruvöllum.

Séra Hannes Pálsson, Loptr Guttormsson og sex menn aðrir votta, að Adam Jakobsson hafi lesið fyrir kirkjudyrum í Saurbæ í Eyjafirði stefnubréf Michaels prests Jónssonar til Ara prest Þorbjarnarsonar og Þorkels prests Guðbjartssonar að mæta á ársfresti fyrir erkibiskupinum í Niðarósi.

AM. Fasc. VIII, ad 5. Frumbréfið á skinni; AM. dipl. afskrr. 161 (eptir frumbr.). Sbr. bréf frá 3. Apr. 1423, Nr. 365.

Ollum monnum þeim sæm þetta bref sea ædr høyra kungiorom ver hannes paalsson prestr et cetera. lofter gutþormsson. herman jonsson prestr hakon einarsson hakon magnusson hannes vidhen jon biernasson oc abr(a)ham gudnesson at anno domini ꝏ⁰ cd⁰ xx⁰ tercio iij⁰ non. aprilis varom ver j saurbæ j eyafirde. var þa þar j kirkiune sira are þorbiernarson er þar ær heima oc þar syngr. saghom ver oc höirdom a at sira

---

[1]) jnhibiens, skbr.

michael jonsson prestr oc officialis heilagre holakirkiu taladhe haat firir kirkiu hurdonom j saurbæ oc beidde oc krafde sira ara fyrnefndan at hann skilde koma oc høira hans bref oc þagar efter j stundene fek sira michael fyrnef(n)dr adam jacobssyni med handarbande sit fult oc logliget vmbodh at læsa vidrlíikt bref sæm her ær med fæst oc var þat þo a papíír scrifuat oc inciglat a ryggen med sira michials jncigle æn adam furnef(n)dr lass þat sama brefuet þar firir kirkiu hurdonom j saurbæ þagar samstundis oss oc morgom adrom ahøirande.

Oc til sanninda her vm sættom ver vaar jncigle firir þetta bref. er gort var j modraualla j æiæfyrdi crastino tiburcij et valeriani martirum anno domini ₥cd° xx tercio.

---

## 367. 3. Júní 1423. í Lögmannshlíð.

Ingibjörg Loptsdóttir gefr Magnús Jónsson öldungis kvittan um það umboð, er hann hefir haft yfir hennar peningum, nema þeim peningum, er hún á í Holti í Fljótum.

AM. Fasc. VIII, 7, frumritið á skinni. Innsigli Eyjólfs og Ingibjargar eru fyrir bréfinu.

Kuittunarbref jngebiargar loptzdottur.[1])

Þat giorir ek jngibiorg lopthzdotter godum monnum kunnigt med þesso mino brefi. ath egh giorir ₥agnus jonsson ollungis kuittan oc ækiærolausan fyrir mer ok ollum minum erfingium ok eftir komendum vm alla þa penninga sem hann hefir vmbod yfir haft ok ath sier tekit edr vmskipti æ giort æ minna vegna frida ok ofrida fra þeim fýrsta deghi sem vit attum peningaskipte saman oc til þess sem nu ær komit ath vndan teknum þeim peningum ek eigur j hollti j fliotum. þui hann hefir mer þar fulla ok alla peninga[2]) fyrir lukt ok þeim afhent sem ek hefir skipat ok ʀæd fyrir giort at lukaz skýlldi j minar skulldir. skulu þeir ok allir kuittir æ minna veghna sem hann hefir kuitta giort af suo miklu sem hann medkendiz at hann hefdi at sier tekit. Ok til sannenda her vm setta ek mitt jnzsigli fýrir þetta bref. ok til meiri stadfestu ok sannenda her vm

---

[1]) Aptan á bréfinu; [2]) Hér stendr mer í frbr., en því er ofaukið.

setto þessir menn sin jncigle med minu jnzcigle fyrir þetta bref er hia voro þessum ockrum giorningi er suo heita æÿiolfur hallzson þorsteinn bergsson ok ketill æÿiolfsson. for þesse giorningur fram j lǫghmanzhlid sunnodag næsta eptir festum corporis christi. anno domini ᗰ⁰ cd⁰ vicessimo tercio.

---

368. 29. Júní 1423. á Þingvelli.

Alþingisdómr tólf manna, Kráks Jónssonar (gamla í Skarði) og ellefu annara, útnefndr af Balltízar hirðstjóra, um mál Þorláks Vigfússonar og Jóns Ófeigssonar um jörðina í Skarði á Landi; var Jón fyrir hönd Guðrúnar Sæmundardóttur konu sinnar, er eignaði sér jörðina í arf eptir Sæmund föður sinn, og dæma þeir Guðrúnu jörðina eptir að Jón hafði leitt skilrík vitni að sínu máli.

AM. Fasc. VIII, 8, frumritið á skinni. Öll innsiglin eru dottin frá, nema fjögur og er eitt af þeim brákað.

Skardz bref j landmannahrepp.[1])

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heÿra. senda krakr jonsson. sÿgurdur anngrimzson. asgrimr ormsson. oddr odzson. jon gutthormsson. jonn palsson. þorkell ionsson. þorsteinn sygurdsson. hrafnn sueiñbiarnarson. stÿrkár ionsson. helgi eiriksson oc andres þorarinsson q(uediu) guds oc sina kvnnickth gerandi ath þa er lidit var fra hingatth bvrd vors herra iehsu christi þushundrutt fiogur hundrutt .xx. oc þriu ár fimtadaginn næsta eptir peturs ᗰesso a auxarár þingi vorum vær j dom nefndir af balltízar hirdstiora atth dæma j milli þorlaks vigfussonar oc jonns ofeigssonar a vegna gudrunar sæmundardottur konu sinnar vm iordina j skardi er liggur j landmannahrepp sem nefnd gudrun þottizt eiga j erfd eptir fodr sinn. oc sakir þess atth jon ofeigsson lett sueria tuo skilrika votta atth sæmundr fadir gudrunar atti jordinna j skardi oc henne fell jordin fÿrnefnd til eignar eptir hann. suo oc leiddi jonn þa

---

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi; þar stendr og með hendi frá c. 1700: »Bref wm skard a Lande«.

votta. er þat soru atth gudrunn sæmundardottir fyrirbaud þa er jonn prestr þordarson selldi jordina j skardi att hann skÿlldi hana nokkurvm manni selia. Jtem leiddi jonn þa votta er þat soru ath jon prestr þordarson lysti þíj atth gvdrunn sæmundardottir hefdi alldri vpp lagtt jordinna j skardi vid sigh til saulu edr eignar oc aungua penninga fyrir tekit. oc sakir þess atth fÿrnefndr þorlakr vigfusson leiddi þau eiginn prof atth oss leitz nokkutt afl hafa j moti þeim profvm sem jonn leiddi. þíj dæmdum vær fÿr nefndir menn atth suo profudu jordinna j skardi gudrunnu sæmundardottur til fullrar eignar. Oc til sannenda her vm settum vær fÿrnefndir menn vor insigli fyrir þetta domsbref er gerth var a þinguelli a sama degi oc ari sem fÿr segir.

---

369. 1. Júlí 1423. á Þingvelli.

Þorsteinn lögmaðr Ólafsson staðfestir alþingisdóm frá 29. Júní 1423 (Nr. 368) um Skarð á Landi, að það skuli vera erfðaeign Guðrúnar Sæmundardóttur.

AM. Fasc. VIII, 9. Frumrit á skinni. Innsiglið er dottið frá.

Ek þorsteinn olafsson logmann sunnann ok austann a islandi gerir godum monnum kunnickt med þessu minu brefi atth jonn ofeigsson beiddi mik ok krafdi orskurdar æ. huort þath domsbref skylldi stodugtt halldaztt er gudrunu sæmundardottur konu fyrnefnz jonz var dæmd jordinn j skardi j landmannahrepp. þíj atth til kaulludum þeim godum monnum sem hia mer voru ok mer samþykiundum. þíj j guds nafni amen sagda ek þorsteinn olafsson logmadr austann ok sunnann a islandi med fullum laga orskurdi þat domsbref [loglight sem hier er med fest ok eiga[1]) ath halldaztt med ollum sinum greinum ok articulis. Ok til sannenda her vm setti ek mith jnsigli fyrir þetta orskurdar bref er gert var a þinguelli. fimta dagin næsta eptir peturs ɱesso. þæ er lidit var fra hingatbvrd vors herra iehsu christi þushundrut fiogur hundrut xx ok þriu ar.

[1]) [nokkuð óljóst í frumritinu, en sýnist víst eiga að lesast svo.

fÿrr nefnd þorsteinn ok helga hallda til laga. Ok til sanninnda her um settum ver fÿrnefnder menn vor jnzsigle fur þetta transkripttum sem giort var a holi j bolungarvik fimtadagin næsta fur trinitatisdag þa er lidit var fra higatburd vors herra jehsu christi þushundrud cccc xx sex ar.

---

385. 25. August 1426. í Grindavík.

Jón prestr Pálsson, ráðsmaðr á Hólum, og Gottskálk Landbriktsson votta, að herra Hannes Pálsson hafi hinn 16. Júlí þá um sumarið í Björgvin feingið Hermanni langa, «forstandara» að allra heilagra kirkju í Björgvin, jörðina Hvalsnes á Rosm(hv)alanesi bæði herra kongsins og sinna vegna.

AM. dipl. afskrr. Nr. 5619, «Ex originali» með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna. «Brefed er a pergament, med tvejmur Jnnsiglum oskirum, mädum og ecke lesande.»

Ollum godum monnum þeim sæm þetta bref sea edr heyra senda jon paalsson prestr oc Radzmann ath holum j hialtadaal ok gotskalk landbriksson q(uediu) gudz oc sina kunnikt gerandi ath mit worum þar j hia saghom oc heyrdom wppaa. aa kanucka bergino j berguín tyrsdaghen nesta firir festum sancti thorlaci Episcopi[1]) Anno domini m⁰ cd⁰ xx⁰ sexto ath herra hanis paalsson feck med fullo handabande herman langha forstandara ath allra heilagra kirkiu j bergwín huaalsnes a Rosmalanesi liggiande badæ síns herra kongsins oc suo sína vægna firir alla þa tiltaulo sæm hann til hennar[2]) hafdi ath tala a vors herra kongsins j noregi oc sína (vegna) til freals forrædis oc fullrar æighnar j suo mata ath greindr hermann forlikæ sek med minom herra konghenom þat besta hann kann suo ath hann ghiore herra hannis skuldlausan firir minom herra kongenom þar vm. ok firir þui at hann var til ræido þa ath s̈eckia wors herra kongsins nadhær. oc til mæiri stadfesto oc sannindha her vm okarar nerwero oo hiavistar setto mit okr jnsigle fir þetta bref skrifuaat j grindhawík sunnodaghæn nesta efter festum bartholomei apostoli a sama aræ sæm adr segher.

---

[1]) = 16. Júlí. [2]) þannig.

386. 3. September 1426. í Björgvin.

Ráðið í Björgvin lýsir því að skýrsla Hannesar Pálssonar um yfirgang Englendinga á Íslandi muni vera sönn í öllum greinum, nema hvað telja megi miklu fleira en þar er gert, sem mundi verða laung þula og leiðinleg, svo þeir láta hjá líða að auka þar framar við að sinni.

Ríkisskjalasafn Dana «Island & Færöe» Suplement I, 2 (frumrit); er áfast við skýrslu Hannesar Pálssonar 1425 (Nr. 381). Prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. IV, 169.

Nos Thorbernus herberni iusticiarius. Olauus thorie. Johannes yuari. Aslacus vlfonis. Johannes euindi. Thorla(c)us erlingi. Thorias johannis. Martinus haquini. nicholaus magni. Petrus ketilli. Petrus johannis. laurencius mws. Endridus haldani et Bero andree Consules Bergenses Notum facimus vniuersis quod anno domini ꝏ cd xx sexto feria tercia ante festum natiuitatis beate ꝏarie virginis jn Curia episcopali Bergis a nobili consilio regni norwegie specialiter constituti recepimus testes et attestaciones multorum fidedignorum iuramenta prestancium iuxta leges regni norwegie super caussis et articulis transgressionum anglicorum de hull. Eboraco et lenn et alijs locis anglie in jslandia et ibi circumquaque contractarum que quidem cause et transgressiones erant vt veraciter accepimus nobili nonsilio regis anglie et specialiter domino duci Exensi amarallo anglie per honorabilem virum johannem pauli Capellanum domini nostri regis norwegie et dacie et cetera anno proxime preterito in scriptis propalate juxta tenorem cedule presentibus coaffixe quos quidem articulos inuenimus lucide per diligentem examinacionem et legittimas attestaciones multorum fidedignorum vt prefertur omnes et singulos probabiliter veros hoc adjecto quod idem anglici multa alia mala ibidem perpetrauerant que omnia propter prolixitatem eorum et tedium auditorum ad presens distulimus enarrare. Jn quorum omnium testimonium sigillum Communitatis Ciuitatis Bergensis presentibus duximus apponendum.

datum anno die et loco supradictis.

387. 30. September 1426. á Þingeyrum.

Sveinn Bjarnason og Þuríðr Ólafsdóttir kona hans handleggja Guðmundi Þorlákssyni jörðina Krossnes í Eyrarsveit «upp á réttan reikning.»

Eptir afskript staðfestri 3. Sept. 1703 á Geirrauðareyri af Guðmundi Þorleifssyni, J(óni) Jónssyni og Birni Jónssyni.

Ollum mônnum þeim sem þetta bref siä edur heira senda Hallur Þorgrijmsson. magnus Teitsson. Jon arnorsson quediv gudz og sijna kunnigt giörandi ad þar uar(um) uier i hiä ä audunarstôdum j Vijdedal. saum og heirdum ä handaband þeirra gudmundar Þorlakssonar og Sueins biarnasonar og Þuridar Olafsdottur. handlôgdu (þau) adur nefndum Gudmundi Jördina Krossnes i eirarsveit. sem fremst uard hann eigande ad oc hans kuinna efftir lôgum uppa riettann rejkning.

for þetta handaband fram fôstudæginn j fardôgum nu j vor j firrnefndum stad.

Og til sannz vitnisburdar hier umm setium vier firr nefnder menn uor Jncigle firir þetta bref giört ad Þijngeirum j hunauatnz-þijnge ein(n)e nat(t) efftir festum micaelis Anno Domini .m. kuadringentesimo¹) vicesimo sexto.

---

388. 15. Oktober 1426. á Barði í Fljótum.

Steinþór Andrésson selr Steini Eyjólfssyni hálfa jörðina Brúarland í Deildardal fyrir fimtíu hundruð í lausafé.

AM. Fasc. VIII, 15, frumritið á skinni. Tvö síðustu innsiglin eru dottin frá. Bréfið er ef til vill með hendi Brands Haldórssonar.

brvarland.²)

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda brandr halldorsson. sumarlidi þorgilsson. sigurdr erlendzson ok helgi hroolfsson. kuediu gudz ok sina kunnigt gerandi þa er lidit war fra burd kristz þushundrat cccc xx vetur ok sex ar jn festum audomari³) a bruarlandi j de(i)ldardal vorum wær j

¹) kuadrangeꝭteisimo, afskr.; ²) Aptan á bréfinu með fornri hendi; ³) þ. e. 9. Sept.

hia sam ok heyrdum a handaband þeirra steinnþors andressonar af einni halfu ok steinns eyulfssonar af annari at suo firir skilldu at steinnþor selldi steini jordina halfa bruarland j de(i)ldardal er liggr j hofs kirkiv sokn med ollum þeim gognum ok gædum sem greindri halfri jordu hefir fylgt fra fornu ok nyiu ok steinnþor vard fremstz eigandi ath. her j mot gaf steinn steinnþori fimtan hundrut j smiori ok slattrum luka vt a þremr arum jardar verdit. Skilldi steinn hallda jordune til laga en steinnþor abyrgiaz laga riptingar a greindri jordu. Ok til sanneynda her wm settum vær fyrnefndir menn war jnzsigli firir þetta jardar kaupa bref skrifat at bardi j fliottum jdus octobris a sama ari sem fyr segir.

---

## 389. 3. Nóvember 1426. á Víðimýri.

Dómr tólf manna útnefndr af Rafni lögmanni Guðmundarsyni geinginn að Þorkelshóli í Víðidal um mál þeirra Jóns Jónssonar og Arnbjarnar Einarssonar; kærði Jón til Arnbjarnar domróf, að hann hefði leyfislaust búið að eignarjörð sinni Söndum í Miðfirði í tíu ár og hefði einnig leyfislaust bygt jarðir sínar hálfar Aðalból, Bessastaði, Oddstaði og Bálkastaði.

AM. Fasc. VIII, 16, frumritið á skinni. 1., 3., 5., 6., 7., 8., 9. og 12. innsigli er dottið frá bréfinu. Bréfið mun vera með hendi Rafns lögmanns; að minsta kosti er á því sama hönd og mörgum öðrum dómum hans.

Domur vm adalbol. Bessastader og Balkastader nyrdra.[1])

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edr heyra. senda olafr loptzson. helgi biarnarson. matheus petursson. magnvs teitzsson. hallr þorkelsson. lafranz hauardzson. jon petursson. bergr jonsson. sigfus liotzson. eyolfr lodinsson. þordr þorsteinsson ok brandr jonsson Q(uediu) gvds ok sina kunnigt gerandi. at þa er lidit var fra hingat burd vors herra jehsu christi þvshvndrat fiogur hvnndrat tvttvgv ok sex ær. fimta daginn næsta firir allra heilagra messv[2]) a almenniligv þingi a þorkelshuoli j

[1]) Aptan á bréfinu með hendi frá 17. öld; [2]) þ. e. 31. Okt.

uididal a þingstade rettvm. vorum ver j dom nefndir af ærligvm manni hrafni bonda gvdmunndzsýni laugmann nordann ok vestan a jslandi. at dæma j millvm jons jonssonar af einne alfv enn arnbiarnar einarssonar af annari. kærdi fýrr nefndr jon til greindz arnbiarnar at hann hefdi rofit þann dom sem dæmdr var a millvm þeirra ædr a torfvastôdvm j midfirdi. Jtem j annari grein kærdi opt nefndr jon til þrattnefndz arnbiarnar at hann hefdi bvit a jordv hans sôndvm hælfvm. env næstv tív vetr j aungv hans frelsi. enn býgt ok med farit adrar jardir hans. halfvar. þær er suo heita. adalbol. bessastadir. oddzstadir ok balkastadir. enn j avngv hans frelsi. nu sakir þess at oss leitzt arnbiôrn einarsson þar lavgliga firir kalladr ok þath annat at jon jonsson birti oss þann dom er dæmdr var a millvm þeirra ædr dæmdvm ver jon skýlldugann at sýna med uottvm. at arnbiôrn hefdi hia verit at vpp var sagdr dómvrinn. edr jon latid lesa firir honum dominn. ok laugmann skylldugann at taka þessi prof nærr sem jon leiddi. enn at leiddvm profunvm. dæmdvm ver joni jonssýni mork j domrof. ok halfa fimta[1]) môrk j fvllretti. halft hvart fritt ok ofritt. jnnan manadar at heýrdvm þessvm dominvm. heima æ savndvm j midfirdi ok arnbiorn skýlldugann at afhenda allar fýrgreindar jardir a næstvm fardogvm ok tolf alna abata eptir hvert hvnndrat þat j jordv stenndr a hverivm tolf manvdvm. ok allar leiguleigur eptir þenna abata fýrr greindvm jóni. enn at heyrdvm dominvm[1]). Ok til sannennda her vm settvm uer fyrrnefndir domsmenn vor jnnzsigli firir þetta domsbref gert a vidimýri j skagafirdi drottinnsdaginn næstann eptir allra heilagramessu. æ sama ári sem fyrr segir.

---

## 390. 1426—1493.

Nokkrir reikningar kirkjunnar í Goðdölum í Sagafjarðardölum frá árunum 1426, 1427, 1428, 1491, 1492 og 1493.

AM. dipl. afskrr. Nr. 3762 «Ex paginâ pergamenâ Templi Goddalensis, variis coævis manibus exarata», með hendi Arna Magnússonar. «Þessar 2 skrár guddalakirkiu[2]) eru skrifadar â vacuas paginas ur einni bok i folio, hvar â vered hafa præfationes eda

---

[1]) þannig; [2]) þ. e. þessi og önnur frá 1490.

messulegendur Catholskar, og hefr su bok gömul vered. Hun mun heil vered hafa, þä skripternar giördust, og sidan þesse blöd alleina conseruerud orded, þä boken hefur i sundurrifest epter Reformationem» (AM.).

Swo mikit war ofridt innan veggia i guddaulum þa er gudmundr let laust.

xvij trog wond.
viij. uppgerdar kerolld.
tvær fautur.
eirn strockur.
ij. matarlok.
vij. tinfaut.
xx. allt saman tunnr ok halftunnr ok stampar.
iij. paunnr Eingelskar.
pottr litill.
iij. dynr fanytar ok .iij. hægindi.
iij. liaer.
ij. hardsteinar.
reka. krokar ok hrip.
ij. lasar.
ein aux ok krakr.

Anno Domini ϹϽ°. cd°. vicesimo vj. kirkiutiund tvær merkr.
[«Hactenus unâ eâdemqve manu»].[1]

Anno Domini ϹϽ°. cccc°. xx°. septimo. kirkiutiund half onnur mork.

Anno Domini ϹϽ°. cccc°. xx°. octafuo kirkiutiund half onnur mork.

Suo mikit var ofrith innan veggia i guddaulum þa er Magnus leth laust.

x. trog oc aunnur .x. brotin.
sex uppgiordarkerauld.
ij. fautur vondar.
eirn strokur.
ij. mattarlok.
iiij. tinfauth. oc iij brackud.
ij. bollar.
v. saudhyrnings spæner.

[1]) Athugsemd Árna.

xij. allt saman tunnu stryki oc stampar.
iiij. klyberar oreyder.
ij. klarar.
iij. beder fanyter.
ij. hæginde.
. . . reykiu voder.
ij. aklæde.
ketil med messing oc slitin a botni.
messingar panna slitin oc pottur.
litil munlaug brakud oc eirn las.
[«Et hactenus eâdem manû, alienâ à priori»].

Suo mikit iardagoz la under guddala kirkiu þa sira gunnar tok vid.

Solvanes xx^c.
Sveinstader xx^c.
Holl .xx^c.
breid .xxx^c.
nes xviij hundrud oc xx.
Svarturdalur[1]) .xx^c.
Yrarfell .xx^c.
abær .xx^c.
nyabær .v^c.

Anno Domini ꝏ°. cd. nonagesimo primo kirkiutiund tvær merkur.

Anno Domini ꝏ°. cd°. nonagesimo secundo kirkiutiund tvær merkur oc halfur eyrer betur.

[«Et hactenus una manus diuersa a prioribus»].

Anno domini ꝏ°. cd°. nonagesimo tertio kirkiutiund atian aurar.

[«hæc adhuc aliâ manu»].

---

## 391. 1. Janúar 1427. á Reynistað.

Próventusamningr Illuga Björgólfssonar og systur Þórunar Ormsdóttur fyrir hönd klaustrsins í Reynisnesi.

---

[1]) Snartadalur, ritar Arni uppi yfir.

AM. Fasc. VIII, 18, frumritið á skinni. Öll innsiglin, nema 2. og 3. eru dottin frá. Afskr. AM. 280. 4to, bls. 24—25; AM. 277. 4to bls. 36—37 (ártal rangt 1428).

bref vm ipishol.[1])

Ollvm monnum þeim sem þetta bref sea edr heyra sennda sira arnni nikolasson. íngimvndr steinsson. ion bergsson. þordr hrodbiarzson ok pal olafsson leikmenn kveidiv gvds ok sína kvnnigt gerandi ath þa er lidith var fra hegath bvrd vars herra iehsv christi þvsvnd fiogvr cccc xx ok vij ar atta dag iola ath stad j reynisnesi vorv vær j hia sæm ok heyrdvm a ath sva fellt kavp stadfestiz medr handabandi medr systvr þorvnni ormsdottvr ok illvgha biorgolfssynni ath hvn tok hann med godra manna nadi ok samþycki allra sinna conventv systra til æfinligrar profentv æ stadinn j reynisnesi medr sva felldv ath sagdr illvghi gaf j profentv med ser iordina aa jpisholi j skagafirdi til fvllrar eignar firir fioratighi hvndrada til þeirra vmmerkia sem þar eigv adrir menn rettliga j moti med þvi fremzta sem fyrnefndr illvghi vard eigande at adr grendri[3]) iordv. heir[3]) til gaf illvghi fim kyr ok ij æsavdar kvgillde til legx ser en hann kiðri ser leg j stavplinvm en staderens eign peningarnir vpp fra þeim deigi er handabandith for fram skildi illvghi ser bord sæmilikt smyr[2]) ok skreid nog skyr ok j reit[3]) tvitvga vad æ tolf manvdvm hverivm ella ij stikr klædis hreinliga þionostv litlv stofvña inni firir framan bvr ok þar med klefann ok hallda þeim a sinn kostnath fra þvi hann tekr med þeim skilldi optt nef(n)dur illvghi ath hafa einn mann æ stadnvm ef hann vill firir fvlla peninga. Ok til sanninda her vm setvm vær fyr nefnder menn medr capitvla innzsighli var innsigli firir þetta bref giort j sogdvm stad degi ok ari serm fyrr segir.

## 392. 23. Marts 1427. á Hólum.

Jón ábóti í Þykkvabæ og officialis heilagrar Hólakirkju samþykkir og tekr Illuga Björgólfsson til æfinlegrar prófentu á staðinn í Reyninesi.

---

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi; [2]) þannig = smiðr; [3]) þannig.

AM. Fasc. VIII, 19, frumritið á skinni. Innsiglið er dottið frá. Afskr. AM. 280. 4to, bls. 25—26; AM. dipl. afskrr. Nr. 337 (að eins upphaf).

Ver broder ion medur gvds nad aboti j þykkvabæ j veri ok officialis heilagrar hola kirkiu gerum godum monnum kunnight med þessu uaru brefi ath uær hofum samþyckt ok tekith jllugha biorgolfsson til æfinligrar prouentu a stadinn j reyninesi med ollum þeim greinum ok articulis sem þath bref uattar er hier er med fest. ok til sanninda hier umm settum uær uart officialatus jnnsigli firir þetta bref er giorth uar a holum j hialtadal sunnudaghinn næsta eptir ymbrouiku j fostu anno domini[1]) ꝏ⁰ cccc⁰ uicesimo septimo.

---

393. 23. April 1427. á Munkaþverá.
7. Janúar 1428. á Grund i Eyjafirði.

KAUPMÁLABRÉF Þorsteins Magnússonar og Olofar Arnadóttur.

AM. Fasc. VIII, 21, frumritið á skinni. Innsigli Björns Jónssonar er enn þá fyrir bréfinu. Hin eru dottin frá.

holltzbref.

Kaupmala Bref Þorsteins Magnussonar og Olufar Arna Dottur.[2])

Jn nomine domini[3]) amen

giordezt suo fellt kaup millum þorsteins magnussonar ok olofar árnadottur ath nefndr þorsteinn hafde til kaups vid greinda olofu tuo hundrut hundrada suo til komet. at loptur guttormsson gaf þorsteine sextige hundrada ok Reiknadi þar j jôrdina skutur firir þriatige hundrada. magnus fader hans adra sextige hundrada ok jnngunn arnardotter hundrad hundrada ok Reiknadi hun þar til jordina hollt j fliotum ok jordina saurbæ þar ed næsta firir tiutige hundrada ok þar til tutugu hundrud j lausagoze. skilde jngvnn at þetta skyllde vera fiordungsgiôf af hennar peningum ok adrar þær lauggiafer sem hun matti med lôgum gefa. En magnus Reiknadi j þa peninga sem hann gaf þorsteine syne sinum jôrdina hol j flokadal enn nedra firir

¹) domino, frbr.; ²) Aptan á bréfinu með hendi frá 17. öld; ³) domine, frbr.

tuttugu hundrud ok þar til fiðrutigi hundrada j lausagoze. samþýktu huortt þeirra hiona annars giof magnus jonsson ok jnngunn arnardotter. Gek magnus jonsson j fulla borgan ath suara vpp æ sina peninga ǫllvm kirkiunnar gozum ok fýrnd ok nidrbrapan kirkiunnar j hollti j fliotum. Her j mot gaf arne einarsson olofu dottur sinne hundrad hundrada med þeim peningum sem hun hafdi erft epter modur sina. ʀeiknadi nefndr arne j þessa peninga jordina at biðrgum j kynn ok tuennar leikskalar allar saman firir fimtige hundrada ok þar til jordina vigastadi æ svalbarzstrond firir þriatigi hvndrada ok fiðrutige hvndrada j lavsagoze. Gaf tíjt nefndr þorsteinn greindre olofu sextige hundrada j tilgiof ok sæmiliga beckiargiðf ok morgengiðf. for þessi giorningr fram æ munkaþuera j eyiafirde fiorda dag paska. þa er lydet var fra hingatburd vors herra jehsu christi þvsvnd fiogur hundruth tutugu ok si(a)u ar. Voru þessir kaupavottar biðrn jonsson. þorsteinn hauskaullzson. einar arnason. jon sigmundzson. grimr pælsson ok grimur jonsson. Ok til sannenda her vm settum vær fýr nefnder menn vor jnncigle firir þetta kavpmalabref giðrt ꝍ grund j eýiafirde miduikudagenn næsta firir geisladagen are sidar en fyr seger.

---

394.

**19. Júní 1427. i þykkvaskógi.**

Guðni Oddsson selr Böðvari Rafnssyni jarðirnar Þykkvaskóg í Miðdölum, Harastaði og Miðskóg með tilgreindum ítökum, fyrir lausafé.

AM. dipl. afskrr. 5793 b, »þyckvaskogsbref ur originalibus Einars Magnussonar accurate collata» (AM.). Það sem Árni hefir látið rita hér eptir hefir verið transskript frá 8. Apr. 1588, sem gert hefir verið eptir transskripti frá 20. Júní 1470. Ártal þessa bréfs er undarlega og óvenjulega orðað. Árni Magnússon hefir getið upp á, að það mundi vera 1439, en það getr ekki staðizt, því að vér vitum að Guðni Oddsson deyr úr bólunni 11. Dec. 1431 og Helgi Guttormsson deyr samkvæmt Nýa annál 1427, svo að bréfið getr ekki verið yngra enn frá því ári, og frá því ári mun bréfið vera; tercio uono verðr ekki þýtt öðruvísi en annað hvort þriðja og nínnda og ætti þá ártalið að vera 1412, ellegar þriðja nínnda (= 27.) og yrði það 1427. Hvorttveggja er alveg óvenjuleg táknan ártals. Hugsast gæti að hér væri misskrifað tercio nono fyrir tercio decimo (= 1413), en líklegt er það ekki.

þad giore eg Gudne Oddzson godum monnum kvnnigt med þessu minv opnu brefi. ad (eg) hefi sellt heidarligum manne bauduare Rafnssýne jarder þessar sem hier greiner. þýckvaskog j middolum. harastadi. og midskog. med ollum þeim gognum og giædum sem jordunum fylger oc fylgt hefur ad fornu ok nýu. oc ec hefir fremmst eigandi ad ordit. Hier j moti gaf bauduar Rafnsson atta tiger hundrada med þessvm frijdleika. þriatiger kuigellda .x. hundrud j smiorum og vadmalum. oc skylldi tuær voder til hundradz. og .xx. hundrud j slatrum .xx. hundrud j hestum og stodhrossum. skylldi liuka vt a þrymur arum nema bauduar villdi fýrre. Reiknadi Gudne kirkiune j skogie tuo kvigelldi messuklædi og kaleik. sagdi Gudne ad skogur ætti allann þuerdal. fram fra hrutagile er geingr ofan fram fra kolldukinn. oc suo nordr oc sudur epter fialle j motz vid vatnn. Eigv vatnn veidi j haukadalsa einn dag j anare vikv enn tuo i annare. a skogur jord alla fram ad prestagili oc oll græningiabol. firir nedan lytla vatzhornn. a skogur veidi alla audrumeiginn j haukadalsa fra vatni og vtj sio. og enn leingsta grasholminn er stendur fram j vaudlvnvm. Skýlldi adr greindur boduar hallda fýrr saugdum jordum til laga. Enn Gudne svara lagaryptingum ä jordunvm. voru þesser kaupvottar. helgi bondi Guttormsson. jon þorgilsson oc jon aronsson og fleyre adrer goder menn. Og til sanninda hier vm set ec mitt jnnsigli firir þetta jardakaupsbref med þeirra jnnsiglum er skrifad var j þyckvaskogie j middolum fimmtvdaginn næstan firir jonsmesso batthista anno domini millissimo cccc tercio nono.

---

395. 14. Júli 1427. i Skriðu i Reykjadal.

Rafn lögmaðr Guðmundsson úrskurðar Solveigu og Þuríði dætrum Ólafs staða Marteinssonar allan arf eptir Þorleif Marteinsson föðurbróður þeirra, nema að fram komi, að aðrir standi jafnnærri eða nær.

IBfél. 309. 8vo, bl. 139 a-b: Öxnafellsbók rituð á pappír c. 1620. Dagsetning bréfsins getr verið hvort sem vill 14. Júlí eða 22. December, en mér þykir hið fyrra fult svo sennilegt; IBfél. 67. 4to, bl. 41—42 (séra Eyjólfr á Völlum). MSteph. 60. 4to, bls. 9—10.

Vrskurdur wmm arftekiu.

Þeim Godum maunnum sem þetta brief sia edur heyra sennder Rafnn Gudmundzson laugmann n(ordan) oc v(estan) a Jslanndi Kuediu Gudz og sijna. kunnugt giaurannde ad þa er lidet var fra hijnngad burde vors heRa Jeshu christi. m. (c)d. [xx. oc vij[1]) ar. manudaginn næstann firir thorlakzmessu j skridu j Reykiadal. kom firir mig Sueyrnn biarnnason[2]) og Gudmundur thorlackzson Birtannde mier brief vnder Godra mann(a) Jnnsiglum. Er suared hafde verid af tueymur skilrijkum vottum. ad olafur marteynsson. er kalladr var stade. oc sagdur var broder þorleijfz marteijnssonar. hefde fest sier til Eygnar kuinnu hallberu kolbeijnsdotter. modur Solueijgar olafzdottur stada.

J annari Greijn hafde og fyR nefnndur olafur fest sier til Eyginn konu ad Gudz laugum Jngiebiaurgu arnnadotter modur þurijdar olafzdotter stada.

Beiddu oc kraufdu ædur nefnder menn.[3]) Sueyrnn og Gudmundur mig vrskurdar æ huert ad Solueijg olafzdotter stada og þurijdur olafzdotter stada. ætte ad taka arf Epter þorleijf marteijnsson faudurbrodur sinn. saker þess ad brædra dætur standa j siettu erfd. næst Epter brædrasonu. þa ad til kaulludum þeim bestum monnum Er j hia mier voru sagda jeg j gudz nafnni amenn. med fullum laga vrskurde. ædur nefndar konur Solueijgu og þurijde. allann arf eijga ad taka Epter þorleijf marteijnsson. faudurbrodur sinn. nema adrir leijde sig til. þeir Er jafn framme stannda j Erfdum Epter þorleijf marteijnsson Edur framar en ædur greyndar kuinnur.

Og til sanninda hier vmm set eg mitt Jnnsigli firir þetta vrskurdar brief [giort i sama stad ari og degi sem fyr segir.[4])

---

396. **8. September 1427. á Flatalandi i Héradal.**

•Gotskalk Kønekason prester j Lagardalæ» og tveir menn aðrir votta að séra Ketill Ívarsson í Héradal galt Olafi Auðunarsyni og sonarsonum hans fult verð fyrir átta marka ból í Syðra Flatalandi og ýmislegt feira. «a flatulande j Hiærdalæ wppa øfra Mariu mæsso dagh anno domini m°. cd°. xx° vij°.»

Dipl. Norv. I, 718, eptir frumritinu í Antikv. Ark. í Stockhólmi.

[1]) [20 oc 7, hdr.; [2]) biarnarson 67; [3]) dandismenn 67; [4]) [b.v.67.

397. 27. September 1427. á Kálfstöðum.

Þorsteinn Einarsson gefr Brandi Haldórssyni með sér í prófentu jörðina Skálá í Sléttuhlíð með tilgreindum rekum og að tilskildu ýmsu (falsbréf?).

AM. Fasc. VIII, 20, frumritið á skinni. Innsiglin eru dottin frá Árni hefir ritað aptan á bréfið «*fb», sem á að merkja falsbréf. En hvorki af skriptarlaginu né af útliti bréfsins verðr það álitið tortryggilegra en mörg önnur bréf, sem tekin hafa verið fullgild. Það er ekki uppskafningr og ritháttr bréfsins er rétt hinn sami og tíðkaðist um þessar mundir, svo að sá sem hefði búið bréfið til yrði annaðhvort að hafa haft lag á því að gefa skinninu fornlegt útlit og hafa verið nákunnugr fornbréfum, ellegar bréfið hlytr að vera gert hér um bil á þeim tíma, sem það sjálft segir. En rekarnir eru tortryggilegir. Annars er bréf þetta með keimlíkri hendi og Brautarholtsbréfin 1434 og kaupmálabréfið 1436, sem geta verið tvísýn.

bref firir skala og hennar Rekum.[1])

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda steinn eyolfsson. þorsteinn sigurdzson. arne Runolfsson. sumarlide þorgilsson ok hallsteinn eilifsson guds quedio ok sina kunnigt gerandi ad sub anno gracie ꝏ° cd° xx° vij° a kalfsstodum j hialtadal vorum wær j hia sam ok heyrdum a manudag næst eptir varr(ar) fru messu fyri handaband þeirra brandz halldorssonar ok þorsteinss einarssonar at so firir skilldu at þorsteinn gaf brandi med ser til profentu jordina alla at skala er ligur j sleittahlid firir xxxx^c (med) þeim gognum ok gædum sem jordune hefir fyllgt at fornu ok nyiu serliga þessa Reka parta.

fiordung reka fra forna osi ok vt til Raufarbergs firir hrolleifs hofda [huals oc uidar[2]) allan Reka fra skarfasteiñe ok j millum hladbergs bædi huals ok vidar ok allt þat er rekamadur a at hafa fremzst at logum. so ei sidr alla þa penninga sem nefndr þorsteinn atti sialfur hia ser ok honum hefir til erfda fallit eptir fodur sinn ok modur ok asdisi modur systur[3])

[1]) Aptan á bréfinu með hendi frá 17. öld; [2]) [þessi orð eru nokkuð undarlega skrifuð; [3]) það er Ásdís Ásgrímsdóttir, og eru reka ákvæðin hér það eina, sem tortryggilegt er, við bréfið, því að Ásdís hafði gefið Hólastað áttung í reka milli Skarfasteins og Hlaðbergs fyrir 1374 (sjá Dipl. Isl. III, Nr. 232) og kemr þetta því í bága við rekaskrá biskupsstólsins, og má leita að því sé snúið hér upp á Skálá, sem þar er eignað Hólastað, og því mun bréfið vera falsbréf.

sina ok hann matti fremzst eigandi at verda med logum. her j mot skillde þorsteinn ser eyuenligt bord nær brandi edr hans erfingium sem þorsteini syni sinum þar til bord er hann veri af omaga alldri. skilldi sueinnen vina þat sem hann veri til ferr. skilldi þorsteinn ser vadmal til klæda arliga. en brandr skilldi a þorstein at hann skal vinna allan hreinligan starfa.

Ok til saneynda her vm settum vær fÿr nefnder menn var jnzsigli firir þetta bref skrifat j sama stad ok ari quinto kalendas octobris.

---

## 398. 11. og 12. November 1427. á Grenjaðarstöðum.

Jón ábóti í Þykkvabæ, síra Þorkell Guðbjartsson og fjórir menn aðrir meta stað og kirkju á Grenjaðarstöðum eptir tilnefning Jóns prests Pálssonar.

AM. Fasc. VIII, 17, frumritið á skinni. Öll innsiglin eru dottin frá.

Vm maatt kirkiunar oc stadarins a greniadarstodum.[1])

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra sendha brodir jon med guds naad aabote j þyckabæ j veri ok officialis heilagrar hola kirkiu. þorkell gudbiartzson. þorlakr ellingsson. prestar. þordr þorsteinsson. gamle marteinsson. magnus oddason. leikmenn. q(uediu) G(udz) oc sina. kunnigth gerande at anno domini ꝏ° cd° xx° septimo. miduikodagin næsta eptir marteins messo a greniadarstodum j Reykiadal vorum vær tilnefndir af jone prest(i) palssyni ath meta kirkiu hins heilaga martini ok stadinn a greniadarstodum med ollum sinom fasta eignum er þar til hofdu legith frá fornu oc nyio eptir þui sem erchibiskupsins bref vt visade oc þui eptir godum gomlom vana gerdom vær fyrnefndir menn upp aa stadin kirkiuna oc utjardir siau bundrod voruvird vpp a huert ar sidan kirkian oc stadrinn var næst metin oc at auk porcio þath sem fell oc falledh hefir þeim a hendur sem luka eiga med logum en þeir hafui firir bot sina sem bætt hafua kirkiuna oc stadin j sinne abudh suo miket aptr af þessom kirkiu peningom sem metid uerdr eptir godra manna skynsemi. Oc til sanninda her vm settom vær vor incigli

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi.

firir þetta bref scrifuad j sama stad ok are degi sidar enn fyr segir.

---

399. 4. December 1427. á Gunnsteinsstöðum.

Testamentisbréf Einars Bessasonar.

AM. dipl. afskrr. Nr. 358, »Ex originali» með hendi Jóns Magnússonar bróður Arna. «Brefed er a kalfskinn og skored nedann af so ei siest hvert nockurt Jnnsigle hefur vered fyrer þvi».

Jn nomine domini amen

saker þess at ekke er visara en davden en ekke visara nær hann kemr þvi gere ek e(i)nar bessason mitt testamentvm heill i likama oc so at skynsemi. ek gefr fyst mina syndvga sal vnder vægd oc myskvnnsemi almatigs gvds oc hans signadrar modr jvngfrv sancte marie oc hins sæla m(i)kaels hofvds eingils oc ens blezada petRus oc iohanes edevangelista[1]) oc ens signada olafs kongz oc ens sæla benediktvs oc allra gud(s) heilagra manna. þa kys ek minvm likama legstad i heilogvm kirkivgarde at þingeyrum gefande þar[2]) til gvde oc klavstrenv þriv æsavdar kvgillde. tvær kyr .j. vxa þan er ek a beztan .j. hest þan er geingr vnder likama minvm .j. aklæde mier til salvhialpar.

kirkiuni æ guntsteins[1]) stodvm a ek at giora Reikningsskap fur porcionem sidan byskyp[1]) jon viseterade oc þar vm geiort[1]) bref vottar. lyk ek þar j mariv likneske med alebastrvm[1]) oc ny messoklæde oc þokt þat sie meira en þad[1]) er ek æ at lvka kirkivne þa gef ek þad[1]) sancte olafe oc þar til eit(t) kvgilldi.

hvndrad holtastadar kirkiv.

kvgilldi holastad.

kvgilldi stadar kirkiv.

c preste þeim er mik oliar.

c preste þeim er mik syngr til molldar.

herra abota silfrspon liten.

x avra preste hverivm[3]) er stendr yfer greptre minvm.

vigdise haflidadottr kv.

---

[1]) þannig; [2]) star(!) afskr.; [3]) her rv(!), afskr. og er það án efa mislesið.

bornvm bodvars magnvssonar vxa fiogvra vetra.
bornvm margretar jonsdottr kv.
bornvm rogvalzt kapal.
þriv hvndrvt fatækvm monnvm i olmosv oc luka sem fyst ma.
bid ek alla dvgande menn rika oc fatæka þa er mit anlat fretta at þeir firirgefe mer ord oc verk oc bide firir mer til gvds med drottenlegre bæn pater noster. svo vil ek oc giarna furgefa ollvm þeim er vid mik hafa nokvt misgiort ord eda verk. Oc til sanenda hier vm setta ek mitt inzsigli firir þetta bref giort a gvnsteinsstodvm j langadal tveim natvm firir nikulavs messo. þa er lidet var fra hegatbvrd vors herra iesu kriste m .cccc. xx oc vij ar.

---

## 400. 4. Janúar 1428. í Glaumbæ.

SAMNINGR Kristínar Björnsdóttur við lögarfa Þorleifs Marteinssonar um að gera upp kirkjuna í Víðidalstungu svo stóra sem hún var áðr en hún brann, og feingu þeir henni Vatnshorn og Gauksmýri í Línakradal og lofuðu að svara henni fjörutíu hundruðum ef þær jarðir riptuðust.

AM. Fasc. VIII, 26 í transskripti á skinni gerðu á Helgafelli 1442. AM. dipl. afskr. 425 eptir transskr.

Um vydedalstungu.[1]

Ollum monnum þeim sem þetta bref sea edur hæyra senda arne einarsson gudene oddzson petur finnzson jon jonsson hallr bauduarsson ok halldor þordarson quediu guds ok sina kunnegt giorandi at þar vorum vær j hia[2] savm ok heyrdvm æ hanndabannd hustru kristinar biornsdottur af einne hælfu enn af annari sueins biarnarsonar j vmbodi þuridar olāfsdottur konu sinnar ok gudmundar þorlækssonar j vmbodi saluæigar olafsdottur konu sinnar er orskurdadar voro logharfar epter þorleif martæinsson at suo firir skildu ad adur nefnd kristin lofadi med hanndabanndi fÿr nefndum monnum suæine ok gudmundi.

---

[1]) Aptan á bréfinu með yngri hendi; [2]) hér stendr «h» í frbr., en því er ofaukið.

ath giora vpp kirkiuna j videdalstunnghu med torf ok vid suo langa ok breida sem hun kynne sannazt at spýria. at hon hefdi fýrr verith. medurkennduzt adurnefndir menn at þeir ætti vpp at giora kirkivna j videdalstunghu ok suara ollum hennar ornamentum epter orskurdi biskup jons enn kristin skildi vpp a suæin ok gudmund at þeir skýlldu leggia til kirkiunnar j videdalstungu allt ornamentum þat hon ätti adur hun brann. her j moti hanndlögdu optnefnder menn suæinn ok gudmundur hustru kristinu jardernar vatzhorn ok gauksmýri. er liggia j línakradal til fullrar æignar med öllum þeim gögnum ok giædum sem jordunum hefer fýlgt ad fornu ok nýiu. skylldi kristin hallda til laga nefndum jordum enn suæinn ok gudmundur luka henne xxxx tigi hvnndrada ef af henne kiærdizt jardernar med laughum.

Ok til sannenda her vm settum vær fýr nefnder menn vor jnncigli firir þetta bref er giort var j glaumbæ j skagafirdi xi dag jola anno domini ᴍ° cd° xx° octauo.

---

## 401. 20. Janúar 1428. i Glaumbæ.

**Þórólfr** Brandsson og Guðrún Bjarnardóttir kona hans selja Kristínu Björnsdóttur í löglegu umboði Þorleifs Árnasonar bónda hennar jörðina Flatatungu í Skagafirði með gögnum og gæðum, en Kristín gefr í móti Syðri-Bægisá og skilr sér fyrstri kaup á, þegar hún verði föl.

AM. Fasc. VIII, 25 í transskripti á skinni frá 5. Maí 1460, mjög blakt. AM. dipl. afskrr. Nr. 303, eptir transskriptinu, afskriptin staðfest 1. Sept. 1712 í Skálholti af Árna Magnússyni og Þórði Þórðarsyni.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra sender arni einarsson. þorsteinn gudmundzson. halldor þordarson. eigill olafss son. jon eigilsson. jon teizson kvediv gvds ok sina kunigt gerandi at ver vorvm þar j hia savm ok heyrdum a handaband kristinar biarnardottvr j logligv vmbodi sinv ok bonda sins þorleifss arnasonar af eirni alfv enn þorolfs þranzsonar ok gvdrvnar biarnardottvr hans eigin konv (af) annarri ath (suo) fyrer skildv ath nefnder menn þorolfur ok gudrvn selldv alla jordina flatatvngv j skagafirdi adur nefndri kristinv til fullrar

eignar med ꜹllvm gognum ok gædum hlvtum ok hlvnendvm þeim sem jordin æ ok henni hefir fylgt at fornv ok nyiv ok ei er med logvm fra komit ok þav vrdv fremz eigandi ath. sagdi þorolfur til kirkiv skylldar j flatatvngv ath þar ætti ath wera heimilis prestur ok livka (honvm) fiorar merkr arliga ef prestvr syngvr til. sagdi ok opt nefndur þorolfur ath kirkian j flata- tvngv ætti allann widreka fra hravni a skaga fyrer ꜹstan fram vr fornv vor ok jnn ath hofsenda ok settvng vr ꜹllvm hvalreka jnn fra fornv vor ok jnn ath horknæ ok enn tolftvng vr ꜹllvm hvalreka vt fra fornv vor ok ath deilldar hamri. hier j mot gaf opt nefnd kristin tít(t) nefndum monnum þorolfi ok gudrvnv jordina bægessæ hina sýdri j ꜹxnadal fyrer sextiu hvndrada ok þar til þriatigi hvndrada. kendiz ok þrattnefndur þorolfur ath þessa þriatigi hvndrada hefdi hann vpp borit svo honum vel anægdi. sagdi optnefnd kristin bænhvs skylld æ jordvnni ok jordin ætti skog med vmmerkium fyrer handan ꜹxnadalsæ. skilldi tit(t) nefnd kristin ser aptvr jordina ok sinvm erfingivm ath bægissæ fyrer fulla peninga þat fyrsta hvn væri fol. skýlldi hvort vm sig kristin ok þorolfur suara lagariptingvm æ adur nefndvm jordvm þeirri er seldi en hallda þeirri til laga sem hvort tok med. Ok til sanenda hier wm settvm wer fyrr nefndir menn wor insighli fyrer þetta bref sem giort war i glꜹmbæ j skagafirdi þridiudagin næsta fyrer palsmessv postola anno domini ꝏ° cd° wicessimo octavo.

---

402. 23. Janúar 1428. á Holti í Önundarfirði.

Fimm menn votta, að Haldór Jónsson handlagði Oddfríði konu sinni Aradóttur Mosdal, en galt henni Kirkjuból, sem Ari Guðmundsson gaf Oddfríði dóttur sinni til kaups við Haldór; ennfremr handlagði Haldór dætrum sínum Valgerði og Ingibjörgu Þorfinnsstaði, Grafargil og Tungu.

AM. 253. 4to bls. 152, bók Ara Magnússonar skr. c. 1600. «Þetta fyrrskrifad bref er med einu heilu hangandi jnsigli», stendr aptan við bréfið.

Enn Bref vm dyrleika kirkiubols j valþiofsdal.

Þad giorum vær Einar Jonsson. Halldor Jonsson. Magnus þorkelsson. Pall Jonsson. Jon þorbiarnarson. godum monnum

kunnugt med þessu voru opnu brefi. ad þar vorum vær j hia saum oc heyrdum ä ord oc handaband Halldors Jonssonar oc Oddfrijdar Aradottur konu hans (at) Adur greindur Halldor handlagdi fyrrnefndri Oddfrijdi mosdal enn gallt henni kirkiubol j þau sextiu .c. sem are B(onde) Gudmundsson gaf Oddfrijdi dottur sinne til kaups vid Halldor Jonsson. Jtem handlagdi tijttnefndur Halldor dætrum sijnum Valgerdi oc Jngibiorgu þorfinnstadi. Grafargil oc Tungu oc þar til xij^c j lausagotze. oc skylldi af þessum greindum peningum eiga xxx hundrada huor þeirra. og til sannenda hier vm settum vær fyrrnefnder menn vor jnsigli firir þetta bref er giort var j Hollti j Ønundarfirdi friadaginn næstann firir pälsmesso. Anno domini m^o cccc^o xx^o octauo.

---

403. 13. April 1428. á Þingeyrum.

Tveir menn votta að Einar prestr Hafliðason hafi selt Sveinbirni Hrafnssyni jörðina Sauðadalsá á Vatnsnesi með þeim landamerkjum, er þeir skýra frá; svo telja þeir og landamerki Bergstaða og Stapa á Vatnsnesi.

AM. dipl. afskrr. Nr. 461 «Ex originali monasterii Thingeyrensis, accurate» og er afskriptin staðfest í Skálholti 2. August 1712 af Árna Magnússyni og Páli Hákonarsyni. Innsiglin voru fyrir bréfinu og skýrir Árni frá hvað hafi staðið á þeim. «þetta bref er ritad med krokottum stöfum, ä mind sem norsk bref, enn miklu verr skrifad» (AM.).

Saudadalsarbref.

Þat gerum vid hrafn sueinbiarnarson ok þorarinn haluardsson godum monnum viturligt med þessu ockru brefi at sira einar haflidason selldi sueinbirni hrafnssyni saudadalsꝏ a vaznesi med þeim ollum gögnum ok gędum sem jordunni hefdi fylkt at fornu ok nyiu ok þessum landamerkium til teknum at brandaskardsꝏ rędur landamerkium j millum bergstada a vaznesi ok saudadalsꝏr allt ofan ór fialli sva sem draug ganga leingst at ok vt j sio ok ek adurnefndur hrafn sꝏ ok yferlas sva latandi bref vm landamerki sem nu seger her med heilum ok oskauddum hanganda jnnzsiglum dandi manna.

Jtem j annari (grein) heyrdu vid fyrr nefnder menn sagt

af ockur ellri monnum þessi landamerki j milli bergstada ok stapa riet(t)sýni ofan ór fialli sem leingst dregr votn at ok ofan j bergstada vatn enn bergstada lękr er fellr or uatninu rędur allt üt j sio ok heýrdu vid þa her alldri tvímęli a af þeim sem atti stape.[1])

Ok til sanninda her vm settum vid fýrrnefnder menn ockur jnnzsigli firir þetta bref gert æ þingeyrum einni nætt firir festum tiburcij et valeriani anno domini ꝏ° cd° vicesimo octavo.

---

404. 21. April 1428. á Silfrastöðum.

Dómr tólf manna útnefndr af Rafni lögmanni Guðmundarsyni og geinginn við Vallalaug 20. Apríl um kæru Einars Hallssonar í umboði barna sinna til Jóns Ásgeirssonar í umboði Ingibjargar Sæmundardóttur konu sinnar, út af erfðamáli þeirra á milli um fjörutíu hundruð í Silfrastöðum í Blönduhlíð.

AM. Fasc. VIII, 22, frumritið á skinni. Öll innsiglin eru dottin frá, nema 2., 5. og 8.

Þetta er silfrastada bref.[2])

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edhr heýra sennda loptur guthormsson biornn sæmundzson brandr halldorsson helgi biarnarson biorn jonsson biorn eyiolfsson þorleifr eigilsson steinndor jonsson Einar magnusson þorleifur jonsson jon jonsson þosteinn sigurdzson kuediu guds ok sina kunnight gerande at þa er lidhit var fra higath burdh vorss herra jehsu kristi þushundruth fioghur hundrut xx ok atta ar vorum ver j dom nefndir af ær(li)gum manne Rafnne gudmundzsýne logmanne nordhan ok vestan æ jslande æ þridiudaghin næsta firir jons ꝏesso holla biskups vith vallalaugh j skagafirde j millum æinars hallzsonar j loghligu vmbodhe barnna sinna af einne alfu. En jons asgeirssonar j loghligu vmbodhe jnngibiargar konu sinnar af annare. kiærde adr nefndr einar þat til jons at hann hefde at hallda fioratighu hundradha vpp j jordina a silfrastadum er bornum sinum hefde fallit til erfdha eptir gudrunu jonsdottur modur sina ok sýnde þar til bref at male jnngibiargar sæmund-

---

[1]) þannig; [2]) Aptan á bréfinu með fornri hendi.

ardottur var lagdr vpp j silfrastadhe fioretighe hundradha huert er wer gerdum statt ok stodught ok þorgeir[1]) huórke hafa matt gefa ne selia ne til skiptis gannga sidan malinn var j laghdr ok þui dæmdum ver títt nefndum Einare til hallz enn bornum hans til fullrar eignar fýr sagdan jardar part. Nema jon asgeirsson sýne medh brefe edr vottum at jnngibiorgh sæmundardottir hafe vpplaght med jaýrdhe ok handabande adr greindan mala. skal jon leidha þesse prof jnnann mannadar at heýrdum dominum æ okrum j skagafirde firir kongs vmbodzmanne ok hann skylldughan at taka. En ef adr nefndr jon leidhe eigi profin j nefndan dagh dæmdum ver hann skýlldughan at afendha adhr nefndan jardarpart einare hallzsýne jnnan manadar at heýrdum dominum. getr jon sýnt at jnngibiorg sæmundardottir hafi vpp laght fyr greindan jardar parth þa dæmdum vær jon skýlldughan at luka at afenda Einare hallzsýne at heýrdum dominum heima æ silfrastodum þriatighe kugilldha ok x hundrut voruvirdh jnnann manadar [ok] jon skýlldughan at sueria eins eidhe firir syslumanne[2]) at hann hugdiz med loghum halldit hafa fýrr nefndan jardar parth æ vegna jnngibiargar konu sinnar. suer hann eigi eidhinn þa dæmdum vær hann skylldughan at luka einare xii. alnar j abata eptir huert hundrat a huerium tolf manudum sua leinghe sem hann hefir halldit ok. v. merkr j fullrette j voru edr voruvirdhu godze æ hans heimile jnnan manadhar. Ok til sannenndha her vmm settu ver fýr nefndir menn vor jnnsigle firir þetta doms bref giort a silfrastodum j blonduhlidh æ sama are deghe sidar en fýr seghir.

---

405. 21. Apríl 1428. á Silfrastöðum.

Rafn lögmaðr Guðmundsson staðfestir tólf manna dóm frá (20. og) 21. Apríl um Silfrastaðamál.

AM. Fasc. VIII, ad 22, frumritið á skinni, áfast Silfrastaðabréfinu frá 21. Apr. 1428 (Nr. 403), og eru bæði með svipaðri hendi.

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edhr heýra sendir Rafn gudmundzson loghmadr nordan ok vestan æ jslandi quediu guds ok sina kunnight gerandhe at þa er lidhit var fra higat-

[1]) þannig; [2]) sylsumanne, frbr.

burdh vors herra jehsu christi þushundrut fiogur hundrut. xx. ok atta ar a þridiu dag næstan fyrir jonsmesso hola biskups at vallalaugh (j) skagafirdhe kom fyrir migh einar hallzson beidde ok krafdhe migh orskvrdar æ huort sa domr were loglighr. er þar hafde dæmdr verith j mille hans ok jons asgeirssonar. Nu sakir þess at mer leidhz domrinn loglighr j alla stadhe þui at til kolludum þeim bedzum monnum er hia mer voru ok mer siamþyckiandum.[1]) saghda ek j guds nafne amen med fullum lagha o(r)skurde adhr nefndan dom loglighan j alla stadhe ok þetta dom(s)bref statt ok stodught er her er med fest þessu minu o(r)skurdarbrefe med ollum sinum greinum ok artikulis ok obrigduligha halldaz eigha. Ok til sannenda her vmm setta ek mitt jnnsigle fyrir þetta o(r)skurdarbref giort a silfrastadum (j) blondhuhlid a sama ar(e) deghe sidar enn fyr seghir.

---

406. 27. April 1428. við Vallalaug.

Rafn lögmaðr Guðmundsson úrskurðar þá ættleiðing löglega í alla staði, er Steinmóðr prestr Þorsteinsson ættleiddi Pál Sæmundsson að sextigi hundruðum.

ÍBfél. 309. 8vo bl. 138b—139, Öxnafellsbók rituð á pappír c. 1620. ÍBfél. 67. 4to, bl. 42 (séra Eyjólfr á Völlum); MSteph. 60. 4to bls. 10—11.

Páll og Björn Sæmundarsynir eru synir Sæmundar Þorsteinssonar, er keypti Svalbarð af Ásu Eiríksdóttur 1390. Sæmundr dó 1421 og hefir verið bróðir séra Steinmóðar.

Vrskurdur vmm ættleijdinng.

Þeijm godum maunnum sem þetta brief sia edr heyra sendir Rafnn Gudmundzson laugmann n(ordan) oc v(estan) æ Jslannde kuediu Gudz og sijna. kunnigt giaurande ad þæ lidet var fra hijngadburdi vorz heʀa jehsu christi m. (c)d. xx oc viij[2]) ar. ad vallalaug j skagafirde æ þrydiudagenn næstann epter Jonsmessu Hola Byskups kom firir mig[3]) biorn Bonde Sæmundzson birtande mier brief vnder godra manna Jnnsiglum. huert ed vottade ad steijnmodur prestur þorsteijnsson hefde ættleijtt pal

---

[1]) þannig; [2]) 8, hdr; [3]) oc, b. v. hdr(!).

sæmundzson til .lxc· epter sig. beijdde og krafde ædur nefndur biørn mig vrskurdar æ huertt su ættleijding væri lauglig edur eij. Nu sakir þess ad mier leijst ættleijdinngenn lauglig j alla stade. þuij ad til kaulludum þeim bestum maunnum sem j hia mier voru og mier samþyckivndum. sagda jeg j Gudz nafni amenn. med fullum laga vrskurde. ædur nefnda ættleijding lauglig a j alla stade. og þetta ættleijdingar brief statt oc staudugt er hier er med fest þessu mijnu vrskurdar Briefe. med aullum sijnum greijnum og articulis og obrigdannliga halldast eijga. og til sanninda hier vmm. [set Eg firir þetta vrskurdarbrief mitt Jnnsigli.[1]) skrifat i skridu j Reykiadal sunnudaginn næstan eptir festum Bonifacii æ sama æri sem fyrr segir.[2])

---

407. 18. Mai 1428. i Múla i Reykjadal.

Þorleifr Egilsson lýsir mála Sigríðar Þórarinsdóttur konu sinnar, og að hann hafi fastnað hana eptir guðs lögum og heilagra feðra setningum, og lýsir öll þau börn, sem hann «eigr» með henni skilgetin og arfborin.

AM. Fasc. VIII, 24, frumritið á skinni, og er innsiglið fyrir því.

Kaupmalabref.

Þath gereR ek þoRleifR egelsson gedvm monnum vitRlegt med þessv minv bRefe ath sigRidR þoRaRensdottir kona mín er malakona i minn gard ok eigR fimtigi hvndrada i sinn mala ok hefir ek lagt mala hennaR i mitt bv edR, beztv eignn er ek eigR edR eigandi kann ath verda suo oc ei sidR hefir ek fastnad hana eftir gvds lavgvm ok heilagra fedRa setningvm ok avll þav bavRnn sem ek eigR med henne eRv skilgetenn ok lavgliga til aRfs komen. ok til sanennda hier vm setta ek mitt insigli fur þetta bRef skrifat i Mvla i ReykiaRdal þridia dag næstann firir huitasvnnu anno domini M° cccc° xx° viij°.

---

[1]) [setta ek mitt innsigli fyrir þetta orskurdarbref 67; [2]) [þ.v. 67.

408. 14. Júní 1428. í Hvammi.

Tólf manna dómr útnefndr af Þorsteini bónda Ólafssyni, «er þá hafði hirðstjórn norðan og vestan á Íslandi» um mál Ásgeirs Árnasonar og Jóns sonar hans, er Þorsteinn bar þá fullri ráðasök um líftjón Sigmundar Illugasonar.

Landsbókasafn 115. 4to I. 132—133. bréfasafn séra Jóns Haldórssonar í Hítardal skr. c. 1730; IBfél. 126. 4to, bls. 33—34 með hendi séra Gísla Einars í Kálfholti; Ny kgl. Saml. 1945. 4to, bl. 300 a, skr. 1666 af Haunesi Gunnlaugssyni.

Domur Þorsteins Olafssonar hijrdstiora nordan og vestan ā Jslande um rādasôk og lijftion med ordum Anno 1428.[1])

Øllum monnum (þeim) sem þetta Bref siā edur heyra senda Arne Einarsson. Gudne[2]) Oddsson. Petur finnsson. Brandur[3]) Jonsson. [Jon Sæunarson. Steinþor Andresson. Jôrundur Klemensson. Halfdan Biôrnsson. Brandur Einarsson. Tume Þorbergsson. Þorsteinn Gudmundsson og Jon Einarsson[4]) Q(uediu) g(uds) og s(ina) kunnigt giorande [þa lided var fra gudz burd 1428[5]) är ā mānudaginn i nijundu viku sumars i Hvamme i Hvammssveit vorum vier i dom nefnder af ærlegum manne Þorsteine Bonda Olafssyni er þa hafde hirdstiorn nordan og vestan ā Jslande ad dæma hvôrra svara edur sekta asgeÿr Arnason og Jon son hans yrde skyllduger fyrer þa sôk er nefndur Þorsteinn kiærde [ad þeim.[6]) og bar þa fullre rādasok um lijftion Sigmundar Jllugasonar a kongdomsins vegna. liet og adur greindur Þorsteinn sveria tvo skilrijka menn[7]) ad Jon Sigmundsson hefdi giefid greindum asgeire og Jone fulla rādasok um dauda fôdurs sijns. sônnudu þennann eid atta valinkunner menn med þeim tveimur er ädur soru. og saker þess [ad optnefndur[8]) þorsteinn hafde med sier þesse vitne sem [lôg giora[9]) rād fyrer ad kongs umbodzmadur skal hafa ef hann sæker[10]) menn um[11]) svo vorden māl. [Nu sakir þess ad þeir voru

[1]) Dómr um ráðasök og líftjón Sigmundar Illugasonar 1945; [2]) Guðmundur 115, 126; [3]) Ønundur 1945; [4]) [sl. 1945; [5]) [Anno M. cccc. xx. viij, 1945, [6]) [til þeirra 1945; [7]) votta 1945; [8]) [b. v. 1945; [9]) [bók gerir 1945; [10]) særir 126; [11]) með 1945.

loglega fyrer stefnder[1]) þvi[2]) dæmdum vier fyrrnefndum asgeire og Jone tylfftareijd innan x vikna særra daga [þar[3]) i Hvamme fyrer þorsteine og [titt nefndan[4]) þorstein skylldugann ad taka þa[5]) þegar ā þingenu. ef þeir være tilfærer þar[6]) ad sveria. ad unnum eidnum dæmdum vier þrättnefnda menn asgeir[7]) og Jon olldungis kvitta og äkiærulausa fyrer greinda äkiæru hirdstiorans. og öllum profum fyrer skotnum ad leida kongdomsinz vegna upp a þessa akiæru.

Og til sanninda [hier um.[8])

---

## 409. 30. August 1428. á Brekku í Dýrafirði.

Þrír menn transskríbera bréf um jarðakaup Ara Guðmundssonar.

AM. 253. 4to, bls. 151—52 bók Ara Magnússonar í Ögri, skr. c. 1600 og þar eptir (með hendi séra Sveins Símonarsonar að mestu) «Sialft hofudbrefid med tueimur hangandi Jnsiglum».

Vm dyrleika ā walþiofsdal.

Øllum godum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda Einar Jonsson. Sueirn Brandsson oc Halldor jonsson q(uediu) G(uds) oc sijna. kunnigt giorandi ad vær säum oc yferläsum op(i)t bref Ara Bonda Gudmundssonar oc Gudmundar Arasonar suo lätandi ord eptter ord sem hier seiger med heilum oc oskoddum þeirra hangandi jnsiglum.

[Hér kemr bréf frá 27. Maí 1420, Nr. 339 hér að framan].

Og til sannenda hier vm settum vær fyrrnefnder menn vor jnsigli firir þetta transscriptum. Giört ā Brecku j dyrafirdi manudaginn post festum decollationis Johannis baptistæ. Anno domini m°. cd°. vicesimo octauo.

---

[1]) [b. v. 1945; [2]) [þá 1945; [3]) [og það 1945; [4]) [b. v. 1945; [5]) þar 1945; [6]) sl. 1945; [7]) asgrijm(!), 115; [8]) [b. v. 1945.

410. 17. September 1428. á Laugum í Reykjadal.
1429. á Víðivöllum.

Vottorð tveggja manna, að Þórðr bondi Þorsteinsson með samþykki Solveigar Runólfsdóttur konu sinnar feingi Gunnlaugi Guðmundssyni til eignar þá jarðarparta, sem Solveig stóð til að erfa eptir Herdísi Þorgeirsdóttur móður sína, konu Gunnlaugs; átti Þórðr að fá Kúske(r)pi í Skagafirði, en Gunnlaugr jarðir í Hornafirði.

AM. Fasc. VIII, 23, frumritið á skinni og eru bæði innsiglin fyrir bréfinu.

Ollum godum monnum þeim sem þetta bref sia edr heÿra senda olafur þorgrimsson ok jon hauardsson Q(uediu) G(uds) ok sina kunigt giorandi med þesu ockru oppnu brefi at uid uorum þar j hia sam ok heÿ(r)dum æ j kirkiunne æ laugum i Reÿkiadal fostudagin næsta efter kros Messo um haustid þa lidit uar fra hingat burd uors herra jesu christi þusund fiogur hundrud xx ok atta ar at þordur bondi þorsteinsson fek gunlaugi bonda gudmundssyni med ja ok samþÿcki solueigar Runolfsdottur konu sinnar þa jardar parta sem solueig adr nefnd stod til eptir herdisi þorgersdottur modur sína en kuinu Gunlaugs bonda sua framt sem titt nefnd solueig lifdi herdisi modur sina ok henni felli þesser jardar partar til arfs ok eignar. hier j motti gaf titt nefndr gunlaugur gudmundsson adr nefndum þordi adra jord er liggur j skagafirdi j blonduhlid er kvskepi[1]) heitir. skylldi hvor taka at ser þessar jardir þegar herdis dęi þordur kvskerpit[1]) en gunlaugur þa jardar partana sæm solueigu fellu til erfda ok liggia j hornafirde j austfiordum. Ok til sannenda hier vm settum uer fyr nefndir menn ockur inzsigli fyrir þetta bref at giort uar æ vidiuollum j skagafirdi j blonduhlid ari sidar en fyr seigir.

---

411. 1428 eða síðar.

Skrá um eignir erkistólsins í Niðarósi.

Þegar Áslákr Bolt varð erkibiskup í Niðarósi 1428 voru glataðar hinar fornu jarðabækr erkistólsins; lét hann þá rita eignir

[1]) þannig.

giora edr luka þuiath ver vilium sealfer þær nadær honum þar til gera sem oss litzst hann verdugr þar firir. Skal jon prestr leggia efter stadæn oc hans godz tiu kugilldæ a huærio are. han skal oc fæda prest oc diakna oc fæda oc klæda tua brædr oc klaustrino med hialpa suo ath þeir mæge vel med hialpast. kann nokot til kirkonar gifazt þat skal standa til vorrar nadh hvat hann skal þar af hafua. kunno ver fyr til koma en þriu ar ero lidæn þa skal hann halda til næsto faardaga þa efter komandum en stadræn þa aftur vnder uort vald. Oc til sanninda oc fullrar stadfestu settum ver uortt jnsigli Rotundum firir þetta bref ut gifit a holum j hialtadaal þridiadagen j gagnadagaviku anno domini ꝏ⁰ cd⁰ tricessimo.

---

## 459. 6. Júní 1430. á Hólum.

Jón Vilhjálmsson skipar sinn kæra vin Lopt bónda Guttormsson ráðsmann Hólakirkju í Hjaltadal.

AM. 235. 4to bls. 33, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3649.

[radzmannsbref loptz bonda Guthormssonar.[1])

Ver jon et cetera.

ath gerom godum monnum viturligt med þesso woro brefæ wer hofum sett oc skipat hæidarligan mann oc vorn kæra vin [lopt bonda guthormsson heilagrar hola kirkiu oc worn radzmann[1]) med ollum þeim rett oc hæidr sæm æinfoldum radzmannæ[2]) til bær. hann skal hion rada jardær byggja. kaup gialda hueriom efter þui honum þyckir til standa. lan(d)skyldær oc kugilda læigur skal hann vpp bæra stadnum til nytta. Radzmænn oc vmbodzmen skal hann sætia j nordr vmbodh skaga oc fliota vmbodh. oc suo til vtbua sæm hann sær henttiligt vera oc ræikningskap af ollum þeim taka sæm hann j vmbodæn setr. En hann sealfr ræikningh giæra ef wer ærom nær ædr þeim wer til skipum med annara godra manna

[1]) [skafið út og því les afskript séra Snorra þetta ekki, og má þó lesa það með nokkurn veginn vissu; [2]) radz er mjög skafið út og verðr þó lesið.

yfersyn. Hann skal oc ollum nytsamlegum kaupum kaupa firir stadæn bæde smaam oc storum oc þo med vorre vitændh ef wer erom nær. oc luka allar loghligar skuldær sæm hann gerir logliga edr med logum werda a stadæn settar. af kirkonar godzsæ. oc mæga vmskiptæ gera sina vægna oc annara af stadarens pæningum ath skadlauso undir rettan ræikninghskap. Skal hann hafua iiij suæina sealfan sigh æn fimtta. skal hann sealfur hafua linklæda ænfni oc par sko. æn allir þessir fimm vasklæda ænfni huitt ok suart. hefer hann flæire menn til kostnadar vpp a stadæn en fyr greiner. skal hann fulla pæninga firir þa læggia med godra manna yfuersyn. Skal hann hafua af huolum sæm ræka kunno bæin talkn sinar oc seymi. aflaup skurda mægringar allar. En sea suo firir kirkonar hual sæm hann mægi til nytta koma. Skal (hann) j þessum vmbodum standa vm næsto þriu aar næma wer fyr til komum þa skal (hann) þo halda þessum storfum til næsto faardaga efter komande. skal hann a huerio aræ oss ræikningskap giora med þeirra godra manna yfuersyn sæm wer skipum En oss sealfuom rættan oc sannan ræikningskap gera þa wer bæidum. hann skal oc fræalsliga mæga kæra sekta oc sækia huar hann finnr edr vpp kann spyria[1]) kirkonar godz ranghliga haldit hafua verit j alla stadæ sæm gudz logh æi j moti sægia. Skulo wer þat alt halda oc hafua stadugt sæm hann giorær loghliga j þessum worum oc kirkonar vmbodhum Ok þæir allir quittir firir oss sæm honum gæra rættan ræikningskap sæm honum anægir.

Oc til sanninda[2]) oc fuls vittnisburdar her vm settum wer uortt jnsigli Rotundum firir þetta radzmans bref vtgifit a holum j hialtadaal þridia dagæn in fraa octauam ascencionis domini prestum vorum nær verandum oc samþyckiandum anno domini ϖ° cd° tricessimo.

Jtem j þessum vmbodum oc brefsins viditokum. skildæ [loptr bondæ guthormsson[3]) af siær alla abyrgdh af stadnum oc stadaræns æignum huer wauæifligr skadæ sæm til kunnæ bæra huart heldr veri med ranæ hernadæ fiarfækkon eldz vppgongu ædr vinda. firir vtan alt þat sæm logæn skylda honum til j abyrgdum ath standa vidr kirkonar godz. En lofuadæ þo

---

[1]) huar hann vpp spyria, stendr hér í skb., en er ofaukið; [2]) her, b. v. skb., en er ofaukið; [3]) [er skafið, en er þó læst.

ath gæyma suo sæm sealf sins æigna pæninga morgum godum monnum hia værandum.

---

460. 7. Júní 1430. á Hólum.

Veitingarbréf Odda Þorsteinssonar fyrir staðnum á Tjörn í Svarfaðardal um þrjú ár.

AM. 235. 4to bls. 34, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3653.

bref odda þorsteinssonar vm tiorn i suarfadadaal.

Ver jon et cetera.

gorom godum monnum viturligt med þesso uoru brefæ ath wer hofum uæitt oc vnt hæidarligum mannæ odda þorstæinssyni stadæn ath tiorn j suarfadadaal med ollum sinom æignum fridom oc ofridom faustum oc lausom ath vndan tekinne porcione ecclesie. skal hann a stadnum bua nesto þriu aar fra næstum fardogum er nu koma forfallalaust. skal hann bæida. kræfia oc kæra sekta oc sækia hvern ær rangliga heldr ædr haldit hefer kirkonar pæningum. En þeir allir quitter firir oss oc vorum æfterkomandum sæm honum gera sannan reikningskap edr a settazt med hann so ath honum vel anæger. kirkonæ þo ath skadalauso. skal hann abyrgiazt stadæn oc stadarsæns godz efter logum. kann hann stadæn bæta hafui firir æftir godra manna giordh. En æf gæfazst kann kirkonæ pæningar ath vndan tekno þui hennæ ma vera til prydæ jnnan sigh. skal þat standa til wora nada oc godum monnum litst suarligt vera.

Oc til sanninda her vm settum ver uort jnsjgli firir þetta stadarlans bref vt gifit a holum j hialtadaal Miduikodagæn infra octauam assencionis domini anno M° cd° tricessimo.

---

461. 12. Júní 1430. á Hólum.

Vottorð tólf klerka og tólf leikmanna um það, að þeir hafi aldrei heyrt né vitað annað en veiting Grenjaðarstaða í Reykjadal hafi legið undir Hólabiskup fyrri en Jón prestr Pálsson nú kom út með veitingarbréf erkibiskupsins fyrir staðnum.

AM. Fasc. VIII, 30, frumritið á skinni. Öll innsiglin eru dottin frá, nema hið 13. og 17.

bref vm veizslu a grenia(dar)stad.[1])

Ollum godum monnum þæim sæm þetta bref sæa ædr hæyra Senda asbiorn abotæ aa þingheyrum þorgyllss abotæ a munkaþuæraa Jon biarnarson aræ þorbiarnarson þorkæll gudhbiarttzson pall tæittsson magnus magnusson bergþor haldorsson tæitr kætillsson sighmundr gudmundarson Einar hialmsson ok magnus þorberghzson prestar Rafn loghmann gudmundzson loptr guthormsson annfinnr þorstæinsson þordr þorstæinsson gamlæ marthæinsson biorn jonsson finnboghæ jonsson jon jonsson þorkæll berg(u)lfsson pall ormsson stullæ berghþorsson ok olafur Eyiulfsson læikmænn quædiu gudz ok sina kunnikt gerandi ath oss er sannliga viturligt ath stadræn aa græniadarstodum j Reykiadaal hefuir lægit vndir hæilaga hola kirkiu ok væittr verit ok skipadr af holabyscopum ok hennar formonnum ok alldræ heyrdtt ath hann hafuæ af odrum wæittr wærit fyr ænn jon prestr pallsson kom vt higat med erkibyscupsins brefuæ ath hann hafdæ vntt honum ok uæitt adrnefndan stadh.

Ok til sanendba her vm settum wær fyrnefndir mænn wor jnsigli firær þetta bref giortt aa holum j hialttadaal manadagen næsta firær festum corporis christi anno domini Millessimo quadringentessimo tricessimo.

---

462. [1430.]

Jón Vilhjálmsson biskup á Hólum stefnir Sokka Einarssyni fyrir ýmsar sakir, sem taldar eru í bréfinu.

AM. 235. 4to bls. 34, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskr. 3654.

stenfnobref sokka.

Ver jon et cetera.

gerom godum monnum kunikt ath ver stæfndum socka æinarssyni firir oss vm þessar saker.

fyrst ath wer gafuom saker af vorum rækavidh a siglonæse medan han þar bio ath han hafdæ mæira af honum en honum bar med logum.

---

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi og «Num. 537».

jtem j annaræ græin ath ver hofdum han grunsamligan ath han hæfdi haft saum or þeim ængilskum batæ er þar rak oc j þridiu græin ath han hefer lægit j frillolifuernæ med gunildo gudmundardottur oc att nio born med hennæ oc fallit aftur j sama glæp oc giortt suo iteracionem delicti.

hefer han giort oss fullt oc lika vm fæsekter er a greindum brotum standa oc blifuit j varo fullo mine oc tekit scrifter efter þui sæm bær þuilikum brotum suo oss vel anæger. þui gerom ver greindan socka allungis quittan oc frialsan oc allungis akærolausan vm oll sogd brot a heilagrar kirkio vægna oc uora firir oss oc ollum uorum efter komandum biscupum a holum oc suo ollum uorum vmbodzmonnum.

jtem hofum ver oc lagit honum vidh af uorum rekum so mikin sæm han hefir æigi sealfr til ath gera sær æin sexering so storan sæm han fæck oss. skal stæin eðiulfsson vor vmbodzmann j fliotum fa honum vidæn.

---

463. [um 1430].

Klerka og djáknatal á Hólum í Hjaltadal um daga Jóns biskups Vilhjálmssonar.

AM. 235. 4to bls. 35 bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar.

Broder biorn skal hafua mariemesso daghliga oc hafua ecki gera med Coren vtan in summis festis oc standæ i kor daghliga j hamesso ok geri in duplicibus sem rector Cori skipar.

heimaprestar vicarij.
Sira oddr gudhmundzson.
jtem þordr rodbiarttzson.
Jtem Messodiaknar.
Sira oddr þorkælsson.
Jon Einarsson.
Jtem svbdiaknar.
jon gamllason.
sueinbiorn þordarson.
Smadiaknar in coro.
Teitr.

þorstæin jllugason.
Magnus einarsson.
gudmundr thorlaksson.
Jon þorkælsson formesso klærckr.

---

464. 5. Júli 1430. á Hólum.

Jón Vilhjálmsson biskup á Hólum skipar Þorkeli presti Guðbjartssyni, er hann hefir veitt Grenjaðarstað, að taka að sér fé Jóns prests Pálssonar, hvar sem það finnist i Þingeyjarþingi, og, þar séra Jón sé bannsunginn, afhenda sér það sjálfr, þar til Grenjaðarstaðr hafi feingið sína peninga fulla, er Jón prestr hafði eigi staðið skil á.

AM. 235 4to bls. 35, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3655.

vm iarder sira ions palssonar til græniadarstadar.

Vær jon med gudz nad et cetera.

gerom godum monnum viturligt med þesso uoru brefuæ ath sira þorkæll gudbiarttzson kom firir oss oc kærdi vpp aa ath stadræn a græniadarstodum þan sæm wer hofum honum wæitt med collacione hefdi eigi fengit fulla pæniuga huorki frida næ ofrida af sira jonæ paalssyni næ hans vmbodzmannæ. Ok sakir þess ath næfndr sira jon er nu bannsungen af fullum sinom verkum oc han aa huorcki suara firir sigh næ adra. suo æi sidr hafua ængir ærfvingiar til komet ath giora rettan ræikningh ædr nokora satt ædr sæmdh firir hans brot oss næ heilogum kirkium. Þui seam wer æige annat sanara efter gudz logum oc heilagrar kirkiu En wer æigum ath oss ath taka þa alla pæninga sæm han hefuer vndir sinnæ verndh edr geymslu hafdt huortt heldr hann hefuer ræiknadh sina æighn ædr vmbodz pæninga. Þui skipum wer af worre biscupligre tign oc valdæ biodum ver oc bodum svb virtute sancte obediencie svb pena suspencionis ab officio sira þorkæll gudbiarttzsson skyldugan ath sær ath taka oc afhenda ser sealfr alla þa pæninga hann kann vpp spyria j þingheyiarþinghæ er sira jon hefuer ser ræiknadh þar til græniadarstadær hefuer alla sina peninga af þrattuæfndum sira jonæ paalssyni. næfnom

wer þar til særliga þriar jardær eyfræholaa ær stændr j gnupaswæit. launden bædhi ytra oc sydra er stendr i eyxarfyrdæ. skal han þessum jordum halda oc fulla aawoxstu oc abata vpp bæra suo sæm af odru stadaræns godzsæ þar til sæm sira jon paalsson edr hans ærfingar luka græniadarstadh fult oc alt þat sæm næfndum stadh bær af þeim hafua. forbiodum wer vndir bans pino ollum monum lærdum sæm læikum nokor mottkaust talmon ædr trægdon sira þorkæli væita her vt j suo ath hann mægi þui sidr þessa vora skipan fylla fræmia oc fullgera.

Ok til sanninda her vm setto wer uortt insiglæ firir þetta bref vt gifit j holum j hialtadaal midhuikudagen næsta efter festum apostolorum petri et pauli anno domini ɱ° cd° tricessimo.

---

465

1430.

Máldagi Krosskirkju í Landeyjum, er Jón biskup Gerreksson setti.

Máldagi þessi hefir verið færðr inn í Vilchinsbók aptan við Krossmáldaga, og er hann hér tekinn eptir Vilchinsbókarhandritinu AM. 260. Fol. bls. 39, sem ritað er um 1640—50.

Anno Domini ɱ°. cd°. xxx. þa er biskup Johannes Visiteradi hefur aukist vmm framm þad sem Herra Wilchins maldagi vottar sijdann Helgi Styrsson kom til Kross.

iij asaudar kugilldi oc iiij kyr oc ij hestar.

Jtem lagde Helgi bondi til kirkiunnar sæmilig messuklædi ad ollv oc einn hokul lausann. eina kantarakapv. alltarisklædi med fordvkumm oc tvo dvka bvna oc einn glitadann dvk. eitt propiciatorium forgyllt med kopar. kiertahialm med kopar. Olafs lijkneski. Jons baptistæ bilæte. Katrinar lijkneski. Nichulas skriptt. Mariuskriptt sæmiliga og giord vpp kirkiann ad aullu. Graduale. Sequentiubok. De Sanctis bok per anni circulum.

Jtem reiknadist portio xviij° sijdann Helgi bondi tok.

---

466.

**20. August 1430. á Hólum.**

Jón Vilhjálmsson biskup á Hólum biðr í margra manna viðrvist, að Jón prestr Pálsson haldi þann dóm, «sem biskup Jón

vor forverari og vér» höfum yfir honum sagt, og að hann standi á dómi heilagrar kirkju um brot sín.

AM. 235. 4to bls. 36, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti.

Vm sira jon palsson.[1])

A sunnodagen infra octauam assumpcionis beate marie eodem anno kom [sira jon palsson[1]) firir oss jon biscup vilialmsson j timbrstofuona aa holum j hialtadaal vorum prestum hiaverandum sira Einare hialmssyni. sira oddæ gudhmundzsyni. sira siugurdæ jonssyni. [brodur biorn.[2]) jon diaknæ einarsson. jon diaknæ gamblasson. sueinbiorn þordarson. andres stæindorsson. þorstæin jonsson. þessir læikmenn gudinæ bondæ oddzson. jon egilsson pupblicus notarius. thorlakr jonsson. thomas peis oc biscup jon fyrsagdr bæiddi ath sira jon fyrnæfndr skuldæ lofua honum oc gæra hæilagre kirkiu oc honum logh oc rett oc halda þan dom sæm biscup jon wor forweraræ oc wær hafuom dæmtt vpp aa hann ef hann geti eigi afsakadh han efter yfuersyn tolf presta. En huat sæm han hefuer brottligr wordæt j mott hæilagre hola kirkiu oc oss j ordh oc verkum þatt læggr han a hæilagrar kirkiu doom ef þæir forlika sigh æigi sealfuer þar vm her jnnan landz. setto þeir dagh sin a millum til þingæyra med handabandi þessom fyrnefndum monnum ner verandum fausto-dægen oc laugardagen nesta æfter krossmesso er nu kemr til tals.

---

## 467. 20. August 1430. á Hólum.

Jón Vilhjálmsson biskup á Hólum dispenserar með Jóni presti Pálssyni og sveinum hans, að þeir megi samneyta kristnum mönnum, en sé að öðru leyti í banni þar til þeir hafi gert heilagri kirkju rétt.

AM. 235. 4to bls. 36, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3656.

Jtem eodem die et anno et loco dispenserodom wer jon biscup wilialmsson med sira jon prest palsson med suo feldum

---

[1]) [skafið; [2]) [á spássíu í skb.

skilmala oc forordum til samneytis med adra kristna mænn vt yfer faustodagæn oc laugardagæn nesta efter krossmesso næst komandæ suo ath han skal æigi ganga j kirkor ne heyra messor edr nokot gudz æmbetti jnnan sagdan tima vtan standa j fullo bannæ sæm adr oc sama skilmala hans swæinar oc þæir honum samþyckia þar til hann oc þæir hafua giortt heilagræ kirkiu oc oss rett oc logh heilagrar kirkiu edr blifuet j uoru fullo minnæ.

---

468. 30. August 1430. á Hólum.

Dómr Ara prests Þorbjarnarsonar milli þeirra Jóns biskups Vilhjálmssonar og Finnboga Jónssonar um biskupsgistingar.

AM. 235. 4to bls. 36—37, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 581—82.

Anno domini ꝏ° cd° tricessimo a miduikudagæn nesta efter decollacionem sancti johannis baptiste var ek aræ prestr thorbiarnarson officialis hæilagrar hola kirkiu til skylldadr af minom virdoligum herra herra jonæ biscupi villialmssyni a holum ath sægia logh millum hans oc finbogha bonda jonssonar vm biscups gistingh þan tima han gistæ ner honom j asæ i keldohuerfui oc ath þeim badum vndir læggiandæ med handabandæ biscupinum oc finnboga. þui in nomine domini amen sægir ek biscupin skyldugan þan tima han wil visitera gere han sitt gistingarbref or presta stænfno þægat sæm han vill rida oc þat lata forda kirkiu fra kirkiu þat sæinasta ath fardoghum sua ath þæir hafuæ fulla visso sæm med honum skulo taka. En þann prestr ædr bondi sæm med honum tekr skal ætla biscupinom oc hans monnum tolf oc honum ænom þrettanda sæmiligan kost oc maaldryckio biscupinom sealfuom oc hans tolf monnum en herra biscupen skal skipa mann til ath ræida sin kost oc keykimæistara en huar herra biscupæn veri æigi suo haldæn sæm adr sægir þa skulo prestar ædr bændr lika firir gera suo sæm biscupinom uel anægir oc þeim han gister nær lærdr ædr læikr oc suo prestar oc bændr skyldugir ath kræfuia oc bæida ræidskiota huerr j sinnæ kirkiusokn efter þui sæm huer hefuer fongh til ath forda biscupæ i adra kirkiu sokn vndir þuilika sækt sæm kristæn rettr gerir þar radh firir. var þessi min orskurdr fram sagdr j kirkonæ (j) asæ j kældohuerfui

mer j domsæti sittiandæ minom herra biscupinum sialfuom samþyckiandi oc þessum lærdum monnum oc læikum aheyrandum oc ner uærandum jon prest biarnason. þorkæli gudbiarttzsyni. þordi ogmundzsyni prestum. þordi þorstæinssyni. jonæ egillssyni publico notario. gambla martheinssyni oc jonæ kætilssyni læikmonnum oc morgum odrum godum monnum samþyckiandum j sama stadh dægi oc aræ sem fyr sægir.

---

469. 31. August 1430. á Hólum.

Meðkenning þeirra Auðunar Magnússonar, séra Þorkels Guðbjartssonar og Helga Bjarnarsonar um það, hvað þeir hafi feingið af því skipi, er braut fyrir Harðbak, jörð Hólastaðar í Hjaltadal.

AM. 235. 4to bls. 37, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3657 a-b, 3658.

Anno domini ꝏ° cd° tricessimo a fimttadagen nesta efter decollacionem sancti johannis baptiste kændizst audon magnusson firir minom herra ath han hafdæ[1]) haft af þui skipæ sæm braut firir hardbak sæm hola stadr aa jordina eina pipo med aul. tunno miol. iij pipor tomar. litedh lodh akkaræ. vittnadæ greindr audun ath hola kirka aa greinda jordh hardbak efter þui honum ær sagdt oc morgum godum monnum er viturligt her j landet.

Jtem kændizst sira þorkæll hafua suo mikit af þui skipæ sæm braut aa hardbak eitt akkæri brotæt. iij pipor tomar oc attungh oc æin tunna med eyl. vj haufudhtogh. boghlina. æin kabæl stor .lx. fadma. læntti hann abota a munckaþuæraa hundradh saums oc ij vppstaudu strængi. hustrv margreto ij hundrat saums med room oc halft seglit med sigh oc xl spikara smaa oc vj kroka oc vj lækki. vogh alt þetta jarnn fiorar uetter atta fiordunga vætter oc ath auk hundradz saums er han læntti sogdum abota.

Jtem kændist helgi biornsson hafua suo mikit af þui skipæ sem braut a hardbak oc hola stadr aa ath han hafdæ haft skipbrotedh oc halft af sægli med sira þorkæll oc eitt bunitt vondt. eitt akkæri gott. vj hofudbændor. iij spiltar af þeim.

[1]) tvískrifað, og á fyrra staðnum ritað hefdíí.

half fimttugr stor kadal oc annar strængr oskiptr stor. ij snære[1]) til fisk .æin tunna bior oc slikt sæm han drak medan han var hia skipbroteno oc ij blystæina. talgoeyx. xxx ongla. kendizst han hafua alt halft skipbrotedh med træ oc saumæ sliku sæm j þui var.

---

470. **7. September 1430. á Grenjaðarstað.**

Jón Vilhjálmsson biskup á Hólum veitir Vigfúsi Einarssyni sveini sínum staðinn á Skinnastöðum í Öxarfirði um eitt ár fyrst um sinn.

AM. 235. 4to bls. 38, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskr. 3660.

stadharbref vigfus einarssonar a skinnastodum i eyxarfyrdæ.

Vær jon med gudz nad biscup a holum gerom ollum monnum viturligt oc kunnikt med þesso uoru opnu brefuæ ath wer hafum uæitt oc skipat vorum svæine vigfusæ æinarssyni stadæn oc kirkiona sancti petri a skinnastodum j eyxarfyrdi fyrst æitt ær oc þat længr sæm hann blifur j voru minnæ oc varar nadær til sægia oc wer æigi adra (skipan) a gerom vtan prestar bæidizst med logum fyrræ til fra næstum fardogum komandum. et cetera.

Ok til sanninda her vm et cetera.

æn vt gifit a græniadarstodum j Reykiardaal mariemesso aftan sidaræ anno domini ꝏ⁰ cccc⁰ tricessimo[2]).

---

471. **11. September 1430. [á Möðruvöllum].**

Próventubréf Odda Þorsteinssonar og Guðríðar Þorgeirsdóttur konu hans.

AM. 235. 4to bls. 38, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3661.

Prouentobref odda þorstæinssonar ok hans kono.

Anno domini ꝏ⁰ cccc⁰ tricessimo manadagæn næsta firir krossmesso vm haustæn var þessi skildagæ gior millum biscups

---

[1]) fyrst skrifað: vadær; [2]) Hér á eptir kemr í skinnbókinni: »Ver jon med et cetera gerom godum monnum viturligt med þessu uoru opno brefe ath« (framhald aldrei ritað).

jon(s) vilialmssonar oc odda þorstæinssonar oc gudridar þorgheirsdottur hans æigenkono ath þau gafuo med ser j prouento stadnum a modruwollum j haurgardaal jordina arnarnæs a gaalmarsstrond firir fimttigæ kugildæ oc þar til tuttugo kwgildæ tio kwgildæ nu j haust j gældum nautom oc .x. kwgildæ nu ath næstu woræ. her j moti skildu fyrnæfndir mænn sær æuenligt bordh af stadnum ath lidnum þrimmr arom oc huortt þeirra twituga wodh aa hueriom tolfmanadum linklæda ænfni huoru þeirra. sitt hettoklædi huoru þeirra aa hueriom þrimr arom medan þau lifua. skildu þau siær litlo stofuona jnnæ j stadnum altidhliga vtan þa biscup væri aa gardinom. þau skildo oc hafua æin þionozstumann karll ædr kono hia ser a sinn kost oc fræalsliga haga sino fæ vm sumaræn j stadarens jordu vndir rettan ræikningh. kunno þau wera þriar nætr a prouentonnæ þa skal stadræn þo æiga alla sagdha pæninga þo ath þeirra missæ widr hedan j fraa. kunnæ þeirra vidr missa jnnan þriggia ara þa skal lukazst efter þau j salogiafuær sex hundrot j smeyr oc slatr oc vadhmaal. En ef annars þeirra missær vidh þa skal lukazst fiogur hundrot j vidrlikum pæningum jnnan þriggia ara. þau skulo oc hafua sængh oc kisto a prouentonæ oc haldæ stadræn huorttuægia færdugt oc æighnist stadræn huorttuæggia efter þeirra dagh.

voro hia þesso kaupi sira jon prestr biarnason er þa heldt modruwalla stadh oc samþykti þetta kaup. broder hugæ biscupsins Capellanus. jon egilsson puplicus notarius. hallr olafsson. biorn markusson oc jon hual thomasson.

jtem uar her j hia sira paal teittsson.[1])

---

## 472. 16. September 1430. á Þingeyrum.

Jón Vilhjálmsson biskup á Hólum biðr Jón prest Pálsson að halda þann dóm, «sem biskup Jón vor forverari» og «vér dæmdum» upp á hann, og gera sér fullan rétt fyrir «forþrot» á prestastefnu.

AM. 235. 4to bls. 38, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3662.

---

[1]) þessi lina rituð á spássíu í skb.

vm jon prest pallsson.

Anno domini predicto a laugardagen nesta efter krossmesso vm haustæn a þingæyrum bæiddæ min herra jon biscup sira jon palsson halda þan dom sæm biscup jon vor forverararæ orskurdat hefuer vpp aa han vm nidrrapan kirkonnar a modruvollum oc þar med vorn dom oc orskurdh sæm ver demdum vpp aa han oc þar med þeirra tolf presta dom er þeir dæmdo vpp aa han oc æi sidr þeirra xij godra manna giordh lærdra oc læik(r)a sæm þeir giordo vm daga biscups jons vor(s) forverara oc giora oss fullt oc lika firir þat forþrott sæm han giordæ oss a prestastænfno oc suo sidan.

---

473. 21. September 1430. á Hólum.

Jón Vilhjálmsson biskup á Hólum kaupir við Jón smið Guðlaugsson, svein sinn, að Jón skyldi vera bónarmaðr heilagrar Hólakirkju og ens góða Guðmundar um Vestfjörðu.

AM. 235. 4to bls. 34, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3651. Prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 585—86.

Vm jon smid.

Anno domini ꝏ° cd° xxx° var ek jon Egillsson bpublicus[1]) notarius þar næri a holum j hialtadaal in festo sancte mathei apostoli j forstofuone firir framan timbrstofuona j sogdum stadh oc nerverandum Ormæ . . . . .[2]) syni. Þorstæini jonssyni oc swæini haluardzsyni ath herra jon biscup a holum keypti med jon smidh gudlaugzsson sin swæin ath væra bonarmadr heilagrar holakirkiu oc æns goda gudmundar biscup(s) vm allan væstfyrdinga fiordungh. skildæ herra biscupen honum j sin þionozstulæyn fiogur hundrot. skuldæ jon hafua jordina aa j vnadaal oc þau sex kugildæ sæm þar nu med standa firir ij hundrot badæ saman oc þar til skuldæ min herra faa honum med jordonæ ij kugildæ til medferdar ok her (a) ofan skuldæ æn min herra faa honum tau hundrot onnor j ollo þarfligu godzæ honum takandæ oc minom herra vtlatandi. skuldæ jon

[1]) þannig; [2]) eyða fyrir föðurnafninu í skb.

mæga skipta oc gefua j millom hesta oc taka af þui sæm gefazst kynnæ til allan farar græida oc kostnadar j ræisonæ vppaa rettan ræikningh en hola kirkia oc biscupin æiga alt þat gefit verdr smatt oc stortt. jtem skuldæ jon taka nu vt adr hann fær j bonena æina vodh tuituga en adra j wor er nu kæmr.

---

## 474. 2. Oktober 1430. á Reynistað.

Sigurðr prestr Jónsson prófastr í Skagafirði dæmir Kolbeini Böðvarssyni og Vigdísi Eiríksdóttur fullan skilnað.

AM. 235. 4to bls. 39, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3664.

vm skilnad kolbeins boduarssonar oc vigdise eriksdottur.

Sakir þess ath kolbein boduarsson suor þann bokaræidh ath hann hafdæ aldræ heyrdt vigdisæ eiriksdottur skilia þat til vidr sigh ath þat skuldæ þeirra fult oc loghligt æigenordh væra ef han lægi hia henne likamliga. Ok sua j sama æidæ suor han ath honum war aldri viliugt hana ath æiga sær til æigenkono. þenna æidh saunnodo med honom tuæir skilrikær menn jllugæ berghulfsson oc jngimundr stæinsson ath þeir hugdo þan æidh særan oc sannan sæm han swor. Þui j gudz nafne amen seghir ek siugurdr prestr jonsson profastr j skagafyrdæ þetta tilkall wigdisar eiriksdottur til kolbeins boduarssonar ekki afl hafua næ hafdt hafua. oc huort ykart vm sigh giptazst mæga j huernstadh sæm æi mæina gudz laugh. skipandæ þær vigdis eiriksdotter æuenliga þaugn þessa maals.

Var þessi min domr in scriptis fram boræn mær j domsæti sittiandæ ꝏinom herra jonæ biscupi oc þeim bestum monnum mær nerverandom þenna min dom samþyckiandom. þeim badom loghliga firir komnom oc þenna min dom heyrandom j Capitulanom aa stadh j Reynisnæsi manadagen næsta æftir michialsmesso anno dmini ꝏ⁰ cccc⁰ tricessimo.

iij merkr heilagri kirko en vigdisæ iiij merkr j sin rett.

---

## 475. 25. Oktober 1430. á Hólum.

Jón biskup á Hólum skipar heilagri Hólakirkju og staðnum til æfinlegrar og óbrigðilegrar eignar jarðirnar Valþjófsstaði og

Arnarstaði í Gnúpasveit upp í þá peninga, er Jón prestr Pálsson varð brotlegr biskupinum og Hólastað í málaferlum sínum, en jarðir þessar hafði Jón prestr Bjarnason afhent Jóni presti Pálssyni Hólakirkju til handa, þegar hann var ráðsmaðr, en Jón ábóti Þorfinnsson galt þær séra Jóni Pálssyni í ráðsmannskaup, og ógildir biskup það, af því að kirkjueignir eigi ekki að látast burt gegn öðru en fasteign.

AM. Fasc. VIII, 31, frumritið á skinni. Innsiglið er dottið frá. Jón Espólín ruglast þar, sem hann getr þessa bréfs; í Árb. II, 15 heimfærir hann það til 1419, og fer þar eptir lélegum pappírsafskriptum; stendr og í þeim sumum ártalið 1410, en þess þó getið um leið, að það muni eiga að vera 1419, („legendum existimo Mcdxix“). Í Árb. II, 23 við árið 1430 getr hann þess enn, og heimfærir það þá til þess árs, eins og rétt er, og hefir hann í því líklega farið eptir frumbréfaskrá Grunnavíkr-Jóns.

Valþiofsstadabref ok arna(r)stadabref.[1])

Wær jon med gudz nadh biscup a holum gerom þat ollum godum monnum viturligt ok kunnikt med þesso woru opnu brefuæ ath wær hofum vntt ok skipat worræ andaligræ modur hæilagræ holakirkio ok stadnum til æuenligrar æignar jardhænnar walþiofsstadæ ok arnarstadæ j gnupasuæit j holakirkiu sokn med ollum þeim goghnum ok gædum sæm þeim fylgær ok fylgt hefuer ath forno ok nyio ollu til skildu æn ængho fraa er jon prestr paalsson lukti oss ok afhendti j þa pæninga er hann wardh med oss brotligr ok hæilaga holakirkiu j sinom mala færllum huæriar adrnefndar jardær hafdæ jon prestr biarnason lukt hæilagræ holakirkiu adr j sina pæningha ok biscups tiundær ok afhendt jonæ prest paalssyni er þa war Radzmadr a holum j hialtadaal. En sidan þessar saumo jardær skipadæ jon abote þorfinsson er þa war samþyktr officialis hæilagrar hola kirkiu jonæ prest paalssyni firir þriatigæ hundrada j sitt Radzmans kaup. hwatt ær oss litzt han æigæ matt loghliga giortt hafua æfter Rettum kirkonar loghum nokorar hola kirku jardhær burt ath faa ædhr skipa firir lausa godz. þui vilium wær ath þessi wor giordh ok skipan obrigdæligha haldæst ok stande ath fyrnæmdar jardær walþiofsstadær ok arnarstadæ(r) j gnupasuæitt. skal væra hædan af æuenligh

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi.

æign hæilagrar holakirku vm aldr ok æfuæ. Þui firærbiodum wær aa gudz wæghna ok hæilagrar hola kirkiu badæ lærdum ok læikum ath nokor(er) mænn aakæri brigdæ æda brigdha latæ þessar adr optnefndar jardær. vndir fullt bans afælli ok fæpino huær ær þat dirfuist hædan af ath giora.

Ok til sanænda her vm settu wer uortt jnsigli Rotundum firær þetta bref scrifat a holum j hialtadaal miduikodagen næsta firir flestum symo(n)is et iude apostolorum anno domini ɱ° cccc° tricessimo.

---

## 476. 27. Oktober 1430. á Hólum.

Veitingarbréf Jóns Guðmundssonar fyrir Glæsibæ um tólf mánuði.

AM. 235. 4to bls. 38, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3663.

stadarbref jons gudmundzsonar vm glæsibæ.

Ver jon med gudz nadh et cetera.

gerom ollum monnum viturligt oc kunnikt med þessu uoro brefuæ ath wer hofum uæitt oc skipat jonæ gudmundzsyni stadæn oc kirkona sancti nicholai episcopi j glæsibæ um æina tolfmanadi nu fra næstum fardogum oc til annarra oc þat længr sæm uorar nadær til sægia oc han gerir oss oc hæilagre kirkiu troa þionustu efter þui han hefer oss lofad med ollum þeim gognum oc gædum j fostu godzsæ fridu oc ofridu j mina lut oc mæiri preter porcionem ecclesie. skal han oc hafua fult oc logligt vmbodh til (ath) bæida (oc) krefuia sem odda bref sægir et cetera[1]). en ef huali kann ræka skal hann æiga þridiung en kirkan oc ver ij lutæ oc vaktæ hennar lut oc vorn sæm bæst hann (kann henne) oc oss skadalaust en vidræka allan kirkonnæ til nytt(a) oc suaræ ollom skyldum jardarennar.

vt gifit a holum faustodag(in) nesta firir symonis et iude anno predicto.

---

## 477. 3. Nóvember 1430. á Hólum.

Vistarsamningr Jóns biskups Vilhjálmssonar við Stóra-Stein, sem langi er kallaðr, um þriggja ára vist.

---

[1]) Sjá Nr. 460.

AM. 235 4to bls. 39, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3665.

vm stor(a) stein,

anno domini m° cccc° tricessimo faustodagæn nesta æfter allra hæilagra messo j timbrstofuonne a holum rædh herra jon biscup stæin . . . . .[1]) son langæ kalladr vm iij ar fra þeim næstum fardogum sæm vtæ uoro þau radh sæm adr var han radæn med hola stadh en þau þionozstu læyn sem han attæ hafua firir þa xij manadæ ath fardogum nu j (ar) þat skuldæ standa til mins herra nadh huortt han vildæ þau hafua ædr gifua þau vpp ner veranda jone egilssyni pupplico notario. þorgilssæ oddzsyni kolsa oc þorgæiri olafssyni.

---

478. 1430.

Árni Jónsson búri lofar Jóni biskupi Vilhjálmssyni at róa út fyrir hann í tvö ár, og sé hann að því höldnu kvittr af því broti, er hann sló Steinmóð prest Bárðarson, þegar hann var súbdjákn að vígslu.

AM. 235. 4to bls. 39, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3666.,

vm arnna bura.

Anno predicto lofuadæ arnnæ buræ jonsson minom herra ath roa vt firir han tua aar oc fa sær sealfr vadæ ongla skinnklædi oc hesta sigh sealfr en min herra faa honum kost oc skiprum. þesso holdno er mins herra quittonarbref fast oc stadugt efter þui sæm þat liudar firir hans brot er hann sloo sira stæinmodh prest bardarson þa han war svbdiakn ath wigslu.

---

479. 22. December 1430. á Hólum.

Bergþór prestr Haldórsson sver þess fullan bókareið að standa á dómi Jóns biskups Vilhjálmssonar um öll sín brot við hann.

[1]) eyða fyrir föðurnafninu.

AM. 235. 4to bls. 51, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3678.

Anno domini ⅿ⁰ cccc⁰ tricessimo faustodagen næsta firir iul j timbrstofuonæ a holum nærwerandum sira magnusæ prest magnusssyni. sira sigurdæ jonssyni. sira þordæ gudbiarttzsyni. jonæ einarssyni. andressi stæindorssyni messodiaknum. þorstæine jonssyni. suæinbirnæ þordarsyni svbdiaknum oc jonæ egillssyni publico notario ath sira berdor haldorsson suor fullan bokaræidh firir vorum virdoligum herra jonæ biscupi villialmssyni ath (hann) skuldæ standa a hans domæ oc nadh vm alt þat hann hafdæ j mot honum brotidh mæira ædr minna. þat alt halda oc hafua obrigdiliga sæm hann vildæ a hann læggia j scriptum ædr fæpino(m) æfter sinnæ makt oc ækki brott fara af hola stadh vtan biscupsens gott orlof.

---

480. [um 1430].

MÁLDAGI kirkjunnar í Hólum í Hrunamannahrepp (Hrepphólum).

AM. 262. 4to. bl. 3a—b. c. 1600. AM. 66 A. 8vo bl. 10ᵇ c. 1600. þessi máldagi sýnist vera nokkuru eldri en máldagarnir frá 1440, og mætti því líklega heimfæra hann til hér um bil 1430.

þessi fa ord hef eg¹) nyfundit og eckjirt datum yfer skrifat.

sa er maldagi j holum j Hrunamannahrepp þat kirkiann a xx kyr og c asaudar.

vij hesta og iiij hross.

iij hundrut j nautum og iiijᵉ innan gatta.

allan skog ā steinastodum j mille holtama(nna)ar og raudær. annann j aslægstungum. hin(n) þridia j bringu j millum gilia.

---

481. [um 1430—1440].

TESTAMENTISBRÉF Margrétar Bjarnardóttur.

AM. dipl. orig. Fasc. LXIV, 4. frumbréfið á skinni. AM. dipl. afskrr. Nr. 2873 »þetta mun vera Kirkiubæjarklaust-

¹) þ. e. síra Jón Egilsson prestr í Hrepphólum.

ursbréf« (AM.) Mun Margrét vera kona Rafns lögmanns Guðmundssonar (d. 1432).

Þat gerir ek margreta biarnardotter godum monnum viturlight med þessu minu opnu brefi sakir þess ath cristinn madr a sinum skapara margann velgiorningh at luka þui gefr ek mik ok mina sal vndir guds vald oc hinnar signudu junfru sancta mariu ok allra guds heilagra manna giorir ek suo fellt testamentum heil j samvitsku.

klaustrinu j kirkiubæ a sidu tiu hundrat.

gunnvauru ketilsdottur frændkonu minni gefr ek fimtan hundrat j suo mata sem ek gere Rad fyrir henni til forgiptar.

gro þorleifsdottur frændkonu minne þriu kugillde.

asgrime frænda minum hundrat.

odrum asgrime brodr hans annat hundrat.

laudmunde frænda minum eyiulfssyni kugillde.

gro sÿstr hans ku.

hakoni augmundarsyni hundrat.

Ragnillde eÿiulfsdottur mat ok klæde vm sex ær ok fylge peningum hia minum erfingium.

gudrun(u) þorgrimsdottur kugillde.

ingibiorgu hialmsdottur tiu ꜳra frida.

Ok til sanninda her vm setti sira andress steinþorsson ok gamle marteinsson sin incigle fyrir þetta testamentum bref.

---

482. [um 1430—1440].

Ólafr bóndi Vigfússon kaupir land á Auðbrekku í Hörgárdal af Eiríki Ísleifssyni fyrir jörðina Aungulsstaði og nokkurt lausafé þar til, og skýrir Eiríkr frá ítökum.

AM. Fasc. XII, 18, transskript á skinni frá 5. Maí 1449. AM. dipl. afskrr. 148 (eptir transkriptinu). Jón Sigurðsson árfærir bréfið til c. 1420, en það er heldr snemt. Eyjólfr Arnfinnsson hefir verið mjög ungr þá. Ólafr sá, sem hér getr, má hafa verið sonr séra Vigfúsar Þorbjarnarsonar í Odda.

audbrecku bref.[1])

Jn nomine domini amen

var þetta kaup þeirra olafs bonda vighfussonar ok eireks

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi.

jsleifssonar. ath nefndr olafur keypte land j audbre(c)ku at adr nefndum eireke. gefande j mote aungulsstade ok j mille greindra jarda fiora tige hundrada. skyllde optnefndr olafur ganga j skulld vm xx hundrut vid jllugasonu magnus jon ok þorfin en reida eireke aunnur xx c. keypte olafur optnefnda audbrecku at eireke medr fornu ok nyiu ok aullu þui sem eirekur vard eigande ath. griottar lande fram j haurgardal ok faugruhlid. þriggia xij fedminga torfskurd j tregrefstada land. skogahris j skogaland. samþyckte halldora gudmundardotter busfru eireks nefnt kaup medr handlage. sagde eirekur jtaulu j brecku jaurd halfs manadar teigur af laugalande.

voru þesser vottar bergur þorvalldsson. eirekur þorvardsson. prestar. Eýolfur arnfinnsson. asgrimur biarnasson. hakon helgason. þorsteinn sumarlidason.

Ok til skilrikis hier wm settu nefnder menn sin jnscigle firir þetta bref.

---

## 483. 2. Janúar 1431. í Húsavík.

Skiptagjörningr þeirra bræðra Halls og Finns Ásgrímssona á landi, öllu búi og býbýlum að Héðinshöfða á Tjörnesi.

AM. dipl. afskr. Nr. 650, eptir frumritinu, og voru þá tvö fyrstu innsiglin fyrir því, en tvö hin síðustu voru dottin frá.

Þad giorum uier jon prestur skieggjason. magnus markusson. gudmundur þorkielsson ok þorleifur gudmundsson godum monnum kunnigt med þessv uorv opnu brefi. ad vier uorum j hia saum ok heyrdum so fallin skipti foru fram a biedinshofda a tiornese med þeim brædrum halli asgrimssyni ok finne asgrimssyni a krossMesso um uorid. ad annar þeirra brædra skyllde hafa uollin sudur fra heimalæk enn annar heimavollinn ut fra læknum. þar med skyllde sa sem ytra uollinn hefdi. hafa holkot til slægna ok krossteiga sudur vid a. enn annar skylldi hafa trollagils gerdi ok þær slæiur sem þij fylgia fyrir sunnan reydara. enn adrar utslægiur sem sialfum semdi. so ok skylldv bader hafa stecka a hofdagierdi. hier med skylldi annar hafa selfor j reydararbugvm enn annar j burfelstungu. skylldu ok badir hafa lundey til jafnadar. skala ok badstofu

ok eldhus til jafnadar. sitt bur j gaungum huer. sitt fios ok hlodu huor þeirra. rekan ok oll onnur gognn til jafnadar so ok skylldi hvor hallda uppi logskilum fyrir sinn partt til jafnadar. fyrir adur greinda jord hiedinshofda. skylldi þetta standa so leingie sem þeir lifdu ok ættu adurgreinda jord. Ok til sanninda hier um settum uier vor jnsigli fyrir þetta sættmalsbref skrifad j husavik .ix. dag jola arum eptter gudz burd ꝏ. iij<sup>c.</sup>[1]) xxx og .j. ær.

---

484. **10. Janúar 1431. á Hólum.**

Jón Vilhjálmsson kvittar Lopt bónda Guttormsson af ráðsmannsstarfi á Hólum.

AM. 235. 4to bls. 40, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti.

Vær jon med g(udz) n(adh) biscup a holum gerom þat ollum godum monnum viturligt ath uor kerligr vin loptr bondæ guthormsson hefuer giortt oss ræikningskap oc vissu firir stadaræns pæningum her a holum ath nær verandum uorum officiali oc odrum flæirom godum monnum bæde lærdum oc læikum þeim sæm ver til skipudum fyrst in primis af landa læigum kwgilda læigum. vinnomanna gioldum af vtlatom oc inntektum heima a stadnum oc stadar bwm æi sidr þeim quikfeam sæm j fodrum ero hæima oc a stadar bwm oc þar med af ollum kwgildum med iordum bædhi fliot skagha oc nordr vmbodh æfter þui sæm wer trwm sannr mono vera oc adrer godær radzmænn hafua giortt firir honum. oc suo æi sidr firir þat sæm han hefuer jnlagt til stadaræns med huærræ grein sæm hann hefer þat firir oss ræiknadh oc odrum godum monnum. Ok þar vmfram hefuer hann oss oc stadnum vnt tiu hundrot nu j wor firir þann kosnadh sæm hans folk hefuær hafdt fra fardogum oc her til sæm nu ær komet. Ok vm fram þat halft skip sæm braut j haust sæm han lofuadæ med goduilia halft aftur ath

---

[1]) Þannig, en Árni hefir ritað efst í horn bréfsins að framan »1431«. Afskript af bréfinu er í bréfabók séra Skúla Þorlákssonar á Grenjaðarstað AM. 255. 4to bls. 201, og er þar eins ritað ártalið og hér, en þar skrifar Árni við: »corrigendum absque dubio 14 . . .«

luka oss oc stadnum bidiandæ hann vinliga ath hann mætti þess bætr gæra hædan af. suo ath hann mæghi odhlazst þauck af gudæ æn ofuso af oss. her med giorom wer þenna worn ælskoligan vin lopt guthormsson allungis quittan oc akærolausan firir oss oc ollum vorum æfterkomendum hola kirkiu vmbodzmonnum vm allan adr greindan ræikningskap oc (af) hola kirkiu vmbodum.

Ok til sanninda her vm settum wær uortt jnsigli firir þetta quittonarbref er giortt var a holum j hialtadaal miduikudagh næsta æfter þrættanda dagh i jolum anno domini ɱ⁰ cccc⁰ tricessimo primo.

---

485. 4. Febrúar 1431.

Vígslubréf Jóns Vilhjálmssonar biskups á Hólum handa átta nunnum, er hann vígir til systralags að Stað í Reyninesi, og þar með fylgjandi eiðstafr þeirra.

AM. 235. 4to bls. 63 (nr. 107), bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. Prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. IV, 264 neðanmáls.

anno domini et cetera xxx⁰ primo votum sororum in monasterio ath stadh j ʀæynisstadh.

Anno domini ɱ⁰ cccc⁰ tricessimo primo in dominica lxª vigdæ virdoligr herra herra jon med gudz naadh biscup a holum i sogdum stadh til systra j klaustr sancte marie oc sancti benedicti ath stadh j ʀæynisnæsi.

Jn primis systor sighridæ sæmundardottor.
systor þoro finsdottor.
stæinunnæ biorgholfsdottor.
þoru jllughadottor.
hælgu biarnadottor.
andisæ Einarsdottor.
agnæs jonsdottor oc
þordiso finnsdottor

Mædr suo firir skildræ lofuan til gudz þionostu sæm her seger.

Ego soror sighrida filia semundi promitto deo et beate marie et beato benedicto et omnibus sanctis stabilitatem meam

in ista sacra Religione et conuersione morum meorum et quod ero obediens omnibus diebus vite mee abbatisse siue priorisse secundum regulam beati patris nostri benedicti viuendo in obediencia sine proprio et in castitate et adseruiendum deo in monasterio beate marie in stadh ath Reynisnæsi et hoc idem protestor Manu propria[1]) in presencia domini mei johannis diuina gracia episcopi holensis.

Ek syster Ꜧ Ꜧ dotter lofuar gudæ. hæilagre marie hæilogum benedicto oc ollum helgom monnum stadhliga j þesso heilago Ræinlifuæ oc samlifnadæ minna sida ath æk skal wæra hlydæn alla mina lifdagha mins lifs Minnæ abbadis ædr priorisse efter Reglu wors heilaga faudrs sancti benedicti. lifua skulandæ med hræinlifui oc lydnæ Ok æigha ænga pæningha vtan minna systra vitordh oc þiona gudæ j hæilagrar Marie klaustre ath stadh j Reyninæsi oc þetta sama stadfestir ek oc vitnar med minnæ æigenne hendi Nærveranda herra (jone) med gudz nadh biscup a holum med þesso signo et cetera.[2])

---

## 486. 6. Febrúar 1431. á Hólum.

Ástríðr Jōrundardóttir próventukona á Hólum lýsir því, að hún hafi aldrei gefið Sveini Hallvarðssyni, bónda sínum, umboð yfir jörð sinni Ríp í Hegranesi, og handabandar hún Jóni biskupi hálfa jörðina í porcio og annan reikning.

AM. 235. 4to. bls. 63—64, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3682.

Eodem anno.

Þridia dagæn nesta efter dominicam sextogessimam videlicet in festo sanctorum vedasti et amandi sanctorum confessorum j timbrstofuonnæ a holum j hialtadaal firir virdoligum herra Jonæ biscupæ aa holum nær verandum siugurdæ jonssyni oc oddæ þorkelssyni prestom. jonæ Egilssyni pupplico notario oc thomasæ pæis jonssyni læikmonnum ath astridr jorundardotter prouentokona j sama stadh kændizst oc sagdæ ath hon hafdæ aldræ fænghit svæine haluardzssyni sinom bonda vmbodh næ samþykkæ til hafdæ lagt ath hann hefdi nokkorum mannæ vmbodh fængit vpp a sina jord Rip j hægranæsi ath sælia hana oc

[1]) proprio, skb.; [2]) neðan undir stendr í skinnbókinni krossmark með hring utan um.

aldræ sagdizst (hon) þar samþykci sitt skulo (til) læggia. handabandadhæ (hon) honum halfua jordina Rip j porcionem ecclesie oc annan ræikninghskap kirkonar en huat sæm jordæn half uæri dyrræ en kirkonar ræikninghskap tilstændr þa skuldæ min herra luka astridæ fulla pæninga æfter þui sæm þau wyrdæ a satt sin j millom firer suo mikæn part j iordinæ sæm mæira er En ræikninghskapren kirkonar stændr til. lysti hon firer greindum herra jonæ oc oss ath hon vildæ gifua gudhmundi þorlakssyni sinom fostursyni halfua greinda jordh Rip oc ef þorlakr hans fadær vildæ selia þan helmingæn þa vildæ hon samþykkia þat ath hann seldi þan parten herra hiscupinom oc hæilagræ hola (kirkiu) fyr æn odrum firer lika pæningha.

---

## 487. 6. Febrúar 1431. á Hólum.

Jón biskup Vilhjálmsson bannar Sveini Hallvarðssyni undir banns pínu að selja jörðina Ríp í Hegranesi.

AM. 235. 4to bls. 64, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3682.

jtem a sama dagh oc aræ j storu stofuonnæ a holum spurdæ min herra hiscupen swæin haluardzson ef hann hæfdi nokorum mannæ fængit vmbodh a jordinnæ Rip edr hana burtu fængit æn hann sagdist ængum hafua fængit þar vmbodh vpp aa næ seldt. þi forhaudh min herra greinddum suæini haluardz(syni) vnder handz pino ath sælia græinda jordh næ vmbodh fra þeim tima vpp aa fa fyr æn hæilogh kirka hæfdi sinn rættan oc allan ræikningskap [neruerandum sira siugurdi jonssyni jonæ ægilssyni pupplico notario oc þorlakæ hrytia. þorstæini diakna oc thomas pæis þa min herra forbaudh suæini.[1])

---

## 488. 17. Febrúar 1431. á Hólum.

Vitnisburðr fimm manna að Ástríðr Jörundardóttir hafi handabandað Jóni biskupi Vilhjálmssyni jörðina Ríp upp í porcio og annan reikning.

AM. 235. 4to bls. 64, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3682.

[1]) [á spássíu, og ekki vísað inn.

Eodem anno laugardagen næsta firir faustogangh j timbrstofuonnæ j sogdum stadh a holum vorum wer nær sagum aa oc heyrdom vpp aa sira siugurdr jonsson. þorgyls oddzson. þorlæifr helgason. jngimundr stæindorsson oc jon Egilsson pupplicus notarius ath astridr jorundardotter prouentokona a holum handabandadæ vorum virdolighum herra herra jonæ biscupæ a holum halfua jordina Rip er liggr j hægranæsi j ræikningskap oc porcionem ecclesie oc annat godz kirkonar a Rip er aa hana kunno ræiknast med logum oc suo mikit mæira vpp (j) annan hælmingæn skildæ min herra sæm ræikninghskap kirkonar mæire verda æn odrum hælminginom kynnæ suara skildæ astridr sær suo marga pæningha af minom herra sæm minnræ wyrdæ ræikninghskapr kirkonar æn suaradæ halfræ jordonæ.

---

489. 23. Febrúar 1431. á Hólum.

Bréf Jóns Vilhjálmssonar biskups á Hólum til prófastanna í Húnavatnsþingi um þá menn, er liggja í opinberum hórdómi og frillulifnaði og liggja líkamlega með guðsifjum sínum.

AM. 235. 4to bls. 65 (nr. 110), bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. Prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 583—584.

bref vm frillolifuerne oc gudsifiar.

Vær jon med (gudz) nadh biscup a holum gerom ollum monnum (kunnikt) j voru biscupsdæmi ath sakir wors biscupsligz æmbettis oc stættar bær oss vmhyggiu oc forsio firir hafua ath kristindomren aukizst oc rettliga haldizst i alla stadæ huar wer mægum þat bættra. En ver seam þo vida storra vmbota a vantta j morgum stodum mæir æn oss er liuft. þui firir(biodom) wer sterkligha ollum monnum sæm liggia j opinberligum hordomæ oc frillolifuernæ oc þar med þeim sæm likamliga liggia med sinum gudsifium konom oc kollom huortt sæm þeir edr þær hafua þeim haldæt vndir skirn ædr biscups hondh med ollum þeim wænsslum sæm gudz laugh þar ytazst vm græina ath taka gudz likama fyr æn þeir skilæst med glæpin oc syndina oc tækit scrifter oc fælat sæm brotonom til bærr efter gudz loghum oc hæilagrar kirkiu med suornum æidum oc

trvlofuan. Þui biodum wer vorum profastum j hunavatzþinghæ asbirnnæ abota a þingheyrum oc sira hermannæ jonssyni vndir krapptæ heilagrar lydnæ med þesso varo opno brefæ ath læsa þetta bref opinberliga ath huerræ graptar kirkiu firir þeirra tidasoknarmonnum oc þeir firirbiodæ ollum prestum j sinom vmbodhum ath gifua þeim gudz likama er briota þetta uortt bodh oc skipan En stænfnæ þeim firir oss sæm her j motæ vilia þrioskazst.

Ok til sanninda her vm settum wær uortt jnsiglæ firir þetta bref er scrifat war a holum j hialtadaal faustodagæn j ymbrodogum j langafausto anno domini ꟾ° cccc° tricessimo primo.

---

490. 3. Marts 1431. á Hólum.

Meðkenning Knúts Einarssonar að hann hafi fest sér Ingiríði Þórisdóttur í votta viðrvist.

AM. 235. 4to bls. 67, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3688.

vm knut einarsson oc jng(i)ride.

Eodem anno in festo sancti johannis episcopi holensis i fausto kændizst knutr Einarsson j timbrstofuone a holum ath hann fæsti jng(i)ridæ (þoris)dottur firir ingialdæ berdorssyni oc odrum mannæ j badstofuone a gilaa j millum atta dagz oc xiij dagz jola brodur jngiridar nærverandæ gesti þorirssyni. kændizst han ecki hafua kærtt sitt maal firir officiali æda odrum hola kirkiu vmbodzmonnum. var ek jon egilsson pupplicus notarius ner þessu oc flæire adrer goder mænn. lofuadæ knutr (ath) taka greinda jng(i)ridæ þorirs(dottur) aftur til siñ til æigenkono oc settizst med jon deel sæm hafdi lægit (med henne).

---

491. 24. Marts 1431. á Ríp.

Sveinn Hallvarðsson og Ástríðr Jörundardóttir kona hans fá Jón biskupi Vilhjálmssyni jörðina Ríp í Hegranesi upp í reikningskap, en það sem jörðin var dýrari geingr upp í próventu Sveins, og ákveða þeir ýtarlegar um próventuskilmálana.

AM. Fasc. IX, 1, frumritið á skinni. Fyrsta, fjórða og fimta innsiglið er dottið frá og hið sétta er brákað. Bréfið mun vera með hendi Jóns Egilssonar.

littera super Ripam.
J norrænv vm jordina Rip.
Ryp feingenn herra Jone Wilhialmssyne.[1])

Ollum godum monnum þeim sæm þetta bref sea ædhr heyra Sænda jon prestr Einarsson suæinbiorn þordarson diakne stæinþor jonsson jllughæ biorghulfsson ok jon Egillsson pupplicus notarius quediu gudz ok sina kunnikt (gerandi) ath anno domini M° cccc° tricessimo primo worum wer i hia ok heyrdum vpp aa laugardagen næsta firir palmsunnodagh a Ríjp i hægranæsi j skagafyrdæ ath suæin haluardzson ok astridh jorundardotter hans æigenkona bædi med æinom vilia ok samþycki. handabandadho ok fængu worum virdoligum herra ok andalighum fadur herra Jonæ vilialmssyni med gudz nadh biscupe a holum fyrnæfnda jordh Ríjp med ollum sinom gognum ok gædum ok þar til mædr nio kugilldæ til fullrar ok æuenligrar æignar honum ok hans loghligum efterkomandom biscupum a holum j þan ræikninghskap gamallan ok nyian er þar war Ræiknadr af godum monnum ær herra jon biscup fyrnæfndr þar til næfndi a kirkonar wægna adrnænfndrar a Ríjp. er ræiknadizst halft niunda hundrat ok tuttugo ·voruvirdt. En þat sæm jordæn ær dyrræ æn fyrnænfndir pæningar gaf fyrnænfndr suæin haluardhzsson med samþycki astridhar sinnar æigenkono fyrnænfndrar til greindan herra jon biscup ok hæilagrar hola kirkiu j prouentto firir sigh ok þar til sina þionozstu suo længhi sæm honum wæl anægdi. her j motæ lofuadæ herra jon biscup honum æuenligæn kost ok prouentto sæm adrir prouenttomæn hafua aa holum efter godum gomllum vana ok æina wodh tuituga a hueriom tolf manadum ser til klæda. En firir þan goduilia ok kerlæika sem greindh astridr jorundardotter hafdæ til sinn systorson gudhmund þorlaksson diakna. þa lofuadæ optnænfndr herra jon med sin godhwilia ath gifua j moguligan tima nefndum gudhmundi suo marga pæninga sæm aftur stodh i jardar wærdit vm fram ræikninghskapæn j lauso godzsæ ædr fausto ef hann

[1]) Aptan á bréfinu; tvær fyrstu línurnar eru með hendi frá 15. öld, en síðasta línan er rituð á 17. öld.

kynnæ þat faa. En (ef) hann kann ecki faa fasta æign æfter þui sæm þeim pæningum suarar þa skal herra biscupæn faa gudmundi suo marga pæninga sæm þar a kæmr ath kaupa sær jordh mædhr þar sæm han kann. skuldæ græindr herra jon biscup halda optnænfndræ jordo ok hans loghliger æfter komændr biscupar a holum til lagha akærolaust firir þeim ok þeirra ærfingium. En þau suaræ laga Riptingum.

Ok til mæire stadfæstu ok sanænda her vm settu wær fyr næfndir mænn wor jnsigli allir ok suæin haluardzson sitt jnsigli med uorum ok astridr fyrnænfndh hans kona lænto jnsigli thomas jonssyni pæis vottum hia verandum siugurdi prest jonssyni ok þorstæine diakna jonssyni (til) stadfæstu þessarar sinnar giordar firir þetta bref scrifat ok giortt j stadh dægi ok aræ sæm fyr sægir.

---

## 492. 25. Marts 1431. á Hólum.

Jón biskup á Hólum vottar, að hann hafi tekið Svein Hallvarðsson til próventu heim á Hólastað upp í það, sem jörðin Ríp í Skagafirði er dýrri en kirkjureikningnum nemr, en af því að biskupi þótti það oflítið fé, lofaði Sveinn honum tíu ára þiónustu. En fyrst að Sveinn hefir þjónað biskupi og staðnum út þessi tíu ár, þá kvittar biskupinn hann með öllu um próventuna.

AM. Fasc. IX, 10, frumritið á skinni, og er innsigli biskups fyrir því, en er þó dálítið brákað. AM. dipl. afskrr. 323; AM. 235. 4to (nr. 109), bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti (AM. dipl. afskrr. 3683).

prowentvbref vm ríjp.[1])

Vær jon med gudz nadh biscup a holum gerom ollum godum monnum kunnikt ath wer hofum tekit suæin haluardzson til prouænto hæim a hola stadh til æuenligan kost þylikan sæm adrær prouænttomænn þar plaga hafua æftir godum lofligum gomblum ok nyiom vana firir þa pæninga sæm[2]) hann hefer oss fængit j jordinæ Ríp j skagafyrdæ sæm jordæn ær dyrræ En þan kirkiuræikningr uottar er wer lætom þar ræikna dandæmænn er wær þar til nænfndum En af þui ath oss þotti

---

[1]) prouentobref sueins haluardzssonar 235; [2]) sl. 235.

hann faa oss of litla pæninga j sagda prouentto þa lofuadæ hann oss þionozstu vm tiu aar ok slaa af a hueriom tolfmanadum suo marga pæninga sæm wer gifuom adrom vorum dandhæsuæinom ok gifua honum æina wodh tuituga a hueriom tolf[1])manadom sæm odrum prouentomonnum. skal hann hafua þat sama hus ok hærbyrghi sæm astridr hans kona hefuer a stadnum adr ok hafua til stadaræns sæng ok kisto sæm adrær prouentomænn ok skal stadræn halda. sængine ferri[2]) ok æignast huorttuægia æfter þeirra dagha. En fyrsta[3]) suæin adrnænfndr hefuer þionadh oss ok stadnum vt sogdh tiu aar þa gerom wær hann allungis quittan ok akærolausan firir oss ok ollum worum æftirkomandum biscupum a holum vm sagdha prouentto. Ok til sannænda her vm settu wer uortt jnsigli firir þetta prouentobref skrifat a holum j hialtadaal palmsunnodagh anno domini ꝏ⁰ cccc⁰ tricessimo primo.

---

493. 26. Marts 1431. á Hólum.

Hollustueiðr Sveins Hallvarðsson við Jón biskup Vilhjálmsson.

AM. 235. 4to bls. 64, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti, og kemr þetta sem áfast próventubréfi Sveins Hallvarðssonar frá 25. Marts 1431, Nr. 492. AM. dipl. afskrr. 3683.

Jtem manadagæn næsta efter palmsunnodagh j sama stadh oc are sæm fyrr sægir suor greindr suæin fullan bokaræidh ath wera hollr oc troor greindum herra jonæ biscupi oc hans logligum æfterkomandum oc hann skuldæ æigi vita hans næ hola kirkiu skada oc herra biscupæn lysti hann vera loghligan prouentomann sinn oc kirkonar a holum vpp fra þeim dægi neruerandi sira siugurdi jonssyni. suæinbirnæ þordarsyni. þorstæine jonssyni diaknum. jonæ egillssyni pupplico notario. thomas pæis.

---

[1]) tolfm IX, 10; [2]) færri 235; [3]) þannig bæði.

494. 5. April 1431. á Hólum.

Jón biskup á Hólum veitir Sveinbirni djákna Þórðarsyni umboð yfir staðnum í Garði í Kelduhverfi í Þingeyjarsýslu, til þess að veita hann og fleiri staði, og til þess að heimta inn tekjur biskups og Hólastóls og borga skuldir og gefa og taka kvittanir fyrir.

AM. Fasc. IX, 8, frumritið á skinni. Innsiglið er fyrir, en bráknað.

Vær jon med gudz nadh biscup a holum gerom ollum monnum kunnikt ath wær hofum fængit vorum elskoligum syni suæinbirnæ diakna þordarsyni uortt fult ok loghligt vmbodh [at]h ollu jamfullo sæm wer sialfuer ath sea rath firir stadh j þeim soknum[1]) gardi j kælduhuerfi ok suo ath uæita rett sæm wer sealfuer suo læingæ sæm han ser oss ok stadenum skadalaust væra ok nyttsamlight ok þa flæire sæm ovæitter ero þar ok alla adra wora pæninga sæm wer æigum j þingheyiar þinghæ ath hæimtta mæir ædr minnræ[2]) skal hann vpp bæra kræfia ok bæida æf þarf ok sakir a gifva ef þers þarf med en stænfna þæim firir oss sæm æigi vilia blifua j hans fullo minnæ ok mægha gæfua þæim quittencias sæm honum luka wel ok ræideliga vora pæninga sæm honum wæl anæger oss (ath) skadalauso. hann skal ok luka jonæ gamblasyni vj kugilde þar af uorum pæningum ok þui flæiro sæm wer þar æigum ath luka ok taka quittencias af þæim ath wer quitter sæ. hann skal ok skipta med sira þorkæll ollum þæim pæningum sæm oss ok honum hefuer fallit j profastdæmino j þingeyiar þingi oss skadalaust Ok byggia þa alla nidr sæm aa wortt lutskipti koma sæm hann ser oss ny(t)tugazst vera. skal hann ok næfna mat yfer stadinum ef þers þarf med sækta ok sakir a gifua ollu þui oss ok hæilagre kirkiu werdr ologhliga giortt ok firir haldit med þriosku ok illvilia ret [sæm wer[3]) sealfer. skulo wer þat alt halda ok hafua sæm hann gerir loghliga j þesso varo vmbodæ vnder rettan ræikningskap med oss ok hæilagre holakirkiu.

Ok til sanænda her vm settom wer uortt jnsigli firir þetta vortt vmbodzbref skrifat a holum j hialtadaal fimttadagen j pascaviku anno domini ꝏ° cccc° tricessimo primo.

[1]) eg get ekki lesið þetta orð öðruvísi, og er það þó eitthvað misskrifað í frb.; [2]) Svo frbr.; [3]) [tvískrifað.

495. 9. April 1431. á Hólum.

Þorlákr Sigurðarson gefr með samþykki Guðmundar djákna sonar síns allan þann rétt og tiltölu, sem þeir áttu og höfðu til jarðarinnar Rípr í Hegranesi og Ástríðr Jörundardóttir gaf Guðmundi, heilagri Hólakirkju og Jóni biskupi Vilhjálmssyni (sbr. bréf frá 24. Marts 1431, Nr. 491).

AM. Fasc. IX, 3, frumritið á skinni. Öll innsiglin eru dottin frá. Einn af innsiglisþveingjunum hefir verið ristr úr öðru frumriti þessa sama bréfs; bréfið mun vera með hendi Jóns Egilssonar.

bref wm rip.[1])

Þat giorær ek þorlakr siugurdzson ollum godum monnum kunnikt med þessu minu brefuæ ath ek hefuer med fullo handabandhi ok med minom godum ollum vilia vpp gifuit med samþycki oc godum vilia gudmundar diakna sonar mins skilgætins allan þan rætt oc tiltaulo sæm æk oc hann attum oc hofdum til iardarennar Ríjp j hægranæsi j skaghafyrdi sæm astridhr hiorundardotter gaf græindum gudhmundi minom syni oc sinom systorsyni huortt sæm þat war mæira ædr minna til fullrar oc æuenligrar æignar hæilagræ holakirkiu oc minom virdolighum herra oc andaligum faudr herra jonæ vilialmssyni med gudz nadh biscupi a holum fraa okr oc okrum ærfvingium vtan alla akæro oc tiltaulo vm aldr oc æfui honom oc hans loghligum æftirkomandum biscupom a holum fræalsa oc akærolausa med ollum þeim rætt sæm mit fræmst urdom æigandi j sagdræ jardu. hefuer greindr herra jon biscup lokit okr badum fædgum alla pæninga firir okarn partt j greindræ jordu oc giortt okr fult oc lika suo ath okr wæl aa næghir eftir þui sæm j wortt kaup kom þæssum godum monnum nærwærandum þæsse minnæ giordh oc fyrgræinddum skilmala jonæ Einarssyni oc siugurdæ jonssyni prestum jonæ Egillsssyni pupplico notario oc thomasæ jonssyni peis. Oc til mæire stadfæstu oc sanænda her vm oc sinnar nærwæro oc vittnisburdar þæssar minnar giordar oc mins sonar fyrnæfndz settu fyrnæfndir mænn sin jnsigle med mino jnsigli firir þetta bref scrifat a holum j hialtadaal manadagæn næsta firær sumar anno domini M° cccc° tricessimo primo.

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi.

496. 10. April 1431. á Hólum.

Dómr sex manna útnefndr af Jóni biskupi Vilhjálmssyni um Guðmund og Guðríði Áladóttur, er héldu Brynhildi dóttur hennar, sem var lögráðið hjú biskups, og svo um sekt Brynhildar sjálfrar.

AM. 235. 4to, bls. 66, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3685.

Domsbref vm gudmund oc gudridu aladottur oc brynildi dottor hennar.

Anno domini ϻ° cccc° tricessimo primo þridiadagæn næsta æfter paskaviku hæima a holum dæmdu siugurdr jonsson profastr oc siugurdr jonsson kirkiuprestr a holum. þordr gudbiarttzsson prestar. jon Egilsson puplicus notarius. þorlakr siugurdzsson. ormr gudmundzson læikmenn ath wer dæmdum herra jonæ biscupi vilialmsson vpp a gudmundh oc gudridu hans kono fimtan mærkr firir þa sauk oc olydnæ oc forþrot ath þau hofdo haldit brynildæ er radit var hans tolf manada hion oc kaupit vt tækit oc j hans forbodæ skyldugh þau honum ath luka j wor ath fardogum næstum komandum sagdar xv merkr rætt goldit j ollum aurom sæm bok gerir radh firir.

Jtem a sama aræ stadh oc dægi sæm fyr sæghir dæmdo wer fyrnænfndir menn lærdir oc læikær vpp aa brynhildæ fyrnænfnda at luka greindum herra jonæ biscupi a holum xxx marka firir þann skada oc forþrott ath hon hafdi brott hlaupit fra hans þionozstu or þeim staudom sæm hann hafdæ hennæ skipat ath þiona oc vinna nu ath næstum fardogum elligar fullan borgonarmann þann sæm herra biscupinom vill luka sagda pæninga firir hana en ælligar vinnæ af ser sagda pæninga firir herra biscupinom ædr odrum efter þui sæm bok þar vm skilr vm auræiga En herra biscup takæ sina skuldh af hennar þionozstu læyn.

---

497. 18. April 1431. á Hólum.

Úrskurðr Jóns biskups Vilhjálmssonar um hjónaband Skeggja Álasonar og Þórdísar Magnúsdóttur.

AM. 235. 4to bls. 67, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar frumriti. AM. dipl. afskrr. 3687.

bref vm skeggia alason.

Vær jon med gudz nadh biscup a holum kungerom ollum godum monnum med þesso voru brefuæ ath a miduikudagæn nesta æfter paskaviko anno domini ꝏ⁰ cccc⁰ tricessimo primo komo firir oss j forstofuona firir timbrstofuonnæ a holum j hialtadaal skæggi alla(son) oc þordis magnusdotter huer ær æigi þottizst med logum æiga græindan skæggia oc sagdizst aldræ hafua[1]) viliat hann æiga til æigænbonda En hon kændizst þo firir oss þa þar ath hon hefdi att greinddan skæggia oc saman verit med hann tio wætr oc war hon þa fimtan wætra ær skæggi kæypti hana[2]) j kirkonæ a fælli j slættuhlid gudruno Eiriksdottur modur hennar nerverandæ oc samþyckiandæ þeirra kaup ok ærllendi þorissyni segiandi firir þeirra kaupi. sagdizst hon oc aldri hafua kærtt sitt maal firir nokorum kirkonar domara vtan firir sira jonæ paalssyni er þa war officialis hæilagrar hola kirkiu. kændizst hon oc ath erllendr þorærsson fyrnæfndr hafdi sagt firir þæirra handabandæ er skægghi kæypti hana. kændizst oc ærllendr þorisson adrnæfndr ath þau hæfdi hondum saman tækit oc ath hann kæypti med þeim suo sæm her j landet ær plaghr oc sidr til oc gudz logh æigi j motæ tala. Bæiddu wer hana flæiræ profua her vm læida ef hon hæfdi til En hon sagdi næi þar til oc sagdizst ækki onnor prof hafua framar her vm æn hon þa tædi oss.

Jtem suoro fullan bokaræidh firir oss tuæir skilrikær uottar jon Egillsson pupplicus notarius oc jngimundr stæindorsson ath þeir voru þar næri oc heyrdu vpp aa at sira jon palsson adrnæfndr sagdi saman med sinom laga orskurdæ oc domæ skæggia alason oc þordiso magnusdottur fyrnæfndh logligh hion þadan fra suo framt sæm gudz logh æigi bannadhæ oc þeir sagu ath þau kæyptu þa ænn a nyiu sinn a millum morgum dandæ monnum þar nerværandi oc ath þæir sagu hana æcki gangha oovilIuga til handabandz oc kaups med skæggia fyrnæfndan oc læggia vnder sira jonss palssonar orskurdh oc dom.

---

[1]) hann, skb.; [2]) tvískr. í skb.

Nw firir þæssar græiner oc prof oc allar adrar sæm fyrr æro sagdar sæm þa firir oss komo. Þui sægium wer jon vilialmsson med gudz nadh biscup a holum adrnæfndr med fullo doms athquædi oc uorum loghligum orskurdæ skæggia alason oc þordiso magnusdottor fyrnæfnd loghlig hion vera hedan af efter sogdum profuom oc skilrikæ suo framt sæm gudz[1]) logh æigi banna oc onnor[1]) prof kunno sidar mæir her vm finnazst oc oll þau prof oc framburdhr sæm hon þar fram baar æcki afl hafua oc fanyt være. var þæssæ uor domr med voru æigæn minni fram sagdr j sogdum stadh dægi oc aræ sæm fyrr sægir oss j doomsæti sittiandom þeim badum loghliga firir komnom oc kalladom af oss. forbudum wer hueriom mannæ oc suo æigi sidr firirbiodum wer med þæssuo[2]) voru saumo brefuæ hueriom mannæ lærdum sæm læikum ath hysa ædr herbyrgia optnæunfnda þordiso magnusdottur æf (hon) dirfizst hædan af brott ath laupa fra greindum skæggia sinom bonda.

Nærverandum sira siugurdæ prest jonssyni kirkiupresti a holum oc brodur birnn æjonssyni penitensiario vorum conuentali sama stadar. sira þorstæini presti jonssyni. jonæ ægilssyni pupplico notario. ærllendi þorissyni. ormæ gudmundzsyni læikmonnum.

Ok til sanninda her vm þessa vors doms oc orskurd(a)r sættum wer uortt jnsiglæ firir þetta bref scrifat j stadh dægi oc aræ sæm fyrr sæghir.

---

## 498. 19. April 1431. á Hólum.

Veitingarbréf Guðmundar Bjarnasonar fyrir staðnum í Felli í Sléttuhlíð um þrjú ár.

AM. 235. 4to bls. 43, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3671.

Vær jon med gudz nadh biscup a holum gerom ollum monnum viturligt ath wer hofum uæitt gudhmundi biarnasyni jordina oc stadæn j fælli j slættuhlidh vm næstu þriu aar fra næstum fardogum med ollum þeim gædum lutom oc lunnendum sæm jordunnæ oc stadnum fylgir ath fornu oc nyiu ath undan tækinæ porcione ecclesie oc hualræka oc vidræka næma til

[1]) tvískr. í skb.; [2]) þannig.

husbotar smaavidu æn alla storvidu oc oll onnor jngioldh kirkonar smærri oc stærri skal j woru waldhæ oc forsio vera. vtan lysætolla alla þa sæm þar til kirkonar liggia skal greindr gudmundr til sin taka oc lysa kirkona oc hafua fiorar kyr med stadnum er nu fylgia þar læigulaust En hafua fimttan kyr bulægar oc læigufærar a wora vegna þar a stadnum til michialsmesso oc lata gera vndan þeim oss til nytta oc skadalaust so framt sæm wer faa þeim bwsgagn sæm þeim þarfuazst til sagdra kwgilda vtan kætil skal hann sealfr til faa En wer skulom faa honom . . . . . .[1]) bryniolfsdottur til Mialtar oc þionozstu suo længi sæm hann færr med sogd wor kvgildæ oc læggi oss æfter huert kwgildæ smeyr skyr oc syro sæm her j landæt plagar oc godra manna gængr j millum vndir Rettan ræikningskap med oss. skal hann a stadnum bua suo længi sæm fyr sægir suo framt hann heldr allan þenna fyr skildan skilmala med oss.

Oc til sanænda her vm settum wer uortt jnsigle firir þetta bref scrifat a holum j hialtadaal þorsdagen næsta firri jonsmessu holensis vm varæn anno domini M° cccc° tricessimo primo.

---

499. 19. April 1431. á Hólum.

Dómr útnefndr af Jóni biskupi Vilhjálmssyni um vistarbrigði Markúsar Oddssonar við biskup.

AM. 235. 4to bls. 66—67, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3686.

bref vm markus oddzson.

Ollum godum monnum þeim sæm þetta bref sæa ædr heyra sænda siugurdr jonsson kirkiuprestr a holum. jon Einarsson. þorstæin jonsson prestar. jon Egilsson pupplicus notarius[2]) oc þorlæifur jonsson quediu gudz oc sina kunnikt gerandi ath aa fimtta dagæn næsta firir jonsmæsso holabiscups vm varæn j timbrstofuonnæ a holum j hialtadaal anno domini M° cccc° tricessimo primo uorum wer j dom næfndir af ærlighum herra

---

[1]) fornafnið vantar í skb.; [2]) Hér er eyða í skinnb. fyrir einu nafni, sem aldrei hefir verið skrifað í bókina.

herra jonæ vilialmssyni med gudz nadh biscup a holum ath dæma j millum honum oc markus oddzson vm þær sakir sæm herra biscupin gaf honum oc hafdi stæfndt honum firir sigh j næfndan stadh oc dagh sæm hans bref þar vm giortt wottadæ er herra biscupæn læt þar læsa opinberliga oss aheyrandæ oc anæfndar allar sakir þær sæm hann stæfndi honum firir. war þat uar domr loghliga tilkrafder af biscupinom ath wær (dæmdom) radæn stadugh oc standa skulo suo længi sæm markus oddzson fyrnefndr hefuer radizst med herra biscupinom oc halda allan þann skildaga sæm herra biscupæn kann vitni til hafua ef hann vil æigæ kænnazst radæn En hann kændizst bædi radæn oc allan þeirra skildaga suo badæ vm pæninga er hann hafdæ honum lofat j þeirra sattmala. En æf markus hældr æigi med biscupæn þat sæm hann lofadæ j þeirra sattmala vitnum nerværandi oc gætr biscupen þat til hans syndt med logum gialdæ biscupinom xv merkr jnnan næsto tolf manado. En firir þann fiarskada sæm biscupen hæfer fængit af hans vangæymslu nu j vetur þa dæymdom wær markus skyldugan aftur luka herra biscupinom alt þat fæ sæm af hans forsoman oc vangæymslu hefuer misfaræst j vætr j hans gæymslu oc nu kann misfarazst til krossmesso j wor af hans vangæymslu hædan fra þui vndan tækno sæm nu kann misfarazst mædan hann ær a stæfnonnæ oc suæri lyrittaræidh sealfr þridæ nu her j dagh firir minom herra biscupinom ath heyrdum dominom oc suæri þat med huersso marga bitædh hefuer oc abyrgis þa alla æfter bok oc hafui þat æi sidr j æidstafinom med ath hann kunnæ æcki bætur ath gæyma þærs fiaræns oc ængan jllvilia næ ofundh þar til hafdæ. En æf honum fælst æidren oc will hann æigæ hann suæri[1]) gialdæ herra biscupinom fullrætti efter domi oc allan skadan æfter þui sæm loghbokin gerir radh firir. war markus loghliga komæn med orskurdæ herra biscupsins.

Ok til sanændha þæssa wors doms settum wer uor jnsigli firir þetta uortt domsbref scrifat a holum j stadh dægi oc aræ sæm fyr sægir.

---

[1]) þannig.

500. 18. Mai 1431. á Mælifelli.

Dómr fimm manna útnefndr af Ara Þorbjarnarsyni officiali heilagrar Hólakirkju um hald Stepháns Hallssonar á prests og kirkjutíundum af Uppsölum fyrir Munkaþverárklaustri.

AM. Fasc. IX, 2, frumritið á skinni. Öll innsiglin eru dottin frá.

bref vm munkaþuera[1]).

Sækir þess stefann hallzson. ath þorgils æbote fra mvnckaþveræ hefver kærtt firir mer æʀa þorbiarnarsýne officiali heilagrar hola kirkiv. ath þw hafer ʀangligha haldith oc eige lvkt. kirkiv tivndh oc prest(t)ivndh aff jordvnne vpsolvm er liggur vndder mvnkkaþueræ kirkiv þar med lavsagozi þinv ollv oc þinnar kvinnv þvi sem þitt attvdh j fridhv oc ofridhv. nw med þvi ath herra æboti beiddi mik her doms æ hverra svara edr sektta þw steffan yrdir her firir skýlldvgvr kirkivnar vegnna. þvi nefnda ek þessa menn til doms med mer oc samþykttar. bergþor prest halldorsson. magnvs prest þorbergsson. þorkel bardarson. narfva einarssson oc seming magnvsson diakna. þvi er þath fýrst (vor) domur ath þv nefndr stefann siert her logligha firir kalladr nv j dagh. oc þar med dæmvm vær þik skýlldvghan ath leida þav prof her j dagh ef þav erv til. ath þw hafer med logvm vidh skiliz þessar tvęr tivnder sem æbote kærer til þin stefann hallzson ath þw hafer ologligha haldith vm næstv þriv ær samfleýtt edr sattmæla æ giortt vidh herra æbota edr hanns loglighann vmbodsmann. en ef þessi prof erv nv eige her. dæmvm vær þik skýlldvghan ath læida þessi prof edh seinsta midvikv daghinn fýrsta j fardoghvm nw næst er kemur firir sira ara edr hans loglighvm vmbodsmanne. her ath mvnkaþveræ. en ef hann leider þæ eige þessi prof. dæmvm vær klavstrinv j sekt af þer stefann firir halld oc ologligha medferd attian merkvr æ huori tivnd vpp æ þesse þriv ær. vttann nefndr stefæn sýne ath hann hafi lvktt vpp æ eitt ær edr tva(u) af þessvm þrimr. falli nidr eptter þvi sem kristen riettur giorer rædh firir. en elligar tvigildhi tivndernar æ hveriv æri þvi sem olvkt er med vorvvirttv gozi. en sekttafie skal lwkaz æ næstvm fardogvm her heima ath mvnkaþveræ. halft hvors fritt oc vadmala virtt

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi.

goz. vnder godra manna ýfersionn. enn þæ penninga sem stefan hefer haldith otivndadha. þæ halfa meire enn sekttvnvm svara dæmvm vær vnder biskups valld oc forrædhi eptter loghvm. enn þath demvm vær vnder vrskurd biskups ions a holom hvortt penningar konv stefans væri falner eptter loghvm eda skal lvkaz af þeim tvigildar tivnder med sekttafie. stefan skýldvghann ath koma dominvm vnder vrskvrd biskups firir fardagha. var þessi domur vpp sagdr a mvnkaþveræ j æýiafirdhi. ok til meire avdsýningar her vm settvm vær fýr nefnder prestar oc diaknar vor insigle firir þetta domsbref er skrifath var ath mælifelli j skaghafirdhe fostvdagh næsta firir hvítasvnnoviko. anno domini ꟿ⁰. cccc⁰. xxx⁰. primo.

---

501. 25. Mai 1431. á Ökrum i Skagafirði.

Jón Vilhjálmsson biskup á Hólum leyfir Þorsteini lögmanni Olafssyni að láta gera hálfkirkju á Þorleiksstöðum í Skagafirði, eignarjörð sinni.

AM. 235. 4to bls. 62, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3680.

Vær jon med gudhz nadh biscup a holum gerum þat godum monnum viturligt med þæssu uoru brefuæ ath wer hofum vnt vælbornum mannæ þosteine olafssyne laugmann ath lata gera halfkirkiu aa sinne jordu þorlæiksstaudum j skagafyrdæ gude til lof oc sancte andree med þeirræ Renttu oc skilmala ath fyrnefnd kirkia skal taka hæima æfvinliga presttiundh oc kirkiutiund oc lysetolla hæimamanna af greindræ jordu oc lausagodzsæ huortt ath þeir eru heldr þar hialæigumænn ædr husmenn. skal prestr syngia þar annan huern dagh hælgan oc taka tuær merkr kaups ef hann syngr suo til. skal þæsse wor gerdh standa æfvinliga obrigdiligh firir oss oc aullum vorum efterkomendum hola kirkiu vmbodzmonnum vpp fra þæssum dægi [oc fraa þeim tolf manadæ dægi sæm græindh halfkirkia ær fullgiordh suo ath væl megi j hennæ syngia oc hon er uel standandæ oc uel songhfær sæm gudz embetti til bærr oc hon ær vigdh.[1])

Ok til sanænda oc æfvinligrar stadfæstu her vm settum

---

[1]) [á spássíu í skb.

wær wort insigle firir þetta bref scrifat aa aukrum j skaghafyrdi faustudagin næsta epter huitasunno anno domini ꝏ° cd° tricessimo primo.

Suo framt skal þessæ uor giordh oc bref stadugt blifua sæm greindr þostæin bondæ hefuer latedh vpp byggia ath ollu greinda halfkirkiu ath ollu wæl saunghfæra jnnan tolf manadha dagh fra þui hon ær byriudh ath giora.

---

502. 2. Júni 1431. á Laugum í Reykjadal.

Gamli bóndi Marteinsson selr Helga bónda Bjarnasyni jörðina Ljósavatn í Ljósavatnsskarði með tilgreindum ummerkjum, rekum og ítökum kirkjunnar á Ljósavatni.

AM. Fasc. IX, 7, frumritið á skinni. Öll innsiglin eru dottin frá. AM. dipl. afskrr. Nr. 53 eptir transscripto frá c. 1542, komnu frá séra Ólafi Stephánssyni í Vallanesi.

bref vm liosauatn.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sea edr heÿra senda þordr þorsteinsson maghnus oddason gvnnlaugr ellendzsson þorleifr jonsson jon jonsson ok olafr gudmundzsson quediu guds ok sina kunnigt gerandi ath þar worum vær j hia ath ÿtrvm laughvm j reykiadal. sæm ok heÿrdvm̄ æ handaband gamla bonda marteinssonar af eirne halfu ok helga bonda biarnasonar af annarri ath suo firir skildv ath gamle sellde helga javrdina ath liosawatne med avllvm gaugnum ok gædvm er adr greindri jord hefdi fylgt ath fornv ok nÿiu ok hann ward fremzst eigandi ath skilldi helghi luka gamla firir ædrgreinda jaurd t(v)av kvgilldj ok tuttughv tuo kugilldiss hersta ok segs vætter skreidar ok luka allt ædr greint jardar werd æ næstum fardaugvm. geck helgi j borghan ath suara æ sina peninga aullvm tiundareikningi þeim sem fallith hafdj medan gamle bio ok þora eyiolfsdotter ætte ath suara er gamle hafdj vnder bvndit sigh ath suara æ hennar weghna er hann keÿpti ædr greinda javrd suo eigi sidr kirkiu fÿrnd ok ornamentum kirkiunnar suo miklu sem ædr greindvm gamla bar ath suara. Reiknadj gamle ath kirkian ath liosawatne ætte j finnstada javrd halfsmanatar teigh firir avstan tiavrn ok gard-

stada þar nær ok annann halfs manatar teigh wt fra j mýrina j krossjavrd teigh med vmmerkivm. rædr lækr firir svnnan skridvgerdj. vr læknum rettsýne ofan j merkisik. rædr sikit sudvr j diupæ. snidgavtvr firir ofan. stendr steirn firir svnnan mariutopter. rettsyne vr þeim steini ofan j gavtvr er liggia sudr ifver æ j torfhollt. hrvteyiar land allt j fliote. weidr j liosawatne þriu dægr j huerri wikv firir huers manz landi ok þeir wr fara ef liosvetninghar koma ath. fylger heimalandj kroxdalr fra galltar grof framm ath kidiagile. reke a fliozsandj. er þar ath rida saman setbergh j barnafelle ok skridnafell. er þa vestvr þadan skammareke t(v)av hvndrvt fadma tiræd. þa liosvetningareke westr ath fliozose. skilldj ædr nefndr helgi hallda greindri javrdv til laga en gamle suara laghariptingum a sagdri javrdv. Ok til sannenda her vm settvm wær fýrrnefnder menn wor jnnsigle firir þetta bref skrifat ath lavghvm j reykiadal laugardagh næstan efter dýradagh anno domini ᴍ⁰ cccc⁰ tricessimo primo.

Með hendi séra Hálfdanar Rafnssonar (d. 1665) stendr þetta ritað aptan á bréfið:

Medkennum [jeg[1]) haldan Raffnsson prestur þad eg[2]) var vidstaddur þar Jurgen Daniel[3]) byffalade med handsolum Sijra Jone Magnussyni morgum godum monnum vidstoddum a alþijnge ad byhallda ollu þui þessi kirkiunnar maldage tilsegde og til sannenda mitt nafn med eigenn hendi

Haldan Raffnsson.

---

503. 19. Júní 1431. á Hólum.

Skriptabréf Þórðar prests Roðbjartssonar fyrir barngetnað með systur Þóru Illugadóttur (nunnu á Reynistað).

AM. 235. 4to bls. 70, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3692. Prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 387—389.

skriptabref sira þordar.

Vær jon med g(udz) nadh et cetera heilsum ollum monnum med gudz blessan oc vorræ kunnukt gerandæ ath þordr prest(r)

[1]) [vid olafur ellendsson og, dregið aptr út; [2]) vid, ritað fyrst, en dregið út; [3]) Jörgen Daníel dó 4. Mai 1638. Var umboðsmaðr fyrir Herluff Daae 1617 og víst optar.

Rodhbiarttsson hefuer kændzst opinberliga firir oss ath hann hefuer oforsynio drykt likamliga munodh med systor þoro[1]) illugadottor oc ath hann er kiotligr fadær ath þui barnnæ sæm hon hefuer honum kæntt.

Nu af þui ath hann hefuir gengit til settar vidh gudh oc heilaga kirkiu oc oss oc bæidzst lausnar oc lagt alt þetta sitt maal a gudz valdh oc worn doom oc nadh. Þui hofum wer j gudz nafnni afleyst hann af sogdu brotæ oc sett honum penitenciam salutarem.

Jn primis skal hann fasta vm seau aar midhuikodagha oc faustudagha med vatn oc braudh oc a þessom seau arom j langafaustu skal hann vatnfasta manadagha. midhuikudaga oc faustudagha oc med ængan mann tala a þessum dogum vtan j hans ytrasta tima vtan naudsynia oc jnne lestr sagda dagha Ok suo æi sidhr i sama mata halda sagda dagha j iolafaustu sæm her fyrr sæghir vm seau aar. Ok æi sidr skal hann jnnan tueggia manadha byria pilagrimsfærdh af þui hann ær eigi mægtughr at ganga til Romam. til allra hofudhkirkna þar oss bær ath gista j voru biscupsdæme skal hann ganga oc vitia bærfættur fra þui hann siær hueria þeirra oc lese Marie psaltara ath huerræ kirkiune gudligha oc huern laugardagh vm seau aar. oc æi sidr skal hann læsa dauidhs psaltara æin j huerre viku nocturno a hueriom dægi vm seau aar. vtan siukdomr hindre. hann skal ok sagdha pilagrimsferdh byria jnnan manadar ath heyrdu þæssu brefæ oc vt ændadha jnnan tolf manadha Ok þar æfter gefua sigh jn j æitt klaustur þar sæm hann vill sealfr kiosa oc blifua þar suo længhi sæm hans lif Reyckr til vtan oss synizst sidar mæir dispensera edr vorum loghligum eftirkomandum med han j þessum græinom.

Jtem biodum wer þigh sira þordhr vndhir bans pino ath þu her æftir aldri j Kunnoklaustr jnn gangi oc med ængha systor tala j nokorum stadh æinsaman vtan med voru orlofui oc worra loghligra efterkomanda oc þo aldri lika wæl vtan tuæimr skiluisum monnum oc konom oc suo længhi skaltu wera afsettr ollu prestligu æmbetti oc samneyti þinnar prestligrar stettar sæm vorar nadæ tilseghia ædr vorær loghligær æftirkomendr

---

[1]) ritað: soro, í skb., en á að vera þetta, sbr. bréf 4. Febr. 1431. Finnr biskup les Jóro, sem er rangt.

synizst þigh fulloligar hafua haldit oc vpp fylt sagda script æftir þinom brotom æfter þui sæm þu hefuer firir oss suorit ath halda þessa med suornum bokaræidæ.

Ok til mæire audsyningar þessa scriptabrefs settu wer uortt jnsigle firir þetta bref vtgifuit a holum j hialtadaal þridiadaghen nesta firir festum sancti johannis baptiste anno domini ꝏ⁰ cccc⁰ tricessimo primo.

---

504. 30. Júni 1431. á þingvelli.
1. Mai 1432. á Munkaþverá.

Björn bóndi Sæmundarson selr Þórkatli presti Ólafssyni jarðirnar í Sigluvík og að Geldingsá á Svalbarðsströnd fyrir þá peninga, er séra Þorkell átti hjá Birni eptir Þóruni dóttur sína eða henni höfðu til erfða fallið.

Eptir afskript af frumbréfinu á skinni, staðfestri á Helgafelli 29. Maí 1703 af Gísla Sigurðssyni og Ásmundi Árnasyni.

Ollum Goduῦ mønnuῦ sem þetta Bref siä edur heira. senda hauskulldur runolfsson. Magnus Jonsson. Einar Arnason. Þorstejrn haullskulldsson[1]). Jon Eigilsson og päll dadason [kuediu gudz og sina kunnigt giorandi.[2]) ad þar vorum vier j hiä. þä lided var frä hijngadburd vors herra Jesu christi þushundrud. fiøgur hundrud þriätije og eitt är ä laugardagenn næstann eptter petursmesso ä Þijngvelle fyrer (östan) auxarä. og säuῦ ä handaband þeirra sira Þorkiels prestz Olafssonar. af Birne Alfu. og Biarnar bonda Sæmundarsonar. af annare. heirduῦ so fyrer skilid. ad nefndur Biörn sellde greindum Þorkele Prest tuær Jarder fyrer nordann land er so heita. Sigluvijk og gielldingsä ä sualbardströnd. til fullrar Eignar med øllum gögnuῦ og giæduῦ. hlutuῦ og hlunnenduῦ. rekuῦ og vῦmerkiuῦ. og þui ed greindum Jördum hefur filgt edur filgia ätte ad fornu og nyu. og Biörn vard fremst Eigande ad. sagde greindur biörn hälfkirkiu skilldu (ä) sigluvijk. enn tueggia mänada verk einge Eige Jnn ä myruῦ jnn frä kaupängi.

---

[1]) þannig! [2]) [hefir gleymzt úr í bréfinu.

hier j mote gaf firr nefndur sira þorkiell opt nefndum birne alla þā peninga sem hann ātte hia birne bonda Epter þorune dottur sijna eda henne hafde til erfda fallid. fasta og lausa. frijda og ofrijda. skillde fyrgreindnr Biörn og Akiærulaus fyrer sira Þorkele. og ⱺllum hanz Epterkomendum̄ vm̄ alla fyrrgreinda peninga. og alla medferd ā peningunum. skillde þrātt nefndur Biörn suara ǫllum lagariftingum̄ a firrgreindum̄ peningum̄. En siera Þorkiell hallda til laga.

Og til sannenda hier vmm setium vier firr nefnder menn vor innsigle fyrer þetta kaupbref. skrifad ā mwkaþuerā j eyafirde ā tueggia postula messu philippi et Jacobi Einu Are sijdar enn firr seigir.

---

505. 30. Júní } 1431. { á Þingvelli.
5. Nóvember } 1431. { á Grund.

Árni bóndi Einarsson selr séra Þórkatli Ólafssyni jarðirnar Geitraðareyri (Geirrauðareyri) í Álptafirði, Leiti, Kársstaði, Borgir og Laxárdal fyrir hundrað hundraða og þar með þrjá tigi hundraða í lausafé, en séra Þorkell geldr á móti jarðirnar Sigluvík og Geldingsá á Svalbarðsströnd og þar til þrjátigi hundraða í jörðum fyrir norðan land.

Eptir afskript af frumbréfinu á skinni staðfestri 29. Maí 1703 á Helgafelli af *Gísla Sigurðssyni og Ásmundi Árnasyni*.

Ollum̄ Godum̄ monnum sem þetta Bref sia edur heira senda hauskulldur runolfsson. Magnus Jonsson. Þorstejrn Hauskulldsson. Jon Eigilsson. Arne Geirmundsson og Þorstejnn Arnason. kuediu gudz og sijna. kunnugt giǫrande. ad þa er lided var fra Gudz burd. m. iiijᶜ. tuttugu og xj ār. laugardægenn næstann epter petursmessu ā Þijngvelle fyrer østann øxarā. vorum vier j hia. sāum og heirdum ā ord og handaband sira Þorkels Olafssonar af Eirne Alfu. og Arna Bonda Einarssonar af annare. ad so fyrer skilldu. ad nefndur Arne sellde greindum̄ Þorkele Jarder er so heita. geitradar Ejre j Alftafirde og leite þar ed næsta og kārstade. borger og laxārdalur. ā skoog-

arstrônd. allar saman fyrer hundrad hundrada. til fullrar Eignar so framt sem birgit eiginkona Arna villde samþyckia þetta kaup. Sagde nefndur Arne ad Bænhws ætte ad vera â kärstôdum og villde hann þar ongvv fyrer svara. þo ad þad være nidur falled. so og ei sijdur sagde hann til kirkiu skilldu â Eyre. og þar være graptrarkirkia og heimilisprestur. og luke honum fiorar merkur j saungkaup. reiknade Arne ad kirkiañ ætte xx hundrada eyar. og iij hundrud oc xx fiôgur kugillde og xx hundrud i frijdu. lofade Arne ad leggia þar til fiegur kugillde. so ad kirkiañ ætte xxx^c j lausagotze. so og lijka vide sem Arne sagdest hafa lagt til kirkiunnar og þriar bækur er kirkiañ skillde eiga. enn (ef) j riettann Reikningsskap profadest ad kirkiañ A Eyre ætte mejre peninga. huort þejr hefde fallid j Porcionem eda (menn) gefid kirkiunne medañ Arne Atte med ad giôra. so og eij sijdur vmm hraurnun og nidurfall kirkiunnar og hennar fyrnd og ornamentis. skillde sera Þorkiell standa j allre borgan vid kirkiuna vppa sijna peninga. enn Arne ølldvngis kuittur og akiærulaus og aller hanz Erfijngiar vmm allann Reikning firrgreindrar kirkiu.

hier j mot gaf sera Þorkell adur greindum Arna tuær Jarder fyrer nordan land er so heita Sigluvijk og gellding(s)a a svalbardsstrônd til fullrar Eignar med rekum og vmmerkium og ôllum gôgnum og giædum sem greindum Jôrdum hafdi filgt ad fornu og nyu. og hann vard fremdst eigande ad. sagde sera Þorkell til halfkirkiu skilldu Ä Jôrdunne Sigluvijk. Og hun ætte eingeteiga tueggia mânadar verk jnn â myrar jnn frä kaupange. sellde sera Þorkell greindar Jarder fyrer nijutije hundrada. og þar til þriatie hundrud i Jordum nordur þar. og afhenda Arna ad næstum fardôgum allar saman Jardernar. enn sera þorkell skillde taka þær Jarder ad sier sem Arne sellde hônum af þorvallde sine sijnum epter þuj sem Arne hafde þær hônum afhent adur. skillde huor vmm sig sera Þorkell og Arne suara lagariptingum â þeim Jôrdum sem huôr hefde ôdrum sellt. enn hallda þeim til laga sem keipt hefde. Jtem allt þad lausagotz sem Arne atte hia Þorvalde sine sera Þorkelz. skillde sera Þorkell ad sier taka Arna annad gotz ad næstum fardôgum jafnmikid og jafnfrijdt fyrer nordann land. med Jôrdum þeim sem hann hefde selldt hônum.

Og til sannenda hier vmm setium vier firrskrifader menn

vor innsigle fyrer þetta kaupbref. skrifad ā grund i Eyafirde mānudægenn næstann epter allra heilagra messu a sama āre sem firr seiger.

---

506. 30. Júní 1431. á alþingi.

Hyllingarbréf Íslendinga hið síðara til Eiríks konungs af Pommern.

Bréf þetta er hér prentað eptir syrpu séra Gottskálks Jónssonar í Glaumbæ í Add. British Museum 11, 242, 4to bl. 48 a, skr. á árunum 1543—1593, en höfð er til samanburðar afskript i Ríkisskjalasafni Dana, »Island og Færöe« Nr. 10, frá 1544; eptir þeirri afskript er bréfið áðr prentað í Safni til sögu Íslands II, 175—76.

[almennelig samþyckt æ alþinge. þorsteinn olafzson logmadr sunan oc austan[1]).

Anno domini ϖ° cd° xxx° primo war þetta samþyckt ā alþinge vtan vebanda oc jnnan lavgardagen næstan epter petrsmesso [oc palz[2]) af hirdstiora.[3]) logmonnum oc[4]) logrettumonnum oc almvganvm[5]) med lofataki.

Fyrst at vier vilium [vera holler oc trver[6]) vorum virduligum herra [Eiriki med gvdz næd norikis. danmarks. suerikis oc göta kongr ok hertugi offver pomarin[7]) oc hallda þau log sem sancte olafur hefur sett oc hans Retter epterkomendr hafa sidan samþyckt millvm konvngdomen oc þeirra sem landit byggia bade[8]) logbok oc[4]) kristinriett oc Rettarbætr konvnganna. Enn allar nyar ælogur sem biskupar [oc adrer valldzmenn[2]) vilia ā leggia med banne. firirbiodun[9]) eda yferreidum framar en fyr seiger [oc log votta[2]) vilium vier eingileidiz vnder ganga.

Jtem var þat oc samþyckt at ongver vtlendzker menn skylldi hier j landit vera vpp fra mariumesso sidare [nv er[10]) kemr wtan þeirra hvsbændr eda þeir hefdi vorz nadvga herra [kong Eireks[11]) bref firir sier at þeir mætti hier med riett vera. enn sierliga ensker oc þysker skylldi hier ongua vetrsetv

---

[1]) [sl, Ríkisskj.; [2]) [sl. Ríkisskj.; [3]) hirdstiorvm, Ríkisskj.; [4]) [sl. Ríkisskj.; [5]) almuga, Ríkisskj.;; [6]) [hollir ok trvir vera, Ríkisskj.; [7]) [Rettum noregz konvngi 11, 242; [8]) bædi, Ríkisskj.; [9]) forbodum, Ríkisskj.; [10]) [er nv, Ríkisskj.; [11]) [noregs konvngz 11, 242.

hafa oc ongvan kavpskap framar en forn vandi hefr til verit. en danska (oc) svenska samþycktnm[1]) vier þvi[2]) vt af landit sem hina. at vier vissum[3]) ei hvort þeir væri[4]) med lika oc vorz herra konvngzens vilia vtsiglder af hanz rikium. fra hanz strid ob orlog. vtan þeir hefdi hans bref oc þess annars at kærumal komu yfer [þa oc uppæ[5]) svmliga[6]) af þeim. at þeir hefdi bade barit menn oc bvndit saklavsa. Enn hver sem[7]) þa helldr edr halldit [hefr skulu[8]) svara logum firir oll þeirra brot. en landrada sok vid[9]) minn herra konvngen. sierliga þeir sem þa hielldi vpp fra þann tima sem fyrr seiger. oc riett fangader vnder dom. hvar sem þeir verda tekner. oc ei [domz sæter ne[10]) vitnisbærer.

Jtem var þat oc samþyckt at eingen armbrysti[11]) oc[12]) handbogar skylldi færaz yfer landit vtan konvngzens umbodzmenn edur þeir sem landit villdu frida [firir vtlendzkum hernade[13]) [færdi þᴍ̃.[14]) Enn hver avdruvis færdi þa skylldi boganner[15]) vpptæker oc þo seker vid konvngdomen svo micit[16]) sem log votta. oc uid logmenn oc logrettumenn oc almvgan ei sidr at þeir hallda ei[17]) þat sem þeir giora logliga.

Oc til sannenda hier vm setium[18]) vier
jvar vigfusson.
Gvnlavgr gudmundzson.
audun salamonsson.
teitur gunnlavgzson.
asbiorn þordarson oc
pall jonsson
uor jnciglli fyrir þetta samþycktarbref giort j sama[19]) stad deigi oc are sem fyr seiger.

---

**507.** [1431—1449].

Afsakan Kolbeins Böðvarssonar um eiginorðslofan við Kristínu Jónsdóttur.

---

[1]) sögdv, Ríkisskj.; [2]) þeim(?) 11, 242; [3]) vistvm, Ríkisskj.; [4]) sl. Ríkisskj.; [5]) [ok vpp ꝏ, Ríkisskj.; [6]) sierliga(?) 11, 242; [7]) sl. 11, 242; [8]) [hafdi skylldi, Ríkisskj.; [9]) med, Ríkisskj.; [10]) [domsæter eda, Ríkisskj.; [11]) arbrysti, Ríkisskj.; [12]) eda, Ríkisskj.; [13]) [sl. Ríkisskj.; [14]) [sl. 11, 242; [15]) bogarnir, Ríkisskj.; [16]) myklu, Ríkisskj.; [17]) eigi, Ríkisskj.; [18]) settv, Ríkisskj.; [19]) sl. Ríkisskj.

AM. 235. 4to bls. 40, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. Virðist þetta eptir hendinni fremr frá dögum Gottskálks biskups en Jóns.

kolbein baubuarsson[1]) huessu han afsak(ad)e ath kristin jonsdotter kallade til hans.

Jtem sagde kolbein nei ath han hefde legit med henne j fril(l)ulifue vm þrenna . . . . .[2])

Jtem neittate kolbein ath han hefde lofat henne eigenorde huorke leynt ne liost.

Jtem kendezt kolbein ath han hefde keypt helgu snoradottur ser til logligrar eiginkonu.

---

508. [1431].

Vísitazíubréf Jóns biskups Vilhjálmssonar á Hólum.

AM. 235. 4to bls. 41, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. Á undan þessu bréfi í bókinni stendr og er alveg áfast því vísitazíubréf Pétrs Hólabiskups Nikulássonar frá 1394 (Dipl. Isl. III, Nr. 418).

Biodum wer oc aminnom alla oc serhueria presta oc alla þa sem æigu gistingar halda ath þeir firir hugsæ oss oc varum suæinom til hæyriligan kost m[ed] aul suo længi j hueriom stadh sæm oss berr oc maldagar kirkna til segia efter lofligum landsins vana oc skyldu oc þar med ræidskiota suo marga sæm kristen Rettr uottar þar um oc vndir þuilika sækt sæm þar til bær a huern sæm æigi gerir er bæiddr ær fra æinom gistingarstadh til annars oc suaræ oss þan skada hindran oc talma sem wer oc heilog kirkia kunnom þar firir taka j heilagrar kirkiu ærendum oc voru biscupligu æmbetti efter domæ oc orskurdæ wors officialis huerr sem þat dirfuizst gera med þriosku oc illvilia suo ath odrum verdi til vidrsionar. Oc her med biodum wer skyldoliga lerdum sem læikum j nefndu takmarki vnder hæilaga hlydnæ oc bans afelli at þær vppi latedh firir oss sannan Rækningh oc skodan a ydrum kirkium oc ollum þeirra godzsom. En þeir sæm æigi ero j færum til med sannenda forfaullum med oss ath taka efter sinnæ skyldu oc kristen Retti. kome til wor jnnan fiorttan daga fyr æn wer Ridum hæiman til huers wer mægum han vm etla oc forlikæ sigh med oss vm gistina

[1]) þannig; [2]) eingin eyða i skb.

af þeim sæm ver vilium þat med giora. gioret oc þessum breffærara sæm þetta uortt gistingarbref bær. Giorum wer oc med þæssu varo saumo brefi prestum oc bondum er kirkor oc beneficia halda ath lata bændr gera kirkiugarda sem kristen rættr þeim til skyldar aminningh peremtorie æn sem fyr huerium vm sigh suo ath aller kirkiugardar se fullgiord(er) þa wer komom til kirknana ædr skoda latum huortt þetta uortt bodh ok skipan efter ydar skyldu oc kristen rætt er trvliga fullgiortt. En huar sæm wer annat finnom oc profuom med sannendum skulo suara oss fullom sektum oc fepino efter gudz logum oc þæim ænga linan a giora er med illvilia forsma þessa skipan oc sina Rætta skyldu.

Oc til mæire stadfestu oc sanninda her vm et cetera.

---

509. 1431.

Vísitazíugerð Jóns biskup Vilhjálmssonar hin önnur um Vaðlaþing og Þingeyjarþing.

AM. 225. 4to bls. 45—48, bréfabók Jóns Vilhjálmssonar í frumriti. Rómversku tölunum framan við máldagana hefir útgefandi bætt við.

Anno domini ꝏ° cccc° tricessimo primo et consecracionis venerabilis patris in christo domini johannis filii wiliallmi anno sexto in secunda visitacione in prepositura uodlaþingh tali modo visitabat et in tali forma invenit ecclesias infra scriptas vt postea inferius patebat.

Jn primis.

I. Wrda.

kirka sancte andree apostoli. dedicacio in octaua apostolorum petri et pauli. sextan bæir liggia þar til. sex bygder af þeim æn x obygder. a kirkian audner oc skrauflustadæ. ero bader eydæ. engi reikninghskapr giordr vtan sæm j gomblo registro finst scrifat.

Jtem aa kirkan halfuan hellu Reka er annfinnr gaf oc lukti j ræikninghskap.

II. Tiorn.

kirka sancti johannis baptiste. Ecclesia dedicata in decollacione sancti johannis baptiste. kirka a jngwarastadæ.[1]

[1]) hálf lína auð hér.

jnnan kirko Calekkr litel. tuænn messoklædi ath ollu oc ij altarisklædi ij fordukar. messobok godh oc graduale. antifonarium. de sanctis et de tempore fra jolum oc til pasca. ein saltare. item messobok ecki full. item commune med ollu oc annat communæ. sequenciubok. legenda de tempore de aduentu oc til pasca. jtem antifonarium per anni circulum a tuæimr bokum vantar de sanctis fra aduentu oc til pasca. vantar breuiarius er ecki hefuer sedst sidan sira siugurdr oc jon Einarsson foru med þui jons saga baptiste. ero als bækr atian. ij altaris stæinar. vaskall brotæn. sloppr uondr. ij kertipipor. kross yfer altare med vnderstodum. stoor kista laslaus. Mariescript. johannis baptiste liknæski. ij klockur. onnor broten. alteris stæinar ij.

hefer sira berdor brot fra arnarnæsi marie likneski stort. katrinar liknæski oc olafs liknæski oc sæmiligan spægil.

III. vfsar kirka sancti (bartholomei).

kirka sancti bartholomei er brendh. brestur ræikningskapr af sex oc xx vetr. ligr þar til vj bæir iij bygdir oc iij obygdir. Porcio ecclesie a huerio aræ .v. aurar oc half þridia alen betur. ongua pæninga a kirkan vtan ij kyr gamllar. huorkki bækr næ messoklædi.

IV. Valla kirkia.

Kirka a vollum sancti olaui regis. Ecclesia est dedicata in festo sanctorum celio. ornamenta sæm j forno registro vtan han tok ij sloppa forna oc gerdi æin af þeim tuæimr. Porcio ecclesie sidan herra jon adr næfndr visiteradæ j fyrsto visitacione oc her til hefuer fallet porcio half mork oc tuau hundrot oc æin hestur hefuer gæfist sidann vmfram þau xiij hundrot sæm adr ero scrifut j ellra rægistro en onnor kwgildæ fridt oc ofridt oc jnnan veg(g)ia sæm j forno rægistro er scrifat. er þat til summa sextige hundrot oc fiogur hundrot mæir. er þat scrifat vidr nafnn huat j huerio var vtan sex vetter smeyr oc iij vetter flot oc maur er vm fram.

V. asskogh.

Kirka sancti Johannis baptiste. ecclesia dedicata tuæim nottum efter festum sanctorum in Celio. porcio ecclesie halfr

niondæ eyrer. gomol porcio mork. ny porcio oc gomol vm þriu aar halfr sætti eyrer minna en tuau hundrot. aa kirka vj kwgildhæ. lig(g)r til kirkonar xv bæir med tiundum oc lysætollum. ero .x. bygdir æn v eydhæ. ein Calekr. æin messobok. lesbok fra iolum til pasca. jtem antifonarium per anni circulum. jtem legenda de tempore in aduentu totam natiuitatem. jtem bok af gudhspiollum oc pistlom per totum annum de sanctis et (de) tempore. jtem graduale per totum annum. jtem collectarium. jtem graduale per anni circulum. jtem bonum psalterium oc iij vonder. jtem gomol bok med gudhspiollum oc pistlum. jtem Collectarium pro missa. jtem quinque libri antique et putride. messo med ollum ræidhskap oc altarestæine oc alt sæm j fornno registro stændr jnnan kirkiu.

VI. Sualbard.

kirka (ens) heilaga johanni(s) apostoli non dedicata. porcio ecclesie isto anno xviij aurar. jnnan kirko sæm j forno registro oc suo mikit minna sæm i fyrsto visitacione er scrifat. liggia her til kirkonar x bæir med tiundum oc heytollum oc lysetollum.

VII. laufas.

kirka sancti petri apostoli est dedicata in festo sancti bertini. tok sira aræ med porcione þriu hundrot er fallet hafdæ medan helgi biarnarson bio. a kirkan fimm jardær. ero ij bygdar æn þriar obygdar. En quikfe sæm j fyrræ visitacione er scrifat oc metfæ oc suo jnnan væggia. jtem vj manna messoklædi bræstur ij hofutlin. iij calekkar. bræstr kirkonæ æitt gældfiar kwgildæ af helga biarnarsyni eftᵒr þui sæm scrifat ær j fyrræ visitacione. Rekar sæm j forno registro stændr. feria tercia infra octauas beate virginis.

Eodem anno næfndi virduligr herra herra Jon biscup villialmsson til ath sea athur mæta huer spell hafua wordit a kirkoni oc stadnum j laufasæ vm næsto x aar adr j annaræ hans visitacione hermann jonsson. siugurdh jonsson presta. jon gamllason messodiakn. jon Egillsson publicus notarius. þorstæin kætilsson oc jon egilsson læikmæn. Mato þeir aa kirkona fiorar merkr vaurovirdar a huerio aræ vm tiu aar. verdr þat xvj hundrot. En aa stadæn hæima .vj. merkr aa hueriu aræ. er

þat j summa vm .x. aar fiogur hundrot oc xx fridhvirdht. En oss læidst stadræn bættr til fimm hundradha lætom wer þat aftr falla af sogdum fiorum hundrodhum oc xx. ero þat nitian hundrot sæm stadren aa (at) hafua ser til vppressingar. Ero þessir pæningar a kirkona oc stadæn half(r) fiordi tugr hundradha.

VIII. gardr.

kirka sancti thorlaci non dedicata.

in festo sancti bartholomei apostoli næfndi herra jon biscup villialmsson in secunda visitacione eodem anno sira herman jonsson. teitr ketilsson prestar. suæin messodiakn. jon Egilsson publicus notarius. þorstæin ketilsson oc jon kætilsson. mato þeir a stadæn xv aura a huerio aræ vm xx aar. er þat xv hundrot fridhvirdt.

IX. grytubakka.

Kirka sancti thorlaci non dedicata. hon a suo mikit j jordu sæm greiner oc scrifat ær j fyrræ visitacione oc suo jnnan kirkiu iam mikit. porcio xv aurar. kirkan aa atta kwgildæ oc serliga ij kwgildæ oc v hundrot j woru oc ij bross oc v merkr vax. skal lukazst af sogdum tuæimr kwgildum læigan af þeim artidardagh eyiolfs bonda.

X. Haufda.

Kirka sancti nicholai non dedicata. hon aa ij kwgildæ. ornamenta.[1])

XI. Greniadarstadr.

Kirka sancti marthini. Dedicata in festo sancti Egidii abbatis. æigr kirkian xvij jarder. ero xv bygdar æn iij vbygdar.[2]) a kirkan tua lutæ j siugurdarstodum. liggia þar til xv bæir ath tiundum oc lysætollum oc liggr þar æin halfkirkia. Porcio ecclesie mork isto anno.

brestur widh sira jon palsson vij hundrot oc xx j virdingargodzi ath ræikningæ sira jons biarnasonar oc vmfram æin sylfrskal ok æin sylfrspon. halft þrættanda hundrat j hrossum oc hestum. stadarspell vm fiogur aar mædan sira jon hefuer haldet atta hundrot oc xx. oll stadárspell sidan plagona olukt. bræstr sira jonæ pallssyni porcio vm fiogur aar.

[1]) Hér er ekki skrifað meira af þessum máldaga; [2]) Svo, hdr.

kænnizst sira þorkell med hafua tækit æfter afhendingh oddz asmundzsonar tuau kwgildæ oc sextan tigæ kwgilda j ollum kwgildum asaudh oc kwm oc gældhfæ. woru her med Ræiknodh þau tio kwgildæ er stodu med laundonòm j Eyxarfyrdæ oc Eyfraholum. jtem iij hundrot oc lx hundrada j virdingargodzsæ. fimm hundrot j hrossum oc hestum.

XII. Mula.

Kirka sancte marie non dedicata. porcio mork arliga medan sira þorkell heldt iij hundrot vm viij aar. a kirkan atta kyr oc xx. tiu aasaudar kwgildæ viij kældhfiar[1]) kwgildæ. vj hundrot j hrossum. seau hundrot j virdingargodzsæ. t(u)au hundrot ofridh j gambla porcio. jtem fimm hundrot j smeyre. fimtan fiordungha smeyr j huert hundrat. a kirkan iiij jardær oc ij lutæ j seualandi. þridiungh i siugurdarstodum. selfor j teistaræykia landi. eitt kot j kælduhuerfui med Ræka. er gefit til kirkonar jordin vindhbælgh med mywatn.

XIII. stad j kinn[2]).

kirka j kinn sancti nichulai. porcio (. . .) aurar. a kirkian ofeigstadi eydi. liggia þar til xiij bæir ath. tiundum oc lysetollum. ero þrir eydi af þeim. fylgia þar ellefu kyr oc ij asaudar kugilldi gielldfiar kugilldi oc þat reiknad porcio eitt hundrat j hrossum. ornamenta sem j forno registro.

XIV. helgastodwm.

kirka sancti nichulai dedicata die sancti egidii abbatis. a kirkian iij bæi. liggia þar til vj jardir. þriar jardir (bygdar) oc þriar obygdar. porcio xviij alner. ellefu kyr med quigv. fiogur asaudar kugilldi. vj gielldfiar kugilldi. j kwm hundrat. j hey hundrat oc mork betur. hundrads hestr. hross þrævætt. sæx aurar ens þridia hundrads j vadmalum oc vidum. j virdingargoze halft v (hundrat).

XV. a halse.

kirka sancti petri dedicata tueim nottum efter olafsmesso. Nefndi minn herra biscupin midvikudagin decollacioni(s) sancti johannis baptiste til ath meta stadin oc kirkiuna a halse þorgils abota (a) munkaþuera. herman jonsson. sigurd jonsson

[1]) þannig; [2]) það sem eptir fer er með annari hendi.

presta. jon egilsson publicum notarium. þorstein ketilsson oc þorgils oddzson. mato þeir bot a kirkiuna halft annat hundrat voruvirt en spioll a stadin vm fim ar iij merkr a hueru arenu ær þat j sum(m)a sex hundrot j fridvirdu goze.

---

510. 1431.

Jón biskup Gerreksson skipar hálfkirkju að Breiðuvík í Saurbæjarþingum.

AM. 263. Fol. bls. 79. skr. 1598 tekið eptir Vilchinsbók og kallað hér »Vilchinsmaldage«; AM. 260. bls. 92—93 (aptan við Bæjarmáldaga á Rauðasandi, clxxvi)..

Anno domini m°. cd°. xxx. j°. skipade herra Johannes med gudz nad biskup j skalhollti halfkirkiv j breidavijk er liggur j Savrbæar þijngum med þeim maldaga: ad hvn skal eiga x hvndr-ad j heimalandi. sem þordur jonsson gaf henni. er þa atti greinda jord.

skal hvn taka heima manna Tijvnder oc lysitolla alla meire og minne. oc luka presti ij merkur kaups.

---

511. 23. August 1431. á Hólum.

Áminningarbréf Jóns biskups Vilhjálmssonar til Helga Bjarnasonar um ýmsar sakir, einkum aðtekt á skipi því, er braut fyrir Harðbak á Sléttu.

AM. 235. 4to bls. 71, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3693.

aminningarbref helga biarnasonar.

Ver jon medh gudz nadh biscup a holum heilsum þigh helge biarnason medr vidurlikre quediu sæm þu ert af heilagre kirkiu verdugr oc os.

Þat ær ollum godum monnum viturligt ath manadagen nesta efter geisladagen j wætur er vaar j loghligum þinom stæfnodægi sæm þu vartt loghliga firir oss kalladr a vidæuoll-um j skagafyrdi firir þat sama skipbrot oc godz sæm vpp raak

aa hardbak a slettu hola stadar obrigdhiliga æign oc þu sealfr kændizst ath þu hefdir aa fyrnefndri hola stadar iordu godzet ath þær tekit sæm marger goder menn heyrdu. i þessum sama stænfnodægi dæmdo tolf prestar oc lerder mænn þigh helga biarnason skyldugan godzet aftur at læggia a næstum fardogum nordr a slættu þat sæm æi var adr afhendt j glæsibæ vndir þin suaren bokaræidh. her med skyldir þu fyrnæfndr helgi biarnason luka hæilagre hola kirkiu xxx markka j fullretti sitt hæima a holum a næstum fardogum j sama dagh oc stad orskurdudhum wer j gudz nafni amen loghligan vera med ollum sinum græinum oc articulis. wor vmbodzmann swæinbiorn þordarson messodiakn bæiddæ oc krafde nordr a slettu þetta dæmdt godz af þær helgi biarnason oss til haldz oc hæilagre hola kirkiu oc fæck æigi. wær sealfuer hæima a holum aa fardogum bæiddum oc krafdum þat sama fullrætti sæm af þær var dæmdt. oc hofum ænn j dagh æigi fenghit huar firir þessar allar saman vpptaldar græiner hefuer þu helgi biarnason Rofuet xij manna dom oc worn loghligan orskurdh yfuer þessu mali. wær hofum ok þolenmodhliga bidlæikat alt her til ef þu vilder hlydnazst oc luka oss oc hæilagræ kirkiu dæmda peninga oc orskurdadha. En wer hofum fundet langan tima onguan godhwilia edr lydnæ af þær til heilagrar kirkio oc wor. Þui j gudz nafni minnom wer biscup jon wilialmsson a holum þigh helgi biarnason optnefndan æin tima oc annan ok þridia tima peremtorie ath innan næstu þrigia vikna er þu heyrer ædr heyra matt þetta wortt aminningarbref hafuer hæim skilat til hola kirkonar fullretti oss sealfuom j hændr oc æi sidr j þessum tima afhendir þu vorum vmbodzmannæ suæinbirnæ diakna þordarsyni alt þat godz sæm þu atter nu j wor ath luka æfter domenum oc orskurdinum ath fardogum næstum nu j wor ær var. þui wer setium þær seau daga firir hueria aminningh loghliga. huat æf þu helgi biarnason optnæfndr fyrnæmfst ath luka hæilagre kirkiu sitt fullretti oc alt adr tintt godz haldandæ suo ranghliga med ofbældi oc þriosku hæilagrar kirkiu æighn. skalt þu helgi biarnason vera fallen j fult forbodh oc afsettr jnngongu hæilagrar kirkiu oc afsettr ollum hennar sacramentis ath aminningonum ollum adr vel ændhadum. vittandi firir vist ef þu helgi biarnason hardnar j þinnæ þriosku oc wlydnæ framlæidis skulo wer fram fara motæ þær med stridæ hæilagrar

kirkiu suo ath þu skalt æigi fordazst fult bans afelli af oss oc ollum lærdum monnom firir þina þriosku oc Rangendi. Biodum wer þigh sira þorkell prestr gudbiarttzson sub virtute sancte obediencie oc afsettningh als prestligz embettis ath þu lesir þetta uortt aminningarbref firir helga biarnasyni optnæfndum wottum hiaverandum æ sæm fyrst þu matt oc forda brefeno aftur til woor hæilo oc ospilto adr æn amininnganar ero vtæ til vitnisburdar ath þu hefuer þænna wornn bodskap trvliga giortt.

Ok til sanenda her vm settum wer uortt jnsigle Rotundum firir þetta forbodzbref huert er giortt war a holum j hialtadaal quinta feria infra octauam assumpcionis beate virginis anno domini ꝏ⁰ cccc⁰ tricessimo primo.

---

## 512. 27. August 1431. á Möðruvöllum.

Jón Vilhjálmsson biskup á Hólum tekr Odda Þorsteinsson og Guðríði Þorgeirsdóttur konu hans í próventu á staðinn á Möðruvöllum í Hörgárdal.

AM. 235. 4to bls. 39, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3667.

Ver jon med g(udz) nadh et cetera

gerom godom monnum viturligt med þessu uoru brefe ath wer hofum tekit heidarliga mænn odda þorstæinsson oc gudridhi þorgheirsdottor æigen kono hans til prouentu aa modruvollum j haurgardaal med suo feldum skilmala ath þau gafuo med sær j æuenliga forgipt alla jordina arnarnæs aa galmars strondh firir fimttige hundrada oc þar til xx kugildæ. her j mote skildu fyrnefnder men siær ewenligt bordh sæmiligt af stadnum ath lidnum þræmr arum. oc huort þeirra skildæ hafua tuituga wodh a huerium tolf manadum oc linklæda ænfni huortt þeirra sitt hettuklædi huortt þeirra a þræmr arom medan þau lifua. Skildu þau siær litlu stofuona jnne a stadnum alltidhliga vtan biscup ver(i) a gardinum oc æitthuert ræinligt hus ath geyma j sitt godz. jtem skildu þau hafua æinn þionostomann kall ædr kono hia ser a sinn kost oc frialsliga hafua haga sino fe a sumaren vnder rættan ræikningh vidr stadæn

En fiallhaga oc afRett sæm þeim hentar vtan ræikningh. kunno þau vera þriar nætur a prouenttonne þa skal stadræn æiga alla græinda pæninga oc suo þo ath þeirra missi fyrr vidh hedan j fra. kunnæ þeirra vidh missa jnnan þriggia ara þa skal lukaz æfter þau i salogiafer sex hundrot j smeyr slatr oc uadmal. En ef annars þeirra misser vidh jnnan þriu aar þa skal lukazst fiogur hundrot j vidrlikum pæningum. þau skulu oc hafua siængh oc kistu j prouenttona oc haldæ stadræn huorttueggia oc æignizst bædi sængh oc kistu efter þeirra dag. hofum wer vnt þeim þa þau vatnfasta ath gefist af stadnum vngmennis verdhr fatækum. gafu þau þar til eitt kwgilldæ. lagdæ sogdh gudridhr til þessa kaups sina æigen pæninga þa sæm hon hafdæ til kaups med odda oc han quittan ef þeirra misdaudæ wyrdæ. En ef hon lifdæ odda længr skildæ hon æiga alla halfua pæninga efter han.

voru hia þessu prouentu kaupi jon bjarnason. paall tæittzsson prestar. brodir hugi vor capellanus. jon Egilsson publicus notarius. hallr olafsson oc biornn marchusson læikmænn þetta kaup samþyckiandum med oss.

Ok til sanænnda hier vm settum wier uortt jnsigli Rotundum med fyrnæfndra (manna) insiglum firir þetta prouenttubref giortt a modruuollum j haurgardaal manadagen infra octauam assumpcionis beate virginis anno ꝏ⁰ cccc⁰ tricessimo primo.

---

513. 16. September 1431. á Hólum.

Jón prestr Pálsson skipar Jóni biskupi Vilhjálmssyni nokkur kúgildi með ýmsum ánefndum jörðum.

AM. 235. 4to bl. 62, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3681.

Anno ꝏ⁰ cccc⁰ tricessimo primo jn dominica infra octauam natiuitatis beate marie virginis skipadæ sira Jon pallsson virdoligum herra Jonæ vilialmssyni med gudz nadh biscupi a holum þriu kwgildæ hia sira oddæ. Jtem hia hauskauldæ vilialmssyni vj kwgildæ a kaalsaa. Jtem a londonum sin þriu kwgildæ med hworu. Jtem med arnarstodum iij kwgildæ.

med vaalþiofsstaudum fimm kwgildæ. þessum vitnum nerverandum jone biarnasyni. berdori. oddhi prestum. johanni Egilssyni. stulla bardasyni. thorlaki siugurdzssyni oc Einar hallssyni læikmonnum.

---

## 514. 17. September 1431. á Hólum.

Veitingarbréf Eiríks Upplendings fyrir staðnum á Hólum í Vestrhópi.

AM. 235. 4to bl. 72, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3694.

stadarbref Eiriks vpplendings.

Ver jon med g(udz) nadh et cetera gerom godum monnum viturligt med þessu uoru brefe at wer hofum uæitt oc vnt uelkændum mannæ Eirikæ . . . . .[1]) ssyni stadæn at holum j væsturhopi med ollum sinum æignum fridum oc ofridum faustum oc lausum at vndantækinæ poricione ecclesie. skal hann a stadnum bua vm næstu t(u)au aar fra næstum fardogum er nu koma suo framt sæm hann heldr med oss þan godhvilia sæm hann hefuer oss lofat. skal hann bæida kræfia oc kæra sekta oc sekia huern er Rangliga heldr oc haldæt hefuer kirkonar pæningum. En þeir allir quitter firir oss oc vorum æfterkomandum sæm honum gera sannan oc rættan[2]) Ræikninghskap ædr a settazst med hann suo ath honum wæl anæger kirkonæ oc stadnum þo ath skadalauso vndir rettan (ræikningh)skap. skal hann abyrgiast [stadæn oc[2]) stadaræns godz efter logum. kann hann stadæn bæta hafui firir efter godra manna giordh. En ef gæfast kirkonæ pæningar at vndan tækno þui henne ma vera til prydæ innan sigh skal þat standa til wora nada oc godum monnum lizst suarligt vera.

Oc til sannenda her vm settum ver uort jnsigli firir þetta stadarlans bref vtgifuet a holum j hialtadaal manadagæn infra octauam natiuitatis beate marie virginis anno domini ᴍ° cccc° tricessimo primo.

---

[1]) föðurnafnið vantar í skb., en Eiríkr hefir líklega verið Gautason og bróðir Rögnu; [2]) [tvískrifað í skb.

515. 18. September 1431. á Hólum.

Jón biskup Vilhjálmsson skipar séra Einar Hjálmsson ráðsmann á Hólum í Hjaltadal·

AM. 235. 4to bls. 49, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskr. 3676 b.

Radzmandzbref sira einnar(s) hialmdzsoñar.

Wer jon med gudz nad biscup a holum gerom godum monnum viturligt med þæssu uoru brefe ath wer hofum sett oc skipat worn kæran son Einar prest hialmsson worn oc heilagrar kirkiu vmbodzmann oc Radzmann hæima a holum sæm æinfeldum radzmannæ til berr. hann skal hion Radajardær byggia. kaup gialda hueriom æfter þui sem honom þycker til stunda landskylder oc kwgilda læigur vpp bera stadnum oc oss til nytta vnder Rettan Ræikninghskap med oss oc hæilaga kirkiu. skal han oll sin Radh smeræ oc sterre gera med woru samþycki oc vittendh oc efter vorum vilia oc skipan huat wer vilium so hafua þa wer erom neri oc bæra oss ængum Radum oc þann wer yfer skipum til vmsionar oc heilla Rad med oss En þa wer erom æigi hæima edr nær neyti godra manna rada. skal hann oc taka med tiundum worum oc vppbæra oc so Romaskatt af profastum worum oc taka Ræikningskap af þeim þar firir vnder fulla græin oc ræikninghskap med oss oc heilaga kirkiu oc sidan oc fyrr suo med fara oc gæyma sæm wer skipum honum oc Radh firir gerom. skulo wer þat alt halda oo hafua obrigdiliga sæm hann gerir loghliga nyttoliga oc skadalaust j þessu woru vmbodæ ath ollu jafnfullo sæm wer sealfuer giordum. skal hann wortt vmbodh oc starf so lengi hafua sæm vorar nader til sægia oc wer æigi adra skipan a gerom. bidium ver vm kerligha alla goda mænn oc serliga gudz vine oe hæilagrar kirkiu oc swo wora ath þer seedh sogdum sira æinare worum vmbodzmannæ til hialp oc styrck oc heilla Rada medan hann stændr j þessu uoru vmbodhæ oc heilagrar kirkiu ærendum. En þar skal oss æiga mæta med allræ worræ biscupligre makt sæm honum gera nokot forþrot vrett oc yferwaldh hvortt sæm þat kunno giora lærdir ædr læikær ædr hans nyttliga skipan oc Radh oss oc stadnum gaghnsamligh vilia æigi halda oc giora huortt sæm þat ero

vinnomænn oc onnor hion wor oc stadarens huar sæm þau helst ero her hæima ædr ath bwm worum. skal hann suo wel hafua uortt fullt oc loghligt vmbodh oc yfuersyn hafua a þeim sæm her hæima ner oss til allra nytligra Rada oc forstodu oc þo alt æfter vorum vilia oc samþykt alt giora þar sæm annarsstadar vnder fulla græin oc ræikningh med oss. en huer odruwis gerir sæm adr segir skal sæta worre oblidu oc sannom vwinskap En hiner sæm wel oc audvelliga[1]) giora hans skipan oc sina þionozstu oc hann styrckia. stydia oc efla j þessu woru oc heilagrar kirkiu vmbodæ. skulo hafua þauck aufuso oc vinattu af oss en ombon af als waldandæ gudæ oc hans mildostu modur jungfrv sancte marie warre patrona oc sancti johanni hola biscupi oc ænom goda gudhmundi biscupi.

Ok til sannenda her vm settum wer uortt jnsiglæ Rotundum firir þetta worrt vmbodzbref vtgifit aa holum j hialtadaal þridiadagæn næsta efter krossmesso vm hausten anno domini ꝏ° cccc° tricesimo primo.

---

516. 18. September 1431. á Hólum.

Jón Vilhjálmsson biskup á Hólum kaupir hálft skip með rá og reiða, er heitir Bartholomeus og liggr fyrir ósnum í Skagafirði af Vilhjálmi Bell og Játmundi Smidh fyrir tólf lestir skreiðar, er lúkist á tveimr árum.

AM. Fasc. IX, 4, frumritið á skinni. Fyrsta, þriðja og fjórða innsiglið er fyrir bréfinu, en hin eru dottin frá. Bréf þetta mun vera með hendi Jóns Egilssonar.

vm kaupskip.[2])

Ollum godum monnum þeim sæm þetta bref Sea ædr heyra Senda jon Einarsson profastr j skagafyrdæ siugurdhr jonsson prestar. Jon Egillsson publicus notarius thorlakr siugurdzson stullæ bardason ok jnghimundr stæindorsson læikmænn Quediu gudz ok sina kunnikt gerandæ ath wer (worum) þar j hia saghum ok heyrdum vpp aa j timbrstofuonne aa holum j hialtdadaal manadagæn næsta æfter krossmesso vm haustæn[3])

---

[1]) tvískr. í skb.; [2]) Aptan á bréfinu með fornri hendi; [3]) = 17. Sept.

anno domini ↀ⁰ cccc⁰ tricessimo primo ath wor virdoligr herra ok andaligr fadr herra jon vilialmsson med gudz naadh biscup aa holum keyptæ med handabandhæ siær ok hælagre holakirkiu til fullrar æignar af wilialm bæll ok jattmundh smidh halft þæira skip ær bartholomeus hæiter er þaa la firir osenum j skaghafyrdæ ær þæir atto halft med ollum þæim ræidskap smaam ok storum ok sægle er sogdhu halfuo skipæ fylger serligha til greinddum fiorum ackærum ok fimm storum kabelum ok ollum odrum smaam ok storum toghum ok ollum odrum ræidhskap sæm græindo haluo skipæ fylger jnnan bordz ok vtan j hværio sæm hwert ær firir tolf lester skrædar. Skuldæ græindr herra jon biscup luka þeim sex læster skræidar ædr annat jafn gott godz sæm þæir vildo taka ok þeim wæl nægdæ ath sumræ næsto komandi. En adrar sæx læstar skræidar med sama skilmala att odru aræ þar næst æfter komanda. lystæ ok sagde vilialmr ok iathmundr j sogdhu handabandæ ok kænduzst ath allær skipmænn j sogdhu skipæ skuldo wera skipmænn fyrnæfndz herra jons biscups ok hæilagrar holakirkiu ok sighla aa þui aptur til ænglandz hædan af islandhæ aa þæira wæghna biscupsins ok kirkonar a holum. lystæ ok græindr herra jon biscup firir oss ath greindt halft skip skuldæ wera hæilagrar holakirkiu sæm sin æwenligh æighn vpp fra þeim dæghi ok alla tima þadan fra ok suo æfter hans dagha.

Ok til mæire sanændha ok stadhfæstu þæssa kaups ok vorar nærvero settum wær fyrnæfndir mænn wor jnsiglæ firir þetta kaupa vitnis bref er giort war j sama stadh ok aræ sæm fyrr sæghir. En skrifat dæghi sidar.

---

## 517. 23. September 1431. á Hólum.

Jón Vilhjálmsson biskup á Hólum kvittar Jón Bjarnason fyrir réttan reikning af norðrumboðum Hólastóls.

AM. 235. 4to bls. 43, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3672.

kwittonarbref jons biarnasonar vm nordrvmbodh.

Ver jon med gudz nadh (biscup a holum) gerom ollum godum monnum viturlight ath jon biarnason hefuer giortt oss

fullan oc allan Rettan oc sannan ræiknigskap oc vissu firir stadarens pæningum a holum j nordrvmbodvm er hann hefuer vmbodh yfer hafdt þetta aret suo ath oss wæl anæger bædi af landzlæigum oc kwgildum med iordum oc annars stadar oc þar med af ollum kwgildalæigum j sogdu vmbodæ efter þui sæm wer troom ʒannan vera efter þui honum bær. kændizst hann oc hafua siær tekit a wortt traust oc nader af vorum oc hola kirkiu rekum j sogdu vmbodæ æin aas fiogura fadma til sinna nytta oc þarfua oc þar med stafvidh til fiorettighæ skiolna keraldz. huat wer honum vnnom frealsliga hafdt hafua med voru godu minnæ oc orlofui. Þui gerom wer sagdan jon biarnason allungis quittan frealsan oc akerolausan firir oss oc ollum vorum æfterkomandum biscupom aa holum vm allan adrgreindan ræikninghskap oc (af) hola kirkiu vmbodæ oc voru. Ok til sanenda her vm settum wer uortt jnsigli firir þetta quittonarbref er giortt var a holum j hialtadaal sunnodagæn næsta efter ymbrouiko vm hausten anno domini ꝏ° cccc tricessimo primo.

---

518. 3. Oktober 1431. á Hólum.

Jón biskup Vilhjálmsson á Hólum tekr þá ensku menn af skipi því, er liggr í Kolbeinsárósi, og komizt höfðu í mannslag við Íslendinga, í vernd sína og lofar að svara lögum fyrir þá, en þeir höfðu flúið í Hólakirkju og gefið hálft skipið í vald hans, en selt honum hálft.

AM. 235. 4to 72—73, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. Espólín (Árb. II, 34) þekkir þetta bréf, en árfærir orustuna við Mannskaðahól til 1434, og hefir hann því haft fyrir sér að öllum líkindum afskript með raungu ártali.

Ver jon med gudz nadh biscup a holum hæilsum allum godum monnum med gudz blessan oc worre.

Ver vilium ydr viturligt gera ath æingilskær mænn aller af þui ængilska skipæ sem nu liggr med kolbæinsaaross i skagafjrdæ er (ver) hofum halft kæypt oss oc hæilagri hola kirkiu til fullrar æuenligrar æignar En adra helfdina hafua þeir vpp gefit i waaldh heilagrar kirkiu oc worttligt traust æi sidr til fullrar æignar oc þar med alt þat godz sæm a skipino waar oc nw ær mæira oc minna huerir hæim komo til hola j

hialltadaal i kirkiu staudona firir korsdyrnar oc bæiddu oc krafdu firir gudz skuldh hæilagrar kirkiu fridh oc frelsæ af oss huat wer moti gudz retti oc heilagrar kirkiu logum mattum æighi þeim synia sæm kristenrættr wottar suo. ath efter hæilagra fædra settningh oc skipan gudz laga oc manna skulo wer þyrma kirkiu oc kirkiugordum su(a) ath huat sæm hwer hefuer giortt oc flyr hann j kirkiu ædr kirkiugardh ser til hialpar þa skal hann fridi hæilagr vera firir hueriom mannæ mædan hann er þar et cetera.

Þui biodum wer firir alla sagda ængilska mænn med huerio nafnæ sem hwer þæirra vm sigh hæiter er flydu til fyrsagdrar vorar kirkiu sær til fridar oc traustz fridh oc frelsi heilagrar kirkiu efter gudz logum oc manna lifs oc lima ef nockur will þeim nockorn vfridh giora suo længi sæm þeir ero a kirkonar nadum oc vorum En æinghilæidis oc ængu moti j moti mins herra kongsins logum næ rietti. þat af syniom wer allungis. En huat sæm med logum kann profast til sagdra ængilskra manna ædr huerlensker þeir æro sæm i sogdu skipæ ero ath huat sæm þeir kunno brottliger hafua uordit her i landet med nokorn mann i mot kongdomenum ædr ef nokor vill oss skuldh gifua ath wer holdum þeim a kirkonar nadær þa biodum wær oss oc þa fram vndir mins herra kongsins naadh oc Rikissens Radh ath suara þar logum oc Rett minom herra konginum þar firir.

Jtem æi sidr biodum wer fram med þessu voru brefe hyrdstiora oc loghmannæ firir nordan oc væstan aa islandæ æf nokor þyckis vera rættliga til komæn a mins herra kongsins wægna ath wer suarom þar aller saman logum oc Rett hwer odrum jnnan nesto tolf manadha hædan fra oc biodum þeim far a sogdu skipæ vpp aa þeirra æigen kosnadh oc pæninga. En þeim godum monnum sæm nokorn skada hafua af sogdum skipmonnum oc worum monnum fængit vilium wær her jnnan lands þa lata bæta annat huort med sattmala ædr med domæ.

Jtem firirbiodum wer a gudz wægna oc hæilagrar kirkiu med þesso varo saumo brefuæ ath nokor dirfist ath orskurda ædr dæma ædr doma nænfna yfuer sogdu skipi oc godzsæ oc yfer worum greindum monnum vndir fult forbodh oc bans afelli oc ollum odrum sæm snærtt(er) oc til bær hæilagrar kirkiu æighn oc frelsi efter gudz logum oc hæilagrar kirkiu

ath vitnæ allra þeirra godra manna sæm þetta wortt bref sea edr heyra lesit.

Jtem med samræ græn firirbiodum wer æi sidr hwerium lærdum sæm lækum huerra(r) stettar mæire edr minnæ sæm hwerr ær ath briota kirkiufridh oc hæimafridh aa oss ædr vorum monnum vndir fult forbodh oc bans afelli oc biodum firir oss oc vorn gard a holum oc wortt folk lærda oc læika fullan oc allan fridh oc heilagrar kirkiu frelsi efter hefd oc Rett priuilegiorum heilagrar kirkiu andhligra oc veraldligra ath vittnæ allra godra manna sæm þetta wortt bref sea ædr heyra lesit.

Biodum wer vndir hæilaga lydnæ sira jonæ prest Einarssyni profaste vorum j skagafyrdi ath læsa þetta uortt bref opinberliga a þingino ath wallalaugh j skagafyrdi oc þar vidara sæm honum þycker þurfua oc fallet vera wottum til næfndum suo hatt oc skilet at allær mægi hŏra sæm vilia.

Ok til sanninda her vm settum wer u(ort) jnsigli firir þetta vort bref scrifat a holum j hialtadaal miduikodagæn næsta æfter micialsmesso anno domini ꝏ° cccc° tricessimo primo.

---

519. 5. Oktober 1431. á Hólum.

Jón Vilhjálmsson biskup á Hólum veitir Henriki Jónssyni sveini sínum staðinn í Grímstungu um tvö ár.

AM. 235. 4to bls. 37, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar i frumriti AM. dipl. afskrr. 3659.

stadarbref magnusar biarnasonar vm þriu aar fra nestum fardogum[1]).

stadarbref hennriks ionssonar fostr(a).

Anno domini ꝏ° cccc° tricessimo primo wæitte minn herra henrik jonssyni sinum swæine staden grimstungu vm tuau aar fra nestum fardogum er nu næst koma forfallalaust med saumo materio sæm stadarbref Odda bonda þorstæinssonar vtan ef hann bæter skal hann hafua firir efter godra manna matæ.

var brefit vt gifit a holum j hialtadaal faustodagæn nesta æfter micialsmesso a saugdo (aræ).

[1]) bréfið sjálft hefir ekki verið skrifað í bókina.

520. 11. Oktober 1431. á Hólum.

Vitnisburðr tveggja manna að séra Þorkell Guðbjartsson hafi lesið áminningarbréfið Jóns biskups til Helga Bjarnasonar á Ljósavatni.

AM. 235. 4to bls. 73, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskr. 3695.

Anno domini ꝏ° cccc° tricessimo primo fimtta dagæn næsta firir festum reliquiarum j timbbrstofuonnæ a holum j hialtadaal suoro snioolfr hallbiarnarson (oc) Eyiulfr symonar(son) firir herra jonæ biscupe ath þeir heyrdu vpp aa ath sira þorkæll gudhbiarttzson las aa liosauatni nerverandæ oc aheyrandi þoru stullodottur hans æigenkono oc hans hæimafolki nokoru aminningarbref sagdz biscups jons vm helga biarnason hwert er læsit war j sogdum stadh. heyrdu þeir ath þeim war sagdt ath hælgi biarnason war þann sama dagh hæima oc þeim þotti þat likaræ ath (hann) war hæima heldr æn brotto ath sinnæ hyggiu.

jtem kændizst sira þorkæll gudbiarttzson at hann hæfdi læsit sagt aminningar oc forbodzbref at liosavatni. græniadarstodum oc mula godum monnum nerverandum.

jtem voru her nær i sogdum stadh a holum oc dægi sira jon einarsson. sira siugurdr jonsson. þordr rotbiartzson prestar oc jon Egilsson publicus notarius.

---

521. 11. Nóvember 1431. [á Hólum].

Samningr Jóns biskups Vilhjálmssonar og Einars bónda Magnússonar um það góz er fallið hafði óráðstafað eptir séra Jón son Einars.

AM. 235. 4to bls. 74 (nr. 124), bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti, og er þetta mjög máð. AM. dipl. afskrr. 3696.

Eodem anno in die sancti martini vm qvelden vm aftansongh i sacrasti vrdu þeir herra jon biscup vilialmsson oc Einar bondi magnusson suo ofr eins vm þat godz sæm fell efter sira jon son hans intestatum ath Einar bondi skuldæ þat

alt at ser taka oc efter refla[1]) huar sæm þat væri standandi oc heimta vt skuldær þær sæm han etti hæimtta ath odrum monnum smaar oc storar vnder rettan ræikninghskap oc sin æidh . . . . huar sæm han veri skyldugr nokorum mannæ oc huer skuldæ sigh med logligum vitnum til læida firir herra biscupinum. skuldæ Einar bondi geyma alt hans godz fridt oc ofridt oc koma til mins herra jnnan halfs manadar oc gera honum ræikningh af þui ath herra jon biscup kallar sigh efter[2]) logum æiga gera med ollu hans godz oc radh firir skipa . . . . oc testamento. En huat sæm yfer þat lypi þotti honum [wera hæilagrar kirkiu æign[3]) oc æigi læikmann æiga med ath gera.

þessum monnum uerverandum sira vilialmæ . . . . .[4])syni oc jonæ egilssyni publico notario.

---

522. 29. Nóvember 1431. á Möðruvöllum.

Stephán Gunnlaugsson og Þórný Bergsdóttir selja Árna Einarssyni hálfa jörð á Dálksstöðum á Svalbarðsströnd, og á Árni upp í jörðina að lúka út ómagaeyri dætrum þeirra Geirríði og Helgu, þar þau eigi ekkert lausafé til.

AM. Fasc. IX, 6, frumritið á skinni. Innsiglin eru dottin frá. AM. dipl. afskrr. 162.

Þat giorer eg eÿiolfur hallsson þorsteinn þorsteinsson og olafur þorkelsson godum monnum vitturligt med þessu voru brefi at þar voru ver j hia saum og heyrdum a a dalkstaudum a sualbardzstrond at steffan gunnlaugsson og þorny bergsdotter eiginkona hans at þau selldu med handabandi arna einarssyni halfa jordina a dalkstaudum a sualbardsstrond er liggur j sualbards kirkiu sokn skildu fyrnefndir menn steffan og þorny at adrnefndr arne skylldi luka þat omaga gozs sem greindr stæffan atti at luka dættrum sinum geirridi og helgu þui adr nefndir menn steffan og þorny ættu þa eingin lausagoz til at

[1]) skr. r'fla, i skb.; [2]) Séra Snorri Jónsson (AM. dipl. afskr. 3696) les med, og kynni það að mega standast; orðið er klest; [3]) [svo les séra Snorri; Jón Sigurðsson les . . . . . kirkia æiga; [4]) eyða fyrir föðurnafninu í skb.

luka nefndum omogum geirridi og helgu en fyr nefndum arna bar þa til fiarhald þeirra epter laugum. skylldu þessir penningar koma firir greinda jord halfa dalkstade. Ok til sannenda hier um setum ver fyr nefndir menn vor insigli firir þetta bref skrifat a maudruuollum j haurgardal fimtudagin næsta firir andries Ϻesso þa er lidit var fra hinngat burd vors herra jehsu christi þushund fiogur hundrut þrir tiger og eitt ar.

---

## 523. 3. December 1431. á Reynistað.

Testamentisbréf ónafngreinds manns, er gefr ýmsar gjafir, einkum klaustrinu á Reynistað og systrunum þar, en bóla geingr um land.

AM. Fasc. IX, 9, skrá á skinni maukfúin og hefir aldrei verið innsigluð. Árni ritar á hjálögðum miða: »Testamentisbréf 1431. er klárt soddan sem þad kann skie og þarf alldrei meir ad skodast«. Afskript Árna finst nú meðal fornbréfaafskripta hans Nr. 334, og lýsir Árni þar skrá þessari nákvæmlega: »Ex pagina pergamenâ Bessastad. pagina inqvam pergamenâ non orginali, nec unqvam sigillis munitâ. Synizt vera fyrsta uppkast, scriptura n(am) coæva est, er illa skrifud, og rãngt vida, sem af þessarre copiu siã er. Er nu vida rotin og illa læs. nafned testatoris hefur hier alldri i staded, hverki in textu nie ã spatiunum. Distinctiones eru eingar i skrãnne, enn eg setti commata mier til skilnings[1]). þad sem under strikad[2]) er er ỏlldungis olæst. Þad sem puncta eru under var oskírt. Artaled getur ei annad vered enn tricesimo primo þvi t' er audsynelegt, ss. eru og audsien. Jtem o. quod ultimo loco est in tricesimo. primo clarum est. Hefur oefad komid til Bessastada, medal Reynistadar klausturs brefa, iafnvel þot(t) þad ei eiginlega komi Reynistad vid. Ratio, þar er bisna miked gefed klaustrinu og systrunum. Jtem Jlluga Biorgolfssyne er alltid var klaustrinu handgeingenn«. Nú er meira dottið úr bréfinu en þegar Árni lét afskrifa það.

Testamentisbref.[3])

in nomine domini amen giore [ek þetta mi]tt testamentvm hel[4]) ath samviz[kv] en krangr j likam.

j fyrstv ath e[k gef mi]g gvde j valld ok hans signnavdv modr ione postola ok petro [ivngfr]v[5]) katerinv ok ollvm gvds

---

[1]) Hér í útg. eru settir punktar sem aðgreiningarmerki; [2]) Hér í útg. i hornklofa [ ]; [3]) aptan á bréfinu með hendi Árna; [4]) Jta texta: lege heill (AM.) [5])þannig vill Árni útfylla eyðuna ellegar frv avn.

heilugvm monnvm. kiosande minvm likama legstad j forkirkivnne a stad gefande þar til asavdar kvgill[de] hia ollave stek
kvi(gillde) hia þorbirne.
asavdar kvgillde hia magnvse j gravf.
asaudar kvgillde hia ione a bessastavdvm.
asavdar kugillde hia asmvnde.
dala brvn en bakhe(i)la.
brvn en grada.
ravdan hest hia birne kek.
ravda mere med fyle.
mere vnder langa petre.
brvna mer[e] i kavldvkin.
aklæde stok læstan.
ione postola asavdar kvgillde hia petre langa ok gefizt [vndan leigan[1]) a ionsmesso.
systvr þorvnne hest brvnan.
þvride hvit klæde vij stikr.
systvr sigride kv a bessastavdvm.
þorv finsdottvr blatt fodr.
helgv biarnardottvr kistv ok abre(i)zl.
agnesv kistv ok lindaskære en hinum systrvm asavdar kvgillde hia asmvnde.
illvga biorgolfssyni sverd mitt ok hanzka.
iij ær j holzmvla [en] uj[2]) a stad.
þyngeyra stad kv hia einarre arnnarsyne. ok kv hia . . . . . halzsyni.
kvgillde havskvlzstada kirkiv er stendr i enne.
sira m[agn]vse kvgillde a ysta gili.
holtastadakirkiv kv a synzsta g[ili].
. . . . . jonssyne ij kyr a vakrstavdvm.
preste þeim mig olia[r . . . av]ra. en þeim mig syngr til moldar hest moalot(t)an.
fa[tekvm] kv a bessastavdvm. halft annath .c. j kosste firir vo[rv] er þar er. ok .j. c. a stad.
kv astride er stendr vestr j enne ef hvn lifer af bolvna en elligar hafe . . .
. . . fatekvm nv er vnder skvfi.

[1]) [virnndlegan(!) hdr.: [2]) eða iij.

. . . . . . tvævet hros.
ione a bessastodvm hest. b(r)ekan ok stak [brv]nan.
ione kettilssyni stak min en ravda ok hettv.
b(i)arnhedne folan ravda.
þorste(i)nne ionssyne savdvl minn ok be(i)sl ef hann lifer af bolvna. en stadren ella.
styrkare ivk mitt ok hossvr.
b(i)arna herdis(ar)s(yni) æ (er ek) a vnder oddabirne.
skal þesse min skipon standa obrigd nema ek giore adra sidar.
Ok til sanninda her vm setta ek mitt insigle firir þetta bref er giort var æ stad manvdagen fyrstan i iolafavstv anno domini m° cccc° tricessimo primo.

---

524. 8. December 1431. i Ögri.

Testamentisbréf Guðna Oddssonar, þar sem hann gefr ýmsar gjafir fyrir sál Þorbjargar Guðmundardóttur konu sinnar.

AM. Fasc. IX, 5, frumritið á skinni, og hefir annaðhvort aldrei verið innsiglað ellegar þá að nú er rist neðan af bréfinu, svo að ekkert sér til innsiglafaranna. Frumritið fékk Árni frá Páli lögmanni Vídalín, og var það komið frá Ögri. AM. dipl. afskrr. Nr. 961 (eptir frumbr.) og Nr. 2350 (einnig eptir frumritinu).

Testamentisbref.[1])
Effter Þorbiörgu konu gvodna Oddssonar Effter hana dauda og dæmda fyrer laungu.[2])

Jn nomine domini amen.
gerir ek gudini odzson suo fallid testamentum firir sæl þorbiargar gudmundar(dottur) kuinno minnar til fridar ok frelsis ok sannrar sýndalausnar ok hreinsanar hennar andar saker þess er hon matti eigi sialf firir sig tala saker skiottligs atburdar voueifligs dauda[3]) treystandi framarliga vpp æ nad ok myscun vors liufa lausnara at þet hefuer guds vili verit trvandi þui fastliga at vor herra iehsus christus kallar þa huern er hann er bezt vid buin:

---

[1]) með hendi frá 15. öld; [2]) með hendi frá 17. öld; [3]) Þorbjörg andaðist 3. Dec. 1431 (ártíðaskrá Vestfirðinga), og mun hún hafa dáið úr bólusótt, er þá gekk á Íslandi.

Jn primis kirkiu j augri med liki hennar smidiuuik.
jtem rekavik hia hofn til myra.
jtem fim kugilldi andresi postula til hols.
jtem vii c fatæcum monnum skulu gefaz tua(u) j augri innan siaundar.
item ii æ myrum j langa fostu.
jtem ii æ holi ad huitasunno.
jtem iic stadar kirkiu j sugandafirdi.
onnur ii c til sandastadar.
jtem c til eyrar.
c. til alftamyrar.
c. til hrauns.
c. til gnups.
c. til sæbols.
c. til alfuadals.
c. j hollt.
fiogur hundrut er þorbiorg gaf hinom goda gudmundi biskupi.
katrino odzdottr v c.
þorualldi halldorssyni skipid þet sem hia honom er
jtem modolfi landskylld af þernouik
osaudi c.
gudruno þorhallzdottur ku.
þorgerdi hermundardottr ku.

bidr ek fyrnefndur gudini vm. alla goda menn eincanliga vora frændr ok vini at þier minniztt sem optaz sælar þrattnefndrar þorbiargar. bidiom nu aller saman ok sierhuerr vm sig allzualldanda gud i vpphafi ok hans sætuztu modur iumfru sanctissimam mariam ok hin blezada petrum postula ok alla gudz helga menn ad greindar olmusor mætti verda tittnefndri þorbiorgu til eilifrar hialpar ok andligrar sadningar ollum kristnom sælum til licnar ok lausnar en vorum herra iehsu christo ok hans milldu modr til vegs ok virdingar vm allar allder allda.

Ok til sanninda hier vm sette ek mitt inscigli firir þetta testamentum bref giortt j augri j isafirdi in concepcione beate marie virginis anno domini ꝏ⁰ cd⁰ xxx⁰ primo.

prestinom þeim er syngur þorbiorgu mina til molldar skal hafa ii c.

var ek þa alheill ad viti en siukr litt j licama er ek giordi þessa ockra skipan.[1])

---

525. [1431].

Jón biskup Vilhjálmsson fær Ólafi Eyjólfssyni umboð yfir þeim peningum, sem standandi voru á Völlum í Svarfaðardal eptir séra Pál Teitsson dauðan.

AM. 235. 4to bls. 50, (Nr. 101) bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3677.

vm olaf stuttsson.

Ver jon med gudz (nadh) et cetera.

gerom godum monnum viturligt ath saker þess ath olafr Eyiulfsson hefer a ærfvingia vægna alla þa pæninga sæm saman[2]) uoro standandæ aa vollum j suarfuadadaal er sira pall tæitzsson fell fra er ver Ræiknum oss oc hæilagre kirkiu falna vera alla[3]) þa pæningha sæm þa voro þar saman standandi er sira paal dæydi En nu saker þerss ath greindr olafr hefer j settst alla fyrsagda pæninga þa frealsum ver honum hedan j fra i ath sitia oc ath geyma ollum godzsonum til næstu fardaga fridum oc ofridum vtan stocks oc jnnan suo framt sæm hann letur aftur koma alla þa peningar sæm þadan hafua brott faret (sidan) sira paall deydi vnder sinn suaræn bokaræidh oc bans afelli. vnder bindr greindr olafur sigh ath luka stadnum aa vollum oc oss alla vora pæninga ath næstum fardogum. fimttodum ver oc aftur ollum pæningum sæm þadan hofdu brott faret sidan sira paall deydi godum monnum nerveraudum oc adr var kuor[4]) sætt af vorum vmbodzmannæ. skal greindr olafur mæga bæida oc kræfuia allrar þeirrar skyldo sæm kirkonnæ aa lukast firir fardagh. skal hann hafua alla tolla sæm kirkiu bonda til bærr En giora oss Ræikninghskap af tiundum oc porcione.

Oc til et cetera anno eodem datum holis.

---

[1]) Guðni Oddsson andaðist 11. Dec. (áðrnefnd árstíðaskrá) eflaust þetta sama ár; [2]) Hér stendr: standa, í skb., en því er ofaukið; [3]) tvískr. í skb.; [4]) = kyr.

526. 1431

SAMNINGR Jóns biskups Vilhjálmssonar og Þorláks Sigurðssonar um sexæring.

AM. 235. 4to bls. 68, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3689.

Eodem anno vorum mit jon Egilsson pupplicus notarius. thomas pæis. þorgæir olafsson þar neri. sagum oc heyrdum vpp aa ath herra jon biscup vilialmsson fimttadæ aftur þeim sæxeringhæ sæm þorlakr siugurdzson hafdæ latedh færa til borgar oc herra biscupæn atti jnnan fiortan dagha fra sunnodæginom næsta firir jonsmesso biscups holensis til haufda j slættohlíjd. Ꞓn æf þorlakr giordæ æigi suo þa sagdæ min herra greindr þorlakr skuldæ suara honom þeim skada upp a sina pæninga sæm hann þar af fængu[1]) ef hann færdi æigi skipæt aftur j sagdan dagh.

---

527. [1431].

ÁVÍTUNARBRÉF Jóns biskups Vilhjálmssonar til Rafns lögmanns Guðmundarsonar um ýmsar sakir, og hótar biskup lögmanni banni.

AM. 235. 4to bls. 68, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3690.

Ver jon med gudz nadh et cetera

heilsum þig Rafnn loghmann gudmundzson medr þuilikre quediu sem þu ert af oss makligr oc heilagre kirkiu.

Oss er sannliga flutt af morgum welkændum mannæ ath þu hefuer orskurde yfuer sagt þeim pæningum oc godzsæ sæm helgi biarnason kændizst firir oss oc morgum odrum godum monnum lerdum sem læikum j kirkonæ a holum j gnupasuæit ath hann hefdi ath siær (tækit) a hola stadar jordu hardbak a slettu Ꞓn suaret var firir oss j stæfnodægi fyrnæfndz helga ath mestur partr af þui godzsæ var vpp rekin adr æn menn af skipbroteno komo aa landh er hann kændizst tekit hafua ath siær. oss oc heilagre kirkiu var þetta godz dæmdt aftur af helga af tolf monnum sem þeirra bref uottar þar vm giortt. Wer sogdum med fullom laga orskurdæ þeirra þenna dom loghligan med ollum sinum græinum oc articulis. her efter hefuer þu ænn af nyio Rafnn gudmundzson prof a tekit oc dom yfuer

[1]) svo skb.

næfndt oc orskurdh saght yfuer vorum landseta gunnlaughi asmundarsyni huern wer sealfuer til skipudum ath brænna þat sama skipflak sem wer funnom sealfer obrendt a holastadar jordu oc worræ. huat wer ræiknum wora oc hola kirkiu æighn til haldz efter loghum domæ oc vorum orskurdhæ. Þu Rafnn gudmundzson vartt sealfr nær mariemesso sidare j kirkonæ a græniadarstodum ath ver firirbudum huerium mannæ yfuer þesso male giora huorcki doma edr orskurdæ fyrr æn heilog kirka hefdi sinn Rett af þessu male. huat sem oss líjst þu æigi haldet hafua oc þigh framar jnn læidt j kirkonar logh domæn ahrærandæ oc worn orskurdh framar æn þigh bær. þuiat gudz logh oc heilagrar kirkiu æigu ianfnan fyrr ath ganga æn landz sem kristenrettr wottar æf a skilr. huar firer oss líjst þu oc aller þeir sæm j þessum malum oc domum oc orskurdum hafua verit oc framet sidan kirkonar domr oc wor loghligr orskurdr a fell oc wer firirbudum. hafuet þær aller viliandæ felt aa ydr fult kirkonar forbodh efter þui sæm gudz logh wotta ath huerr sæm setr sigh jnn j kirkonar logh framar en honum berr er bædi j gudz bannæ oc manna.

Nu saker þess ath wer vilium oc æigi mægum lengr þægia edr þola þylikan agangh oc ofsokn worre kirkiu veittan oc hennar Rætti. Þui ænn af nyio firirbiodum wer þigh Rafnn gudmundzson logmann optnæmdum oc alla adra med huerio nafnæ sem huerr ær orskurdh at segia. doma ganga ædr nænfna yfuer nokorum þeim malum ædr lutom sæm kirkona oc hennar rætt snerttr mæira ædr minna oc serliga yfuer þessu godzsæ oc skipbrotæ sæm Raak a hardhbak hola kirkiu jordh. vitandæ firir vist ath huerr sem þat giorer giora lætr oc giortt hefuer skal j fult forbodh falla oc fallen wæra oc vt settur af heilagræ kirkiu oc hennar sacramentis oc hueriom sæm æinom presti j woru biscupsdæmi firirbiodum wer þeim sacramenta væita en[1]) nokora gudliga skyldu adra vtan þæir oc þu Rafnn snwest til hlydnæ med gudh oc oss Ɛn huerier sæm hardna j sinnæ þriosku oc ofbeldi med ofsokn oc aagangæ med heilaga kirkiu oc hennar æigner oc mænn skulo vist vita af oss voon bans afellis oc æilif boluonar nema þeir bætri sigh med þessar uorar aminningar.

[1]) þannig = eða.

528. [1431].

Stundarstefna Jóns biskups Vilhjálmssonar til séra Þorkels Guðbjartssonar um ýmsar sakir.

AM. 235. 4to bls. 69, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3691.

Ver jon med gudz nadh et cetera stænfnum þigh þorkæll prestr gudbiarttzson stundarstefno firir oss heim til hola j hialtadaal faustudagen nesta efter michialsmesso er nu nest kæmr firir þa fyrstu sauk ath þu lyster þigh vera worn vmbodzmann oc heilagrar hola kirkiu yfuer þui skipæ sæm braut j fyrra sumar firir hardbak worre oc heilagrar hola kirkiu jordu oc til þin tokt bædi skip oc godz sem fullr æignarmadr oc lyster vera heilagrar hola kirkiu æign oc wora €n sidan leest þu kaupa sagdt halft skip oc godz þær til æighnar Ok skipter sidan þar medr sogdu halfo skipæ oc godze medr læikmænn efter þui sæm þu vildær oc þær likadæ oc samþyckter þat wisvittandæ med þeim ath þeir toku oc letus kaupa sæm þu þat godz oc skipbrot sem wer oc heilogh hola kirka attom halda med logum oc oss þetta sama skip oc godz uar sidan dæmdt af tolf lærdum monnum til haldz. giorandæ suo aller vittandæ j mote gudz logum oc heilagrar kirkiu rette oc j foorsmaan oc stoortt forþrot med oss oc uorn Rett.

jtem firir þa adra sauk ath nu j sumar rak einn engilskan bat ænn aa heilagrar kirkiu jordh oc vora firir nordan. huern þu selder vtan wortt orlof oc vilia oc tok(t) pæninga firir slika sem þu vildær edr leest adra taka efter þinnæ skipan oc tilskipadum radum.

jtem j þridiu græin ath þu hefuer handabandat þeim vitnisburdh med læikmonnum vtan uortt orlof j motæ oss oc hæilagrar kirkiu rætte.

jtem firir þa fiordu sauk ath þu baudt þigh til ath wera j samtakæ oc conspiracione med læikmonnum þeim sæm j motgangæ vildu vera oss til skada oc heilagrar kirkiu retti oc worum vildu hindra. þott þeir vildu þigh ecki i þui samtakæ hafua.

jtem firir þa fimttu sauk ath þu hafdær vm langan tima kirkonar vmbodh a holum badi profastsdæme oc onnor.

hwar firir wer þyckiumst ænn j dagh æigi hafua fullan ræikninghskap ne allan af þær fængit.

jtem firir þa settu sauk at þu tok(t) oc fangader sæm ræningia ragnfridæ gautadottur uora frendkonu heima a holum oc byrgder hana med sinom syni tolf vetra gomblum bædi saman mestu klædlaus j miklu frostæ oc kulda oc þa þau komu vt sa mænn hana bædi blaa oc bloduga oc þar med tokt þu vpp hennar godz an doms oc laga oc æi sidr þat godz sem reiknadh uar heilagre hola kirkiu oc hon skæindizst af þinom knifæ sem þu hafder a þær j ykaræ samæighn oc þu vilder henne þrugat hafua sæm hon hefuer fram boret firir oss optliga.

jtem firir þa vij° sauk ath goder bændr hafua oss sagt oc kærtt ath þu ridær optliga med marga wopnada mænn aftur oc fram vm bygder til litilla nytsemda æda ongra oc þu sealfr sæ wapnadr badæ hæilaga daga oc vircka synandæ þigh so mæir likan einom ribbalda oc hermannæ en preste giorandæ suo þuærtt j mote þinne prestligre ræglu. werdr þar af morgum monnum stortt vmak oc agangr med vrettligum peninga drætti þer sealfuom til vfrægdhar Єn oss til amælis oc hirtingharleysis.

jtem firir þa atto sauk ath wer hofum scrifat til þin þrimm sinnum edhr optar ath koma til wor til godra rada oc kirkonar nytsæmdar. hefuer þu þessi wor bodh oc bref litels virdt oc med ollu forsmaad oc aldræ viliadh til wor koma Єn giortt þer þar firir afsakan med draflæ oc osannendum.

Skaltu vera komen j nefndan stadh oc dagh firir oss loghliga stæfndr oc kalladr med ollu þino profuæ oc sannenda skilrikæ sæm þær ma vera til frægdar oc logligrar afbatanar vm oll þessæ maal oc vorar sakargipter adrnefndar oc þær flæiræ sem wer med logum mægum til profua heyrandæ þa þar þann doom edr orskurdh sem wer þar yfuer sæghium ædr saa ædr þæir wær skipum oc suara oss þa þar oc heilagre kirkiu Rettum logum Ok wær komæn firer hadægi sittiandæ suo længi stæfnnona med logbligum andsuarum sæm þesse maal oc vorar sakagifter siærhwer vm sigh mæghe til vægar ganga oc wer oc heilogh kirka hofum fullan rætt oc logh af þiær hwærtt sæm heldr næger tuæir dagar æn[1]) æin ædr flæire. setium wer þigh peremtorie firir loghliga stænfno dagha siærhwern vm sigh.

[1]) = eða.

529. [1431]

Erlingr Eyjólfsson vottar, að Þórðr Héðinsson hafi beðið sig að ríða til (Sjáar)Borgar og segja (Lopti) «bóndanum» (Guttormssyni) til manns eins, er kominn væri til nokkurs staðar hertygjaðr, og vottar hann um samtal þeirra hjóna Lopts og húsfrú Ingibjargar.

AM. 235. 4to bls. 74, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. Þetta er afarmáð. Ártal bréfsins sést ekki, en það mun án efa vera frá 1431 eða 1432. Næsta bréf á undan er frá 11. Nóv. 1431, en næsta bréf á eptir frá 8. Febr. 1432.

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . a holum . . . . . . . . . . . . . . herra jonæ biscupe . . . . . ellingr Eyiulfsson vnder [suaræn] æidh a boc ath þordr hædinnsson badh han rida til borgar oc sægia bondanum ath þar veri komin til hans . . . . . . oc . . . arbrysti . . . . oc onnor þingh oc ekki væit ek huer þau ero oc ek reidh til bondans til borgar oc sagdi honum suo feldt. En bondin suarade huat man mer aa liggia þau komi nær ban . . . . . vita flæire samþyckia ath han var . . . . boræn. þa kom hustruen jnghibiorg oc sagdi ath þat veri hæst ath taka af honum slikt sæm han hefdi huort sæm þat veri bref ædr annat bodh. bondin sagdi ath hustruen skuldæ næfnna þa til hon vildæ. komo þessir . . . . . . . jon jonsson. arngrimr bæssa(son). jorvndr pallsson . . . . . stæingrimr jslæifsson oc suo sændi þordr mik aftur . . . . . oc sea hvat sæm þæir gæymdu(?) sa ek ath arngrimr hielt a æino brefæno oc ek sa ath æin þæirra hellt a arbrystinu. fornam æk æigi huer sa var. handabandadi erlingr adr sitt maal oc . . . . a mijns herra dom oc hæilagrar kirkiu.

---

530. 1431.

Bréfságrip um Hraunsmúla, jörð Helgafellsklaustrs.

AM. 252, 4to bls. 53, skr. c. 1660; AM. 430, 4to bls. 14, séra Jón í Hítardal c. 1430; AM. dipl. afskrr. Nr. 1571 og Nr. 1644.

Hraunsmuli.[1])

Stijr Bonde Snorrason sellde abota Niäle Jôrdina Hrônsmula firer xijc.[2]) j lausafie. Anno domini 1431.

[1]) 430; [2]) xxj, 430.

531. [eptir 1431]

Lýsing Sigurðar Þórðarsonar (í Haga) í banalegu sinni, að hann skuldaði eingum manni neitt og ekki heldr Þormóði Ólafssyni.

AM. Fasc. LXIV, 21. óinnsigluð skinnrolla. AM. dipl. afskrr. 5786, eptir skinnrollunni. Sigurðr Þórðarson er með vissu enn á lífi 1431, en dáinn er hann fyrir 1439 eða á því ári.

Jn primiss lyste sigurdr þordarson þui þæ er hann giorde sinn Reikning j sinne banalegu adr enn hann var oliadr heill ad vite enn sivkur j likama at hann ætte avngum manne skvlld at lvka nema sira liote firir íí fiordvnga tioru. spurdu þeir epter syner hans sira greipur ok þordur huortt hann ætte aunga peninga at giallda þormode olafssyne eda hans erfingvm ok badu hann firir guds skulld til seia þat sem visse sanaz firir gude enn fyr nefndr sigurdr sagdiz þui villdv svara firir gvde at hann hefde lvkt adr nefndum þormode olafssyne fulla peninda ok alla sem fremzt uar hann honum skvlldvgur ok þo meir enn til kom.

Woru þesser menn hia þessare lysingh sigurdar [þordarsonar[1]) nicklas odzson[2]). olof gudmvndardotter. gudlaug magnusdotter. gvdrvn eyolfsdotter. Ragneidur sigmundardotter. jnguelldr þorallzdotter.

---

532. [eptir 1431]

Vitnisburðr Halls Alexanderssonar um ýms viðskipti þeirra máganna Sigurðar Þórðarsonar (í Haga) og Þormóðar Ólafssonar.

AM. Fasc. LXIV, 21. á innsiglaðri skinnrollu, hinni sömu og bréfið næst hér á undan. AM. dipl. afskrr. Nr. 5787, eptir skinnrollunni.

Jn primis er þetta vitnesbvrdr hallz alexsanzsonar.[3])

ek heyrda sigurd þordarson lysa þui firir mer at hann hafde fengit þormode olafssyne þriar kvikur[4]) ok þær savmu kvikur Rak ek savdr[5]) æ Rossmalanes firir þormod olafsson ok ek var hia fyrnefndum sigurde xx vettr ok ek vissa optt

[1]) [sonar þordar, hdr.; [2]) odzsonar, afskr.; [3]) þannig; [4]) = kvígur
[5]) = suðr.

nefndan þormod olafsson alldre sigurde peninga fæ ok alldreege peningum vnder hann koma svo eg vissa ok var ek hia optnefndum sigurde firir savnan havst ok vor ok ek vissa þormod olafsson koma til sigurdar þordarsonar med konv sina ok barnn mote þollaxmesso ok voro hiæ opt nefndum sigurde til næstu fardaga ok dotter hans gvdrvn kom til s(igurdar) þ(ordar)sonar at mariomesso æ þvi sama svmre ok voro þesser fyrnefnder men aller hia sigurde þordarsyne til næstv fardaga vpp æ hans kost ok her komv avnguer peningar med ne fyrir svo ek vissa. en ek vissa sigurd þordarson koma þormode olafssyne optt at gagne ok lide. var ek med sigurde æ Rossmalænese vm veturen þa er þ[ormod]r stak þria men niv[1]) stynge [allra] heilagra messo kvelld ok ek sa sigurd æ þui kuellde skeindan j neipene æ hægre hende. bar hann þenan æverka ath þormode[2]) olafssyne mage sinum ok ek h[eyr]da þa enna savmmv men er þorm[o]dr stak lysa þui at hann skyllde þeim alldre slopit hafa ef sigurdar hefde þæ eigi at notit ok þesser ennv savmv men gafv j valld sigvrdar þordarsonar þæ savmv skada er þormodr[2]) veitte þeim orlvngis kvitta.

---

533. **11. Janúar 1432.** **á Hólum.**

Ólafr Eyjólfsson sver þess bókareið að standa á dómi Jóns biskups Vilhjálmssonar um afhending þess fjár til Lopts bónda (Guttormssonar), er Katrín Klængsdóttir barnamóðir séra Páls Teitssonar átti, og lofar Ólafr biskupi og heilagri Hólakirkju trúrri þjónustu.

AM. 235. 4to bls. 51, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3679.

eidr oc lofan olafs stuttssonar.

Anno domini ꝏ° cccc° xxx° secundo faustodagæn næsta firir gæisladaghen j timbrstofuonæ a holum j hialtadaal suor olafr Eyiulfsson a boc ath þat godz sæm hann hafdi fængit lopti bonda er katrin klængzdotter barnamoder pals ættens hafdi att hafde hann honum æigi afhendt j nokot forþrot med

---

[1]) dálítið óvíst; sýnist helzt ritað: mv, eins og lesa ætti: mvstynge;
[2]) þormorde(!) — þormordr, hdr.

hæilaga kirkiu næ herra jon biscup vtan hann þænckti at greindh katrin mætti loghliga hafua þat gifuit sinnæ dottur oc þar med suor hann æi sidr aa boc ath læggia aftur herra jonæ biscupi adra jamgoda pæninga efter virdingu sæm .x. aurar sylfrs veri verdir ef hann gæti æigi þat sama sylfr aftur fængit af bondanum lopti sæm hann honum hafdi fængit af arfuæ greindrar katrinar oc ath standa a domæ heilagrar kirkiu oc herra biscupsens vm alt þat sæm greindr olafr hafdi þar vt j brotædh oc þat hann hafdi sæst j arf sira paals a wollum sagdi herra biscupen med sinom orskurdæ vpp a olaf fyrnæfndan .xxx. marka ath luka ath næstum fardogum þar næst æfter er min herra vill þat af honum hafua. item lofuadæ greindr olafuor greindum herra jonæ biscupi oc hæilagre hola kirkiu sina trv þionozstu opinberliga oc læyniliga oc min herra biscupsæn honum aftr j motæ sinom styrck oc hialp sæm herra biscupsins bref vottar er hann gæfur greindum olafui.

voru her nær sira siugurdr jonsson. suæinbiorn diaknæ þordarson oc jon Egillsson publicus notarius.

---

534. 7. Febrúar 1432. á Hjaltastöðum.

Árni Steingrímsson á Hjaltastöðum í Skagafirði festir Inguni Ólafsdóttur sér til eiginkonu.

AM. 235. 4to bls. 42, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3668.

vm arna steingrimsson oc Jngunne olafsdottur

Anno domini ṁ° cccc° xxx° secundo a fimtadagæn næsta efter kyndilsmesso † fæste ek arnnæ stæingrimsson a hialtastodum jngunne olafsdottur mer til æigenkono med minom godum vilia ok suo wæl hennar med samþyckæ ok radæ hennar faudurs olafs þæssum godum monnum ner verandum stæinmodæ stæingrimssyni ok markusæ oddzssyni ok wppa sama dagh kæyptæ ek hana mer til æigenkono stæindoræ jonssyni nerverandæ ok sæghiandæ firir okro kaupæ ok handabandæ ner verandæ fyrnæfndum wottum stæinmodæ. markusæ. annori stæindorssyni oc olafuæ magnussyni Ok olafui hennar faudur adrnæfndum ok læt ek lysa j hæilagre kirkiu okkar j millum. vill ek her æfter suæria ef þurfua þyckir.

at þorvardr hlaut. cc. hundrada oc halfan þridia tvg hvndrada j sitt hlvtskipti.

oc Eiricr broder hans jafnmicit j sinn hlut.

Enn Olof hlavt j sitt hlvtskipti. c. hvndrada j virdingargozi og [halft xiijc.[1])

oc Sofia[2]) annat jafnmicit j sitt hlvtskipti.

Hlotnadiz svo micit j smiore virt til kvgilldis. xx. fiordvngar firir hvert[3]) c.

þorvardr hlavt þar af [.lxc. og .xvjc.[4])

oc Eirekr broder hans annat jafnmicit j sinn hlut.

Enn Olof hlavt [.xxxc. og .viijc.[5])

oc Sofia annat jafnmicit.

[Oc til sannenda hier um.[6])

---

## 556. 28. Nóvember 1432. á Hólum.

Jón Vilhjálmsson biskup á Hólum tekr hústrú Margréti Bjarnadóttur til systralags á Stað í Reynisnesi, en hún gefr klaustrinu sextigi hundraða í þarfligum peningum.

---

[1]) [11242, 79, 67, 115, 27, Sýsl.; hálft seytjánda hundrað, JGiz., Ásg.; hálft xvj. hundrað 309; hálft tólfta 34; [2]) hlaut, b. v. JGiz.; [3]) sl. 309; eitt, JGiz. »ɔ: fjórðungr hver fyrir vj álnir« 115 (á spássíu); [4]) [11242, JGiz., 34, 79, 309; Lxxvc, Ásg., 27; Lxxc og vc, 67; Lxxijc, 115; sjötiu hundruð og tólf hundruð, Sýsl; [5]) xxxvj, 115, Sýsl.; Lxviii, 34; [6]) [11242, 309; sl. hin; »vantar þad meira er af þessu brefi« 67; 79 bætir aptan við: »Reiknudust þesse smior hundrad hundrada og LL hundrud og viij hundrud betur«. Í 115 stendr þessi athugasemd á eptir bréfinu, og á spássíu:

»jcc 36c í smjörvum eðr 3820 fjórðungar, sem gera 390 vættir«.

»NB. Loptr Guttormsson átti fjóra launsonu við Kristínu Oddsdóttur hjákonu sinni Ólaf, Orm, Skúla og Sumarliða. Ceciliu telja og sumir með launbörnum Lopts.

Hefur þetta fastagóz verið alls 43cc og 60c.

Í virðingargózi 6cc 75c.

og öðru 1cc 96c.

Summa summarum 51cc. iijc.

Hér að auki tilgjöf til launsona hans ɪxcc.

Summa Lxcc LLxjc.«

Aptan við bréfið í 11242 er ritað:

»Summa iiijc og ɪx tyier vætter.

Enn ad auratali xij firir iijc hundrada oc xx hundrut«.

AM. Fasc. IX, 18, frumritið á skinni; innsiglið er dottið frá. Bréfið er fúið og dottið á það stórt gat. AM. 280. 4to bls. 28—29, með hendi Hákonar Ormssonar c. 1640, og má fylla skallana eptir því.

Vær jon med gudz nadh biscup aa holum vidrkænnomzst med þæsso voru brefuæ ath sakær þærss ath ærligh hustru ok wor ælskoliga dotter marghrett biarnnadotter wil af hæilags anda nadh ok jnblestri ok godfysæ sins hiartta widr skiliazst þessa hæims glædi ok æfterlæti €n gæfua sigh vnder gudhliga þionozstu ok hæilagt ʀæglu hald in ordinem sancti benedicti abbatis ath stadh j ʀæynisnæsi j skagafyrdi suo længi sæm hon lifuer hedan af ok þar med gæfua klaustrinu [ok] kirko[næ] til hialp [ok] vpphældæ sextighæ hundradha j þarfligum pæningum faustum ædr lausum ok þ[ui s]am[þyc]kium [wer ok][1]) skipum ath þæssæ hennar gerningr ok gudligr vilæ standæ staudugur af woru [byskupligu valld]æ ath [ho]n jn ganghæ ok blifuæ systær j sogdu klaustri nær hon will til koma ok b[iodum wer[2]) vnder] kraptæ [hæ]ilagrar lydnæ ollum systrum ok radzmannæ sagdz stadar ok klaustrs med ollum hæidr ok g[odum vilia] med hennæ ath taka j systra samlagh ok gudliga Reglu hænnæ skipandæ sæmiligt hærbyrgæ j klaustrino þar til æina dygga þionozsto kono til þæss tima hon vigist til systor ok þa lutæ adra sæm hænnæ wæl þarfnazst lati hænnæ til ræido vera vtan alt hindr ok nokora talman.

Ok til sannænda ok mæire stadfæstu her vm þessarar vorar skipanar ok vilia settum wer uortt jnsigli firir þetta uortt bref vt gifuæt a holum j hialtadaal faustodagæn næsta firir andresmesso anno domini ꝏ⁰ cccc⁰ xxx⁰ secundo.

---

557. **1. December 1432. á Hólum.**

Bréf þriggja presta um það, að séra Þorkell Guðbjartsson fékk Jóni Hólabiskupi í umboði hústrú Margrétar Bjarnadóttur jörðina Hóla í Laxárdal, sem hún gaf í testamentum Rafns bónda Guðmundssonar bónda síns, og lofaði biskup að láta

[1]) ok, vantar í afskr. Hákonar Ormssonar líka; [2]) vantar í afskr. Hákonar líka.

segja þrjátíu sálumessur fyrir sál Rafns og kvittaði sál hans og líkama á guðs vegna, en ekki erfingja Rafns fyrir brotum Rafns við heilaga kirkju.

AM. Fasc. IX, 19, frumritið á skinni. Öll innsiglin eru fyrir bréfinu.

littera super terram holl i laxa(r)dall.
bref wm hola jord j laxardal.[1])

Ollum godum monnum þæim sæm þetta bref sea ædr hæyra Senda siugurdr jonsson suæinbiorn þordarson jon gamblason prestar quediu gudz ok sina kunnict gerandæ ath þar worum wer j hia sagum ok heyrdum vpp aa j timbrstofuonnæ aa holum j hialtadaal faustodagæn næsta firir andresmesso[2]) anno domini ꝏ⁰ cccc⁰ xxx⁰ secundo ath þæir heldo hondum saman af æinne halfuo hæidarligr herra herra jon med gudz nadh biscup aa holum æn annare þorkell prestr gudbiarttzson. handabandadhæ greindr sira þorkæll adrnæfndum herra jonæ biscupi ok hæilagre holakirkiu jordhina j holum j laxardaal j fullo vmbodæ hustrv margrettar biarnadottur ok þar med tiu kugildæ aa næstum fardogum til æuenligrar æighnar ok fræals forrædis er sogdh hustrv marghrett gaf holakirkiu ok biscupinom j testamentum firir saal Rafnns gudhmundzsonar bonda sins þuiath hennæ þotti hann æigi hafua giortt nokora minningh hæilagre hola kirkiu j sino testamento en herra biscupæn lofuadæ ath lata segia þriatighæ salomessna hæima aa domkirkonæ aa holum jnnan næstu fardagha firir saal næfndz rafnns bonda ok tuær salomessor huerr prestr ok brædra j hans biscupsdæmi. skulo sægia firir hans saal firir næsto fardaga. fraa skildæ ok vtan tok herra biscupæn erfwingia greindz rafnns vm nokora quittan firir þau brot sæm optnæfndr rafnn bondi hefdi brottligr wordit mot hæilagrar kirko loghum ok biscupinom ok hann vpp aa hans pæninga kærdi. æn gaf quitta hans saal ok likama a gudz wægna ok þa kirkiu sæm hann huiler ath af þui forbodi sæm hann hafdi læsa latedh firir honum sealfuom ok æfter hann latæn. þuiath þat suor sira þorkell adrnæfndr er næri uar andlatæ Rafnns bonda ath

---

[1]) Aptan á bréfinu með tvennslags fornum hðndum; [2]) = 28. Nóv.

hann hafdæ fullan vilia til hafdt ath settazst vidh hæilaga kirkiu huat sæm hann hafdæ med hana brottligur wordıt.

Ok til sannænda her vm settum wer fyrnæfndir prestar wor jnsigli firir þetta bref scrifat aa holum j hialtadaal manadagæn næsta æfter andresmesso a saumo aræ sæm [fyrr sægir.[1])

---

558. **24. December 1432. í Kaupmannahöfn.**

Samningr milli Eiríks konungs af Pommern og Henriks VI. Englakonungs út af ýmsu sundrþykki og óeirðum, er fram hafði komið meðal þegna beggja ríkjanna.

Dipl. Norv. VI, Nr. 446, eptir frumritinu í Ríkisskjalasafni Dana, England Nr. 1 b. Sbr. Lovsaml. f. Island I, 35; Grönlands hist. Mindesm. III, 163. Hér er þeim köflum slept, er ekki snerta Ísland.

•

Confederatz emellom koning aff Engelandt och koning Erick af Danmarck.

. . . . . . . . . . . . . . . . .

2. Articulus secundus, de dampnis jniurijs grauaminibus per Anglicos in terris Jislandie Halghalandie Finmarchie et ceteris terris ac portubus prohibitis in regno Norwegie postquam magister Willelmus Sprener legumdoctor et Johannes Grymmesby armiger anno preterito fuerunt hic Haffnis, illatis et presertim si ut fama tenet venerabilis in Christo pater dominus Johannes episcopus Schalholtensis in Jislandia[2]) uel sui familiares anno currenti dampna uel jniurias perpessi sint. prouideatur effectualiter per regem Anglie et cetera suumque regale consilium quod horum actores si qui reperiri uel deprehendi possint ita legali racionabili pena castigentur, prout fraternus regum amor requirit et transgressorum pena alijs transeat in exemplum. Alias verisimiliter pertimetur quod pax et amicicie inter reges et regna predictos sic solide seruari non possunt quemadmodum vtilitas reipublice et fraternalis regum amor expostulat et requirit.

3. Articulus tercius de hominibus quos Anglici abduxerant de regnis Dacie Swecie et Norwegie specialiter autem de terris

---

[1]) [aræ (!) frbr.; [2]) þ. e. Jón biskup Gerreksson.

Jislandie Ffinmarkie Halghalandie et alijs quibuscunque terris regni Norwegie prouideat cum effectu rex Anglie et cetera illustrissimus vnacum venerando consilio suo quod huiusmodi abducti absque fraude dolo et quouis quesito colore vbicunque et apud quoscunque sunt aut reperiri possunt in Anglia liberi dimittantur. sic quod proprias eorum terras natiuas uel alias vbi placuerit ad et in regna Dacie Swecie Norwegie expedite et absque impedimento quolibet cum primum voluerit reuerti poterint et laborum et seruiciorum suorum premia congrua consequi cum effectu. Et articulus iste publice proclamari et notificari debet per ciuitates villa et loca jnsignia Anglie infra annum a die dati presentis. sic quod iste idem articulus ad dictorum abductorum noticiam indubitanter valeat deuenire.

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

6\. . . . . . . Ceterum mercatores et alij vtriusque partis homines ac subditi confidenter et pacifice tam per terras quam per mare se mutuo visitare possunt in locis et portubus non prohibitis suasque mercancias legaliter exercere. jta tamen quod faciant et exhibiant debita vniuscuiusque loci ad quem peruenerint secundum quod ibidem debeat exhiberi. Caueant nichilominus omnino mercatores et alij quicunque homines et subditi regis Anglie et Francie et cetera ne decetero sub pena amissionis vite et bonorum visitare presumant terras Jislandie, Ffinmarchie Halghalandie seu alias quascunque terras prohibitas aut portus illegales in regnis Dacie Swecie et Norwegie. Similiter caueant homines et subditi regis Dacie Swecie et Norwegie et cetera sub pena premissa terras seu portus prohibitos et illegales regis Anglie et cetera visitare nisi hos uel illos euidens maris periculum aut tempestatum impulsus coegerint vbi tunc sub pena predicta minime mercari licebit . . . .

7\. . . . . Specialiter autem prouidere et consulere dignetur rex Anglie serenissimus effectuali complemento iusticie indempnitati et subditorum regni Norwegie ne sic de cetero sicud hactenus multis in retroactis temporibus corona ledatur et subditi per illicitas Anglicorum nauigaciones ad terras regni Norwegie prohibitas molestetur. ne quaquam enim saluis honore regio legibus et libertatibus eiusdem regni sicud nec prefatarum pacis et amiciciarum vinculo et alligancijs sustineri uel dissimulari potuerit amplius huiusmodi nauigaciones Anglicorum ad

sepedictas terras prohibitas et exinde secuta dampna et lesiones corone necnon inuasiones et offense subditorum.

Acta sunt hec in ciuitate Haffniensi Roschildensis diocesis anno ab incarnacione domini millesimo quadringentesimo tricesimo secundo mensis Decembris die vicesima quarta.

---

559. 23. Janúar 1433. undir Gnúpi í Dýrafirði.

Kaupmálabréf Hákonar Jónssonar og Oddfríðar Aradóttur.

AM. 253. 4to bls. 153, bók Ara Magnússonar, rituð um 1600.

Jn nomine domini Amen.

var suo felldur kaupmäli lystur ä Brullaupsdeigi oc sambycktur ä mille ærligra manna. Hakonar Jonssonar oc Oddfrijdar Aradottur. ad adurnefndur Hakon hefur til kaups med fyrrnefnda Oddfrijdi attatiu hundrada. Hier j mot hefer Oddfrijdur attatigi hundrada. kirkiubol j valþiofsdal oc þar ofan ä tuttugu hundrud. Gaf Hakon ädur greindri Oddfrijdi. oc huort þeirra odru sem leingur lifdi fiordungsgiöf vr fie sijnu. Jtem gaf þrättnefndur Hakon fyrrsagdri Oddfrijdi fimtan hundrada beckiargiöf. kiöri tijttnefnd Oddfrijdur med samþycki modur sinnar sig mälakonu j gard fyrrnefndz Hakonar. oc reiknadist mälinn hälfur tijundi taugur hundrada.

voru þesser Brullaupsvottar. liotur prestur helgason. sighuatur prestur Biarnason. Einar Jonsson. Halldor Jonsson. Sueirn Brandsson oc Teitur Magnusson leikmenn.

Og til sannenda hier vm settu vær fyrrnefnder menn vor jnsigli firir þetta kaupmälabref er giört var vnder Gnupi j dyrafirdi fostudaginn næsta post festum sanctæ Agate virginis Anno Domini ꝏ° cd°. xxx°. tertio.

---

560. 13. Febrúar 1433. á Hólum.

Jón biskup á Hólum kvittar Svein Hallvarðsson fyrir reikningsskap kirkjunnar á Ríp í Hegranesi.

AM. Fasc. IX, ad 10, frumritið á skinni. Brot er fyrir bréfinu af innsigli Jóns biskups hinu minna. AM. dipl. afskrr. 324. Í

sumum pappírsafskriptum, svo sem Landsbókasafni 107. 4to bls. 42—43, er þetta bréf árfært til 1425, og Jón Espólín (Árb. II, 20) árfærir það eins, og segir það auk þess gert um sumar, en hvorttveggja er rangt.

Medkienning Jons Byskups umm kyrkiugods a Rijp.[1])

Vær jon med gudz nadh biscup a holum vidrkænozst med þessu voru brefuæ ath suæin haluardzson hefuer lukt oss allt kirkonar goz a Rijp j skaghafyrdi ok þar med alt hennar ornamentum ok tiundær ok wer vppbarum alt sagdrar kirkiu godz ok suo firir fyrndh sagdrar kirkiu suo ath oss væl anæger þui gerom ver næfndan suæin allungis quittan ok akærolausan vm fyrsagda kirkiu ok alt hennar godz firir oss ok ollum kirkonar formonnum vorum æfterkomendum biscupum a holum. Ok til sanænda her vm settum wer uortt jnsigli firir þetta uortt quittonarbref vt gifuet a holum j hialltadaal faustudagæn fyrsta j langa faustu anno domini ᴍ⁰ cccc⁰ xxx⁰ tercio.

---

## 561. 15. Febrúar 1433. á Hólum.

Þorkell prestr Guðbjartsson vottar um skipti þeirra Jóns biskups á Hólum og Ólafs Eyjólfssonar, að Jón biskup lætr Ólaf fá þann part, sem Hólastaðr átti í Höfða í Höfðahverfi fyrir jörðina Héðinshöfða á Tjörnesi.

AM. Fasc. IX, 23, frumritið á skinni, og er innsigli séra Þorkels fyrir bréfinu.

brief um hofda i Hofdahuerfe.[2])

Þat gerir ek þorkell prestr gudbiartzson godum monnum viturligt med þæssu mino brefe ath ek sagdi firær handabandi virduligz herra herra jons med gudz nadh biscup(s) aa holum ok olafs Eyiulfssonar med suo firær skildu ath greindr herra jon seldi olafui fyrnæfndum parten þan holastadr atti j iordonæ ok stadnum j hofda j haufdahwerfui. her j moti gaf olafr jordina hedinshofda aa tiornesi med ollum sinom gognum ok gædum. skildæ olafr selia biscupinom aftur fyrstum sagdan

---

[1]) 107; [2]) Aptan á bréfinu með hendi frá 17. öld. Aptan á bréfinu er og latínsk fyrirsögn sama efnis og þessi.

partt j hofda ef hann vildæ selia. Ɛn ef olafs kynnæ med ath missa fyr æn hann seldi sagdan partt j haufda. þa skuldæ holastadr aftur æigha þann sama jardar partt j optnæfndum haufda Ɛn ærfuingiar olafs hædenshaufda fyrnæfnda jordh a tiornæsi. Ok til sannenda her vm setti ek mitt Jnsigli firær þetta mitt vittnisburdar bref scrifat aa holum j hialtadaal sunnodagæn firær Cathedram sancti Petri apostoli anno domini M° cccc° xxx° tercio.

Jtem heyrdi ek aldræ parten j haufda Ræiknadan med sannændum mæir æn þrætighæ hundradha. þan sæm holastadr atti en olafui Ɛyiulfssyni war seldr Ɛn þria luti niotighi hundrada i jordunnæ hofda optnæfndum heyrdi ek af mer ellri monnum ræiknadh beneficium ok þar haufdo aa (verit) tuæir prestar gudmundr prestr kalladr Coor ok Rafn prestr oddason er heldu þat sæm beneficium var Ɛn læigdu holastadar part firær þriu hundrot.

---

562.

## 21. Febrúar 1433. undir Hvassafelli.

Þrír menn votta, að Björn Sæmundsson seldi Oddi Snorrasyni jörðina Gautstaði á Svalbarðsströnd, en Oddr leggr í móti jarðirnar Miðvík í Höfðahverfi og Nes í Hnjóskadal og segir til ítaka.

AM. Fasc. LXVI, 6, frumritið á skinni. Þrjú innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en nú er að eins hið fyrsta eptir.

Gautstada Bref.[1])

Ollvm monnum þeim sem þetta bref sia edr heÿra sennda steinmodr havskavlldzsson. helgi jonsson ok þorgrimr gudmvnndzsson Q(uediu) gvds ok sína kvnnigth geranndi. ath þa er lidith var fra higat burrd vors herra jehsv christi þvshvnndrath. fiogr hvnndrat þrirtigir ok þriv ær a manvdaginn næsta firir peturs Messo[2]) a grytvbacka j havfdahverfvi. vorvm ver j hia sæmm ok heyrdvm a hanndabannd þessarra manna biörns sæmvndzsonar af annarri ælfvv enn oddz snorrasonar af annarri. at svo firir skildv. at ædr nefnndr biornn selldi fÿrrnefndum oddi

---

[1]) Aptan á bréfinu með hendi frá 17. öld. Þar sendr og með danskri hendi frá 18. öld: »Thingoe Syssel i Sualbardsogn«(!); [2]) Þ. e. 16. Febrúar.

jordina gavtzstadi. er ligr a svalbardzstraund med ôllvm gôgnvm ok gædvm. sem jôrdvnne hefir fylgt at fornv ok nýiv ok hon er nv stanndanndi. her j mot gaf ædr nefnndr oddr tittñefndvm birne tuær jardir er svo heita. midvíjk j havfdahverfi er liggr j lavfæsþingvm. ok nes j hnioskadal. med ôllvm þeim gôgnvm ok gædvm sem fýrrnefndvm jordvm hefir fýlgt at fornv ok nýiv ok þær eru nv. med samþycki gvdrvnar magnvsdottvr. kvinnv þrattnefnndz oddz. sagdi biorn til bænhvs skýlldar a gavtstavdvm. enn oddr skýlldi siælfr bænhvs vpp gera j víjk ok hafva vpp gert jnnan tólfmanada fra þeim tíma er biorn væri akærdv̄r vm. sagdi ok oddr til jtavlv at midvíjk ætti skipstavdv ok navstgerd j ýtztv vikar jôrd. enn tveggia hrossa beit j mote j midvikar jord. skylldv ok hvorir hallda fýrnefnndvm jordvm til fvllra laga er keypti. enn hvorr svara lagariptingvm a þeim jordvm er selldi. kynni ok tiv hundrada partvrinn j gavtzstavdvm med lavgvm af oddi at ganga. sa er holastadr hefir ætt. þa skylldi biorn lvka oddi forngillda tív hvndrada jôrd. edr tiv kvgilldi. Ok a sama vættfangi. adr enn þessi jardakavp forv framm. vorvm ver j hia. at oddr snorrason keýpti tiv hvnndrvth ath magnvsi oddasýni. þav er hann ætti j jordvnne midvíjk. ok gaf honum firir sex kvgilldi. tvô hvnndrvth j smiore. ok tvô hvnndrvth j slatrvm.

Ok til sannennda her (vm) settvm ver fýrrnefndir menn vor jnnzsigli firir þetta bref skrifath vnndir hvassafelli. j eýafirdi. a lavgardaginn næsta firir peturs ᴍesso. sama æri sem fýrr segir.

---

563. 17. Marts 1433. á Hóli í Bolungarvík.

Oddr (leppr) Þórðarson handleggr að afgreiða Jóni Ásgeirssyni alla þá peninga, sem Kristín sonardóttir hans hafði erft eptir Guðna föður sinn og Þorbjörgu móður sína.

AM. Fasc. IX, 25, frumrit á skinni. Innsiglin dottin frá.

Bref ad oddur þordarson handlagdi ad giallda Joni asgeirssyni alla þa peninga er kristin sonardotter hans hafdi att.[1]

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi.

Þat giorvm vær liotur prestur helgason ion þordarson olafr isleikxson godvm monnum kvnnigt med þessv uorv brefi at uęr uorvm þar j hia ath oddr bondi þordarson han(d)lagdi ione asgeirssyne ath afhenda alla þa peninga er kristinv sonardotter hans hefdi til erfda fallit epter gudena bonda faudur sinn ok þorbiorgv modvr sina sierliga augur ok þa peninga sem hvn mætte fremst med lavgvm eiga. skylldu þesser fẏʀ greinder peningar afgreidazt ath næstum fardavgum ok suo ei sidr kirkivnar goz. uæri fẏʀ nefndr oddr ei færr til afhendingar eda hans umbodsman uilldi j naukkurn mata talma utlẏkt þessara peninga þa skẏlldi fẏʀ nefndr ion ath frialsv j setiazt ok at ser taka titt nefnt goz ok jarder. Ok til sanninda her vm settvm uær fẏʀ nefnder menn vor insigli firir þetta bref giortt a holi j bolvngarvik næsta dag epter gvdmvndardag hola biskup(s) anno domini ↀ° cd° xxx° tercio.

---

## 564. 23. Marts 1433. i Vatnsfirði.

Hústrú Solveig Þorsteinsdóttir gefr Birni Þorleifssyni dóttursyni sínum hálfan Vatnsfjörð í Ísafirði með gögnum og gæðum, og skipar á jörðina ómagaskyldu um fimtán ár, og samþykti Kristín móðir hans þenna gjörning, en Björn má ekki lóga jörðinni.

Krigers safn Nr. 2. 4to, bls. 138—141, skr. um 1700, með hendi Styrs Þorvaldssonar. Arni Magnússon hefir haft bókina undir höndum og gert athugasemdir hér og hvar á spássíu.

Solveig þorsteinsdotter kona Biőrns Einarssonar gefur hälfann vatsfiőrd dottursyni sijnum Bijrne þorleifssyne.

Ollum monnum sem þetta bref sia edur heyra senda Hämundur Bärdarson. Philippus Guttormsson. þordur þorolfsson og Joseph magnusson. kuediu Guds og sijna. kunnigt giorandi. ad þar voru vier j hia. saum og heÿrdum ä. ad Hustru Solveig þorsteinsdotter gaf til fullrar eignar med handabandi Byrni þorleifssyni dottursyni sijnum Jȯrdina hälfa Vatsfiőrd j Jsafyrde med ȯllum þeim gȯgnum og giædum. hlutum og hlunnindum. sem greindri Jȯrdu fylger og fylgt hefur ad fornu og nyu. og hun vard fremst eigandi ad. gaf fyrnefnd Solveig og skipadi med skylldu. ad eirn omagi skylldi eiga

framfæri nm .xv. ar a sagdri Jórdu. helldur henne skylldur enn oskylldur. ef hverertveggiu væri til. enn þā tijma sem ei væri omaginn halldinn ā gardinum. þā skylldi gefast fātækum monnum hans forlags Eyri(r). skyllde fyr greindur Biôrn suara ôllum kirkiunnar Reiknigskap fra þvi er Hustru Solveig vard eigandi at Jorduni uppa sijna peninga. þessa sômu giôf og giôrning tijttnefndrar Solve(i)gar samþyckti Kristijn Biôrnsdotter dotter hennar med Handabandi. er þa var hennar erfingi med þessum skilmāla. ad ef Biôrn sonur hennar dæe svo. ad hann ætti eij skilgetid Barn edur Born eptir sig og lifdi hun honum leingur þa skildi hun sier aptur Jôrdina til fullrar eignar. enn undan hans Erfingium. skylldi tijttnefndur Biôrn hverki selia nie gefa. og eigi leggia māla i adurnefnda Jord þo hann gipti sig. og ā aungvann māta honum loga. nema hann villdi gefa hana Gude og Sancti Olafi. Lysti Hustru Solve(i)g þvi fyrir oss. ad þessi giôf skylldi snuast upp i hennar lôggiôf. ef nockur ākiærde þenna hennar giôrning.

Ok til sanninda hier um settum vær fyrnefndir menn vor jnsigli fyrir þetta bref. Skrifad i Vatsfyrdi i Jsafyrdi mānudag næsta fyrir Mariumesso i Langafosto Anno domini ꝏ. cd. xxxiij.

---

## 565. 16. April 1433. í Brautarholti.

Guðríðr Ingimundardóttir gefr staðnum í Viðey jörðina Hóla (Klaustrhóla) í Grímsnesi fyrir sál Vigfúsar Ívarssonar bónda síns og Erlends sonar síns.

Bréf þetta er hér prentað eptir Bessastaðabók í safni Árna Magnússonar 238. 4to bl. 24b, skr. c. 1570. Afskript af bréfinu er og í AM. 65. 8vo bls. 66—67 og meðal fornbréfaafskripta Árna 1788, og enn fleiri afskriptir eru til af bréfinu, sem allar munu stafa frá Bessastaðabók. Ártalið 1407, sem stendr í handritinu, fær með eingu móti staðizt, því að Vigfús er með vissu á lífi 7. Okt. 1415 (Dipl. Isl. III, 864—65). Í bréfi 15. Aug. 1420 stendr Guðríðr fyrir skulda lúkningum Vigfúsar til konungs, og er Vigfús þá dáinn, en í bréfi frá 5. Júlí 1432 er talið, að Vigfús hafi verið á lífi 4. August 1429, en það ártal mun rangritað, sé alt falslaust, og mun eiga að vera 1419. Þess er að geta, að sumar afskriptir árfæra eptirfarandi bréf til 1434 (sbr. Rymbeglu, Hafn. 1780 Corall. bls. 63; Safn II, 637), en ekki fær það heldr staðizt, því að Ívar junkæri Vigfússon lézt verið 1433 í Kirkjubólsbrennu, en hér er

hann enn á lífi. Eptir þessu getr því bréfið ekki verið eldra en frá 1419 (1429) og ekki yngra en frá 16. Apr. 1433. Bréfið er áðr prentað í Thomassögu erkibyskups ed. Eiríkr Magnússon, London 1883 II, formáli bls. clxix, og í Safni II, 636.

bref firir holvm j grimsnesi.

Þad giore ec gvdridur ingemvndzdotter ollvm godvm monnvm kvnnigtt med þesso mino opnv brefi. at eg gefur j heidur med gvd oc hans signada moder marie til æverndiligx bænahaldz til videyar stadar[1]) jordina sem holar heita med viij kvigilldvm. sem lig(g)ur j grimsnesi firir sal vigfvsar jvarssonar oc hans sonar ellendz sem gvd þeirra sal frelsi til æfverndiligrar eignar. med ollvm þeim gognvm oc gædvm sem til hennar liggur oc leigit hefur fra fornv oc nyiv oc avngvv vndann skilldv. svo framt sem ec matte framast med logvm hana eignazt.

Samþyckte minn sonvr jvar þessa mina giord med mier. Og til sanninda hier vm setti ec mitt innsigle firir þetta bref er giortt var j bravtarhollti jn̄ die sancti Magni martiris anno domini [M cd vij.[2])

---

566. 24. Mai 1433. í Krossavík ytri.

Þau systkin Ormr Eiríksson og Ragnhildr Eiríksdóttir selja Jóni Bjarnasyni þann part, sem þau áttu, í jörðinni Efstafelli í Ljósavatnsþingum, alls 26 hundruð, fyrir lausafé.

AM. Fasc. IX, 24, frumritið á skinni. Öll innsiglin eru dottin frá. Afskr. AM. 280. 4to bls. 65—66.

fells Breff 1433.[3])

Þeim godum monnum sem þetta bref sia ædr heyra sennda jon attlason jsleifr asmundarson anndres þorkelsson jon odszson þorsteinn odszson jon leifsson quediu guds ok sina kunnegt giorannde at subb anno gracie m° cccc° xxx° ííí° sunnodagenn næsta fyrer festum urbani j krossavik ytre j vopnnafirde voro

[1]) stadars(!) hdr.; [2]) [þannig 238, 65, 1788, sem ekki getr verið rétt. [3]) Aptan á bréfinu með fornri hendi. Árni ritar aptan á: »Um Efstafell i Liosavazþingum«.

ver j hia saum ok heÿrdum a handaband jons biarnasonar af einne halfo en orms eirexsonar ok ragnilldar eirexdottur af annare. selldo (þau) fÿrr nefndvm jone þa parta sem þau atto j jordenne efszta felle er ligr j liosavaszþingum. hann xviii havnndravd en hvn vi. havnndravd. med aullum þeim gaugnum ok giædum sem henne hefer fÿlkt at forno ok nyio at til re(i)knaudo grimstada lande ok afrett æ flateÿiardals heide halfs manadar eing j halldorostada jordu skog med vmmerkiom j barnafelsz lande eppter jafnnade vid aunnor sÿsken sin. s(k)yllde títtnefndr jon her j mote gefa adr nefndum orme .x. kvgillde en systor hans iii kvgillde. skyllde þrattnefndr jon alla sokn ok akiæro eiga a kirkiunar gosze frido ok ofrido ok nidrfalle kirkjonar en adr nefnnd sÿsken kvitt med kirkiona suo leinge sem þau hafa hallded. skÿlldo adrnefnd syskenn ormr ok ragnhilldr svara lagariptingo en þratt nefndr jon hallda til lag(a) greindre jordo. Ok til sannennda her vm settum uer fÿrnefnder menn uor jnnsiglle fyrer þetta bref skrifat j sama stad are ok dege sem fÿr seger.

---

## 567. 31. Maí 1433. í Saurbæ í Eyjafirði.

Vottorð séra Þorkels Guðbjartssonar og séra Sigurðar Jónssonar um bókareið Ólafs Eyjólfssonar, að síðan pláguvetrinn hefði einginn búið á Sjávarborg þangað til Benedikt (Brynjólfsson) dó, nema þeir sem leyfi hefði feingið af honum.

AM. Fasc. IX, 26 frumritið á skinni. Annað innsiglið er fyrir bréfinu. Í bréfabók Landsbókasafnsins 18. Fol. bl. 66 (á papír) er þetta látið vera dagsett »manudaginn í fardögum 1430«, sem er rangt, og er afskript sú í eingu góð.

bref wm siogaborg.[1])

Þat gervm vær þorkel prestr gudbiardzson ok sigurdr prestr jonsson godvm monnum kvnnikth med þessu uoru brefe ath sunnudagen j fardaugvm anno domini ℳ° cccc° xxx° tercio j savrbæ j eyafirde vorv vid j hia savm ok heyrdvm æ ath olafr eyiolfdzson sor svo felldan bokareid minvm herra biskup

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi.

nærverandum ath sidan plagvvetvren ok til þess benedekt deydi ok onguan bua[1]) a borg nema þa sem af benedikz tokv eda margretu havfdv frelse ok avngvan akæro veita ne ser jordena ath eigna adrir en þav benedi(c)t ok margret sidan partarnir uorv þeim eignader j borg ok þeim jordum fim sem þar ligia til. Ok til sannenda her vm settvm uid okkvr insigli firer þetta vittnisburdar bref giortt[2]) æ sama are ok dege sidar en fyr seigir.[3])

---

568. 2. December 1433. á Hólum.

Dómr þorkels prests Guðbjartssonar, fimm presta annara, tveggja messudjákna og fjögurra leikmanna, útnefndr af Jóni biskupi á Hólum, um sættargerð þeirra Brands Jónssonar og Magnúsar Benediktssonar í umboði Margrétar Eiríksdóttur móður sinnar um kirkjufén að Hofi á Höfðaströnd.

AM. Fasc. IX, 22, frumritið á skinni. Öll innsiglin eru nú dottin frá, og bréfið hefir orðið fyrir illri meðferð, svo það er nú víða því nær ólæsiligt. AM. dipl. afskrr. Nr. 294 eptir frumritinu, en skilr eptir kafla ólesna.

Domur fra hofi.[4])

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra Senda þorkell gudbiartzson. sigurdr jonsson bergþor halldorsson andres steinþorsson semingr magnusson. [jon] biarnarson prestar. Magnus jonsson þorgrimr jonsson messodiaknar brandr halldorsson jon jonsson þorlakr sigurdzson . . . . . fson leikmenn Quediu Gudz oc sina kwnnigt gerandi ath sub anno gracie M° cd° xxx° tercio a midvikodaginn næsta epter andress messo ath biscups stolinom a holum j hialltadal vorum ver i dom nefnder af heidarligum herra oc virdoligum fedr herra jone med Guds nad biscupe a hoolum ath dæma mille þeira brandz jonssonar oc magnuss benedictzsonar vm þa sætt sem þeir hofdu giort sin j millum vm kirkiu godzith ath hofue a hofdastrônd j þeim degi sem margret Eireksdotter moder magnus var logliga firir stefnd en magnuss benedictzsson hafde logligt vmbod margretar modur

[1]) þannig; [2]) orðið er fyrir ofan línuna; [3]) þ. e. 1. Júní: [4]) aptan á bréfinu með fornri hendi.

sinnar suared af tueimr skilrikum vitnum. var þetta þeira sætt fyrnefndra manna brandz oc magnusar ath magnus benedictzson handlagde ath luka brande fioretige kugillda oc tio hundrod j virdingargodze a næstum fardogum j suo mata ath brandr skylldi suara vid kirkiuna ath hofe halft þridia hundrad oc fioretige hundrada epter þui sem maldage kirkiunnar vtvisar suo framt sem biscup jon samþykti þenna gerning þeira. Nw af þui ath þessi þeira sættargiord fyrnefndra manna brandz oc magnussar var suarin af tuæimr skilrikom prestum. þess annarss ath biscup jon samþycti med handabande med brand jonsson þessa þeira sættargerd kirkiunar vegna a hofe oc sinna þui dæmdum ver fyrnefnder domsmenn þessa þeira sættargerd stodoga oc halldazt eiga med ollum sinom greinum oc artikulis oc optnefndan magnus benedictzson skylldogan ath luka fyrgreindom brande jonssyni a næstom fardogum fioretige kugillda oc tio hvndrod i virdingargodze enn margreto Eireksdottur kuitta bade vm eid oc suo vm peninga fyrsagda ath luktum fyrsogdum peningum þrattnefndum brande jonssyni.

Oc til saninnda her vm setti virdoligr herra biscup ion sitt incigle med vorum inciglum firir þessa vora samþyct oc vort domsbref scrifuat j sama stad dag oc ar sem fyr segir.

---

569. 1433.

Samþykt gerð á prestastefnu fyrir norðan land af Jóni biskupi Vilhjálmssyni og klerkum hans.

AM. 235. 4to bls. 15: Bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. Prentuð í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 582—83.

anno domini ꟿ° cccc° xxx° tercio

var þetta samþykt j prestastefnu af biskup ok ollum prestum.

Jn primis fyst er biscup ridr j uisitacione skal hann skoda kirkiur ok hennar eignir ok stadena ok stadarens peninga. bøkr ok skruda. alltare ok allt þat sem til gudz embęttis (heyrer). skal hann skoda oll sakramenta prestanna. þar næst skoda lęring lærdra sem leikmanna eda huerssu þeir hallda sina tru[1]) med

[1]) tur, skb.

gudz[1]) ok sina formenn andliga ok verdaldliga suo sem seger j kirkiunnar laga bok. serliga ath biscup skal ok Rada kirkiu ok kirkna eignu(m). tiundum ok tilgiofum. skipa þeim til ok fra epter þui sem hann uill med lærdra manna rade.

Jtem skaulu bændr ok prestar gera fullan ok allan reikninghskap æ ollum kirkna godzum ok serliga tiundum sem þeir vita firer gudze[1]) eda þeirra erfingiar ef þeirra kann vid ath missa þar næst ath setia ok semia lærda sem leika ok suo skylda til alla lærda menn ok suo leikmenn ath veita allan þan færleik sem þeir eru skylldir ath gera sinum biscupe þa hann visiterar sina kristne huort heldr þarf æ lande edr vottnum.

Jtem skipathe biscupen ok allir prestar samþyktu ath prestar take allar presttiundir ef þeir syngia fim messur ath haufutkirkiu.[2]) synge hann halfan saung eda meir take prestar allt kaup en bondr presttiundir allar.

Jtem villia ei lærdir sem leikir hlydnadz med biscup hirte þa fyst med andligth suerd þa med veraldligth suerd.

---

570. **11. Janúar 1434. á Hólum.**

Dómr um það, að Jón smiðr Úlfsson próventumaðr staðarins á Hólum eigi að vinna alla vinnu á staðnum, er biskup skipi, og taka það kaup, er honum var lofað.

AM. 235. 4to bls. 16: Bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3614.

Judicium jons ulfssonar anno domini (ꝏ° cd° xxx°) quarto.[3])

Ollum monnum et cetera.

manadagen næsta firir geisladag uorum uer til skipader æ holum j hialtadal af uirduligum herra herra jone med gudz nadh biscup æ holum ath dæma huerra suara edr sekta jon ulfsson yrde skyldugr firir þat ath biscupen kærde til hans ath hann hefde skilet ser meira kaup af honum en hann hefde til aunet þa tolf manade sem hann hefde uæret j biscupens Radum ok

---

[1]) þannig; [2]) haur' kirkiu, skb.; [3]) uppi á spassíu yfir þessu bréfi stendr: »et super hoc publicus adulter est deuictus per incestum prepetrauit peregrinam suam stuprando uiolando et de . . . .«.

leget siukr atta uikur. En nefndr jon sagdizt hafa skilet af ser ath saga vid. En biscupens bref vottade þat gert var vm Rad fyr nefndz jons ok profentu ath hann skilde smida stadnum. þar med þa þionosto (væita) er stadarens formonnum æ holum þætte nyttiligazt. ok saker þess ath jon uar þár logliga firir kalladur ath hann vndir legiandi uorn dom dæmdum uær fyrnefnder menn þrat nefndan jon skyldugan ath uinna stadnum æ holum alla þa vinu sem hann er til fær aungre aundan tekenne. ok stadarens formenn uilia honum skipa. En hann eiga ath hafa þat kaup sem honum var lofat med audrum skilmalla suo leinge sem hann er Raden. kunne jon ath verda siukr edr sar dæmdum uær aptr af hans kaupe til stadarens tolf alner a huerri uiku suo leinge sem Raden standa.

ok til et cetera.

---

## 571. 14. Febrúar 1434. i Reykjaholti.

Þorkell prestr Ólafsson og Jón prestr Magnússon lýsa því, að þeir hafi lofað að gefa Eyjólfi mókoll Magnússyni hvor um sig tuttugu hundruð til kvonarmundar, ef hann kvæntist í þann stað, að hann feingi fulla peninga í mót sínum.

AM. Fasc. IX, 28, frumritið á skinni. Innsiglin eru dottin frá; bæði IX, 27 (Nr. 574) og 28 með sömu hendi; AM. dipl. afskrr. Nr. 1684 (eptir frbr.).

Þetta heyrer til mokolli magnussyne.[1])

Þat gerum vid þorkell prestr olafsson ok sira jon magnusson godum monnum kunnikt med þesso ockro brefi ad vit medkennumz at vid hofum lofath[2]) eyiolfi mokoll magnussyni til kvonarmundar ef hann giptiz j þann stad sem hann fær fulla peninga j mot sinvm xx° hvndrvdvm huor ockar. hefir sira þorkell lofad honum .xx°. hundrada jordv at tiundar lagi ellegar sextan hvndrada jordu ok þar til cccc. enn sira jon .x. kugilldi ok .x. hundrvt j þarfligo gozi.

ok til sannenda her vm settum vid fyrr nefndir menn ockr jnsigli fyrir þetta bref skrifat j reykiahollti sexttanda kalendas martij anno domini ꟿ° cd° xxx° quarto.

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi; [2]) hér stendr eitthvert stutt orð sem sýnist vera ofaukið og yfirstrykað.

572. **15. Marts 1434. í Núpufelli.**

MAGNÚS bóndi Jónsson selr Einari Eiríkssyni jörðina Teig í Hrafnagilsþingum með tilteknum kvöðum og ítökum, en Einar leggr í móti jörðina Kálfskinn í Árskógsþingum.

AM. Fasc. IX, 35, frumritið á skinni; hafa verið fyrir því átta innsigli, en þau eru nú öll dottin frá nema eitt. Árni ritar á það, að það sé Munkaþverárklaustrsbréf. Afskript af bréfinu með hendi Hákonar Ormssonar er í AM. 280. 4to bls. 75—76.

kavpbref vm teig.[1])

Þeim godvm monnvm sem þetta bref sia edr heyra senda bergþor prestr halldorsson arne einarson þorsteinn havskvllzson jon arnorsson grimr palsson skeggi sigurdarson ok grimr ionsson quediv guds ok sina kvnnigth geyrande ath vær vorum ihia savm ok heyrdvm a ath magnus bonde ionsson sellde einare eirekssyne iordina teig er liggur i hrafnagils þingum med ollvm þeim gavgnvm ok gędvm sem hann vard fremst eigande ath til fullrar eignar. sagde fyr nefndr maguvs ionsson ath iordin ætte halfs manadar teig firer handan æ suo ok ei sidr sagdi magnvs ath þar ætte ath uera æfinlega kristfiar omagi ok lambselde fra mvnkaþuera. hier i moth sellde einar eireksson opth nefndvm magnvsi ionsyni iord er heiter kalfskinn er ligr i arskogs þingum ok þar til fimtan kugillde. skillde lvkazt ath næstvm fardaugvm. sagdi opth nefndr einar ath þar uęri bænhvs skyld ok uęre nidr hrapad. skillde magnvs bęta up bænhvsid a nefndri iordv ok suara ollvm skylldvm firer a sina penninga en einar kuittr ok vid skilldr. skilldi huor vm sig hallda til laga fyrnefndvm iordvm ok svara laga riptingum æ eptir þvi sem lavg giora rad firer. Ok til saninnda her vm settvm uęr fyrnefndir men uor incigli firer þetta kavpbref er skrifad var i hnvpafelli manadaginn næsta firer gvdmvndardag anno domini M° cd° xxx° quarto.

---

573. **21. Marts 1434. á Hólum.**

JÓN biskup á Holum selr Þórði Árnasyni jörðina Geitaberg á Hvalfjarðarströnd, en Þórðr gefr á móti hálfa jörðina undir

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi.

Fjalli í Slettuhlíð með tilgreindum rekum í öðru lagi og þar að auki að lúka tólf kúgildi, sem greiðist á tveim árum.

AM. Fasc. IX, 31, frumritið á skinni. Fjögur innsigli eru fyrir bréfinu, en tvö eru dottin frá.

vnder felle vm rekaparta j bardz þingum.[1])

Ollum monnum þeim sem þetta brefe[2]) sia edr heyra senda andres steindorsson semingr Magnusson prestar þorlakr sigurdzson sigurdur palsson þorgeir olafsson brandr oddzson leikmen quediu gudz ok sinna kunnikt gerande ath sub anno gracie M° cd° xxx° quarto jn dominica palmarum vorum ver j hia saum ok heyrdum æ j timburstofunne æ holum handaband virduligs herra herra jons med gudz nadh biskups æ holum af annare alfu En þordar arnasonar af annare alfu ath biskup jon selde þorde arnasyni jordena æ geittaberge er ligr j saurbæiar þingum æ hvalfiardarstraund med ollum sinum gognum ok gædum sem greindre jordu hefer fylgt ath fornu ok biskupen vard fremzt eigande ath ok þordr geirmundzson selde honum til fullrar eignar. skal biskupen svara laga Riftingum æ greindre jordu En adr nefndr þordur hallda til laga. her j mott skal þordr gefa jordeña halfa vnder fialle er ligr j felldz þingum j slettahlid med ollum þeim gognum ok gædum sem fyr greindre jordu fylger ok fylgt hefer ath fornu ok nyiu. þar til fiordungspart j Rekka fra skarfasteine æ straumnese ok til hladbergzts ok fiordungs part j littla ba(c)ka Rekka er ligr j bardz þingum. her med skal hann gefa oss tolf kugilde ok luka vtt æ tueimr ærum nema nefndr þordr vile fyr luka. skal fyr greindr þordr suara laga Riftingum æ greindre jordu ok paurtum en biskupen halda til laga. tok hann þessa jord ok parta firir tolf hundrud.

Ok til sannenda her vm settum ver fyr nefnder men vor jnsigli firir þetta kaupabref skrifat a sama are ok dege sem fyr seger.

---

[1]) Aptan á bérfinu með fornri hendi. þar er og utan á áskript á latínu; [2]) þannig.

574. 18. April 1434. i Reykjaholti.

Þorkell prestr Ólafsson og Jón prestr Magnússon lýsa því, að Þorkell prestr hafi gefið Eyjólfi Magnússyni tuttugu hundruð til giptumála, en séra Jón gefið Eyjólfi bróður sínum tíu kúgildi og tíu hundruð í þarflegum munum.

AM. Fasc. IX, 27, frumritið á skinni. Innsiglin eru dottin frá. AM. dipl. afskrr. Nr. 1685 (eptir frumbr.).

mokollz bref.[1])

Þat ger[um] vid þorkell prestr olafsson jon[2]) magnusson prestr godum monnum kunnikt med þesso ockro brefi ad eg adr nefndr sira þorkell medkennumz ad eg hefir gefit eyiolfi magnussyni til gipto[m]ala sextan hvndrada jord ok þar til fiogur kugilldi elligar xx⁰ hvndrada jord epter fornu tiundarlagi huort sem mig bihagar betr vti ad lata.

jtem gefur eg nefndr sira jon[2]) eẏiolfi brodr minum .x. kugilldi ok .x. hundrut j þarfligum peningum.

afskilio vid ockr her nockora peninga fyrir. skal han hafa þessa peninga kuitta ok ækærolausa fyrir ockr ok ockrum erfingium.

ok til sanenda her vm settum vid fẏr nefndir menn okkr jnsigli fẏrir þetta bref skrifat j reẏkiahollti sunno(daginn) næsta fyrir jonsmesso holabiskups anno domini ꝏ⁰ cd⁰ xxx⁰ iiij⁰.

---

575. 18. April 1434. á Sjóarborg.

Björn Þorleifsson selr Eyjólfi Arnfinnssyni jarðirnar Voga á Rosmhvalanesi og Gunnólfsá í Ólafsfirði fyrir jarðirnar Þernuvík, Efstadal, Ós, Hanhól og Gil á Vestrlandi.

AM. dipl. afskrr. Nr. 761, með hendi Arna Magnússonar «Ur gömlum pappirsblödum in 4to fra Hole i Bolungarvik».

Aullum monnum sem þetta brief sia edur heyra. senda Stein . . . . . nzson. gisle þorgilzson. Eingemundur þorsteinsson. Helge . . . alldzson og Eigill Magnusson. kvediu gudz og sina. ku[nnugt] giorande þa lidid var fra hingadburd vors herra Jhesu

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi; [2]) ritað svo í skbr.: jmj, eins og það ætti að vera Ími, en á þó víst að lesa Jón, sbr. Nr. 571.

Chri[sti] M CCCC 34 ar a sunnudægen nærstan fyrir Jonzmessu [Holabi]skups ad þar vorum vier i hia saum og heyrdum a a Sioa[r-bo]rg i Skagafirde handaband og ord[1]) þeirra Biaurns þorleifsso[nar] og Eyolfs annfinssonar. ad svo fyrir skildu. ad adur greindur Biorn sellde Eyolfe iarder tvær er svo heita: Vogar a Rosm-hualanese er liggur i Kalfatiarnarþijngum fyrer sextije hundrud. gunnolfsæ. er liggur i Olafsfirde i Kvijabeckiarþijngum. fyrer tuttugu hundrud [og hier til] 4. kugillde. Hier i mot giefur Eyolfur optnefndum Birne iarder 5. er liggia a Vestfiordum. er svo heita: þernevijk og Efstedalur. er liggia i Augurþijngum. fyrer sextan hundrud og tuttugu. Os 4e og tuttugu. hanol 12e. gyl 12e. er liggia i Holsþijngum i Bolungarvijk. Skylldu þrattnefnder menn Biorn og Eyolfur. hvor um sig. sijnum jordum hallda thil laga og svara lagariptingum hvorar sem brigdast kunna fyrr greindar iarder. Och til sanninda hier um setium vier fyrrnefnder menn vor innsigle fyrer þetta iardakaups brief. sem giort var sama stad are og deige sem fyrr seiger. og til meire audsyningar og sanns vitnisburdar sette Eyolfur arnfinnsson sitt innsigle med fyrrgreindra manna Jnnsiglum.

---

576. 19. April [1434]. [á Hólum].

Dómr um Bjarna Sigurðsson, er ráðinn var hjá Jóni biskupi Vilhjálmssyni, en hljóp burt úr verinu.

AM. 235. 4to bls. 16, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3615.

Judicium biarna sigurdarsonar.

Ollum monnum. et cetera.

manadag næsta eptir jonsmesso hola biscups vorum ver ij dom nefnder af virduligum herra herra jone et cetera ath dema huera suara edr sekta ath biarne yrde skyldugr firir þat ath biscupen kærde til hans ath hann hefde hlaupet burt vr verenu halfum manade fyr en hann atte ok hann lyste þui ath hann hafde nogan matt. þui er þat vor domr ath ver dæmdum hann

---

[1]) ad(!) hdr.; Arni leiðrétti.

skyldugan ath abyrgiazt þa skreid sem hann lett þar eptir ok svo mikla skreid sem þar hlydz a eptir þat hann var ij burt ok afenda þessa skreid alla ospilta firir jonsmesso biscupi ij haund eda hans vmbodzmanne.

Ok til sannenda et cetera.

---

577. 19. April 1434. [á Hólum].

Dómr sex manna útnefndr af Jóni biskupi Vilhjálmssyni um Kára Gunnarsson, er drepið hafði hest biskups.

AM. 235. 4to bl. 44, (nr. 95), bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3675.

Domr vm kara.

Ollum monnum et cetera senda andres steindorsson semingr magnusson broder jon bernarson broder einar ysleifsson prestar. Magnus yonsson diakne ok sigurrdr palsson leikman quediu gudz ok sina kunikt gerande ath sub anno gracie M° cd° xxx° quarto vorum ver ij dom nefnder af virduligum herra herra yon med gudz nadh biscup æ holum æ Manadagen næsta firir yonsmessu holabiscups ath dæma huerra suara edr sekta ath kare gunarson yrde sekr firir þæ ækæru ath biscup yon kærde til hans ath hann hefde drepet hans hest. þui er þat ij fyrstu vor domr ath vær dæmdum kara logliga firir kalladan ok kara skylldugan ath luka biscupinum aptr jafngodan hest ath næstu fardaugvm nema kare gette þat synt med tueimr vottum ath hann hefde eige af þui daet sem hann meid(d)e hann. skal hann þesse prof leida jnnan seio natta elligar fallen æ mallenu.

Ok til et cetera.

---

578. 28. April 1434. i Vestminster.

Henrik Einglakonungr hinn VI. bannar öllum þegnum sínum að fara til fiskiveiða eða verzlunar til skattlanda Noregskonungs, einkum og sér í lagi til Íslands, Finnmerkr og Hálogalands, en Noregskonungr hafði heitið Einglendingum sömu verzlunaréttindum í Björgvin og Hansakaupmönnum.

Rymeri Foedera ed. Holmes V, I, 6. Henrik VI. 12 ár.

Super stapula regis Daciæ.

Vicesimo octavo die Aprilis, anno duodecimo apud Westmonasterium concordatum fuit quod fiat warrantum sub privato sigillo in forma subsequenti.

Henricus dei gratia rex Angliæ et Franciæ et dominus Hiberniæ, dilectis et fidelibus nostris, ballivis et custodibus cæterisque officiariis villæ de Chepstowe in partibus Southwalliæ Salutem.

Cum nos nuper ex intimatione carissimi avunculi nostri, regis Daciæ, Norwegiæ et Sweciæ acceperimus qualiter idem Avunculus noster,

Considerans multiplicia et grandia pericula, dampna et dispendia, quæ tam sibi et suis, quam aliis forinsecis extraneis etiam amicis, et specialiter subditis nostris de regno nostro Angliæ, ex introitu ingressu et transitu personarum hujusmodi forinsecarum et extranearum in regnum suum Norwegiæ et alia dominia, districtus, territoria, jurisdictiones et loca sibi subdita et subjecta præsertim in insulas suas de Island et Fymmarck et alibi tam in personis quam in earum rebus et bonis nuper evenerunt,

Pro vitandis hujusmodi perditionibus, periculis, dampnis et dispendiis et ne similia (quod absit) evenirent in futurum,

Ordinavit et statuit quod omnes et singuli extranei, tam Anglici, quam alii, ad et in regnum suum Norwegiæ et alia dominia, districtus, territoria, jurisdictiones, insulas, et loca prædicta, causa optinendi vel habendi pisces aut aliqua quæcunque mercandisas sive bona, navigio applicare et accedere volentes, applicent et veniant ad villam suam de Northeberne,

Ubi dictus avunculus noster stapulam suam pro concursu extraneorum et specialiter Anglicorum ad exercitium hujusmodi mercandisarum statuit et specialiter stabilivit,

Concedendo dictis Anglicis quod ipsi ibidem gauderent, in omnibus et per omnia eisdem favoribus, privilegiis et prærogativis, quibus gaudebant ipsi de Hansa,

Nos igitur

volentes dilectionem, affinitatem et amicitias,

quæ inter præfatum avunculum nostrum, inclitæque memoriæ

nobiles progenitores suos, regna, terras, dominia, districtus, territoria, jurisdictiones et loca sua prædicta, ac nos et inclitæ recordationis nobiles progenitores nostros vasallos, subditos, regna, terras et dominia nostra ab olim et longissimis retro temporibus coaluerunt,

Firmiter observari, nec aliquid per nos (quod absit) aut nostros attemptari vel fieri, per quod hujusmodi amicitiis præjudicium aliquod irrogari posset vel inferri, aut inimicitiæ, dissensiones vel debatæ gererari,

De avisamento dominorum spiritualium et temporalium ac communitatum regni nostri Angliæ in Parliamento nostro apud Westmonasterium anno regni nostri viij. tento, congregatorum,

Statuerimus, prohibendo, ne quis ligeorum seu subditorum nostrorum de regno nostro Angliæ, propriæ temeritatis ausu, contra ordinationem, prohibitionem et interdictum ipsius avunculi nostri, superius memorata, et in contemptum eorundem regna, terras, dominia, districtus, territoria, jurisdictiones et loca dicti avunculi nostri prohibita ingredi seu intrare præsumat, sub poena forisfacturæ omnium bonorum suorum mobilium et imprisonamenti personæ suæ ad voluntatem nostram, prout in statuto nostro prædicto plenius continetur,

Vobis præcipimus, firmiter injungentes, quod statim visis præsentibus, in singulis locis infra villam prædictam et præcinctum ejusdem ubi melius fuerit faciendum ex parte nostra publice proclamari et inhiberi faciatis, ne quis cujuscunque gradus seu conditionis regna, terras, dominia, districtus, territoria, jurisdictiones, insulas seu alia loca dicti avunculi nostri, contra ordinationem et statutum sua prædicta, aut inhibitionem nostram de cætero ingredi seu intrare præsumat, quouis modo, sub poena supradicta.

Et si aliquos inveneritis contraiium a modo facientes, seu ad hoc se disponentes, aut qui transierunt, tunc ipsos sine dilatione arestetis, et in prisona nostra salvo et secure poni et custodiri faciatis ibidem moraturos quousque pro earum deliberatione aliter duxerimus demandandum, ac omnia bona sua mobilia, tamquam nobis forisfacta in manus nostras capiatis.

Et ad nos de omni eo, quod feceritis in præmissis, districte et aperte, sine dilatione, in cancellaria nostra reddatis certiores;

taliter vos in executione præmissorum habentes, ne per accessum ligeorum nostrorum ad loca ipsius avunculi nostri prædicti, præsertim ad Islandiam, Fymmarchiam et Halgalandiam, statuta, ordinationes et inhibitiones in hac parte hinc facta conclusa, et determinata, quoquo modo (quod absit), lædantur, violentur, seu infringantur.

Et hoc sub gravi indignatione nostra et sunt vos indempnes erga nos in hac parte præservatos volueritis, nullatenus omittatis.

Datum et cetera.

---

## 579. 7. Maí 1434 á Grenjaðarstöðum.

Jón prestr Gamlason selr Þorkeli presti Guðbjartssyni jarðirnar Strönd við Mývatn, Bæ og Bjarnastaði í Bárðardal, og kvittar hann fyrir andvirði þeirra; svo og kvittar hann Þorkel prest fyrir andvirði jarðarinnar Breiðumýrar, er hann hafði selt honum.

AM. Fasc. IX, 29, frumritið á skinni. Innsiglið er dottið frá. Þetta bréf er með sömu hendi og Fasc. X, 5 (11. Maí 1437) og mun það vera hönd séra Þorkels Guðbjartssonar, og er með norskum blæ.

Þath gerer ek jon prestr gamlason godvm monnvm vitrlegt med þessv ϖinv brefe ath ek hefer sellt þorkele prest gvdbiartzsyne iarder þriar stravnd vit mývatnn i skvtvstada þingvm oc bæ er stendr i bardardal i liosavatz þingvm oc biarnarstade er stendr i bardardal i lvndarbrekkv þingvm med ollvm þeim gavgnvm er þessvm iordvm fýlger oc fýlgt hefer at fornv oc nyiu oc ek vard fremzt eigande ath firir þriatigi hvnndrada oc þessa peninga alla hefer hann mig lvkt oc afhent. þar med hefer hann mer lvkt alla þa peninga er ek atta nær honum oc hann hefer vmbod ifer oc hann lvkte mier firir iordena æ breidamýre er ek sellda honum oc þvi gerer ek hann avrlvngis kvittann oc akiærvlavsann firir mier oc ollvm minvm erfingivm vm alla þessa peninga. oc til sannenda hier vm setta ek mitt innscigli firir þetta kvittvnarbref er skrifat var æ greniadarstavdvm i reykiardal favstvdag næstann efter vppstigningardag anno domini ϖ° cccc° xxx° quarto.

---

580. 12. Mai 1434. í Hjarðarholti.

Páll prestr Bjarnarson selr Sigríði Þorsteinsdóttur jörðina Kambsnes í Laxárdal og kvittar fyrir andvirðinu.

AM. Fasc. IX, 34, frumritið á skinni. Fjögur innsigli eru fyrir bréfinu, en þrjú eru dottin frá.

Ollum godum monnum þeim sem þetta bref sea edr heyra senda Ormur Loptzson. þordr þorstæinsson. Magnus Aurnolfsson. Olafr jonsson. þorstæinn magnusson ok are markusson. Quediu guds ok sina kvnnegth gerandi. at sub anno gracie M° cd° xxx° quarto j hiardarhollti j laxardal miduikudaginn næsta firir huitasunno Worum vær j hia sám ok hæýrdum a hanndabannd þeirra pals prestz biarnarsonar ok sigridar þorstæinssdottur at suo firir skildu at greindur sira pæll feck nefnndre sigride þorsteinsdottur til fullrar æignar alla jordina. kambsnes er liggr j hiardarholltz kirkiu sokn med aullum þeim gognum ok gædum sem þessari jordu fýlger ok fýlgt hefer. at fornu ok nýiu ok sira pall vard fremzt æigandi at ok her til sex kugilldi er stodu med jordunne. Medr kenndizt sira pall firir oss j sama handabanndi at hann hefdi fulla pennjnga ok alla vpp borit af sigride firir þessa jord ok kugilldi suo honnum alþingis vel anægdi j alla stadi firir sig ok sjna erfingia ok þui gerdi sira pall tittnefnda sigridi kuitta ok akærulausa firir ser ok sinom erfingivm vm greint jardar verd ok kugillda. Skylldi síra pall suara laga Riptingum a greindri jordu. Enn sigridr þorstæinsdotter hallda til laga.

Ok til sanennda her vm setti sira pall sitt jnncigle firir þetta bref med vorum jnnciglum er gert var j sama stad degi ok ari sem fýR seger.

581. 30. Mai 1434. á Mýrum í Dýrafirði.

Jón Ásgeirsson og Kristín Goðinadóttir kona hans samþykkja fjórðungsgjöf, tíundargjöf og allar löggjafir þær stöðugar og löglegar, er Oddr bóndi Þórðarson gaf Skúla Loptssyni dóttursyni sínum, svo og ei síðr samþyktu þau um þau sextíu hundruð, er Oddr hafði gefið Skúla í erfðislaun fyrir það, er hann hafði umboð

barna Guðna bónda Oddssonar, svo mikið, sem í þeirra part kom, og Kristín átti að erfa eptir Odd föðurföður sinn.

AM. Fasc. IX, 33, frumritið á skinni. Fyrsta og sjötta innsiglið er fyrir bréfinu, en hin eru dottin frá.

Þath gerum vær síra sighuatur biarnason ingimundʀ borgarson prestar audun grimsson sueinn brandzson hakon eindridason ok gudmundr isleiksson godhum monnum viturligt med þessu woro brefui ath sub anno gracie ᴍ° cd° tricessimo quarto sunnudaginn næsta post festum corporis christi ꞷ myrum j dyrafirde voro vær i hia saum ok heyrdum a ord ok handaband þeirra skula loptzsonar af annarre halfu enn jons asgeirssonar ok kristinar gudinadottur konu hans af annari ad suo firir skildu ath adr nefndr ion ok kristin samþyktu fiordungsgiöf tiundargiöf ok allar lauggiafer staudugar ok laugligar þær sem oddr bonde þordarson gaf adurnefndum skula dottursyni sinum iordina kelldr ær stendr i kroki j millum ʀangꞷ. Jtem Suo ok eigi sidur samþyktu fyrrnefnder menn ion ok kristin vm þau sextigi hundrada j iördum sem optnefndur oddr bonde þordarson hafde gefuit þratt nefndum skula j sin erfidislaun ær hann hafde vmbod barna gudina bonda oddzsonar kuitt ok akærulaust firir sier ok aullum sinum laughghum erfuingium ok epterkomendum vm suo mikit sem þeim bar þa j sinn parth ok tyttnefnd kristin stod til epter odd bonda þordarson faudur faudur sinn um fyrgreinda fiordungsgiöf ok tiundargiof ok lauggiafer ok adur greind ærfindis[1]) laun. Ok til sanninda hier wm setta ek mitt inzigli med þessarra fyrrnefndra manna innzsiglum firir þetta kuittunarbref sem gert var j sama stad deghi ok aro sem fyrr seger.

---

582. 21. Júní 1434. á Hólum.

Jón Vilhjálmsson biskup á Hólum voitir séra Þorfinni Þórólfssyni fult og löglegt umboð heilagrar kirkju í Fljótum frá Vámúla til Höfðahóla, og skal það standa um tólf mánuði.

AM. 235. 4to bls. 50, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti.

[1]) þannig.

vmbodzbref sira thorfins j fliotum.

Ver jon med gudz nad

gerom monnum viturligt med þessu uoru opno brefe ath ver hofum fengit sira þorfinnæ þorolfssyni vorum kerum syni uortt oc heilagrar kirkiu fult oc loghligt vmbodh j fliotum fraa væmula[1]) oc til hofdhhola vm tolf manadæ vpp fra þessom dægi jardær at byggia landhskylder vpp ath bæra oc þeim til hola heim ath flytia. En kwgildæ skal han oc vpp bæra oc skræidh oc flytia þat huorttueggia til skæmmo j haganæs efter fornum vana oc lata þar geyma. Skulo þeir allir quittir oc akærolauser firir oss sæm honum gera rettan oc sannan ræikninghskap edr a settazst oss oc heilagre kirkiu skadalauso. En hann giorer oss allan sannan oc rettan ræikninghskap af ollu þui sæm hann giorer j greindu vmbodæ. Skal hann oc j greindu takmarckæ wora reka (vel) oc trvliga uakt(a) oc vakta lata oc fa vidu af þeim til jardanna skipta vidum oc skipa til jardanna efter þui sæm (hann) siær uel hentta en oss oc voræ kirkiu er skada-minst. Skal hann ei sidr geyma hualæ oc vakta skipta oc til skurda skipa oc af þeim hafua efter þui sæm adrer vmhodz-mænn firir honum hafua adr hafdt þeir sæm trvliga oc væl hafua stadit j sogdu vm(bodæ) þeim ath salta oc sault til faa vpp aa worn kosnadh sæm ræka kunno. Skal hann oc lata byggia æin attæringh edr sæxeringh huor heldr er oss þar hæfuiligr oc nyttoligr vpp aa worn kosnadh af vorum pæningum oc spare þeim ecki þar til ath þess heldr komæ han skipgerdine af stadh oc sua odrum ærendum medan hann stændr j þessum uorum ærendum oc vmbodæ giorandæ þat besta hann kann af stadh koma. Skulo wer þat alt halda oc hafua sæm hann gerir loghliga j þesso woru oc heilagrar kiɹkiu vmbodæ. skal hann taka j sitt kaup oc starfua laun fimm hundrot vm greindhan tima. Ok til sanninda her vm settv wer uortt jnsigli firir þetta bref scrifat a holum j hialtadal manadagin nęsta firir jonsmesso baptiste anno domini ↀ° cd° xxx° quarto.

---

583. **24. Júní 1434. á Hólum.**

VEITINGARBRÉF séra Magnúsar Þorbergssonar fyrir Laufási.

[1]) annaðhvort verðr að lesa svo eða: vannula.

AM. 235. 4to bls. 44 (nr. 96), bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti.

Nostras literas collacionis concessiue indultas.

Pateat vniversis per presentes quod nos johannes Miseracione diuina Episcopus holensis concessimus dilecto filio nostro Magno thorberghsson prestbytero Ecclesiam sancti petri apostoli de laufwase cum omnibus suis pertinencijs habitis et in futurum habendis preter porcionem ecclesie libere possidendam quam diu nobis successoribus nostris delictam reuerenciam exhibuerit pariter ac honorem.

Jn cuius collacionis testimonium sigillum nostrum Rotundum est appensum.

Datum hollis in festo sancti johannis baptiste anno domini M° cd° xxx° quarto.

---

584. 17. Oktober 1434. á Reykhólum.
27. April 1449. á þingeyrum.

Kaupmálabréf Lopts Ormssonar og Solveigar þorleifsdóttur.

AM. dipl afskrr. 2627. »Ex original. Scalholt. accuratissime« (AM.). »Eitt af innsiglunum var heilt« (AM.). Frumbréfið er nú ekki til í Biskupsskjalasafninu. það datt í sundr af fúa, þegar Árni var að láta afskrifa það. Önnur afskript bréfsins er og meðal fornbréfaafskripta Árna Nr. 762, og er með hendi hans sjálfs eptir pappírsblöðum frá Hóli í Bolungarvík, skrifuðum nálægt 1600 (= b). þriðja afskript bréfsins er í bréfabók séra Skúla á Grenjaðarstað í Árnasafni 255. 4to bls 326, eptir transskripti gerðu á Skriðu í Reykjadal 30. Maí 1556, en ekki er hún nákvæm.

Kaupmalabref Solueigar þorleifzdottvr[1]) [og Orms Loptssonar[2]).

Jn nomine Domini amen.

Var þesse kaupmæli lýstur ok stadfestur j millum tueggia velborinna manna. af einne hælfuo Orms bonda Loptzsonar. enn æf annari hans eiginkuinnu hustru Solueigar[3]) þolleifsdottr. æ Reýkiaholum sunnudagin fýrstan j vetri. þa er lidit var fra hingath burdd vars herra Jesu Kristi þushundruth fiogr hundruth þrir tiger ok fiogr ar æ þeirra brullaups degi

---

[1]) »Utan ä brefinu stod [þetta] med gamalli hendi« (AM.); [2]) [b. v. b; [3]) Salveigar b (alstaðar).

ath hustru Kristin Biornnsdotter gipte fyrrnefndum ormi Loptzsyne dottur sina Solueigu þolleifsdottur ædr nefnda med suo felldu fekaupe ath Ormr Loptzson hafdi til kaups med tithnefnda Solueigu. sex hundruth hundrada. Hier j moth reiknadi hustru Kristin [halft þridia hundrath[1]) hundrada vnnder arna þolleifssyne. syne sinum. ath Solueig hefdi erft epter faudr sinn. ok her til gæf hun henni sextigi hundrada af sinum penningum. gat þrættnefndr Ormr bondi Loptzson optnefndri hustru Solueigu þolleifsdottur fiordungsgiof or þeim sex hundrudum hundrada sem hann hafdi til kaups med[2]) hana. ok sextigi hundrada [j tilgiauf. beckiargiof ok morgungiof.[3]) verdr þui mælinn allr saman j gardh Orms Loptzsonar fimm hundrudh hundrada.

For þesse giorningr fram æ Reÿkiaholum æ Reÿkianese þessom brullaupsvottum hiaverunndum. sira pali Biarnnasyne.[4]) sigurde jonssyne. Magnusi Biarnnarsýni prestum. skula Lopzssýne. Geirmunde heriolfssýne. Jone þorgilssyni.[5]) huerer til sannenda hier vm settu sin jnscigli fyri þetta kaupmælabref er skrifat var æ þingheÿrum sunnodaginn næsta[6]) epter festum Marci[7]) Ewangeliste Anno Domini M°. CD°. xl°. nonóó.

---

585.

## 21. Oktober 1434. á Hólum.

Þorkell prestr Guðbjartsson officialis heilagrar Hóla kirkju, lýsir því að hann hafi ráðið Guðmund Sveinsson ráðsmann í Bjarnarstaðarhlíð um tvenna tólf mánuði.

AM. 235. 4to bls. 43, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskrr. 3673.

Ek þorkell prestur guthbiarttzson officialis heilagrar hola kirkiu vid kænnizst med þessu mino brefuæ ath ek hefer radit oc skipat gudmundh Suæinsson Radzmann j biarnarstadarlydh vm nestu tuænna tolfmanadæ fra fardogum er nu nest koma oc þar med hans quino til radzkono suo langan tima oc þat lengr

---

[1]) 3c, b, sem án efa er misskilningr fyrir iijc; [2]) vid, b; [3]) [j beckiargiof, b; [4]) Biarnarsyni, b; [5]) þorkielssyni b, án efa rangt; [6]) sl. b; [7]) Johani b (rangt).

sem nu er framan til fardaga af þeim skilmala sæm herra jon biscup giordi ath hann skal taka iij kugildæ j sin þionozstu leyn a huerio are sem hann er oc verit hefer €n hans quinа tio alnar sauluwadar a huerio are oc fædu æino barnæ. skal greindr gudmundr gera alla lutæ sem radzmannæ oc verkstiora til bær oc gamaal wandæ radzmanna ath vtbuum holastadar er oc verit hefer oc giora mer fullan oc allan ʀæikningh þa ek kræfur æ[1]) radzmannæ holastadar. kaupa þa bwsbulutæ sæm æi ma missa þat[2]) sæm bresta kann Ok æi sidr rada vinnomen ef þeir kunno bresta oc gera þetta med fullo vitordæ radzmansens æ[1]) vmbodzmanz kirkonar. luka stadarens pæninga firir þat han kauper til greindz stadar bws stadnum ath skadalauso.

Oc til sannenda her vm setta ek officialatus jnsigli firir þetta bref scrifat a holum j hialltadaal in festo vndecim ɱilia virginum colonie anno domini ɱ⁰ cd⁰ xxx⁰ quarto.

---

## 586. 2. November 1434. í Laufási.

**Þorkell** Bergsson fær Guðrúnu Andrésdóttur konu sinni þrjátigi hundraða upp í jörðina Dálkstaði á Svalbarðsströnd og þrjátigi hundraða í lausafé, og átti Guðrún svo mikið fé í hans garð.

AM. Fasc. IX, 32, frumritið á skinni. Innsiglin eru dottin frá. AM. dipl. afskrr. Nr. 163, að því er virðist eptir frumbréfinu.

Dālkstada kaupbref.[3])

Ollum monnum þeim sem þetta bref sæa edr heẏra sennda magnus prestr þorbergsson ok steinmodr hauskuldzson Quediu guds ok sina kunnikt giorandi at sub anno gracie ɱ⁰ cccc⁰ xxx⁰ quarto a dalkstaudum a sualbardzstraund þridia daginn næsta epter festum luce euanngeliste[4]) uorum uid i hia saum ok heẏrdum ɑ̃ hanndabannd þessara manna þorkels bergsonar af einne alfu ok gudrunar anndriesdottur hans eiginkonu af annare halfu medrkenndizt adr nefndr þorkell ath fẏr nefnd gudrun kona hans ætte sextigi hundrada i hans gard i sinn mala. lvkte optnefndr þorkell títtnefndre gudrvnu þriatige hunndrada

---

[1]) þannig; [2]) þt̄; [3]) Aptan á brèfinu með hendi frá 17. öld; [4]) þ. e. 19. Oktober.

upp i iaurdina a dalkstaudum epter tiundar uirdingu ok þar til þriatigi hunndrada i lausa gozi.

Ok til sanninnda hier um settum uid fyr nefndir menn ockur jnnsigle firir þetta bref er giort uar j lavfase þridia daginn næsta epter allra heilagra messu á sama áre sem fyr seger.

---

587. **10. December 1434. í Vík i Sæmundarhlíð.**

Hústrú Margrét Bjarnardóttir lykr staðnum í Reyninesi jörðina Skefilsstaði í Hvammskirkju sókn, í hönd Illuga Björgólfssyni ráðsmanni klaustrsins.

AM. 280. 4to bls. 29—30 «Liber copialis Bessastadensis» með hendi Hákonar Ormssonar skr. c. 1640. AM. 277. 4to bls. 28 með hendi Guðmundar Andréssonar 1640.

Skeffilstada Breff.

Øllum godum mönnum sem þetta breff sia edur heyra. senda sira Nikulas Kalffsson. Einar Magnusson og þorsteirn Dagssón. kuediu Guds og sijna. kunnugt giörannde. ad þa er lided var frä hingadburde vors herra Jesu Christi M°. cccc°. þriatiger og iiij är j kirkiunne a Stad i Reynisnese. sunnudaginn næsta fyrer Mariumessu sijdare[1]) voru vier i hiä. säum og heyrdum ä hanndabannd hustru Margretar Biarnardottur og Jlluga Biörgolffssonar er þa haffde raad stadarins. ad so fyrer skildu. ad fyrrneffnd Margret luckte stadnum jördena a Skeffelsstödum er liggur i huamskirkiu sokn med öllum þeim gögnum og giædum. hlutum og hlunnendum sem þeirre jördu heffur filgt ad fornu og nyiu og huu vard fremst eigande ad. epter þui fremsta sem Byskup Jon haffde henne selldt. þar til loffade optneffnd Margret ad luka stadnum x kugillde. skyllde og adurgreind jörd Skeffilstader obrigd(elig) eign stadarins i Reynenese vpp frä þeim deige. og Jlluge ad sier taka stadarins vegna og leigu vppbera.

Og til sannenda hier vmm settum vær fyrrneffnder menn vor jnsigle fyrer þetta breff. er giordt var i vijk i Sæmundarhlijd föstudaginn næsta fyrer Magnusdag. a sama aare sem fyrr seiger.

---

[1]) þ. e. 12. Sept.

588. 1434.

Jón Vilhjálmsson biskup á Hólum kvittar Þorlák Sigurðsson af öllum ráðum, reikningi og umboðum, sem hann hefir hann í sett.

AM. 235. 4to bls. 44, (nr. 93), bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. AM. dipl. afskr. 3674.

Anno domini ᴍ⁰ cd⁰ xxx⁰ quarto.
quittunarbref þorlaks sigurdarsonar.

Wær yon et cetera.

med þessu voru brefe ath ver hofum gefit þorlak sigurdzson aurlungis quittan oc ækærulausan frialsan ok lidugan af ollum Radum os Reikningh ok þeim ollum vmbodum sem ver hafum hann j sett fra fysta dege er han tok med ok her til sem nu er komit þui han hafer oss ok heilagre hola kirkiu gert Rettann ok sanna(n) Reikninghskap firir serhueriu íj wtlætum ok jntektum íj fridu ok ofridu. þui gerum ver greindan þorlak quittan ok akærulausan firir oss ok ollum vorum epterkomendum. Ok et cetera.

---

589. 1434.

Jón Vilhjálmsson biskup á Hólum skipar Þorlák Sigurðsson ráðsmann á Hofstöðum.

AM. 235. 4to bls. 44 (nr. 94), bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti á skinni.

Radzmandzlofun.

Vær yon et cetera.

at ver hofum sett ok skipat þorlak sigurdzson Radzman ath hofs staudum. skal hann hion Rada ok þeim kaup lyka. skal hann ollum nyttsamligum kaupum kaupa firir staden med stadarins peningum huort hann þarf heldr ath kaupa skreid edr jarn edr smid. skal hann taka kaup epter þui sem ver hofum honum lofat. skal hann j þessu vmbodi standa tolf manade. Ok til et cetera.[1])

---

[1]) þar eptir er párað inn: Vier jon et cetera ath uier bidium ydur u' ath þier giorit suo ual sem nu er tijtt suo.

590. 1435.

Bréfságrip um Kambana í Breiðuvík, jörð Helgafellsklaustrs.

AM. 252. 4to 51, skr. c. 1660; AM. 430. 4to bls. 11—12, séra Jón í Hítardal c. 1730; AM. dipl. afskrr. Nr. 1574 og Nr. 1646.

Kambar bader.[1])

Anno 1435[2]) keÿpte abote Niäll Kambana Bāda j Breiidauijk. firer xl[c]. j lausafie aff Biarna Bonda þorleiiffzsine.

---

591. 8. December [1435]. á Hólum.
5. Júní 1436. á Mælifelli.

Halldór Steinþórsson selr Jóni presti Gamlasyni, ráðsmanni og umboðsmanni heilagrar Hólakirkju, og staðnum á Hólum jörðina Nýlendi á Höfðaströnd fyrir lausafé.

AM. Fasc. X, 2, frumritið á skinni. Fimm innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en þau eru nú öll dottin frá.

kaupbref um nylende a hofdastron(d).[3])

Þeim godum monnum sem þetta bref sea edr heÿra senda sira þorkell gudbiartzson officialis heilagrar holakirkiu sygurdr jonsson prestar. steinþorr jonsson. þorlakkr sygurdarson ok arnbiaurn markusson leikmenn Q(uediu) guds ok sina kunnigth giaurande at þar voro vær j hia sæm ok heÿrdum æ handaband ok ord þeirra ions prestz gamlasonar er þa hafdi rad ok umbod heilagrar holakirkiu ok halldors steinþorssonar ath suo firir skildu at adr greindr halldor seldi stadnum a holum j hialltadal jaurdina æ nylendi æ havfdastravnd er liggr j hofs þingum med aullum gaugnum ok gædum hlutum ok hlunnendum sem þeirre jaurdu hefer fylgt ath fornu ok nyiu ok hann vard fremstz eigandi at. Hier j mot skilldi fÿrr nefndr sira jon gefa æ stadarins vegna halfan þridia tug hundrada med þessum

---

[1]) 430; [2]) 1245, 252. sem er rangt; verið gæti að tölu víxl hafi orðið í afskriptinni, og ætti að vera 1425, en Finnur biskup fylgir ártalinu 1435 (Hist. Eccl. Isl. IV, 71) og hefir það eptir föður sínum að líkindum, því svo stendr í 430; [3]) Aptan á brefinu með hendi frá c. 1600.

fridleika fimm oxa fiogurra vetra. sex tuæuetra. þria kugilldis hesta ok atta vodir tuitugar ok tiu kugilldi. skilldi þessir peningar aller lukaz at næstum fardaugum. for þesse giorningur fram a holum j hialltadal æ marivmessv æ jolafaustv.[1]) Ok til sannenda her vm settum ver fyrr nefndir menn vor jnsigle firir þetta jardarkavps bref giorth a mælefelle j skagafirdi þridia[2]) daginn næsta fyrir festum corporis christi anno domini ꝏ⁰ cccc⁰ xxx⁰ sexto.

---

592. 16. December 1435. á Gilsbakka.

Jón prestr Kárason vottar um viðtal Árna biskups Ólafssonar um vetrinn 1419 eptir Jól í stórustofunni í Skálholti við Helga Guðinason, systrson sinn, er biskup setti hann hjá sér, drakk honum til og gaf honum jörðina Hvalsnes á Rosmhvalanesi.

AM. dipl. afskrr. Nr. 5607, eptir transscripto á skinni frá 25. Apr. 1480, með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna.

Þess kennizt ek sira jon prestur kærason med minu opnu brefe. at sub anno gracie. ꝏ⁰. cccc⁰. decimo nono. heyrda ek fyrnefndur sira jon. biskup ærna olafsson tala suo felld ord til sinns systurson(ar) helga gudinasonar æ jolum vm veturin epter atta dag j storu stofunne j skalahollte. ok sette hann nidr æ beckinn til vinstre handar er geingit er j stofuna. hielt biskup ærne æ eirne skæl ok drack helga aulit til. ok hier til gef ek þier jaurdina er hualsnes heiter er liggr æ Rosmalanese til fullrar eignar. ok til sanenda hier um setta ok mitt jnnsigle firir þetta bref er gert var æ gilsbacka friadaginn næsta post festum magni martiris.[3]) anno domini. ꝏ⁰. cccc⁰ xxx⁰. quinto.

---

[1]) þ. e. 8. December 1435; [2]) þridiadia, frumritið; [3]) Þetta er án efa Magnúsmessa á Jólaföstu (13. Dec.), Magnúsmessa á vor er 1435 á laugardaginn fyrir páska, svo að næsti föstudagr eptir Magnúsmessu þá yrði = föstudagrinn næsti eptir páska, og hefði þá án efa verið miðað við páskana, því það er meiri helgidagr.

593. 17. Janúar 1436. á Ökrum.

Snorri prestr Ingimundarson og þrír menn aðrir votta, að þeir heyrðu á að Guðrún Styrsdóttir handfesti Helga Guðinasyni þann vitnisburð, að hún hafi heyrt Árna biskup Ólafsson lýsa því, þegar hann var í Seltjarnarnesi á langaföstu 1419, að hann hefði gefið Helga jörðina Hvalsnes á Rosmhvalanesi, og að hann gerði það enn.

AM. dipl. afskrr. Nr. 5607, með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna eptir transscripto á skinni frá 25. Apríl 1480.

Þat gerum vær snorre prestur jngemundarson. stýr snorason. kolbeinn þorgilsson ok helge biarnarson godum monnum kunnigt med þessu voru brefe at vær vorum þar j hia in festo sancti antonii abbatis confessoris. a aukrum a mýrum j hraunhrepp. Anno domini. m° cd° xxx° sexto. sauum ok heyrdum a ath gudrun stýrsdottir handfeste helga gudinasýne suo felldan vitnissburd. ath hun heýrde heidarligan herra ok andligan faudur herra arna med guds nad biskup j skalhollte kennazt ath þa er hann var j seltiarnarnese a langafaustu firir midfaustu. Anno domini. m°. cd°. Decimo nono. ath hann hefde gefit nefndum helga jaurdina er hualsnes heiter er liggr a rosmalanese til fullrar eignar ok sagdizt þa enn gefa honum adr nefnda jaurd. ok til meire sanninda hier um sette fýrnefnd gudrun sitt jnnsigle med vorum adr nefndra manna jnnsiglum firir þetta bref skrifat j stad. deige ok are sem fýrr seigir.

---

594. 24. Marts 1436. i Görðum.

Helgi prestr Ingjaldsson vottar, að hann hafi verið við og heyrt á í kirkjunni á Hvalsnesi, er Ingunn Gunnarsdóttir fékk Árna biskupi Ólafssyni jörðina Hvalsnes á Rosmhvalanesi til fullrar eignar.

AM. dipl. afskrr. Nr. 5617, «Ex originali» með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna. »Brefed er ä kalfskinn, með einu Jnnsigle oskiru, enn mä räda ur nafninu, og ä ad vera mannsmynd j midjunne».

Þess kenunz eg sira helgi jngialdsson med þesso mino brefi at eg var þar i hia ok heýrda a j kirkiuni a hualsnesi

at þau heldu hondum saman biskup arne olafsson af eirne alfu ok jngun gunnarsdotter af annare. var þetta i þeirra handabandi at nefnd jngun feck biskup arna jordina a hualsnesi er liggr a rosmalanesi til fullrar eignar med ollum þeim gognum ok gædum sem til liggr ok legid hefir ath forno ok nýio ok hun vard fremst eigandi ad vndan ser ok sinum erfingium en vndir biskup arna ok hans erfingia j suo mata at optnefndr biskup arne skýldi luka hermat[1]) fiortan lestir fisk sem titnefnd jngunn var honum skyldug. ok til sanenda her vm setta ek mitt insigli firir þetta bref er giort var j gordum a altanesi laugardagin firir annunciacio sancte marie anno domini ꝏ° cccc° xxx° sexto.

---

## 595. 10. April 1436. i Görðum.

Ásbjörn Þórðarson lýsir því, að Ingunn Gunnarsdóttir hafi afhent Árna biskupi Ólafssyni jörðina Hvalsnes á Rosmhvalanesi í umboði Hermanns langa, og að hún hafi sagzt bezt unna biskupi kaups á jörðunni.

AM. dipl. afskrr. Nr. 5607, með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna eptir transscripto á skinni frá 25. Apr. 1480.

Þath gerir ek asbiorn þordarson godum monnum kunnigt med þessu minu brefe ath ec var þar j hia ath hualsnese ath jnngunn gunnarsdotter afhende biskup ꜵrna jaurdina ꜵ hualsnese. j vmbode hermanz langa ok sagdizt honum bezt unna ath leýsa jaurdina ef hann giæte leýst. ok til sanninda hier um setta ek mitt jnnsigle firir þetta bref skrifat i gaurdum ꜵ akranese. þridiudaginn j paskaviku. Anno domini ꝏ°. cd°. tricesimo sexto.

---

## 596. 26. Maí 1436. á Kirkjubóli.

Hákon Jónsson beiðist Odds Vigfússonar eða hans löglegs umboðsmanns, og býðr sig undir lög um það tilkall, er Oddr þóttist eiga til jarðarinnar Kirkjubóls í Skutulsfirði, er Hákon

[1]) þannig.

hafði að sér tekið og á sezt; téði og Hákon sín vitnisburðarbréf um, að hann hefði erft jörðina eptir foreldra sína, og lögfestir hann sér hana.

AM. Fasc. X, 1, frumritið á skinni. Öll innsiglin eru dottin frá nema hið fjórða.

Agreiningarbref vmm kyrkiubol j Skutulsfirde.[1])

Ollum godum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda audun grimsson ēinaR markusson halldorr ionsson sueinn brandzson alexiss ionsson ok teitur magnusson quediu G(vds) ok sina kunnigt gerandi ath sub anno gracie ꝏ° cd° xxx° vi° voro vær i hia sꝏum ok heyrdum ꝏ æ kirkiuboli j skutilsfirdi faustudaginn i fardaughum[2]) ath hakon jonsson beiddiz oddz bonda wigfussonar eda hans laugligs umbodsmanz enn baud sig til andsuara vid adur nefndann odd vm þath sama tilkall er hann þottiz eiga j fyrnefndri iordu kirkiuboli er fyrr[nefndr hako]n hafdi ath sier tekit ok ꝏ setz.

Jtem j annari grein tedi opt nefndur hakon aull sin vitnisburdarbref þau er hann hafde þa nærr sier firir adr sagdri iördu ok lysti sigh laugarfua epter faudur sinn ok modur ath tíjtt nefndri iordu kirkiuboli ok laugfeste firir adur greindum monnum. Ok til sanninda hier vm settv vær fyrr nefnder menn vor inzsigli firir þetta bref er gert var j sama stad ok are deghi sídaR enn fyrr seger.

---

597. 28. Mai 1436. Westminster.

Leyfisbréf Hinriks hins sjötta, Einglakonungs, að Jón Hólabiskup megi senda skip til Íslands.

Rymeri Foedera ed. Holmes V, I, 31; Safn til sögu Íslands I, 8—9.

Pro episcopo Olensi in Islandia.

Rex universis & singulis admirallis &c., ad quos &c., salutem. Supplicavit nobis Johannes episcopus Olensis in Islandia, in regno nostro Anglæ oriundus, ut,

[1]) Aptan á bréfinu með hendi Ara Magnússonar í Ögri; [2]) 25. Maí.

Cum dominus summus pontifex ipsum Johannem ad episcopatum prædictum nuper providerit, ipseque, ob discrimina tam maris quam terræ, episcopatum suum prædictum personaliter adire et visitare, ac possessionem inde capere, ac ibidem installari quam plurimum pertimescat,

Velimus, ea consideratione, sibi licentiam, quod ipse Johannem May, magistrum cujusdam navis, vocatæ la Katryne de Londonnia, procuratorem et attornatum suum in hac parte, versus partes Islandiæ, cum navi prædicta, ad videndum episcopatum prædictum et sibi de statu & situ ejusdem reportandum et nunciandum, transmittere possit, annuere gratiose:

Nos, supplicationi suæ hujusmodi benignius inclinati, ac pro eo quod idem episcopus ac Johannes Bristowe de Coventre Merchant, et Ricardus Weston de Londonia, stokfisbmonger, coram nobis in cancellaria nostra personaliter constituti, manuceperunt pro præfato Johanne May (videlicet quilibet eorum sub poena quadraginta librarum) quod idem Johannes May, transeundo cum marinariis in navi prædicta usque dictas partes Islandiæ, quicquam in eisdem partibus, quod in læsionem seu derogationem cujusdam statuti (sive) ordinationis, nuper per regem Daciæ de mercatoribus, stapulam suam apud Norberne ordinatam exercere debentibus, editi, et per nos, de assensu dominorum spiritualium & temporalium ac communitatis regni nostri Angliæ in Parliamento nostro, apud Westmonasterium anno regni nostri octavo tento, affirmati, nec prohibitionis et defensionis nostrarum super statuto sive ordinatione prædicto. tunc ibidem factorum, non attemptabit nec faciet attemptari:

Quam quidem summam quadraginta librarum quilibet manucaptorum prædictorum concessit, de terris & catallis suis, ad opus nostrum levari, si præfatus Johannes May quiquam contra formam statuti sive ordinationis prædicti regis, ac prohibitionis & defensionis nostrarum prædictarum, attemptet seu faciat quomodolibet attemptari.

Et ideo vobis mandamus, quod ipsum Johannem May ad dictas partes Islandiæ, cum navi prædicta ac marinariis competentibus in eadem, ex causa prædicta transire et redire permittatis,

Non inferentes eis, seu, qvantum in vobis est, ab aliis inferri permittentes injuriam, molestiam, damnum, violentiam, impedimentum aliquod seu gravamen,

Et, si quid eis forisfactum sive injuritatum fuerit, id eis sine dilatione corrigi et debite reformari faciatis.

In cujus &c. usque festum natalis domini proximo futurum duraturas.

Teste rege apud Westmonasterium, vicesimo octavo die Maji.
Per Consilium.

---

598. 14. Júní 1436.

Einar Þórða(r)son seia lýsir því, að hann hafi heyrt Árna biskup Ólafsson lýsa því í Björgvin, að hann hafi lokið Hermanni langa átta lestir skreiðar fyrir Hvalsnes af skuld Ingunar Gunnarsdóttur til Hermanns.

AM. dipl. afskrr. Nr. 5618, »Ex originali« með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna. »Brefed er ä kalfskinn, med einu Jnnsigle oskiru, og er eckert merkelegt ä ad sjä«.

Þat giorer eg einar þordason seia[1]) godum monnum kvnnekt med þesso mínu brefe ath eg var þar nær ath biskup arne lýsti þvi j biorgvin fýrer mig ok fleirum audrum godum monnum hia verondum ath han hafde loket hermant langa viij lester fisk fyrer hualsnes af þeire skulld sem jngun gunarsdotter var honum skýlldug ok hier epter vil eg sveria ef þurfa þiker. ok til sannenda hier vm sette eg mitt jnsigle fýrer þetta bref er giort var fimtudagen næsta efter festum corpus[1]) christi Anno domini ᴍ° cccc° xxx° sexto.

---

599. 30. Júní 1436. á Öxarárþingi.

Alþingisdómr tólf manna útnefndr af Ormi Loptssyni »hirðstjóra norðan og vestan á Íslandi« um jörðina Hvalsnes á Rosmhvalanesi, þar sem þeir dæma hana Helga »lögmanni« Guðinasyni, en Nikulás Snæbjarnarson frá.

AM. dipl. afskrr. Nr. 5606, »Ex originali« með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna. »Brefed er ä kalfskinn med .6. Jnnsiglum bräkudum og oskirum, og .4. þveinngjum Jnsiglalausum. tvö

[1]) þannig.

þveingjafor eru tom«. AM. dipl. afskrr. Nr. 5607 með hendi Jóns Magnússonar eptir transscripto frá 25. April 1480.

Ollum godvm monnum þeim sem þetta bref sea edr heÿra sennda þorualldr oddzson. are Dadason. asbiorn þordarson. loptr halfdanarson. jôrhvnndr klemensson. oddr fusason. petr finnzson. oddr hallzson. sigurdr anngrimsson.[1]) snorri jonsson. asgrimr ormsson ogh þorvalldr ꝏsmvndzson kuediu guds ogh sina kunnight giorandi ad sub anno gracie. ꝏ⁰. cd⁰ xxx⁰ vj⁰ laugardaghinn næsta epter petrsmessv ogh palz ꝏ avxarꝏrþinghi voru vier j dom nefnder[2]) af erligvm manni ormi loptzsÿni hirdstiora nordan ogh vestan ꝏ jslandi at dæma i milli herra laughmannzins helga gudinasonar ogh nikulas snæbiarnarsonar. kærdi fÿrrnefndr helghi ath ꝏdrnefndr nikulꝏs hielldi ogh sier eignadi jôrdina hvalsnes er liggr ꝏ́ rosmhvalanęse. Nu saker þess ad títtnefndr helghi leiddi þar prof ad jngunn gunarsdotter hefdi sellt bÿskvp ærna ogh afhænt fÿrrnæfnda jôrd hvalsnes. [til fullrar eignar. ogh.[3]) j annari grein leiddi optnefndr helgi þav prof ad bÿskvp ærne hefdi gefit honum títtnefnda jôrd hvalsnes til fullrar eignar. ogh med þvi ad þad var sÿnt ogh svarid ogh dæmt ath þrattnefndr nikulas væri þar med loghvm fyrer kominn. þvi dæmdvm vier fÿrrnefnder domsmenn títtnefndom helgha optnefnda jord hvalsnes til fvllrar eignar svo mikit sem gilldi ꝏtta lester fisk fram̄ kompnar i bergvin en honum til hallz þad sem jôrdin væri dÿrri. þvi oss leizt þad skial litid afl hafa sem nikvlas bar þar fram̄. skÿlldi hann þo frialslægha megha bva ꝏ jordvnni til næstu fardagha hinvm ad skadlavsv.

Ogh til sannenda hier vmm settvm vier fÿrrnefnder menn vort innziglo fÿrer þetta bref er giort var j sama stad deghi ogh ꝏ̃ri sem fÿrr seger.

---

600. 2. Aug. 1436. á Útskálum.

FJÓRIR menn votta, að þeir hafi verið í Brautarholti 16. Júlí 1434 og heyrt á viðræður þeirra hústrú Guðríðar [Ingimundar-

---

[1]) arngrimsson 5607; [2]) nefder 5606; [3]) [sl. 5607; undirpunktað í 5606; hefir þetta því líklega verið þegar orðið svo máð í frumritinu 1480, að transscriptores hafa ekki getað lesið það.

dóttur] og Guðrúnar Sæmundardóttur um Brautarholt og Hof á Kjalarnesi, er Vigfús Ívarsson bóndi Guðríðar hafði haldið leigulausum, en Guðrún hafði erft í plágunni miklu.

AM. Fasc. IX, 36, frumbréfið á skinni. Innsigli Eyjólfs er fyrir bréfinu; hin eru dottin frá.

brautarhollzbref.[1])

Ollom monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda kolbeinn kolbeinsson sæmundr jonson magnus nicholausson oc eyiolfr jonson kuediu guds oc síjna kunnigt gerandi þa er lidit uar fra burd krizst(s) ꝏ cd xxx oc iiij ær a faustudagin næstan firir þorlaks ꝏesso æ sumarit[2]) j brautarhollti æ kialarnesi uorum uier j hia sæum oc heyrdum æ ath hustru gudrydr gieck ath sæng þeirri er gudrun sæmundardotter huildi j. uar greind gudrun þa nockut kraunk j lykama enn heil ath uiti oc allri annari sinni sammuizku. taladi nefnd gudrydr til adr greindrar gudrunar.

gior nu sua uel gudrun míjn sagdi gudrydr ath þu methkendz nu hier firir dandi monnum ath þu hefer kuittan gefit hwsbondann uigfws juarsson umm brautarhollt oc hof æ kialarnesi oc þau tua(u) hundrod hundrada sem þar thil heyra.

enn nefnd gudrun gaf hier suar thil oc taladi sua.

nei nei sagdi gudrun. brautarhollt oc hof æ kialarnesi oc þau tuꝍ hundrot hundrada skal ek alldri kuitt gefa sem ek æ j gard uigfws juarssonar frænda mijns en bonda þijns gudríjdr myn þui þessa peninga tok ek j erfd efter systr míjnar þordisi oc jngibiorgo sæmundardætr j plagunnj miklo oc þui undrar mig þad gudrydr sagdi gudrun ath þu beidezst slikra hluta af mier þar sem þu ueizst sialf gudrydr ath ek hefi huorki feingit leigr nie leiguleigr af þessum míjnum peningum af uigfwsi bonda þoth jon minn ofeigsson oc ek hofum þeirra beidzst. uill nu sancte nicholaui ath ek niote brautarhollz daud er ek fieck þad alldri lyfs.

Ok til saninda hier um settum uier fyrnefnder menn uor jnscigli firir þetta bref er skrifad uar æ wtskalum æ rosthuala-

[1]) Aptan á brèfinu; [2]) þ. e. 16. Júlí 1434.

nesi fimtodaginn efter olafs Messo fyrrj tueimR mRum seinna enn adr stendr skrifath.

---

## 601. 19. Oktober 1436. í Brautarholti.

Kaupmálabréf Þorvarðs Loptssonar og Margrétar Vigfúsdóttur.

AM. Fasc. X, 3, frumbréfið á skinni; fjórða og sjötta innsiglið er fyrir bréfinu, en hin eru dottin frá.

kaupmalabref margrietar uigfusdottur.[1])

Jn nomine Domini Amen.

War suo felldur kaupmale lystur ok stadfestur ij millom Erligxs mans þorwardz bonda loptzsonar ok ærligrar kuinno hustru Margretar Wigfusdottur æ þæirraa brullaupz deghi. Þaa er lidith war fraa hingat burdhi wors herra jehsu christi þuzundrud fiogur hundrut þrir tighir ok sex ær. Sunnodaghin fýrsta ij vætri[2]) ij brautarhollti æ kialarnesi at adurnefndr þorvardur lagdi til kaupz vit greinda Margretho gardin æ æidhum j austfiordum sæm liggur ij fliotzdallsheradi ok þar til jarda godz sæx hundrud hundrada ok fiogur hundrud hundrada j lausagodzi. hær j mothæ hafdi adurnefnd Margretha jordina hlidarenda er liggur j fliotzhlid ok þær[3]) jardir þar liggia nær fyrir þriu hundrud hundrada ok hundrad kugillda. ok þriu hundrud hundrada ij virdingargodzi ij sæmiligum gripum.

Jtem gaff opt nefndur þoruardur titt nefndri margreto sextigæ hundrada j tilgiof ok hundrad hundrada j bekkiargiof ok þar til sextige hundrada j morgingiof.

Jtem kiori hustru gudridr þratt nefnda dottur sina Margretho malakouo j gardh titt nefndz þorvardz. Reiknadist malin allur saman in summa oft nefndrar margretar nio hundrad hundrada.

Vorw þæssir brullaupz wottar
þorkell olafsson
þorsteinn suarthofdason ok
sira olafwur Eyiolfsson prestar.

---

[1]) Aptan á bréfinu með hendi frá 16. öld; [2]) þ. e. 14. Okt. 1436; [3]) *þ*-ið nokkuð feitt og ekki ólíkt því sem *b* væri og *r*-ið skáhalt uppi yfir *æ*-inu, eins og lesa ætti: bæar

skule loftzson
kætil snæbiarnarson
jon biarnarson leikmenn
ok margir adrir godir menn.

Ok til sanninda hær wmm settum wær fyrrnefndir menn wor innsiglæ fÿrir þetta kaupmala bref er giorth war fostudaghin nesta efter festum luce Ewangeliste j sama stadh ære sæm fyrr sæghir.

---

602. 22. Nóvember 1436. Westminster.

Leyfisbréf Hinriks sjötta, Einglakonungs, að Jón Sálholts biskup megi ferma skip til Íslands og þaðan aptr.

Rymeri Foedera, ed. Holmes V, I, 36; Safn til sögu Íslands I, 9—10.

Pro episcopo Scalholtensi.

Rex omnibus, ad quos et cetera, salutem.

Sciatis quod, de avisamento & assensu Consilii nostri, concessimus et licentiam dedimus venerabili patri, J. episcopo Scalholtensi in partibus Islandiæ, infra regnum carissimi consangvinei nostri regis Daciæ,

Qui ad adeundum partes prædictas, causa visitandi episcopatum suum prædictum, se disponit, ut accepimus:

Quod ipse quandam navem, de regno nostro Angliæ existentem, cum victualibus, ac aliis bonis et rebus, sibi ac gentibus et familiaribus suis, cum ad partes prædictas venerit, necessariis & opportunis carcare,

Et cum navi prædicta, sic carcata, ad partes illas se divertere, ac navem illam in eisdem partibus cum aliis bonis et rebus suis, in regnum nostrum prædictum, ad satisfaciendum certis creditoribus suis, quibus indebitatus existit, reducendis, recarcare et in idem regnum nostrum remittere possit licite et impune;

Proviso semper quod de custumis, subsidiis et aliis deveriis, nobis in hac parte debitis, fideliter respondeatur, ut est justum,

Ac quod idem episcopus, per se vel alios, quicquam, quod in enervationem seu derogationem statuti, in Parliamento nostro, apud Westmonasterium anno regni nostri octavo tento, pro

parte prædicti consangvinei nostri editi, cedere valeat, non attemptet nec faciat quomodolibet attemptari.

In cujus &c.

Teste rege apud Westmonasterium, vicesimo secundo die Novembris.

Per Consilium.

---

## 603. 3. December 1436. í Vík í Sæmundarhlíð.

Þóra Finnsdóttir, systir á Stað í Reynisnesi, selr Jóni Bergssyni útibúrið á Stað það, sem norðast er frá «skalla» (þ. e. skála) og næst réttinni, og þá ljóstolla, er hann átti að lúka klaustrinu, en hann geldr fyrir fimm kúgildi á næstu fardögum.

AM. 280. 4to bls. 31. «Liber copialis Bessastadensis» með hendi Hákonar Ormssonar c. 1640.

Þad giörum vier sira Nikulas Kalffsson, Jlluge Biörgolffsson og Snorre Olaffsson godum mönnum kunnugt med þessu voru breffe. ad þar voru vier i hiä saum og heyrdum ä i skiemmunne ad Stad i Reynenese. ad Syster Þora Finnsdotter sellde Jone Berkssyne[1]) med hanndabannde vtebured a Stad. þad nordast er fra skalla nærst riettenne og liostolla hanns so leinge sem hann liffde og hann ætte stadnum ad luka. hier i mot gaff fyrrneffndur Jon Bergsson fimm kugillde a næstum fardögum. enn hann skyllde ad sier taka husid vpp fra þeim deige. enn stadurinn eiga epter hanns dag.

Og til sannenda hier vmm settum vær fyrrneffnder menn vor jnsigle fyrer þetta breff. skriffad i vijk i Sæmundarhlijd. manudaginn fyrstann i Jolaföstu Anno Domini. M°. cccc°. tricessimo sexto.

---

## 604. 26. Janúar 1437. á Grenjaðarstöðum.

Björn Sæmundsson selr Þorsteini Magnússyni jarðirnar Hvamm með tilgreindum landamerkjum, Foss og Molastaði í Fljótum, en Þorsteinn leggr í mót jarðirnar Syðri-Laugar, Dattstaði og Hóla í Reykjadal í Einarsstaðaþingum.

AM. Fasc. X, 4, frumritið á skinni. Öll innsiglin eru dottin frá.

[1]) þannig

kaupbrief firir huame fosse og molastodum j fliotum.[1])

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edr heýra senda olafur lofzson þordr þorsteinsson jon biarnason ok sniæbiorn helgason. Quediu guds ok sina kunnigt gerande. þa er lidit var fra hingat burd vors herra jehsu christi þusund fiogur hundrot þrirtiger ok siau ær. þridia daginn næsta firir pals Messo.[2]) a helgastodum j reýkiadal voro vier j hia saum ok heýrdum æ. ord ok handaband þeirra biarnar sæmundzsonar af einne alfu enn þorsteins magnussonar af annari at sua fyrer skildu at adr nefndr biorn sæmundzson selldi fyrgreindum þorsteine magnussyni jarder þriar j fliotum er sua heita huamur foss ok molastader er liggia j hollz þingum med aullum þeim gognum ok gædum hlutum ok hlunnendum sem fyrgreindum jordum eiga at fýlgia ok fýlgt hafa at fornu ok nýiu ok hann vard fremtz eigandi at. sagdi biorn at jordin huamur ætti landeign sudr at hunstada ær osi ok aiñ redi vpp þadann til uppsprettu. En þadann langa hrýgur upp j fjall. sua ok sagdi biornn at huamur ætti tuo attfedminga[3]) torfsskurd arliga j gilia iord ok lambhaga j backa jordu þann sem þar ligur vt med anni ok alla lagsveide j fliotæ fyrer allri backa jordu ok selland framm firir vtann drýckiaræ. nedan fra mytiorn ok vt at jardfollum æ lagheide. upp j fiall ok ofan j æ. millum greindra takmarka ok allan gelldfiar rekstur fram a hnarfsdal. Hier j mot gaf titt nefndr þorsteinn greindum birne jarder þriar er sua heita sydri laugar ok dattstader ok holar er liggia j reykiadal j einarstada þingum. med aullum þeim gognum ok gædum hlutum ok hlunnendum sem fyr greindum jordum fýlger ok fýlgt hefir at fornu ok nyiu ok hann uard fremtz eigandi at. skýlldi biornn suara fyrer tuo bænhus er nidvr voru falleñ æ dattstodum ok holum upp æ sina peninga. Jtem sagdi optnefndr biorn til halfkirkiu skylldar j huammi. skýlldi þratt nefndr biornn sæmvndzson hallda þeim jordvm til fvllra laga sem hann keýpti. En titt nefndr þorsteinn magnusson suara laga riptingum æ optnefndum jordum. Sua ok eigi sidr atti nefndr þorsteinn at hallda til laga þeim adr greindum jordum er hann keypti. en greindr biornn suara laga riptingum.

---

[1]) Aptan á bréfinu með hendi frá 17. öld; [2]) = 22. Janúar; [3]) elldi, hefir verið ritað hér að öndverðu, en svo dregið stryk í það.

Ok til saninnda her vm settvm vier fÿr nefnder menn vor insigli fyrer þetta bref er gert var a greniadarstodum j reykiadal laugardaginn næsta epter pals Messo. a sama ari sem fÿr segir.

---

## 605. 30. Janúar 1437. á Grenjaðarstöðum.

Tveir menn votta, að Oddr Snorrason handlagði séra Þorkel Guðbjartsson öldungis kvittau um þau tíu hundruð, er hann varð honum skyldugr í milli jarðanna Gautstaða og Öxarár.

AM. Fasc. LXVI, 7, frumritið á skinni. Bæði innsiglin eru nú dottin frá bréfinu.

Gautstada kuittun.[1])

Þath gervm vit hallr finnbogason ok oddr brÿniolfsson vitrlegt med þessv okkrv brefe ath vit vorvm i hia sævm ok heÿrdvm æ ath oddr snorrason hanndlagde sira þorkel gydbiartzson avrlvngiz kvittann ok ækiærvlavsan firir sier ok avllvm sinvm erfingivm vm þav tiv hvndrvt er hann vard honum skylldvgr i millvm iardanna gavtzstada ok avxarær ok kenndezt oddr ath sira þorkell hefde þesse tiv hvndrvt honum lvkt ok afhent svo honum vel likade. Ok til sannenda hier vm settvm vit okkr innscigli firir þetta bref skritat æ greniadarstavdvm i Reÿkiardal midvikvdagenn i nivvikna favstv anno domini M° cccc° xxx° vij°.

---

## 606. 24. Febrúar 1437. á Möðruvöllum.

Fimm menn votta, að Magnús Jónsson selldi Ólafi Eyjólfssyni í fardagaviku fyrir þremr árum jörðina Kálfskinn í Árskógsþingum fyrir Bakka í Svarfaðardal og nokkurt lausafé.

AM. Fasc. IX, 30, frumritið á skinni. Hið fimta innsigli er fyrir, en hin eru dottin frá.

---

[1]) Aptan á bréfinu með hendi frá 17. öld. Þar stendr og: »Astrydi sigurdzdotter» og enn fremr. »Thingoe Syssel Greniadarstad».

bref vm kalfskinn 1434.[1])

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heýra senda hakon biarnarson simon jonsson þorgrimur gvdmvnsson hognne einarson ok stephan einarsson kuediu guds ok sina kunnigt giorande ath þa er lidit var fra higatburd vors hera iehsu christi þushundrut cccc xxx ok iiij ær æ kalfskinne j ærskogsþingum j fardagaviku[2]) vorum vær j hia saum ok heýrdum æ handaband Magnus jonssonnar af einne alfu en olafs eyiolfssonnar af annare ath suo fyrer skilldu ath Magnus sellde olaue fýrr nefndvm jordina kalfskinn med ollum þeim gognnum ok gædum sem jordunne hefer fýlgt at fornu ok nyiu ok hann vard fremst eigande ath. hier j mot skillde olauur gefa greindum magnuse jordina brekcu j suarfadardal med ollnm þeim gognnum ok gædum sem jordunne hefer fýlgt ath fornu ok nýiu. skilde þrat nefndr Magnus gefa j mille jardanna olafe viij hundrud ok helgu koñu hans x stikr klædis. skilde optt nefndr Magnus suara laga Riptingum æ kalfskinne en olafr hallda til laga svo ok ei sidr skilde olauur suara laga Riptingu æ jordunne breku en magnus halda til laga. Ok til sannenda hier vm settum uær fýr nefnder men vor jnsiglle fýrer þetta bref skrifat æ maudruvollum j horgardal sunnudagin næsta fyrer jons Messo hola biskup(s) æ langa fosto þrimur ærum sidar en fýr seger.

---

## 607. 11. Mai 1437. á Grenjaðarstöðum.

Ásgrímr Jónsson selr með samþykki Guðrúnar Magnúsdóttur konu sinnar Þorkeli presti Guðbjartssyni jarðirnar Þverá í Laxárdal og Höskuldstaði og Hól í Reykjadal fyrir jörðina á Breiðamýri í Reykjadal; en ef riptingar koma á Þverá fær Þorkell prestr aptr tuttugu hundruð í Mýri eða þrjátigi kúgilda.

AM. Fasc. X, 5, frumritið á skinni. Þriðja innsiglið er dottið frá. en brot er eptir af hinum tveimr. Þetta bréf er með sömu hendi og Fasc. IX, 29 (7. Maí 1434), og er það líklega hönd séra Þorkels Guðbjartssonar.

---

[1]) Aptan á bréfinu með gamalli hendi; [2]) Fardagar 1434 hófust 3. Júní. Magnús hafði keypt jörðina 15. Marts s. á. af Einari Eiríkssyni.

bref vm hauskulldzstadar[1]) i reykiadal.[2])

Þeim godvm monnum sem þetta bref sia edr heyra senda erlendr gvnnsteinsson oddr bryniolfsson oc þorleifr þorsteinsson qvediv gvds oc sina kvnnegt gerande ath vær vorum i hia oc sæm æ handabannd þorkels prestz gvdbiartzsonar oc asgrims jonssonar med svo firir skildv ath asgrimr sellde med samþykke gvdrvnar Magnvsdottur konv sinnar sira þorkele iarder þriar þveræ i laxærdal oc havskvllzstade oc hol er standa i Reykiardal med avllvm þeim gavgnvm oc giædvm sem þeim fylgde oc fylgt hefde ath fornv oc nyiv oc hann vard fremzt eigande ath. hier i mot gaf sira þorkell iordena æ breidamyre i Reykiardal med þeim gavgnvm sem henne fylger oc fylgt hefer ath fornu oc nyiv oc hann vard fremzt eigande ath oc sagde þar vera halfkirkiv skylld oc skillde asgrimr abyrgiazt hana en sira þorkell skillde svara kirkiv goze æ þveræ en asgrimr kvittr firir honum oc hans erfingivm. skillde hvor svara laga Riptingvm æ þeim iordvm er sellde en hallda þeim til fvllra laga er þeir keyptv. kynne iordenn æ þveræ ath riptazt af sira þorkele skillde hann eiga aptr i iordena æ myre tvttvgv hvndrvt vird edr þriatige kvgillda. Oc til sannenda hier vm settvm vær vær innscigli firir þetta bref skrifat æ greniadarstavdvm i Reykiardal æ lavgardag næstann efter vppstigningardag anno domini M° cccc° xxx° vij°.

---

## 608. 21. Mai 1437. í Vík í Sæmundarhlíð.

Nikulás prestr Kálfsson kvittar Illuga Björgólfsson fyrir afhending á kirkjufjám á Hofi á Skagaströnd.

AM. dipl. afskrr. Nr. 462, «Ex originali monasterii Thingeyrensis, accurate» (AM.). Árni lýsir innsigli séra Nikulásar. «þar sem þesse understrikudu ord [hér í útg. í hornklofum] nu standa í brefenu, hefur eitthvad utskafed vered, og þesse understrikudu ord skrifud i stadenn þess. Er höndenn ä þessu understrikada miklu nyrre til ad siä enn hitt annad i brefenu. þo getur þetta ecki vel fals vered» (AM.).

---

[1]) þannig; [2]) Aptan á bréfinu með fornri hendi.

Þath giore ek sira nicholas kalfssonn godvm monnum kvnnickth med þessv minv brefe at ek medkennvmz[1]) at ek hefer vtt tekid af illvgha biorgolfssyni j kirkivgodzith a hofi a skagastravnd niv kvgilldi ok tvttvgv. vij hesta. ij merar .cc j vadmalvm. c j virdingargozi ok .x. hvnndrvd j porcio ok lvktvz honum þav apptur j kirkiv bótt ok stadar. ok þvi giore ek fyr nefndan illugha[2]) biorgolfsson orlvngiss k(v)ittann vm adur gre(i)nnda penninga [alla þa er ek hefi ut] tekit. ok til sanninda her vm setta ek mitt insigli firir þetta bref er giort var j vik j sæmvndarhlid þridiadagenn j hvita[3]) vikv anno domini m° cccc° tricessimo septtimo.

«aptann ä briefinu stendur med sômu hende ad visu eins gamalli» :

var þessi fridleiki xvj kyr. ij kvigur. fim asaudar kvgilldi. fim i gelldvm navtvm. ij j saudvm. vij hestar. ij merar.

---

609. 25. August 1437. á Þingeyrum.

Godsvin biskup í Skálholti skipar samkvæmt kosning konventunnar Þóru til abbadísar í Reynistaðarklaustri, sem hafði verið abbadísarlaust um mörg ár síðan Ingibjörg abbadís dó, og sömuleiðis dispenserar hann með Þóru um eitt ár um aldr hennar, sem eigi var lögboðinn.

AM. Fasc. X, 7, frumritið á skinni með útlendu handarlagi. Innsiglið er dottið frá. Bréfið hefir fylgt Reynistaðarklaustri.

Víj Godhswin med gudz naadh biskup j skalholti ok wmbodhsmann heilaghrar holakirkiu kunngórum allum godhum monnum med þessu waro opnu brefui at þa ær lidith war fra burdh wors herra iehsu christi þusund fioghr hundrot þretighi ok siaw aar komum wíj til klostridh a stad j reynines sem stendr j skaghafirdhi j holabiskups dømi hôrdhum wíj ok wndirstodhum af konuent ok systrom adhrnefndz klostrs at

---

1) þannig; 2) illigha, hdr.; 3) «Mille j og viku er nockud, sem ecki verdur lesed i originalnum. Þad synest vera hviij enn h. og iij. er aptur utskafed. v. stendur enn skirt». (AM.). Hér hefir því líklega annað hvort staðið hvíta viku eða hvítasunnu viku eða hvítadaga viku.

efter andlat wyrdhulighrar jungfrw ok hreinlifrar persono frw jngibiargar milldrar aminningar som seinazt war abbadis j sagdho klostri hafr nefnt klostr j morgh aar werit wtan abbadis ok hennar Regiment. Samoleidhis hafuum wíj wndirstadhit af fyrsaght konuent ok systr at þær hafua sett ok skipat erligha ok reinlifua jungfrv syster thoru som wigdh ær ok professa j oftnefndu klostri til priorissam wm nockur aar. þotti os sem fyrsaght klôstr matti æi skadaleyst sta wtan rettom formanne. ok efter waro radhi gekk allt þeirra konuent j capitulum. hwar allar systr með einnæ rôst reghlulighа sik kusu systr thoru til formanz ok abbadis hidhiandis os ødmiukligha confirmera þeirra laghlighan kosningh. hwerra hønum wíj med allom godhwilia samþykkiandis ok þeirra Reghlulighan kosningh af warri biskuplighri makt confirmerandis.

Jtem dispenserum wíj af sama makt med nefnda systr thoru wm eitt aar ædher litt meir þat hon hafr æi swo fullilighan ædhr laghlighan alldhr som henni bær af loghmali heilaghrar kirkiu.

Hær ofr bidhium wíj ok biodhum wnder krapti heilaghrar hlydhni allom swo leikom som lærdhom sem til hôra fyrsaght klôstr at their se fyrnefndhri systr thoru hlydhughir efterlatughir ok ôdhmiukir j allom þeim hlutom sem þeim bær sinum rettom formannæ ok abbadis at gôra.

Ok til sanninda hær wm heingdom wíj wort jnsighli forer þessa confirmacionem sem skrifuth war a þingheyrom. dominica proxima post festum sancti Bartholomei apostoli ipsius gloriosi sama ari som fyr seghir.

---

## 610. 13. September 1437. á Möðruvöllum.

Þorvarðr Loptsson selr Gunnsteini Jónssyni jörðina í Leyningi í Eyjafirði fyrir jörðina í Vogum við »Mývötn«.

AM. Fasc, X, 6, *frumritið á pappír.* Innsigli Þorvarðs er dottið frá, en þó er ekki rifinn faldr bréfsins út úr innsiglisgatinu; hefir því innsiglisþveingrinn líka líklega verið úr pappír. Þetta bréf er langelzt af öllu, sem til er frumritað á pappír á íslenzku. Þó finnast rök til þess að kæra Michaels prests Jónssonar frá 3. Apríl 1423 (Nr. 365) hafi verið rituð upphaflega á pappír, þótt hún sé nú einungis til í samtíða frumriti á skinni. Bréf þetta má heita, að hafi haldið

637. [14. August] 1439. á Kirkjubóli.

Reikningr kirkjunnar á Kirkjubóli í Langadal, er Goðsvin biskup tók í yfirreið sinni.

AM. dipl. afskrr. Nr. 2340, «Ex pagina pergamena fra Kirkiubole i langadal. pagina þesse pergamena hefur alldrei innsiglud vered nie giörd in formam instrumenti, helldr alltid vered laust. slikt passeradi i gamla daga firir nogu gillt. Skriftarlaged ä henne. eins badum reikningunum. er eins og ä Leidarholms-samþycktar Copiunne sem eg a[1]) og ödrum þeim documentum sem eru med sömu hendi, og (sem mier synest) hin sama hönd, nema þetta er miklu stærra, betur og settara ritad, enn stafagiörden er hin sama, og literatura ä stundum eins. þad er vist, ad sie þad ei hin sama hönd, þä hefur annar hver imiterad annann, eda bader lært af sama manni ad skrifa. ad minimum leidarholmssamþyktar skrifarenn breitt epter stafagiörd þessa ritara, eda annars þviliks». (AM.). Aptan við þessa skrá ritar Árni: «Hier firir nedan er so sem þumlungs breid eyda óskrifud ä bokfellenu. þad er i litlu folio snunu ä þvervegenn, eins og menn kalla saungqvers form. og þar nedan firir er skrifadur annar reikningur Kirkiubols kirkiu de anno 1469. quem alibi exscriptum habeo».

Anno domini. m°. cccc°. xxx°. nono.

Jtem woru suo fellder peningar Reiknader æ kirkiubole j langadal þa er loptr halfdanarson hiellt. sagditz hann hafa tekit tiu hundrut frid ok sex hundrut j porcionem. Reiknaditz porcio medan loptr hiellt halfr þride taugr hundrada. Runnu þar aptur .xx. hundrut er hann giorde upp kirkiuna alla af uelle. lagde loptur til kirkiunnar messuklæde ný ok alltarisklæde med sæi. þria duka. tuo med brun. ok mariuskript med alebastrum. uar þetta allt giort firir tiu hundrut. Reiknade loptr kirkiunne .xij. hundrada jord er heiter bakke firir .xij. hundrut frid. uard þa skylldug kirkian adrnefndum lopte fimm hundrut.

War þetta giort af .vj. skynsaumum monnum þeim sem worr andligr fader herra godsuin tilskipade þa hann war j sinne uisetacio j uestfiordumm.

[1]) er nú í AM. Fasc. LXXIII, 13, og er með hendi Björns Guðnasonar.

638. 17. August 1439. á Þingeyrum.

VITNISBURÐR Brands Þorgilssonar og tveggja manna annara, að Þingeyraklaustr hafi átt og haldið alla fiskveiði í «Víðudalsá» fyrir Syðri-Borg að helmingi við Þorkelshólsmenn frá Ingimundarhóli og ofan til Melrakkadalsáróss meir en þrjátíu ár átölulaust.

AM. dipl. afskrr. Nr. 463, «Ex originali monasterii Thingeyrensis, accuratè» (AM.). Afskriptin er staðfest 7. August 1712 í Skálholti af Árna Magnússyni og Páli Hákonarsyni. Þrjú innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en þá var eitt af þeim eptir. Utan á bréfinu stóð með gamalli hendi «az bref».

bref vmm veidina j wijdidalsæ firir litluborg.

Þat giorum vær brandr þorgilsson. þordr snorason ok íuar halluardzson godum monnum viturligt med þessu voru brefi at vær uissum at formenn þingeyraklausturs haufdo ok hielldu klaustursins eign ꝺ́ þingeyrum vera ok verid hafua alla fiskveide j vidudalsꝺ́ firir iordunni sydri borg at helmingi vid þorkelshuolsmenn. fra holi þeim er kalladr er ingimundarholl ok ofuan til melrackadalsār os. hafua stadarins menn ꝺ́ þingeyrum farid j fẏrrgreindann ꝺ́r reit sumar epter sumar meirr enn ꝺ þriatigi ára suo vær fẏrrnefndir menn vitum. hafua þar huerki at fundit þeir sem buid hafua ꝺ jordunni sydri borg ok eigi þeir sem iordina hafua att. hafua þessir menn farid med iordina sydri borg ok sier eignat sidan vær vissum til. fyrst þorgrimur sauluason. þa biorn bondi einarsson ok hustru kristin biórnsdotter. ok fann ecki þeirra at þott stadarins menn hefdi adr greinda veidi. ok alldri hofum vær þar tuimæli ꝺ heÿrt at stadrinn ꝺ þingeyrum ætti ei greinda veide j fẏrr greindu takmarki.

Ok til sanninnda hier vm settum uær fẏrrnefnder menn vor insigli firir þetta vitnisburdarbref er giort var ꝺ þingeyrum j hunavadzþingi manudagin næsta epter assumcionem[1]) marie virginis. þa er lidit var fra hingatburd vors herra iehsu christi þusund fiógur hundrut .xxx. ok niu ár.

[1]) assumciosce̅. hdr.

639. 23. August } 1439. { í Hvammi.
2. September } { á Reykhólum.

Godsvin biskup í Skálholti staðfestir máldaga Jóns biskups Haldórssonar frá 1327 (Dipl. Isl. II, 383) og skipan Gyrðs biskups um tíundir og eyristolla frá Ásgarði til Sælingsdalstungu, en ónýtir bréf Jóns biskups Gerrekssonar um sama efni.

JSig. 143. 4to bls. 398—99 á pappír c. 1600. AM. dipl. afskrr. 5754, auðsjáanlega eptir einhverri pappírsafskript (= b). AM. dipl. afskrr. 1527 (með hendi séra Ketils Jörundarsonar í Hvammi, d. 1670). Landsb. 107. 4to bls. 394—95.

Wier Gottsuijn med Guds næd Byskup j Skalhollte giorum godum monnum viturligt med þessu voru opnu briefi ad sub anno domini m. cd. xxx. ix. sunnudaginn næstan fyrer Bartholomeusmessu j huamme j huamssueit þann tijma er vær vorum i vorre visitatione. kom fyrer oss Gunnar Jonsson er þæ bio j Sælingsdalstungu af eirnri alfu enn Tvmi berþorsson af annari er þa hielltt kyrkiuna j Asgarde. tiede adur greindur Gunnar oss þann maldaga sem Byskup Jon godrar minningar j Skalhollti sæ sem vijgdi adr greinda[1]) kyrkiu j Sælingsdalstungu hefdi sett. so oc eigi sijdur sŷndi oss fyrr nefndur Gunnar skipunarbrief herra Gyrdz Byskups ad hann styrkti oc stadfesti þann sama maldaga med sijnu brefi oc jnnsigli.

Jtem j annari grein tiadi[2]) oss fyrrnefndur tume opid brief Byskupz Jons Gerrikssonar[3]) ad hann hefdi burtt skipad tijunder oc lysistolla oc eyristolla af efrum skogum oc til Asgardzkyrkiu. oc nu saker þess ad vij[4]) höfum spurt oc heyrtt ad fyrrnefndur maldagi oc fyrrgiört skipunarbref Gyrdz kom ei framm fyrer Byskup Jon Gerriksson[3]) fyrrnefndan oc ecki vissi hann nockud af þui. þui kollum vier apttur þat sama brief Byskups Jons Gerrikssonar[3]) oc villium hallda med fullri magt fyrgreinda[5]) Gyrdz skipan oc so biodum vij[4]) vnder skyllda hlydni þeim. sem efri skoga eiga. ad þeir luki arliga ars[6]) allar skylldur fyrrnefndar oc serliga eyristolla til Sælingsdalstungu eptter þui sem sæ maldagi oc þat brief vtvijsar. sem[7]) hier er med festur so leingi sem vij[4]) giörum ecki adra skipun æ þar vmm.

[1]) nefnda 1527; [2]) tiede b, 1527; [3]) Gerisson(ar) 143; [4]) vier 143; [5]) fyrrgreint öll; [6]) sl. b, 1527; [7]) sl. 143.

oc til enn[1]) meiri avdsýningar oc stadfestu hier vm settum[2]) vij[3]) vort[4]) jnnsigli fyrer þetta bref med ræde oc samþýcki vorra presta er þa voru nær oss. Þorkell Olafsson. Þorsteinn Suartthöfdason. Þorsteinn Jonsson. Skalhollts Byskupsdæmis herrar.[5]) Jon Jonsson. Loduik hallsson holabýskupsdæmis.

settu fyrr nefnder prestar sijn jnnsigle med [voru jnnsigle[6]) fyrer þetta bref. [skrifad ä Reykholum ä Reykianese midvikudaginn epter Festum Egidii abbatis & confessoris. ä sama äre sem fyrr seiger.[7])

---

## 640. 23. September 1439. á Auðkúlu.

Björn Þorleifsson selr Eiríki Loptssyni jörðina Grund í Eyjafirði og Holt, fyrir tvö hundruð hundraða, sem er Sjóarborg í Skagafirði, fyrir tíutigi hundraða, Kimbastaði tvenna, Gil, Ásgrímsstaði og Kálfadal, fyrir tvö hundruð hundraða alls.

Frumritið í safni Jóns Sigurðssonar Nr. 3, á skinni. AM. dipl. afskrr. Nr. 231, með hendi Árna Magnússonar «Ex originali Sr Sæmundar Hrolfssonar. accuratè». Öll innsiglin nema hið 7., eru að nafninu til fyrir bréfinu, en mörg af þeim eru mjög brákuð. Hér er prentað eptir afskript Árna.

Jnn nomine domini æmen

var suo fellt iardarkaup milli biornns þorleifssonar ok eireks lofszsonar. æd ædrnefnndr biornn selldi fyrrnefndum eireki iarder tuær er suo heita grund i eyiafirde ok hollt med ollum þeim gognum ok gædum. hlutum ok hlunnenndum sem iordunum hefuer fylgtt ad fornu ok nyu ok hann vard fremst eigandi ad i ærf efter födur sinn firir tuo hundrod hundrada bædar iardernar. hier i moti selldi adrgreindr eirekr fyrsogdum birnne iarder þær er suo heita siofarborggh i skagafirde firir tigitige hundrada. kimbastadi tuenna firir fimtigi hunndrada badar saman. gil firir fimtigi hundrada. asgrimsstader firir. xx. hundrod. kalfardæl firir. xx. hundrod. liggia þessar iarder allar i skagafirde med ollum þeim gognum ok gædum. hlutum ok

---

[1]) sl. *b* 1527; [2]) setium 1527; [3]) vier 148; [4]) vor 148; [5]) herra *b*, 1527; [6]) [vorum Jnnsiglum 148; [7]) [sl. 148.

blunnendum sem þessum ollum iordum fylger ok fylgtt hefuer ad fornnu ok nyu ok hann vard fremst eigandi ad. med þeim skildaga ad þeir somu partar sem þorleifui arnnasyne voru dæmder ok urskurdader or ædurgreindum iordum ok hans bornnum fell til erfdar efter hann huortt þeir verda meire eda minne efter Rettum reikninge. Skylldi fyrr greindur biornn eignazt suo micit vpp i iordina hellulænd i hegranesi sem partarner kunna med rettu ad reiknazt ur fyrgreindum iordum. Jtem sagdi tittnefndur eirekr þessar iarder sem hann selldi birnne i moti grvnd tuo hundrod hundrada. kynne þær ok odyrre Reiknazt þa skylldi þat ganga vpp i fyr sagda iord hellu-land birne til fullrar eignar. Jtem yrde ok meire dyrleika munur iardanna edr partanna þa skylldi eirekur til leggia adrar fæsteigner innan fiordungs efter Rettri tiltolu. Enn eignn eireks obrigdiligh iordin oll æ grund i eyiafirdi. verda ok iardernar dýrre þa Renne aftur vnder eirek efter Rettri til-tolu. Skylldu oftt nefnnder menn biornn ok eirekur suara ollum lægaRiftinngum æ þeim iordunum er huor selldi odrum. Enn huor firir sigh hallda þeim til læga er keypti ok afentar allar iardernar ok frialsliga ad sier taka huor sinar iarder ad næstum fardogum. Voru þesser vot(t)ar hiæ þessu kaupi. þor-uardur bondi lofszson. ornn helgason. þorarenn aronsson. helgi ionsson. ingemundr þosteinsson ok þosteinn ionsson. huerer sin inzsigli med inzsigli ofttnefnnz eireks lofszsonar settu firir þetta iardakaupabref. giortt æ kulu i suinadæl. miduikudægh næsta efter festum sancti mattei apostuli. anno domini ꝏ° cd° tri-cessimo nono.

---

641. 30. September 1439. á Ytri-Ey á Skagaströnd.

Eiðfestr vitnisburðr þriggia manna um eignarrétt Þingeyra-klaustrs til jarðarinnar Ytri-Eyjar á Skagaströnd.

Bisk. Isl. Hol. Fasc. II, 4, frumritið á skinni, og eru tvö inn-sigli fyrir. AM. dipl. afskrr. Nr. 3564, stafrétt afskript gerð af séra Snorra Jónssyni fyrir Árna Magnússon (fylgt hér).

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edur heýra senda biorn amundson.[1]) biorn audunarson ok aurn helgason q(uediu)

[1]) þannig.

guds ok sina kvnnikt gerandi at þa er lidit var fra hingatburd worss herra jehsv christi ꝏ. cccc. xxx. ok ıx. ær æ ýtri ey æ skagastrond worum ver j hia sæum ok heyrdum æ at jon aboti tok suo felldan vitnisburd med bokareidi af þorualldi ionssyni at hann bio suo æ ýtri eý æ skagastrond. x. vetrum leingur at hann lukti stadnum (æ) þingeýrum landskýlld af jordunni ok klaustursins vmbodsmanni. suo ok eigi sidur sor hann at einar þorsteinsson hefdi buit æ sagdri jordu eý fiora vetur enu nęstu fýrer stadarins vegna æ þingeýrum ok broder asbiorn las fyrer honum þat bref at valdis helgadotter gaf klaustrinu æ þingeýrum jordina ýtri eý til fullrar eignar. Ok til sanninda her vm settum wer vor inzsigle fyrer þetta bref skrifat æ ýtri eý æ skagastrond jn festo jeronimi presbiteri ꝏ sama æri sem fýr segir.

---

## 642. 27. Nóvember 1439. i Saurbæ á Rauðasandi.

Kaupmálabréf Þórðar Sigurðssonar og Ingibjargar Haldórsdóttur.

AM. dipl. afskrr. Nr. 1108, eptir frumritinu. Árni lýsir innsiglunum, en 1., 3., 4., 6., 7., og 9. voru dottin frá. «Brefid er annars ritad med krokottum ängastôfum vidlikt og finnst i brefum, sem skrifud eru i Norege um þetta bil, eda helldr nockru fyrr». (AM).

Jn nomine[1]) domini amen
var suo felldur kaupmæli lystur ok lagin millum þordar sigurdzsonar ok inngibiargar halldorsdottur æ þeira brudlaupsdeigi. ath fýrnefnndur þordur hafde til kaups med ædur nefnnda jngibiorgu halba jaurdina haga æ bardastraund. firir sextige hundrada. her j moti hafdi fyrnefnd jngibiorg jordina þorfinnzstadi j walþiofsdal. ok þar til sex hundruth firir þriatigi hundrada. þar til gaf tittnefndur þordur optnefndre jngibiorgu fimm hundruth j beckiargiauf. telzt þetta allzt halfur fiordi taugur hundrada. kiauri oddfridur aradotter jngibiorgu dottur sina mælakonu j gard þordar sigurdzsonar. Ok skýlldi sæ mæli leggiazt j nefnda jord haga. gæfu adurnefnder[2]) menn huort audru fiordungsgiof þui er leingur lifdi [ef þau deydi barnlaus.[3])

---

[1]) nomini, afskrr; [2]) adurnefndur(!) afskr.; [3]) [«þesse ord: ef þau deydi barnlaus. eru i originalbrefinu yfir dregin med bleki. verda þo lesen. Hvert þetta sie skied i öndverdu eda sidar, er æred ovist. Eg ætla þad sie

Her ath auk gaf þrattnefndur þordur tjttnefndri ingibiorgu kiorgrip. ath auk þessara peninga. Skýlldv erfingiar þordar eiga lausn æ greindri jordu haga. firir lika peuinga sem j worv lagder. Skyllde ok oddfridur moder jngibiargar [fyst til ath[1]) kaupa þæ jord sæm jngibiorg hafdi til kaups med þord [sem fe liggur j.[2])

Voru þesser brudlaupswottar ok suo festingarwottar. sera biarne sigurdzson. Gudmundur bondi arason. hakon jonson. ellingur þordarson. einar þordarson. bauduar klængson. jon narbason. audun magnusson. Gisli magnusson.

Ok til saninda her wm settum wær fýrnefnder menn wor jnzsigli firir þetta kaupmælabref. Skrifuat j Saurbæ æ Rauda sandi. friadag næsta firir andresmesso. anno domini ꝏ⁰ cccc⁰. xxx⁰ nono.

---

643. **18. Febrúar 1440.** **á Reynistað.**

Jón ábóti á Þingeyrum og fjórir klerkar aðrir votta, að systir Margrét Þorbergsdóttir hafi lýst því í náveru Goðsvins Skálholtsbiskups, að hún hafi lofað frú Guðrúnu abbadís á Kirkjubæ hlýðni, eins og hún hafi fyrr sagt hlýðni í hennar klaustr í Noregi, og að hún hafi verið í fimm ár í greindu klaustri.

AM. Fasc. X, 18, frumritið á skinni. Öll innsiglin eru dottin frá nema eitt. Niðr í innsiglisþveingina hefir verið rist annað frumrit sama bréfs. Bréfið er úr bréfasafni Reynistaðarklaustrs.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra sendvm vær broder jon aboti af þinge(y)rum. þostein jonsson af hauskulldz

---

skied i öndverdu, þvi þad er vidar i þessum Hagabrefum ad skrifarinn hefr af ogiætne ritad þad, sem strax hefr þurft ut ad draga, og svo mun hier vera• (AM.); [1]) [•þesse ord fyster ath hafa i originalnum yfer og under strikud vered med bleki, älika og hier er giört. Sidan eru striken burt skafen, orden eiga og manifestè ad standa, og hefur att at heita: Skyllde z Oddfridur moder Jngibiargar fyst til ath kaupa þæ jord sæ• (ɔ: sem) Jng. Skrifarinn hefr af ogiætne sleingt þessu saman og ur fyst t' giort fyst'• (AM.); [2]) [•þesse ord sem fe liggur j. eru hier sett inn ä mille ordanna og uppi yfir linunni. og þad med annare hendi enn ä brefinu er. og miklu smærre skrift. propter angustiam Spatii. þo synest þetta strax i aundverdu giort vera•.

staudum. loduick halzson. þosteinn jonsson. þostein illugason prestar. Q(uediu) gudzs og sina kunigt gerandi ath sub anno domini ꝏ⁰ cd⁰ xl⁰ fimtodaghin fystan j langa faustu j stadh j reynenes klaustri j nærueron vors naduga herra godsuin med guds nad biskups j skalholldi og vmbodzmann heilagrar hola[1])-kirkiu vorum vær j hia og heyrdum a ath syster margret þorbergsdotter sagdi fram fyrer oss vpp a sin full saninde ath hunn hefdi sagt fulla hlydne fru gudrunu abbadisi j kirkiubæiar klaustur ordinis sancti benedicti skalhollzs biskupsdæmis j næruerond systur annleifar og systur brigitar conuentus systra sagdzs klausturs j allan mata sem conuentus systur plaga ath segia þeirra abbadise sem hun hafdi fyr sagt hlydne j hennar klavstur j noregi og ath hun hefdi verith j fyr greint klaustur vpp a fim ar og[2]) ath þangat hafi lagizst sextigi hundrata med henne at vitund sira haflida[3]) (og) sira amunda[3]) presta skalhollzs biskupsdæmis.

Og[2]) til sanninda hier vm settum vær vort jnsigle fyrer þetta bref skrifat a stad j reynenese j skagafirdi j sama stad degi og are sem fyʀ seger.

---

644. 22. Febrúar 1440. á Hólum.

Bréf Goðsvins Skálholtsbiskups til Jóns ábóta í Þykkvabæ í Veri, þar sem hann biðr hann að «taka opit bréf séra Ámunda [Hallssonar] og séra Hafliða [Jónssonar] hvat þeir mega framast vita um lýsing» Margrétar Þorbergsdóttur (Nr. 643) og svo að hann fái skjallega að vita, hvað systurnar Ingveldr og Brigit (á Kirkjubæjarklaustri) muna þar til.

AM. Fasc. X, 19, frumritið á skinni. Innsiglið er dottið frá.

Víj godsu(i)n med gudhs nad biskup j skalhollti og vmbodzman heilagrar holakirkiu bidium ydr broder jon aboti j þyckua-

---

[1]) tvískrifað; [2]) Hér ritað fullum stöfum í frumbr.; [3]) Eyða fyrir föðurnafni í frumbr., en það er enginn efi á því að hér er átt við séra Hafliða Jónsson á Kálfafelli í Fljótshverfi, sem afhenti þann stað 1448 í hendr séra Guðna Björnssyni, en Ámundi prestr er séra Ámundi Hallsson í Eyvindarhólum (sbr. bréf frá 22. Febr. 1440 og frá 14. Júlí 1440).

bæiar klaustur ath þier tackit opith bref sira amunda og sira haflida vnder þeirra jnsiglum huath þeir mega framazst bera vm lysing systur margretar þorbergsdottur epter þui sem þetta opit vittnis burdar bref vtvisar sem hier er med fest[1]). og suo ei sidr faith ath vita skiallega huath systurnar ynguelldr og brighit muna þar fremzst til. og[2]) til saninda hier vm settum vij vort jnnsigle forer þetta bref skrifath j holum j hialltadal jn cathedra petri apostoli anno domini ꝏ cd xl°.

---

645. 26. Febrúar 1440. Windsor.

Leyfisbréf Hinriks hins sjötta, Einglakonungs, að tveir enskir menn megi færa Skálholtsbiskupi tvo skipsfarma af nauðsynjavörum til Íslands, og taka þaðan aptr farm til Englands.

Rymeri Foedera, ed. Holmes V, I, 75; Safn I, 13—14.

Pro episcopo Islandico de providendo.
Rex omnibus, ad quos et cetera, salutem.
Sciatis quod:

Cum per quandam supplicationem, nobis per Johannem Secheford & Johannem Candeler exhibitam, acceperimus, qualiter confessor carissimi fratris nostri regis Daciæ, qui in episcopum de Scalhelte in Islandia nuper est creatus, panem, vinum, servisiam, neque alium liqvorem, nisi lac et aquam, ad manducandum et bibendum, sev pannum ad se et servientes suos induendum, non habeat;

Pro qua quidem causa idem episcopus dictos Johannem et Johannem, ad licentiam pro duabus navibus, extra regnum nostrum Angliæ in terram prædictam, cum victualibus et panno (solutis prius custumis et aliis deveriis nobis debitis) libere transeundis, habendam, penes nos prosequi desideravit.

Nos, præmissa considerantes, ac etiam, quod divinum servitium, communionemque et baptismum in terra prædicta, absque relevamine et auxilio nostris in hac parte, verisimile est deficere et cessare, eo quod in dicta terra neque frumentum, vinum, neque sal existant, ut informamur, de gratia nostra

---

[1]) það er nú laust frá; [2]) ritað þannig fullum stöfum.

speciali concessimus et licentiam dedimus eisdem Johanni & Johanni, quod ipsi duas naves cum mercatoribus et marinariis eisdem necessariis in dicto regno nostro cum centum quarteriis frumenti, in utraque (videlicet) navium prædictarum, ac aliis victualibus et panno onerare et carcare, ac extra dictum regnum nostrum in terram prædictam (solutis prius custumis ac aliis deveriis nobis debitis) libere transire, ac ibidem easdem naves ad usum dicti episcopi exonerare et discarcare, ac ab eodem episcopo et deputatis suis hujusmodi mercandisas, prout in eadem terra existunt, recipere, et cum eisdem mercandisis naves prædictas onerare et in regnum nostrum prædictum cariare valeant licite et impune; aliquo statuto sive ordinatione, in contrarium factis, non obstantibus.

In cujus &c.

Teste rege apud castrum suum de Wyndesore XXVI. die Februarii.

Per Breve de Privato Sigillo.

---

## 646. 23. April 1440. á Hólum.

Goðsvin biskup í Skálholti og umboðsmaðr heilagrar Hólakirkju skipar tíundir og ljóstolla bónda og húsfreyju, barna þeirra og ómaga, til hálfkirkjunnar í Vík í Staðarþingum í Skagafirði, en allir aðrir heimamenn greiði til «Reynisklaustr».

AM. dipl. afskrr. Nr. 5654, «Ex originali» með hendi Jóns Magnússonar bróður Arna. «Brefed er ä kalfskinn, med einu Jnnsigle. Verdur letred j kring ei lesed. Enn j midjunne er madur j gejstlegum habit sitiande, med spiru j hægre hende. og merke ä. Hefur fyrer sier Skiölld med krufenne örn ä.»

Wíj godsuin med gudz nadh biskup i Skalholti formann ok vmbodzmann heilagrar holakirkiu gerum þat godum monnum viturligt med þessu voru opnu brefui ath wær skipum ath halfkirkian i vik i stadarþingum i skagafirdæ skal taka hæima tiundær ok liostolla bonda ok huspreyiu ok allra þeirra barna ok þeirra wmagha er þau æiga med logum fram ath færa. En allar adrar tiunder ok liostolla þeirra er þar ero hæimilisfaster skulo vera lukter til Reynisklaustur[1]) obrigdiliga hedan af. ok

[1]) þannig.

til sanenda her vm settum víj uortt insigli firir þetta bref scrifuat a holum i hialtadaal in die Georgii martiris anno domini ᛘ° cd° xl°.

---

647. **24. April 1440. á Hólum.**

Sáttargerð þeirra séra Jóns Pálssonar og séra Þorkels Guðbjartssonar í viðrvist og að tilhlutun Goðsvins Skálholtsbiskups og margra annara klerkmanna og leikmanna; sættast þeir alsáttum á allan reikningskap og óvinskap, er þeim hafði farið á milli, og heitir séra Þorkell séra Jóni fullri vináttu og fylgi, og kyssast þeir að lyktum «fyrir munninn trúlega».

AM. Fasc. X, 16, frumritið á skinni, sem aldrei hefir verið innsiglað, og mun því vera fyrsta uppkast. AM. Fasc. X, 15, transskript á skinni frá 14. August 1471, og er það haft hér til samanburðar. Afskript gerð eptir transskriptinu er í IBfél. 126. 4to bls. 41—42. Það sem skinnbréfunum ber á milli er einungis stafsetningarmunr. Bisk. Hol. Fasc. V, 1, transskr. frá 18. Júní 1490, eptir transskr. frá 14. Aug. 1471; afskrr. þar af í AM. dipl. afskrr. Nr. 3141 og 3565.

bref vm sira jon palsson.[1])

Ollum monnum þeim sæm þetta bref sea ædr heyra Sendom wær Godhswin med gudz nadh biskup j skalholt formann oc vmbodzmann hæilagrar holakirkiu[2]) kunnict giorandi med þessu voro brefuæ ath sub anno domini ᛘ° cd° xl° aa faustudagin næsta firer jons dagh holabiskups[3]). kom firer oss j storu stofunnæ aa holum j hialtadaal sira jon paalsson wor officialis oc Radzmann holabiskupsdæmis af æinne halfuo oc sira þorkell prestr gudbiarttzson ens sama hola biskupsdæmis af annaræ halfuo nær verondum worum prelatum brodur jon abota a þinghEyrom broder siugurdar[4]) prior aa modruwollum Suæinbiorn þordarson. siugurdr jonsson. þorstæinn jonsson. Gudmundr þorlaksson. Magnus jonsson. Teitr finnsson. lodhuik halsson. hallr arnnason. steinmodr bardarson. prestar. arnnæ þorlæifsson. brandr jonsson. stæindor jonsson. jllugæ biorgulfsson. Oddhr asmundzson. hallr Einarsson. læikmænn. med morgum odrum lærdum oc læikum hwar þeir sira jon oc sira þorkell fyrnefndr toku hondum

[1]) Aptan á x, 15 með fornri hendi; [2]) þannig; [3]) þ. e. 22. Apríl; [4]) sigurdr x, 15.

saman ath suo firer skildu ath sira jon paalsson fyr sagdæ suo til þrattnefndhs sira þorkells. allan Rett oc kærumaal vm alla þa pæninga sæm migh þicker þar þu ert mer skylldugur. En ek þat ecki wæit firer sanendi. huortt þat ær ædr ei hwortt þat hefuer matt verda vm landhskylder græniadarstadar æda af minom æighin jordum sæm eru þiner mænn edr þeir sæm vpp a jordunom hafua buet med ollum odrum askilnadæ oc owinskap sæm okar hefuer j millum faret her til sæm nu er komit. Skalt þu vera ollungis kwittur oc akærulaus af mær firer gudz skuldh oc mins herra biskupsins oc fru abbadisar af Reynisnesklaustur oc allra dandæ manna nær verandum. Her til skildæ sira jon ath þæir skildu blifua her vm allungis sattir oc kwittir ok alla tima hedan af godær viner hier vpp aa. Oc þetta sama samþyckti sira þorkell ok sagdæ jaa til. oc kystuzst sidan firer Munnen trwligha. Ok til sannenda her vm settum wij uortt jnsigli oc fyrsagder prelatar. prestar oc læikmænn sinn jnsigli firer þetta bref giortt aa holum j hialtadaal sunnodagin j(n) festo sancti Georgi[1]) Martiris anno domini M° cd° xl°.

---

## 648. 26. April 1440. á Hólum.

Jón prestr Pálsson lýsir því, að séra Þorkell Guðbjartsson hafi afhent sér stað og kirkju á Grenjaðarstöðum með öllum eignum, og að hann ætli að borga sjálfr það, sem á bresti hjá séra Þorkeli; sé þeir alsáttir nú fyrir guðs skuld og bænastað Goðsvins biskups, og heitir séra Jón séra Þorkeli vináttu og fylgi.

AM. Fasc. X, 14, transskript á skinni frá 14. Aug. 1471. Afskript af bréfinu í IBfél. 126. 4to bls. 40.

Ek jon prestur paalsson medkennunzt med þessu minu opnu brefui. ath þorkell prestur gudbiarzsson. hefer lukt mier ok afhennt stadin ok kirkiuna áá greniadarstodum med sinum eignum faustum ok lausum epter þui sem biskup gottsuin hefuer dæmt ockar j milli. ok suo hefuer hann afhennt mier minar jarder sialfs ok lausa peninga. enn allt þat goz sem

[1]) Georgiusdagr er 23. Apríl og var það laugardagr 1440. en tíðir hans hafa verið haldnar sunnudaginn eptir, þann 24. Apríl, og því mun vera komizt hér svo að orði.

meira er nær honum enn hann hefer mier vth lukt ok anamat[1]) mitt eda heilagrar kirkiu ã greniadarstodum. hefuer ek kuitt gefit ok akærulaust honum ok hans erfingium j heidr vid gud ok bænastad biskups gottsuins ok annara godra manna. bæde firir mier ok aullum kirkiunnar vmbodzmonnum. ok minum erfingium. bade vm aabud ok medferd fyrsagdra peninga ok huad kirkiunne aa greniadarstodum brestur j sinn Reikningskap vid hann skal ek sialfur bitala edr miner erfingiar. þo ath greindr sira þorkell gere þar eigi meira til. suo ok eigi sidr skulu þeir ok aller kuitter sem þessa penninga hafua ad sier tekit. med faret eda halldit ath hans skipan. skal eg vm þessar greiner vid hann ollungis sattur ok alla þa sem honum hafua til stadit j ockrum aaskilnadi. ok hier med lofar eg honum miuum obrigdili(g)um vinskap ok tilstodu vid hvern mann sem hann ã ok hans heidur er þa meir(i) enn adr ath okreinktum heidr mins biskups ok heilagrar kirkiu ok þeirra dandi manna sem mier ber eigi med æru moti standa.

Ok til sanninda hier vm setta eg mitt jncigli firir þetta bref er giort var áá holum j hialltadáál þridiudaginn næsta eppter festum marcij ewangeliste. anno domini ↀ⁰ cd⁰ xl⁰.

---

549.

27. April 1440. i Tungu i Fljótum.

Valgerðr Gizurardóttir samþykkir sölu Árna Guttormssonar bónda síns á jörðinni Kvígandisfelli í Tálknafirði til séra Bjarna Sigurðssonar, svo framt sem séra Bjarni héldi allan skilmála við Arna.

AM. Fasc. X, 22, frumritið á skinni. Bæði innsiglin eru fyrir bréfinu. Fyrri innsiglisþveingrinn er ristr úr frumriti af einhverju afsalsbréfi, sem ekki sést hvernig á stendr. Þetta má lesa samstætt á þveingnum: «. . . godvm monnvm vitvrligt med þessu minv brefi at ek hefer sellt til fvllrar eignar brodvr . . .» AM. dipl. afskrr. Nr. 1085 (eptir frumbr.).

kaupbref fyrer kuíındisfelle.[2])

Þat giorvm vid filipus ormsson ok illvgi ælfsson godvm monnum vitvligt[1]) med þessu ockv[1]) brefi at þa er lidit var

---

[1]) Svo; [2]) Aptan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

fra hingatbvrd vors herra iehsv christi þvshvndrvd fiogvr hvndrvt ok fiorer tiger æra Midvikvdagin næsta firir tvegia postula Messo philipi et jacobi j tvngv j fliotvm vorvm vid j hia savm ok heýrdvm vpp a ord ok hanndabannd árna gvthormssonar ok valgerdar gizvrardottur hans eigin kvinnv at svo fyrer skildv ath greind valgerdr samþyckti þat sama kavp at fýr nefndr árni hennar eigin bondi selldi sira biarna sigurdzsyni til fvllrar eignar jordena kviganndisfell er liggur j talknafirdi j lavgardals kirkivsokn sva framt sem greindr sira biarni helldi allan skilmala vid tíjt nefndan árna vm ádr greint kavp.

Ok til sanninnda her vm settvm vid fýrnefnder menn ockvr jnzsigli fyrer þetta samþýcktarbref giort j sama stad á degi ok ári sem fýr seger.

---

## 650. 14. Júni 1440. á Hólum.

Goðsvin biskup í Skálholti og formann og umboðsmann heilagrar Hólakirkju vottar, að hann hafi séð próventubréf Jóns biskups Vilhjálmssonar og Sveins Hallvarðssonar, og af því að Sveinn hefir fullgoldið próventukaupið kvittar biskup hann öldungis fyrir því.

AM. Fasc. IX, ad. 10, frumritið á skinni. Innsigli Goðsvins biskups læsir þetta bréf saman við Rípbréf Jóns biskups frá 25/5 1431 (Nr. 492) og 13/2 1433 (Nr. 560). AM. dipl. afskrr. Nr. 293.

Víj godzsuin med gudz nad biskup j skalhollte formann ok vmbodzmann heilagrar hola kirkiu giorum ollum godum monnum kunnikt med þesso woro oppno brefue at víj hofum sied ok jnnvirduliga skodat opith bref biskups jons wilialmssonar j hueriu hann hefer teket profentomann suein halluardson til holastadar j hialltadal j huert bref sem þetta vort bref er vid fest. Nu saker þess ath fýrgreindr sueinn hefer fullt giort heilagre kirkiu bæde fýrer penninga ok þionosto sem hann skylldugur var epter fýr greinz biskup jons bref þui giorum víj hann ollungis kuittan ok akærulausan fyrer oss ok fyrer worum efterkomendum biskupum eda formonnum fyr greindriar[1] heilagrar hola kirkio fyrer fyr sagda peninga ok þionosto j allan mata sem honum er bezst til bihof. Ok til saninda hier

[1]) þannig.

vm settum víí vort jnsigle fyrer þetta kuittunarbref skrifat æ holum j hialltadal þridiudagen næsta efter festum barnabe apostoli anno domini ꝏ° cccc° xl°.

---

651. 14. Júlí 1440. í Eyvindarhólum.

Ámundi prestur Hallsson lýsir því, að hann muni ekki til þess, að hann hafi neina peninga út tekið vegna klaustrsins í Kirkjubæ af Margréti Þorbergsdóttur, en vill þó ekki þræta þess, ef leiðir tvö skilrík vitni að því með svörnum eiði.

AM. Fasc. X, 20, frumritið á skinni., sem hefir verið meðal Reynistaðarklaustrsbréfa, Innsiglið er fyrir bréfinu. Sbr. bréf frá 18. Febrúar 1440 og 22. Febrúar 1440.

Þat giori ek sera amundi hallzson godum monnum vitrligt med þessu minu brefe at ek hefer enga peninga ut tekit uegna klaustrsens i kirkivby af systr margretv þorbergsdottur sua[1]) ek mvni. en ef hun hefer þar skialleg uitne til þa þræte ek þar ecki um ef þat er suarit af tueimr uottum skilrikum. Ok til sannenda her vm sette ek sera amundi hallzson mitt insigli fyrer þetta bref skrifat j holum under eyiafiöllvm fimta dagin næsta fyrer diuisionem apostolorum anno domini ꝏ° cd° xl°.

---

652. 10. September 1440. á Möðruvöllum.

Sigurðr Jónsson príor á Möðruvöllum lýsir því, að hann hafi tekið bókareið af Þorkeli Blængssyni um landamerki Stóra-Hamars í Eyjafirði, svo sem bréfið hér vottar.

AM. Fasc. X, 17, frumritið á skinni með innsigli Sigurðar príors fyrir. Bréfið er frá Munkaþverárklaustri.

landamerkia bref vm stora hamar.

Þath gerer egh broder sigurdr jonsson prior af mavdruuallum godvm monnum kvnnigt med þessv minv opnnv brefe ath anno domini ꝏ° cccc° xl° favstvdagen nesta eppter natiuitatem beate marie virginis[2]) sovr[3]) þorkell blengsſon firir mier svo

[1]) þannig; [2]) þ. e. 9. Sept.; [3]) = sór.

felldann bokareid heima aa begesa enne sýdre j avxnadal nerveranda sira odde þorkelssyne ok jone helgasýne wm jardar eigniña aa meira hamre ath alldre wisse hann nie heýrde geted avdrvwisse halldet hafa vereth enn hamar ette alla jaurd sudr aa sandhol er liggur firir wtan wollin aa bringu ok þadann rettsyne wpp hals suo langt sem sier or tvñenv a grvnd ok þadan þa riettsýne sudr aa avxnafell ok eigr hamar alla jaurd firir avstan þo sionhendingh j mozs wid staden aa Munk(a)þvera. Ok til sanenda hier wm sette egh mitt jnscigle firir þetta wittnisburdarbref wttgefet a Mavdrvvavllvm j havrgardal aa sama are dege sidar enn fýrr segir.

---

653. 17. September 1440. á Hólum.

Goðsvin biskup í Skálholti og umboðsmaðr heilagrar Hólakirkju skipar Jón prest Pálsson til officialis í Hólabiskupsdæmi.

AM. 235. 4to bls. 11, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti.

Vij Godhsuin med guds naad biscup j skaalhollti formann ok wmbodsmann heilagrar holakirkiu giorum godum monnum witurligt med þessu woro opnu brefi ath med Radi ok samþycki worra presta ok lerdra manna j hola biscupsdêmi haufum wij sett oc skipat worn kæra son sira jon paalsson heilagrar hola kirk(iu) ok worn officialem gefandi honum fulla makt ok wmbod aa worra wegna ok heilagrar hola kirkiu til yfer ad déma ok prof aa taka aullum mala fellum þeim sem heilaga hola kirkiu a hrêr(er) ok oss a hrêrer eptir þui sem officialis starfi til heyrer. Skal fyr nefndr sira jon afleysa prest[1]) lêrda ok leika þaa sem brottliger kunna ath werda ok dispensera med klerkum ok setia þeim penitencias competentes. Skal hann sêkia aull hin stêrri maal þau sem eighi heyra profaustum til wnder heilaga hola kirk(iu) ok oss ok hafa firir sitt starf ok médu ser til lettis ok eignar helmingh af ollum fesektum ok giora oss fullann ok rettan Reikningskap þar af. Skal greindr sira jon

[1]) prest, stendr í skb., en er þó eins og nuddað hafi verið yfir orðið nýskrifað,

skipa prestum ok diaknum til kirkna epter þui sem honum þicker naudsynligt wera ok þaurf til stannda firir wtan þad sem wij haufum adr skipad. hann skal ok sia ath lêrdra manna lifnadi suo profasta sem annara presta ok suo eighi sidr leikmanna ok minne þeim wpp aa betr ad giora ok hirti þaa med makligri ok matuligre stiorn ok stridu heilagrar kirkiu þaa sem ecki wilia audmykiazt nie til hañda ganga. Skulum wij sialfer weita stade ok profastdêmi medan wij erum til enn sira jon optnefndr skal skoda kirkiur ok kirkna eigner ok lata meta þêr ok þeirra godz þaa þess þarf medh. skal hann ok sitia aa holum epter gaumlum wana ok epter þui sem wij werdum bader wm eins. Bidium wij wm alla goda menn ok serligha kirkiunnar wine ok wora lêrda sem leika ok þar med allann almugann ath þer styrkit titt nefndann sira jon til allra Rettra mala medan hann stenndr j þessu heilagrar kirkiu ok woru starfi ok embætti takandi þar firir aumbun af gudi enn þauck af oss. Skal þessi wor skipan standa wm nêstu xij manadi ok þath leingr sem eigi werdr aunnr skipan aa gior. Ok til sanninnda her wm settum wij wort jnnzsighli firir þetta bref skrifat aa holum j hialltadal laugardaginn infra octauam natiuitatis beate marie virginis Anno domini ɱ cd xl°.

---

654. [1440].

OFFICIALISEIÐR séra Jóns Pálssonar, er hann sór Goðsvin Skálholtsbiskupi, er þá var umboðsmaðr heilagrar Hólakirkju í Hjaltadal.

AM. 235. 4to bls. 11, bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar á skinni. Eiðstafrinn er nær ólesandi með öllu og virðist lýsi einhvern tíma hafa helzt yfir hann, líklega úr grottalampa. Grillir í sumt framar en hér prentast. Eiðstafr þessi er alls 11 línur.

(Þ)ath gerer ek Jon palsson officialis heilagrar holakirkiu [viturligt med þessu minu brefi] ath ek hef lofat ok lofar m[ed þessu brefi] . . . . faudr herra G(odsuin) med gudz nad . . . . . ath ec willdæ wera minn ælskuligann herra [lydigh] eins ok truum þenara berr . . . . . . . . . . . . . . . ok skyrkia hann med Raad ok daad efter þi sem j minne makt er ath . . . . . . . . . . . . alla sina lifdaga wera . . . . . . suo leingi sem [ek helld þessu] vmbodi ok starfi ok einghi lougligr biskup kemr til [stolsins] sierdeilis ath hann meghi niota ok bihallda velia af aullum sinum . . . . . . . . . . . . . . neiner sem fare

. . . . . . . . allann mata sem [mier er] til latid ok hans bref
þar wm giort [vtvisar . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .]
af . . . . . . . . . . . . . . . . . hann maa med heidr ok æru
forsuara firir danndi monnum.

---

655. 2. Oktober 1440. á Kolbeinsstöðum.

KETILL prestr Narfason ættleiðir börn sín, Jóna tvo, Guðrúnu, Oddnýju og Herdísi, til alls arfs eptir sig, en lofar að gjalda Erlendi bróður sínum þrjátigi hundraða fyrir arflausn, og á helmingr þess að ganga til þess að kenna Halli Grímssyni til prests.

AM. Fasc. X, 24, frumritið á skinni. Sjö innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en þau eru öll dottin frá. AM. dipl. afskr. 1147 (eptir frumbr.).

Sera Ketill Narfason ættleyder born sijn.[1])

Þeim godhum monnum sem þetta bref sia edr heÿra senda sira gisle þorlaksson prestur. jnngimundr snorason. þorgieir halldorsson. eÿiolfur þorualdzson. gudlaugur kolbeinsson. þordr þorgrimsson. gudlaugur jmason. leikmenn. kuedio guds ok sina kunnigth giorandhi. þa er lidhit var fra hinghat burdh vars herra jehsu christi þusundh fiogr hundruth ok fiorir tighir ara. a kolbeinsstodhum fyrer kirkiodÿronom. sunnodagh næsta efter michaelsmesso. vorum vær j hia sœum ok heyrdhum œ ath sira ketill prestr narfason ættleiddi baurn sin. ion ok annan ion. gudruno. oddnÿio. herdisi. hielldu þau œ einne bok sira ketill er ættleiddi ok erlendhr narfason brodhir hans lofadhi ok vpplagdhi ættleidhingina. joni ok audhrum joni. gudruno. oddnÿio. herdisi. er ættleidd voro. taladhi sira ketill sva.

ek ættleidhi hier i dagh. baurn min er sva heita. jon ok jon. gudrun. oddnÿ. herdis. til fiar þess er ek gef þeim. til gialldz ok giafar. til sess ok til sætis. til arfs ok allz rettar þess sem logbok skÿrir ok ættleidhingur a ath hafa at loghum.

heÿrdhum vær ath erlendhur narfason jatadhi þessa ættleidhing ok vpp gaf sva framarligha sem hann matti med loghum. en efter ættleidhingina gaf sira ketill bornum sinum.

---

[1]) Aptan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

jarnhatt ok panzara huorum sona sinna. en dætrum sinom hundhrads grip huerri þeirra. sva ok æigi sidhr vorum vær j hia j stora stofunne j fyrsogdhum stadh ath sira ketill lofadhi erlendhi brodhur sinum j arflausn. þriatighi hundradha med handabandhi. skýlldu fimtan hundhrut lukazt j þeim peninghum sem þeim kæmi vel saman j þarflighum hlutum. en aunnor fimtan hundhrut skylldi leggiazt fyrer hall g[rim]sson[1]) vegna erlendz. er sira ketill skýlldi taka ath sier ok koma honum j skola til skalholltz vpp æ þriu ær ok lata kenna honum sva ath hann mætti verda prestur fyrer lærdoms sakir eda annan stadh þar sem hann mætti vel læra. ath helgafelli ædr j audro klaustri ef hann giæti æigi komit honum j fyr sagdhan stadh til læringhar forfallalaust. en ef gengi til omenzka eda forsoman sira ketils ath fýr nefndr hallr væri æigi lærdr. þa skýlldo sva maurgh hundhrut leggiazt vpp j iordhina laugharbrecko sem hann kostadhi æigi optnefndum halli til kenzlu af þeim fimtan hundrudum sem adur voro greindh. en ef sira ketill kiæmizt med minna af ath lata læra hann þa skýlldi hann þess sialfur niota. en ef tittnefndhr hallr andadhizt fyr en þessi timi væri vti þa skylldi skipa annan mann j stadhin jafn lærdhan honum.

Ok til meire sýninghar ok sannindha hier vm setto fýr nefndhir menn sin jncighli fyrer þetta bref er giort var j sama stadh deghi ok œre sem fýr seghir.

---

656. **14. December 1440. í Selárdal.**

Bjarni prestr Sigurðsson afhendir Árna Guttormssyni tíu kúgilda virði upp í jörðina Kvígandisfell í Tálknafirði, og votta það fimm menn.

AM. Fasc. X, 23, frumritið á skinni. Öll innsiglin eru dottin frá nema hið fimta (síðasta). AM. dipl. afskrr. 1084 (eptir frumbr.).

Breff fyrer quijndissfelli.[2])

Þat giorum vęr jon narfvason. halldor eiriksson. grimur gvttormsson. jon hallzson. jon svmarlidason godum monnum

[1]) gat á frbr., en afskr. hefir: grimsson; [2]) Aptan á bréfinu með hendi frá 17. öld

vturlikt med þessv vorv brefe at þar vorv vær j hia j selærdal at biarne prestur sigvrdsson afhendi arna guttormssyne svo fellda peninga. ketel ok sodvl fyrer ætta kvgilldi. c. asmvnda ok viij stikur klædis fyrer t(v)av kvgilldi. hest ok panzara fyrer þriv kvgilldi. æklædi ok vadmæl fyrer .c. ok fim ælnum uadmæls fætt j. tok fyr nef(n)dr ærne gvttormsson þessi tiiv kvgilldi j fysta sal þat er biarne prestur sigvrdsson ætti at lvka j iardar uerd fyrer kvigandisfell j talknafirde enn þa peninga er meire vorv lvkti hann honum j annad sal fyrer somv iord. főr þessi giorningvr fram fimtvdaginn næsta efter mathevs messo postvla.[1]) Ok til saninda hier vm settum vær fyr nefnder menn (vor jnnsigli) fyrer þetta bref er giort uar j selærdal midvikvdagin næsta efter magnvs messo æ jolafostv anno domini m⁰. cccc⁰. xl⁰.

---

657. 1440

MÁLDAGI kirkjunnar á Hólum í Hrunamannahreppi (Hrepphólum).

AM. 262. 4to bl. 1 b, sk. c. 1600. AM. 66 A 8vo c. 1600.

Þridie mældagi og ber næri samann og sa fyrsti.

Anno Domini 1440.

þennann maldaga agreiner j fau edur ongu og þann fyrsta[2]). utann hier þa eru skrifadar xviij kyr.

Enn þar xx.
hier vij hestar.
Enn þar iiij.
hier 4 hross.
Enn þar ij.
hier iij messuklædi og eirnn hokull.
Enn þar ein og ij sloppar.
Enn um beit æ galltafell talar hier ecki par.

---

658. [um 1440].

MÁLDAGI kirkjunnar á Hólum í Hrunamannahreppi (Hrepphólum).

[1]) þ. e. 22. Sept.; [2]) þ. e. Nr. 658.

AM. 262. 4to bl. 1 a skr. c. 1600: á bl. 1—3 eru Hrepphólamáldagar, sem Jón prestr Egilsson hefir safnað 1582: »Máldagar kyrkjunnar j Hoolum j Hrunamannahrepp þeir allir sem eg hefi j hennar bokum fundit nyir og gamlir«. Við þennan máldaga ritar séra Jón: »Yfer þessum mæaldaga var eckertt datum«. AM. 66 A 8vo bl. 6. Þessi máldagi er yngri en sá máldagi Hreppbóla, sem stendr í Vilchinsbók, því að þar á kirkjan hvorki »Núps land« né »skóg í Bringu á millum gilja«, sem hér er talið; og úr því að annan máldaga frá 1440 »ágreinir í fáu eða öngu« og þennan, er einsætt að þeir muni vera nær því frá sama tíma.

Þessi er mæaldagi kyrkiunnar j Holum j Hrunamannahrepp.
hun ɑ̃ heimaland allt med gognum og suo giædum. Backa land og suo[1]) nups land.
xx kyr. en .lx. Asaudar.
iiij hesta og .ij hross.
iiijc j busbuhlutum og voruvirdum eyri.
skog ɑ steinastodum og j aslakstungum. hinn þridia j bringu æ millum gilia.
hrutahofn j Hagaey fra veturnottnm til hrutmæls.
Solheimingar einer skulu hallda upp gardi ɑ millum landa.
Alldz[2]) fiar afriettur j sandafell og annar til þorarinnsstada.
Eingiar ɑ skeidum j seydisholum.
messuklædi fornn[3]). kluckur .iiij. biollur ij. tiolld vond. Pellz alltarisklædi og .iij. onnur. glo(d)arkier og lioskier. ij langstolar. ij kertastikur. sacrarium munnlog. skijrnarsær.
Gudzspiallabok.
iiij merkur vax.
glergluggur.
Þar skulu vera ij prestar og eirn diakni.
þangat liggur tiund af ǫllum fim[4]) bæium og lysistollur. halfur liostollur fra midfelli. Langhollti nedra og unnarhollti. groftur af ollum þessum bæium.
kyrkann ɑ eirnn kaleik og huslkier med silfur. ij sloppar. fontklædi[5]). dukur glitadur og messinga(r)ketill.
kyrkiann a beit upp a galtafell xx kuum og hundrad asaudar .ij manudi j annat mal. er gunnar nikulasson gaf kyrkiunne.

[1]) sl. 66; [2]) Allz 66; [3]) í Vilchinsbók stendr: fern, og mun það réttara; [4]) 262; V. 66; í Vilchinsbók stendr: þessum, og mun það einnig réttara; [5]) fontzklædi 66.

659. 1440.

BRÉFSÁGRIP um Syðra-Skógarnes.

AMagn. 252. 4to bls. 49, skr. c. 1660; AM. 430. 4to bls. 9, séra Jón í Hítardal c. 1730; AM. dipl. afskrr, Nr. 1573 og Nr. 1545. Það er án efa Oddr leppr Þórðarson, sem hér er nefndr, því að hann var sonr Þórðar Flosasonar, en Flosi prófastr Jónsson var leingi prestr á Staðastað, og hafa þeir feðgar því án efa átt fasteignir í þeim héruðum. En þegar hér er komið hefir Oddr verið orðinn fjörgamall.

Sydra-Skogarnes.[1])

Oddur bonde Þordarson Gaff Clôstrinu a Helgafelle og sancte[2]) Johanne fiordunginn j sidra skogarnese Anno 1440.

---

660. 1440.

BRÉFSÁGRIP um Úlfarsfell.

AM. 252. 4to bls. 51—52, skr. c. 1600; AM. 430. 4to bls. 12, séra Jón í Hítardal c. 1730; AMagn. dipl. afskrr. Nr. 1563. Árni Magnússon hefir ætlað að ártalið ætti að vera 1390, en þeirrar gátu mun ekki þurfa, því að ártalið virðist geta staðizt eins og það er.

Ulfarsfell.[2])

Herra þorsteijrn abote ad Helgafelle. keiffte wlffarsfell aff Olaffe þorarinzsine med samþicke konu hans og suo þria parta j Hrijsum j Helgafellzsueit. Og gaff i stadinn jôrdina alla Borg j Mikll(a)holltzhrepp. med halffum Borgardal. Og þar til alla jôrdina Grôff og Kâlffarvelle[3]) alla Anno 1440.

---

661. [um 1440].

SKULDAREIKNINGR eptir Jón Ketilsson andaðan.

AM. 232. Fol. bl. 54 b, stór skinnbók með sögum á, skr. c. 1300—1350. Þetta er ritað með stórri hendi, að því er mér virðist, nálægt 1440. Dr. Kålund gizkar á c. 1400 (Katal. over den Arnamagn. håndskriftsaml.), en mér sýnist það of snemt. Jón biskup Vilhjálmsson veitir Jóni Ketilssyni sveini sínum staðinn að Nesi í Aðaldal 7. okt. 1429 um eitt ár (Nr. 432).

---

[1]) 430; [2]) 430; [3]) Klofarvelle, 430.

Þetta var vtt lvktt j skvllder epter jon kettilson andadan.
med jordvne. vi. kugillde ok .c. j smyore.
biorgu .iii. kugillde.
vlfhilde .c.
salbiorgv .c.
stadar kirkiv kugillde.
ness[1]) kirkiv kugillde.
siRa þorkele halft annat kvgillde.
bennedict .ii. kugillde,
vigdise .xii. fiordvnga smior.
einare .x. avrar.
skida .x. avrar.
yngvlde .x. avrar.
arnore .x. avrar.
erne gelding gamlan.
[gunnar ij vetran hest.
lioti .ij. hross.[2])

---

662. 16. Febrúar 1441. á Grenjaðarstöðum.

Jón prestr Pálsson selr Birni Jonssyni jörðina að Sólheimum á Ásum í Svínavatnsþingum, en Björn gaf við jarðirnar Böggustaði og Brimnes í Svarfaðardal.

AM. Fasc. XI, 1, frumritið á skinni. Öll innsiglin eru dottin frá.

Sol(he)imar sellder Birne Jonssine.[3])

Ollvm monnvm þeim sem þetta bref sia edr heyra sennda sira pietur eiriksson. sueinn þorkelsson. dade jonsson. are gizurarson ok sygurdr þorkelsson kvediv gvds ok sina kvnnigt giorande ad sub anno gracie ꝏ°. cd°. xl°. primo æ fimtudagin i niuwikna fostu æ greniadarstodvm j Reykiardal woru wær j hia sam̄ ok heyrdvm æ handabannd þessara manna sira jons palssonar af einni alfu en biornns jonssonar af annare med suo fyrer skildv at sira jon palsson sellde birne jonssyni jordina j solheimvm æ æsvm j svinawatzþingvm med ollvm þeim

---

[1]) þ. e. Nes í Aðaldal; [2]) [með daufara bleki, en sömu eða svipaðri hendi; [3]) Aptan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

gognvm ok gædvm sem þeirri jordv fýlger ok fylgt hefer at fornu ok nyiv ok hann ward fremzt eigande at. hier i mot gaf fýrr nefnndur biornn tuær jarder boggvstade ok brimnes er stendur j svarwadardal j vpsaþingvm fyrer sex tige hundrata med ollvm gognvm ok gædvm sem þessvm jordvm fylger ok fylgt hefer at fornv ok nyiu ok eigi er med logvm fra komit. sagde tit nefndur biorn jonsson at bænhvs skylld wære a bauggvstodvm ok skyllde hann þar ongua peninga fýrer luka þo þat wæri eigi wppi. skylldi sira jon palsson ok biornn jonsson hvor vm sig svara laga Riptingvm æ þeim jordvm er sellde. enn sæ hallda til laga er keýptti.

Ok til saninnda hier vm settv wær fyrr nefnder menn wor jnsigle fyrer þetta bref er giortt war j sama stad degi okære sem fyrr segir.

---

## 663. 29. September 1441. á Valþjófsstöðum

Fjórir prestar og tveir leikmenn transkríbera máldaga Valþjófsstaðarkirkju frá 1397 (Vilchinsmáldaga).

AM. dipl. afskrr. Nr. 1990 »Epter transscripto ã kalfskinn fra Valþiofsstadarkirkiu« (AM.).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sea edr heyra senda þorstæinn jonsson. æinar olafsson. stæinmodr bardarson. kare þorolfsson prestar. martæinn olafsson oc sigurdr þorwalldzson. leikmenn. Quediu guds oc sina. kunnigt gerandhe. ath wer saum oc yferlasum j Registrum kirkiunnar j skaulhollti. maldaga kirkiunnar a walþiofsstodum j fliotzdal. swo latandha ord efter ord sem her seghir. [Hér kemr máldaginn 1397, Dipl. Isl. IV, 209—213, CCXLVIII]. Oc til sanninda her vm settum wer fyRnefndir menn wor jnncigle firir þetta bref scrifat a walþiofstödum j fliotzdal. jn festo beati michaelis archangeli. anno domini ↀ° cd° xl° primo.

---

## 664. 7. Oktober 1441. á Þingeyrum.

Tveir menn transkríbera umboðsbréf Ólafs Nikulássonar fyrir Karl Stegenberg.

AM. Fasc. X, 11, frumritið á skinni. Fyrra innsiglið er dottið frá, en brot er fyrir af því síðara.

Þat giorum vier broder jon med guds nád abote a þingæ(y)rum ok þordr magnusson godum monnum viturligth med þessu ockru ǫpnnu[1]) brefe at vid saum ok yferlásum opit bref olafs nikulassonar vnder hans hanganda innsigle sua latanda ord epter ord sem hier segir.

[Hér kemr umboðsbréf Ólafs Nikulássonar fyrir Karl Stegenberg dags. 17. Júní 1439, Dipl. Isl. IV, 626].

Ok til sanninnda hier vm settum vit fyr greindr abǫte ok leikmann ockr insigle firir þetta transkriptabref giorth a þingæyrum tueim nattum firir festum diunisij episcopi et martires[1]) anno domini ᴍ° cd° xl° primo.

---

665. 12. Nóvember 1441. á Hólum.

Jón prestr Pálsson handabandar Jóni Finnbogasyni jarðirnar Böggustaði og Brimnes í Svarfaðardal til æfinlegrar eignar fyrir sextigi hundraða, en Jón Finnbogason lætr í móti jörðina Reyki í Ólafsfirði fyrir þrjátigi hundraða og þrjátigi hundraða í lausafé, er Jón prestr varð honum skyldugr í sárabætr fyrir Svein Þorkelsson og sonu hans Þorkel og Björn og Gísla Pétrsson mág hans.

AM. Fasc. XI, 2, frumritið á skinni. Öll innsiglin eru dottin frá.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra sennda gudmundr prestur þorlaksson ok steinolfur kalfsson. prestar. olafur grimsson. sæmundr jonsson ok sýgurdr ionsson leikmenn kuediu guds ok sina kunnigt giorandi ath anno domini ᴍ° cd° xl° primo æ sunnvdaginn næsta eppter marteinsmessu æ holum j hialltadal worvm wær j hia sám ok heyrdum æ ord ok handaband þessara manna sira jons palssonar af annari halfu en jons finnbogasonar af annari at suo fyrer skildv at jon prestur palsson handabanndadi joni finnbogasyni jardirnar boggustadi ok brimnes er ligia j vpsaþingum j suarfadardal til æwinligrar eignar med ollum þeim gognvm ok gædvm sem greindum jordum hefer fýlgt at fornnv ok nyiv ok sira jon ward fremzt

[1]) þannig.

eigandi at fyrer sextige hundrada. hier i mot gaf ok selldi jon finnbogason greindum sira joni jordina Reyki j kuiabeckiar þingum er liggur j olafsfirdi fyrer þriatige hundrada til æwinligrar eignar med ollum þeim gôgnvm ok gædum sem greindri jordu hefer fylgt at fornv ok nýiv ok jon ward fremzt eigande at ok steinunn anfinnzdotter kona hans ok hier til þriatigi hundrada er fyrnefndr sira jon ward skylldugur at luka titt nefndum joni finbogasyni j sarabætur fyrer suein þorkelsson ok sonv hans tuo þorkel ok biornn ok gisla petursson mäg hans ok at til logdum þeim þingum sem jon prestur gaf joni finnbogasyni handabandade titt nefndr jon finbogason adr greinda menn ollungis kuitta ok akærulausa fyrer sier ok ollum sinvm epptter komendum ok frendum vm allan æskilnad ok saRa bætur. skylldi jon finbogason hallda jordunum til laga böggustodum ok brimnesi enn jon prestur skylldi suara laga Rippt-ingum ok luka joni adra sextigi hundrada jord jamgoda ef fýr sagdar jarder ganga af med logum enn jon prestur palsson skylldi hallda til laga jorduni a Reýkium enn jon finbogason skyldi suara lagaripptingvm ok giallda apptur þriatigi hundrada j lausagodzi jamvirtta sem hann tok hana þa þeir keyptv ef jordin geingi af med logvm.

Ok til saninda hier vm settvm wær fyr nefnder menn wor jnsigle fyrer þetta bref skrifad j sama stad degi ok are sem fýr seger.

---

## 666. 1441.

VITNISBURÐR Sveins Þorkelssonar um landamerki Víkingavatns í Kelduhverfi.

MSteph. 27. 4to bls. 152, Svartskinna, með hendi Benedikts lögmanns Þorsteinssonar c. 1730.

Wm landamerke vijkingavatns effter þvi Sveirn þorkielsson tilsagdi Anno 1441 þorgrime Jonssyne.

Sagde firrnefndur Sveirn ad vijkingavatn ætti jardareign austur yfer Moduoxl og ut i sio og oll Rekavotn allt vestur i vestmotz vid lons jord. standa þar .iij. þufur og er i ena[1])

[1]) Ema, hdr.

ustu Rekamark fra vijkingavatne. var þar i hvalbeju þā eg vissa. og þadan Riettsyne upp j Hol er stendur i litlu Myre. og þadan framm i þrihirning. svo austur þadann alla Haukdali og svo langt austur ā hejde sem . . . . .¹) geingur i mote. svo ofann j Hestdal og þadann i vordu er stendur ā austan-verdumm veggiar enda. og svo ofann i gardenn fyrer austann Olafsgerde og riettsyne þadann i þufu er stendur fyrer austann i götu. og alla jardareign i Myre þeirre. er stendr i vijkinga-vötnum. sliettuholm og annann holm til. þar austur fra. dag-slattu i vijkingavatns Jord fra Grasijdu og kiemur i mote þeirre land.

Ok til sannenda hier um etc.

---

667. 1442. á Helgafelli.

Transskriptarvottorð fimm manna um Víðidalstungubréf.

AM. Fasc. VIII, 26, transskriptið á skinni. Fyrsta innsiglið er fyrir, en hin eru dottin frá. AM. dipl. afskr. Nr. 425 (eptir frumbr.).

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edr heẏra senda olafur prestur æyiolfsson. ormur loptzson. are dadason. dadi arason ok þorstæinn jonsson quediu guds ok sina kunnekt ger-andi at vær sꜳ̃m ok ẏferlæsum ok hæẏrdum yferlesit opit bref vnnder godra manna jnnzciglum suo lætanda ord efter ord sem her segher.

[Hér kemr Víðidalstungubréf frá 4. Janúar 1428, Dipl. Isl. IV, 400].

Ok til sannenda her vm settum vær fẏrnefnder menn vor jnnzcigle firir þetta transskriptabref scrifat a helgafelli anno domini ꝏº cdº xlº secundo.

---

668. 8. Janúar 1442. á Einarsstöðum.

Séra Þorkell Guðbjartsson og þrír leikmenn votta, að Finnbogi Jónsson hafi með upplagi og samþykki Margrétar Höskulds-dóttur konu sinnar fyrir tveim árum (1440) gefið Halla syni sínum hálfa jörðina Nes í Höfðahverfi, og ennfremr jörðina Byrgi í Kelduhverfi.

¹) eyða í hdr.

AM. Fasc. X, 21, frumritið á skinni. Fyrsta innsiglið er fyrir, en hin þrjú eru dottin frá. Bréfið fékk Arni frá séra Skúla Þorlákseyni á Grjenjaðarstað. AM. dipl. afskrr. 72 (eptir frumbr.).

bref um nez j hofdahuerfue.[1])

Ollum monnum þeim sem þetta brief sia edr heyra sennda þorkell prestur gudbiartzson. oddr bryniolfsson. olafur egilsson ok gudmundr hallkellsson quediu guds ok sina kunnigt giorandi ath sub anno gracie Millisimo quadragentissimo quadragessimo voru vier j hia sam ok heyrdum a j hafrafellztungu j auxarfirdi ath finnbogi jonsson gaf med vpplage ok fullu samþycki margretar hauskaullzdottur konu sinnar halle syne sinum halfa iordena j nesi er liggr j haufdahuerfi j laufasþingum fyrer halfan þridia tug hundrada med aullum þeim gaugnum ok giædum sem þessi greindri halfri iordu fylger ok fylgt hefer ath fornu ok nyiu ok fyrr nefndr finnbogi ok margret kona hans vrdu fremzt eigandi ath efter laugum. hier med gaf opt nefndr finnbogi adr greindum halle syne sinum halfa iordena j byrgi er liggr j kellduhuerfi j asþingum med aullum þeim gaugnum ok giædum sem þessi halfri ior[d f]ylger ok fylgt hefer ath fornu ok nyiu ok þrattnefndr finnbogi vard fremzt eigandi ath med laugum. ok til sannenda hier vm settum vier fyrr nefnder menn vor jnnsigli fyrer þetta brief skrifat a einarsstaudum j Reykiardal manadagenn næsta fyrer geisladagen tueimur arum sidar en fyrr seger.

---

669. 14. Maí 1442. í Múla.

Tveir menn votta, að Jón Ófeigsson og Þórðr Böðvarsson handfestu séra Sveinbirni Þórðarsyni þann vitnisburð, að jörðin Kúskerpi í Silfrastaðaþingum hafi verið tíunduð fyrir hálfan þriðja tug hundraða.

AM. Fasc. XI, 4, frumritið á skinni. Bæði innsiglin eru fyrir bréfinu, en letrið á bréfinu er nú mjög máð, því að það hefir verið ritað með vondu (sortu)bleki. AM. dipl. afskrr. 3143.

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi.

kuskerpi ij silfrastadaþingum.[1])

Þath gerum vid oddur bryniolfsson ok jonn ualgarsson[2]) godvm monnvm kvnigt medr þessu ockrv opnv brefe ad þar vorv vid j hia savm ok heyrdvm a ad jon ofeigsson han(d)feste sira sveinbirne þordarsyne fvllann vitnisbvrd ad hann visse ad jorden a kuskerpi er liggr j silfrastada þingvm var tivndvd firir halfan þridia tvg hvndrada a medan hann bio a silfrastaudum ok svo vorvm vid hia ad þordr b(a)vdvarsson handfeste sira sveinbirñe fvllan vitnisbvrd ad hann tivndadi adrgreinda jord firir halfan þridia tvg hvndrada vm tiv ar er hann bio a greindre jordv. ok til sanenda hier vm settvm vid fir nefnder men ockur jnsigle firir þetta vittnisbvrdarbref skrifad j mvla j Reykiadal manadagen næsta epter vppstigningardag anno domini ꝏ° cccc° xl° secvndo.

---

670. **15. Mai 1442. [á Kikjubæjarklaustri].**

Haldóra abbadís og konventusystr í Kirkjubæjarklaustri lýsa því, að þeim hafi, úr því Goðsvin biskup hafi lagt frjálsa kosning í þeirra skaut, komið saman um að leggja heldr frá klaustrinu árlega eitt hundrað til Reynistaðarklaustrs í kost systur Margrétar Þorbergsdóttur, en að taka hana til Kirkjubæjar og fá lagt árlega hundrað frá Reynistaðarklaustri.

AM. Fasc. XI, 6, frumritið á skinni götugt og fúið. Innsigli abbadísarinnar er fyrir bréfinu. Árni kallar það Reynistaðarklaustrsbréf.

Virdulegum herra oc vorum andalegum favdvr herra godsvin med gvds nád biskup j skalholti heilsvm vier halldora abbadis oc conventv systur allar j kirkivbæiar klavstr ordinis[3]) sancti benedicti med vorri ædmivkri þionvstv oc bæn til gvds.

saker þess kiæri fader ath þier hafid gefid oss frialsligan kosning vm systur margretv vors fyrgreinz ordinis sem þier hafit skipat j reynines klavstur holabiskupsdæmis ef vier helldr villdvm vt lvka huert ar sva leingi sem hvn lifdi eitt hvndrat hennar kost til hialp en at taka hana til vor oc eitt hvndrat med henni af fyrgreindv reynines klavstri sem fyr

[1]) Aptan á bréfinu með gamalli hendi; [2]) svo les afskr.; mætti þó ef til vill lesa: helgason; [3]) ordo, frbr.

skrifat stār. þvi kvngiorvm vier ydare nād at vier hier vm ervm ordnar yfer eins svo at vier kiosvm oc þar med lofvm med þetta vart opid bref at vier skôlvm oc vilivm reidvlega lvka fyrgreindz reynines klasturs vmbodsmane hvert ær svo leinge sem fyrr greind syster margret þorbergsdotter lifer ions Ꝏesso vm mitt svmar eitt hvndrat med svadan skial at vier skolvm sva giora rad vm þa fyrr greindv peninga at fyrgreint reynines klastur edur klastursins vmbodsman skal finna þeim hvert ær oc tid sem fyrr skrifat star nær radzmane j skalhollte oss ok vorv fyrr greindv klastri þar med kvittvm oc ôllungis akiærvlasvm blifandi.

ok til sanenda hier vm settvm ver vort conventv jnsigli firir þetta bref skrifat jn[1]) festo sancti hallvardi anno domini Ꝏ⁰. cccc⁰. xl⁰. secundo.

---

## 671. 15. Mai 1442. á Möðruvöllum.

Björn Jónsson gefr Sigurði príor Jónssyni og klaustrinu á Möðruvöllum til æfinlegrar eignar skógarpart í Öxnadal milli Skuggagötu og Almenningsgötu.

AM. 280. 4to bls. 131, með hendi Hákonar Ormssonar c. 1640.

Vmm Skogarpart 1442.

Þat giðrum wid Jon Sigmundsson og Þorsteirn Þorsteinsson godum mônnum kunnigt med þessu ockru breffue. ad vid vorum i hiā. saum og heirdum ā sunnudaginn næsta epter wppstigningardag vm̄ vored. þa er lidit vạr frā hingadburd vors herra Jesu christi þusund fiðgur hundrud. fiorutige og tuo aar i Stadartungu i Hôrgārdal. ad Biðrn Jonsson gaff med handabandi Prior Sigurdi Jonssyne og klaustrinu ā Môdruvôllum i Hôrgaardal til evinlegrar eignar skogar part er liggur i Øxnadal millum Skuggagôtu og almenningsgôtu sudur ad skridu þeirri er vid heirdum eignad var Saurbæ. og vt ad Môdruvallastadar skogie. affhendti Biðrn Jonsson Prior Sigurdi þenna fyrrgreindann skogarpart med adurneffndum vmmerkium samdegris.

---

[1]) z, frbr. (= oc!).

Og til sannenda hier vm settum vid ockur Jnsigle fyrer þetta breff. skriffad a Mődruvöllum i Hőrgaardal tueimur dögum seirna ä sama äri sem fyrr seiger.

---

672. 19. Mai 1442. á Skarði.

Ari Bessason selr Birni bónda Þorleifssyni jörðina á Kleifum í Gilsfirði fyrir þrjátigi hundraða í lausafé, er skyldi lúkast út á þrem árum, og skildi Ari Haldóru Helgadóttur konu sinni þetta fé til fullrar eignar.

AM. Fasc. LXVI, 8, frumritið á skinni. Þrjú innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en nú er hið síðasta eitt eptir. Það eru dottnar dálitlar skellur í bréfið af raka áðr fyrrum.

bref fyrir kleifum j gilsfirdi.
kaupbref firir kleifum.[1])

Þat giorvm ver þorarin arvnsson. helge ellinngson ok helge þorallsson [godvm] monnvm kvnnekt med þessv vorv brefvi at þar vorvm vęr j hia sam ok heyrdvm a ord ok handaband þessara manna biarnar bonda þorleifssonar ok ara bessasonar at svo fyrer skildv. at fyr greindr are sellde adr nefndvm birni jordina a kleifvm j gilsfirdi er liggur j garst[dals] kirkiv sokn med avllvm þeim goguvm ok gędvm sem greindri jordv kleifvm fylger ok fyl(g)t hefer at forno ok nyiv ok þav halldora helgadotter ok ari bessason vrdv fremst eigandi at hvort sem hvn kvnne at verda hans eda hennar at logvm. Her i mot gaf opt nefndr bioru þorle(i)fsson þriatigi hvndrada ara bessasyne j moti nefndri jordv kleifvm. skylldi lukazt fimtan hvndrvd a fyrstvm xii manvdvm. skylldi þar j vera viii kvgilldi bvlęg .ii hvndrvd j kosti. en hin fim kvgilldin j þeim peningvm sem adr nefndri halldorv bihagati at taka. en þat sem efter stędi skylldi lvkazt a tveimr arvm. skildi tit nefndr ari adr greindri halldoru þessa peninga alla saman til fvllrar eignar. Ok til sanenda her vm settvm vęr fyrnefnder menn vor insigli fyrer þetta jardar kavpsbref skrifat a skardi a skardstravnd lavgardaghin nęsta fyrer hvitasvnnvdagh anno domini[2]) ꝏ° cd° xl° secvndo.

[1]) Þetta hvorttveggja stendr aptan á bréfinu, en fyrri línan er með eldri hendi; [2]) domino, frbr.

## 673. 17. Júní 1442. á Brekku i Dýrafirði.

Vigfús og Sveinbjörn Oddssynir handleggja Hákoni Jónssyni til fullrar eignar gegn lausafé það tilkall til Kirkjubóls í Skutilsfirði, er þeir máttu framast erfa eptir Odd föður sinn.

AM. Fasc. XI, 7, frumritið á skinni; fyrir bréfinu hafa aldrei verið fleiri en tvö innsigli og eru þau nú bæði dottin frá. AM. Fasc. XI, 9, transkript á skinni frá 17. Júlí 1444, og er þeirra einn munr að stafsetningu.

Þath gerum vær bessi bondi einarsson. loptur halfdanarson. þordr sigurdzson. Olafur einarsson. þordr þorvardzson ok þorwalldr biðrnsson godhum monnum kunnickt med þessu brefvi ath sub anno gracie M° cd quadringessimo secundo voru vær j hia sꜳmum ok heÿrdum æ j berufirde faustudaghinn næsta epter krossMesso wm vorit[2]) ord ok handaband vigfuss ok sueinbiarnar oddzsona af einne halfu. Enn hakonar ionssonar af annaʀe. En þath skildizt vnder þeirra handaband. ath adur nefnder menn sueinbiðrn ok wigfuss handlaugdu fÿrrnefndum hakoni til fullrar eignar slika eign ok tilkall sem þeir mattu fremst eigande ath werda j iordunne kirkiubole j skutilsfirde med laughum j arf epter odd faudur sinn med aullum þeim gaugnum ok giædum sem adr nefndri iordu fÿlger ok fÿlgt hefer ath fornu ok nÿiu ok adr eigi med laughum vndan geingit.

Jtem Hier j mote handlagde hakon optnefndum sueinbirne ok wigfuse niu kugillde ok sextan hundraud skreidar med gillda fiska fÿrer atta hundrod ok atta hundrud j smiore. ok slatrum ok wadmalum. halfua þridiu vod til hundrads ok tolf fiordunga smiors til hundrads. þrewett naut til hundrads. fiorer sauder til hundrads. skÿlldu þesser penningar lukuzt ꜳ þrennum tolf manudum eigi uestar enn i jsafirde ok standa leigulaust. skyllde þratt nefnder menn vigfuss ok sueinbiðrn suara lagariptinghum æ fÿrrgreindre iðrdu enn tijtt nefndur hakon hallda til lagha. Ok til sanninda her wm settu wær fÿrrnefnder menn vor inzsigle fyrer þetta iardar kaups bref gert æ brecku i dyrafirde botholfsvaukudagh ꜳ̃ sama ære sem fÿrr seger.

---

[1]) þ. e. 4. Maí.

674. **14. Júli 1442. í Ósló.**

VERNDARBRÉF Christophers konungs af Bayern handa Gottskálk Hólabiskupi og Hólakirkju í Hjaltadal.

Biskupskjalasafn Íslands Hol. Fasc. I, 2, frumritið á skinni, og er innsiglislaust. AM. dipl. afskrr. Nr. 3566, með hendi séra Snorra Jónssonar eptir frumritinu, og var þá innsiglið dottið frá og er því á hjálögðum miða lýst svo: »þetta bref er skyrt og vel læselegt. þar vid er eckert jnnsigle, enn partur af pressunne hanger j brefinn, og hefur annad hvert jnnsigled verid fra skored, ellegar af pressunne skored epter þad jnnsigled hefur verid fra brefinu, enn ecke synest þad nylega giǫrt. brefid er original ã pergament«.

Wy Cristoffer med gudz nadh Norighis. Danmarks. Suerigis. wendis oc gota konunger. palatzgreue vpa Ríjn oc hertugh j beyeren Sendir ollum þeim monnum sem þetta bref sea æder heyra kerligha heilso med gudh oc ware nadh. kunnicht gorande med þesso waro opno brefue at weer hafuom tekit wyrdheligh fadher oss elskeligh herre Gotzskalk med gudz nadh biscop a holom j islande oc hans kirkiu med all hennes priuilegiis. þienestemen. landbola oc wardhnadh. godz oc eigner laust oc fast badhe til sio oc landz j ware heghnath. wernd. wæriu oc fulla beskermelse. biodhande ollum monnom þeim sem gøra oc lata vilia fore wara skuld jnlendzskum oc wtlendzskum jnbygiarom j fyrnemda islande. oc serdelis warom foghutom oc vmbodzmonnom at þe honom oc hans kirkiu oc allu adru sem fyr seghir fordhe. hielpe oc til godho styrke. huar heltz han eller (hans) wardhnader kan thes wider þurfua til allra rettra mala oc ey stædhiande nockrom manne honom eller nokot þat er honom til herer hindra. kuelia æder med nokrom vrett æder vlagh ofuerganga. swa framt at þeir vilia ey sæta wara konungligha hæmfd oc wredhe. oc þer mæder brefuabrot fulleligha firir swara efter laghum. the sem her a mot gøra eller ganga. Til sanninde her vm þa hengiom weer wart jncigle firir þetta bref sem giort war j oslo sabbato infra octauam visitacionis beate marie virginis. anno domini ɱ⁰ cd⁰ xl⁰ secundo.[1])

[1]) Gottskálk Hólabiskup hefir verið utan í Noregi um þessi ár. Í norsku bréfi frá 14. Mai 1440 er hans getið sem umboðsmanns Jóns biskups í Ósló (DN. II, 555–57), og enn í öðru bréfi frá sömu tímum (DN. XI, 151–52); ennfremr í bréfi frá 26. Okt. 1441 (DN. I,

675. 1442.

MÁLDAGI og afhending Hvammskirkju í Norðrárdal, þegar Gunnar Bjarnason afhenti, en Grímr Þorvarðsson tók við.

A.

*[Stólsmáldaginn].*

Landsb. 268. 4to bl. 81 a, skr. 1601.

Huammur j nordurardal.

Mariu kirkia j huamme j nordurārdal a lannd ad hole oc froda einge. jtem krok. harekstade. klepstiu oc halfa desey. er lucktar hafa verid j reiknnijnngskap kirkiunnar. jtem iij hundrud j hrossum. ij hundrud j gelldfee.

kross med vnnderstodum og ij adrer. māriu lijkneske stortt. þorlakz lijkneske. gamallt alltarisklædi. merki med silke. ein messuklædi med ij hocklum fornum. ij paxblaud. slopp oc kapu huortueggia fornut. ij koparstikur oc ein jarnnstika. glitadann duk ýfir altare. glodarker oc eldbera. tialld vm þuerra kirkiu gamallt. iij kluckur. xiiij bækur ad tolu. in primis missale de sanctis per anni circulum. onnur missale de tempore fra pāskum oc til adventu. Gudspiallabok fra jolafostu til paska. Grallare Gamall oc ecke epter ordinem. ij laga saungva bækur oc ein burtusaunguabok god. þrijr psalltarar oc brestur vid eirnn. capitularius. forn skræda. historia [de tempore. christe[1]) ā kuere oc lesbok de sanctis a sumarid fra jonnzmessu baptiste oc til lorenciusmessu. ein artijdaskrā. kalekur. jtem messuklæde ný med corporal nyium er gunnar[2]) lagdi til. alltarisklædi med brun. Annthonius lijknneski. kertta klofi oc kistu skref. [jtem hefur fallid j mortualium cccc sijdan grijmur þorvardzson tok med. porcio ecclesie oreiknad.[3])

---

B.

*[Heimamáldaginn].*

AM. 257. 4to bl. 2 a skb. c. 1500; AM. dipl. afskrr. Nr. 2235; JSig. 143. 4to bls. 330 skr. c. 1600.

---

563—64); 9. Júní 1442 er hans enn getið í Noregi (DN. IV, 649—51) og 10. Júlí 1442 er hann í Ósló (DN. I, 567—68). Hans finst og enn getið i norskum bréfum 26 Okt. 1447 (DN. I, 585) og 9. Nóv. 1448 (DN. IX, 290—91); [1]) xpe, hdr. [rétt: corpus christi; [2]) Gunnar Bjarnarson gerir 1432 samning við Jón bp. Gerreksson, Dipl. Isl. IV, 546; [3]) [seinni viðbót.

Hvammur j nordurærdal.[1])

Anno domini ꝏ°. cd°. xl°. [ij°.[2]) þa er gunnar biarnarson afgreid(d)e[3]) iordena i huammi j nordrardal. en grimur þoruardzson tok med. lucktust suo fellder[4]) peningar med kirkiunni þar.

Jn primis. iij. hundrut i hrossum. ij hundrut i gelldfe.

Ornamenta kirkiunnar.

Jn primis kross med understodum yfer altari oc ij krossar adrer. stor Ꝋariuskript. þorlaks likneski gamalt altarisklædi med tefling. merki med silki. ein Ꝋessoklædi med ij hoklum fornum oc oll slitin. ij paxspiolld. slop(p)ur oc kapa huortueggia fornt. ij koparstikur oc ein iarnstika. glitadr dukur yfer altari. fornn lektari. gamallt glodarker oc elldberi oc tialld gamallt um þuera kirkiuna. iiij klu(c)kur. fiortan bækur ad tolv.

jn primis misali de sanctis per anni circulum.

onnur misale de tempore fra pascum oc til adventu.

gudspiallabok fra jolafaustv til pasca.

grallari gamall oc er hann ecki epter ordu.

ij laga saunguabækur oc ein burtsaunguabok fullgod.

iij. salltarar oc er einn gamall oc ecki allr.

kapitularius.

forn skræda oc híjstoria h(eilags) korpus christi ꝺ̃ einu kueri. oc lesbok de sanctis ꝏ svmarit fra jonsꝎesso baptista oc til laurenciusꝎesso. oc ein artidaskra. oc ein(n) kalekur.

Jtem ny messuklædi er fyrrgreindr gunnar lagdi til. nyr korporal. alltarisklædi med bukram oc þar til brun. añthonius likneski vegligt. kertaklofi oc kistuskref.

[Jtem hefer fallit i mortualia fiogr hundrut sidan greindr grimur tok med. oreiknat porcio sidan hann tok med.[5])

---

676.

**29. Júlí 1442. i Miklabæ.**

Þórðr Jónsson selr systursyni sínum Þórði Árnasyni sextán hundruð í jörðunni Reyðarfelli í Borgarfirði, og tekr undir sjálfum sér fimm hundruð, er hann hafði haldið í þrettán ár af móðurarfi Þórðar Árnasonar og þrjú hundruð í ábata, en

[1]) 143; [2]) [nono 143; [3]) afhenti 143; [4]) mycler 143; [5]) [seinni viðbót.

setr eingi söl á hinum helmingi jarðarverðsins af því Ásta systir hans hafi orðið fyrir fjárskakka í fornum arfaskiptum við sig og bræðr sína.

AM. Fasc. XI, 5, frumritið á skinni. Innsiglin eru dottin frá, og bréfið sjálft er nokkuð skemt.

Þath gerum vid olafr sygurdzson oc þorualldr þorbiarnarson godum monnum kwnnigt med þesso ockro opnu brefi ath þa er lidit var fra hingat (burd) vors herra ieshu christi þvshvndrod ·iiij. hundrod .xl. oc .ij. ar j galmars tungo j borgarfirde vppstigningardag[1]) vorum vid j hia saum oc heyrdum a ord oc handaband þeira þordar jonssonar oc þordar arnasonar ath suo fyrir skildo at þordr jonsson selldi þordi arnasyni til fvllrar eignar sextan hvndrod j jordunne reydarfelli j borgarfirdi j galmarstungo kirkiu sokn med ollum þeim gognum oc gædum sem greindri jordu hefer fylgt at fornu oc nyio oc hann vard fremst eigandi ath. her j mot gaf þordr arnason fyrnefndum þordi jonssyni sextan hvndrod j suo felldom peningum. j fysto grein at þordr arnason akærdi þord jonsson vm arf oc peninga er hann hafdi at ser tekit eptir asto jonsdottur systur sina skilgetna enn modur þordar arnasonar skilfeingna. medrkendizt þordr jonsson at hann hefdi at ser tekit fimm hvndrod j þarflego godzi epter asto systur sina er þordi arnasyni syni hennar fell til erfdar epter hana ok hefdi halldit vm þrettan ar suo at þordr arnason feck onguan abata af oc alldri hefdi hann hans frelsi fyrir haft vm greindan tima þessum peningom. kom þeim þat þa saman j þesso handabandi ath þordr jonsson skylldi luka þordi arnasyni .viij. hvndrod. voru þar af fimm hvndrod j jnnstædo oc arf fyrgreindum. enn .iij. hvndrod j abata oc fyrir olaugliga medferd a fyrsogdum peningum. Jtem lukti þordr arnason þordi jonssvni j þesso sama þeirra handabandi aptor vndir ser þessi viij. hvndrot fyrir jordina reydarfell en onnor .viij. hvndrod j þarfligum peningum oc afhenda þa at hann þættizt bezt fyrir kominn oc þordr jonsson heimti fyrir þa skulld at þordr jonsson lysti ath asta systir hans hefdi feingit mikin fiarskacka j gomlum arfaskiptum vid sig oc adra brædr sina. villdi þordr jonsson onguar salastefnor þui a setia greint jardar

[1]) þ. e. 10. Maí

verd at hann skylldi þar med kvittur vm fornan oc nyian reikningskap vid asto systur sina oc þord arnason son hennar. skylldi þordi arnasyni jordin frials oc afhend vpp fra næstum fardogum eptir komandi oc greindi landamerki fyrir honom oc hurdir oc vido þa sem jordvnne fylgdi vpp a suo mikit sem hann hafdi honom sellt. skylldi þordr arnason hallda jordune til laga enn þordr jonsson suara lagariptingom.

Oc til saninda her vm settu vid fyrnefndir menn ockr incigli fyrir þetta bref scrifad a miklabæ j blondohlid drottins daginn næsta fyrir petursmesso a sama ari sem fyrr segir.

---

677.

**13. Oktober 1442. i Selárdal.**

Árni Guttormsson kvittar Bjarna prest Sigurðsson fyrir alt andvirði jarðarinnar Kvígandisfells í Tálknafirði.

AM. Fasc. XI, 3, frumritið á skinni. Innsiglið er fyrir, en töluvert brákað. AM. dipl. afskrr. 1086 (eptir frumbr.).

Bref fyrer quijndijsfelli.[1])

Þath giorer ek ærne gutormsson godum monnum viturlegt med þessu minv brefe at sira biarne sigurdzson hefer lukt mik fulla penninga ok alla fyrer kuigandisfell j talknafirdi svo mier vel anægier ok allan þann skildaga ok kaupmala halldid sem j ockat kaup kom j fystv vm adr greinda iord kuigandisfell ok þvi giorer ek adr greindan sira biarna sigvrdzson[2]) avrlungis kuittan ok ækærulausan fyrer mier ok minum efterkomendum um opt nef(n)da jord kvigandisfell j talknafirdi. ok til sanninda her vm setta ek mitt jnnsigli fyrer þetta kuittvnarbref skrifat j selærdal lavgardaginn fyrstan j vetri anno domini mº cdº xlº secundo.

---

678.

**18. Febrúar 1443. i Skálholti.**

Fjórir menn transskríbera tvö bréf frá 14. öld og eitt frá 15. öld.

[1]) Aptan á bréfinu með hendi frá 17. öld; [2]) sigrvdzson, frbr.

AM. Fasc. XII, 21, eptir transskripti á skinni frá 18. Júlí 1449.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra sendum wær þosteinn prestur jonsson officialis heilagrar skalhollzkirkiu firir sunnan. jon prestur jonsson. styrr diakne snorrason oc jngimundur snorrason leikman. skalhollzbiskupsdæmis. kuediu guds oc wora. wær giorum witurligt med þessu woru opnu opna brefi at sub anno gracie ꝏ cd xl iij° manudagin næsta firir festum ad cathedram petri apostoli j skalhollte. wor nad-ugi herra oc andalegur fader herra godhsuin med guds nad biskup j skalhollte et cetera let opinberligha lesa firir oss oc maurgum audrum dandimaunnum lærdum oc leikum tuo opin bref med haungaundum oc oskauddum jnnsiglum oc til saman fest [hit annat[1]) kong magnus. enn annath kong hakonar hans sonar konga af noregi oc suia(rike) suo latanda huort wm sig ord efter ord sem hier segir. [Hér kemr:

1. Bréf Magnúsar konungs Eiríkssonar frá 21. Aug. 1374, Dipl. Isl. III, 234.

2. Bréf Hákonar konungs frá 13. Marts 1375, Dipl. Isl. III, 238].

Hier efter liet wor fyrrgreindur nadhugi herra biskupinn lesa opinberligha opid bref godra manna med þrimur heilum hangandum þeirra jnnsiglum oskauddum suo latanda ord efter ord sem hier segir.

[Hér kemr próventubréf Odds lepps frá 5. Nóv. 1415, Dipl. Isl. III, 541].

Ok til sanninda hier wm settum wær fyrnefnder menn wor jnnsigle firir þetta transkriptarbref skrifat j skalhollte j sama dag oc are sem fyrr segir.

---

## 679. 1. Marts 1443. á Möðruvöllum.

Tveir menn votta, að Þórðr Magnússon hafi selt Steingrími Ísleifssyni jörðina Helluvað við Mývatn fyrir tólf hundruð og kvitti Steingrím með öllu fyrir andvirði hennar.

AM. Fasc. XI, 15, frumritið á skinni. Fyrra innsiglið er dottið frá.

---

[1]) hn̄at, transskr.

kaupbref fyrer helluuade uid mijuattnn.[1])

Þat giorum vid rvsticvs sigmvndzson ok þolleifur gunnason godum monnum viturlegt med þessv okkrv brefi ath þar vorum uid i hia savm ok heyrdu(m) a at þordr magnvs(son) kendiz at hann hefdi selt steingrimi isleifssyni til fullrar eignar iordina helluuad uid myuatn er liggr i skvtustada þingvm fyri xij hvndravd. kendiz ok fyrnefndr þordr at adrnefndr steingrimr hefdi lugt honum fvlla ok alla peninga fyri adr greinda iord helluuad ok giorde fyrnefndr þordr oftnefndan steingrim med hanndahanndi kvittan ok akiærvlausan fyri sier ok sinvm erfingivm um adur greint iardar verd. Ok til sannenda hier um settvm uid fyrnefndir menn okur incigli fyri þetta bref skrifad a maudruuollvm i eyafirdi faustu(u)dagen næsta fyri ions Messo holabyskups[2]) anno domini M° cccc° xl° tercio.

---

680. 30. Mai 1443. á Höskuldsstöðum.

Jón ábóti á Þingeyrum tekr með samþykki konventubræðra Helga Þorvaldsson og Guðrúnu Ólafsdóttur konu hans til próventu á staðinn á Þingeyrum, en þau gáfu í próventu með sér jörðina í Kirkjubæ í Norðrárdal í Höskuldsstaðaþingum.

AM. 280. 4to bls. 180—81 skr. c. 1640 af Hákoni Ormssyni. AM. dipl. afskrr. 482.

Kirkiubæiar Breff 1443.

Wier Broder Jon med Guds Naad abote a' Þingeyrum giörum þad godum mönnum viturligt med þessu woru opnu breffe. ad med raade og samþycke allra conventisbrædra fyrrgreinds klausturs. höffum vier tekid Helga Þorvalldsson og Gudrunu Olaffsdottur konu hanns heim til stadarins til æffinlegs framfæris og Proffuentu med þeirri grein og skilmāla ad fyrr greind hion eiga ad haffa aff stadnum sæmiligann kost apter þui sem godur gamall vane er til og adrer bestu Proff-

---

[1]) Aptan á bréfinu með hendi frá c. 1600; [2]) Hér mun miðað við translatio Jóns biskups 3. Marts, því föstudagrinn næstr fyrir Jónsmessu í Apr. verðr 1443 langifrjádagr, og er óliklegt að bréfið hafi þá verið gert, nema staðið hefði: in passione domini.

uentumen haffa. Hier til skal hann og hun haffa eitt hus sierlega bæde saman ä stadnum og giöra þad vpp sialff og þar til tuijtuga vod huort vm sig arlega. haffa til stadarins tuær sængur færar ad öllu og eina kistu goda. edur tuær lettare. Skal klaustrid hallda sængunum færum og leggia til þeirra eff þarff. Enn eignast Sængurhus og kistu epter þaug framm lidenn. hier til gäffu fyrrsögd Helge og Gudrun. huort med annars samþycke.

J fyrstu grein i sijna Proffuentu Jördena Kirkiubæ i Norduraardal sem stendur i Höskullzstada þijngum med öllum þeim gögnum og giædum. hlutum og hlunnendum sem þeirri Jördu heffuer filgt ad fornu og nyu sem hann vard fremst eigande ad. og þar til x mälnytukugillde og tuð hundrud frijdvird ad næstum fardögum og xx hundrud og luka vt jnnan þriggia aara. Skyllde aadurgreindt Klaustur hallda til laga fyrr sagdre Jördu. enn Helge suara lagariptingum. Skyllde stadurinn og klaustrid eignast alla fyrrskrifada Peninga ad næstum fardögum. Enn ädurgreind hion Helge og Gudrun meiga frialslega koma ä Proffuentuna þä er lidin eru sex aar.

for þesse giörningur framm ä Þingeyrum jn festo Gordiane og Epimakij[1]) Anno domini M°. CD°. XL°. tertio.

Og til sannenda hier vmm settum vier vort Jnsigle med conventubrædra Jnsigle fyrer þetta Prouentubreff. giört ä Höskulldstödum ä Skagaströnd in festo ascensionis Domini ä sama äre sem fyrr seiger.

---

681. 16. Júli 1443. á Hólum.

Tveir menn votta að Úlfhildr Ketilsdóttir gaf klaustrinu á Stað í Reyninesi allar sínar bækr eptir sinn dag svo að aungvir peningar skyldu í móti koma.

AM. Fasc. XI, 14, frumritið á skinni. Fyrra innsiglið er fyrir bréfinu, en er þó bråkað. Bréfið er úr bréfasafni Reynistaðarklaustrs.

Þath giorum widh gudmundr þorlaksson ok teitur finnzsson prestar holabiskupsdæmis godum monnum kunnigt med

[1]) þ. e. 10. Maí.

þessu ockru opnu brefi ad sub anno gracie ꝏ° cd° xl° tertio sunnudaginn næsta firir botolfs voku aa hoolum j hialltadal vorum vidh j hia saum ok heyrdum aa hanndabannd þeirra systur barbaru abbadisar aa stad j Reynenesi af einne haalfu enn vlfhilldar ketilsdottur af annarre ad suo firir skildu ad fyrr greind vlfhilldr gaf klaustrenu aa stad j Reynenesi til æfinlegrar eignar allar þær bækr sem hun ætti ef hennar kynne vidh ad missa fyrr enn hun kæmi j klaustr suo ad aunguer penninghar skylldu j mote koma. enn ef hennar vid væri kostr ok hennar hugur skipadizt suo ad hun villde eighi j klaustr fara þaa skylldi klaustred eigha bækrnar sem adr.

Ok til sanninda her vm settum vidh fyrr nefnder menn ockur jnnzsigle firir þetta bref skrifat j saugdum stad. deghi ok aare sem fyrr seghir.

---

682.

**20. Júlí 1443. í Skálholti.**

Goðsvin biskup í Skálholti býðr Jóni ábóta á Þingeyrum, Sigurði príor á Möðruvöllum og fimm klerkum öðrum fyrir norðan land að taka fullan reikningsskap af séra Jóni Pálssyni fyrir officialis og ráðsmanns starfi hans á Hólum fyrir næstu þrjú ár undanfarin.

AM. Fasc. XI, 13, frumritið á skinni. Innsigli Goðsvins biskups er fyrir bréfinu, en er nokkuð bráhað.

Skickun Godsuin(s) um̃bodsmans Hoola kirckiu ad taka reickning af Jone palssyne official.[1])

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra Sendum wíj Godhsuin medh guds nadh biskup j scalhollte formann ok vmbodsmann heilagrar hola kirkiu Guds quediu ok uora.

Saker þess ath wor kęre son sira jon palsson wor officialis ok radhsmann holabiskupsdęmis hefer til bodet sig at giora oss reickningskap af fyr greindu starfe. fra þann tid ath hann gerde oss seinazt reikningskap þar af suo sem uar anno domini ꝏcdxxxix° j trinitatisviku til þessa nęruerande tidh. Ok nu af þui ath wij icke erum liduger j þenna tima ath sitia þar

---

[1]) Aptan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

ÿfer. Þui skipum ok biodum wij ydr vorum elskuleghum sonum brodir jon abote af þingeyraklaustur ordinis sancti benedicti. broder sigurdr prior a(f) modruualla klaustur ordinis canonicorum regularium sancti augustini holabiskupsdęmis. Gudmundr þorlacksson kirkiuprestur j holum. sueinbiorn þordarson. þorstein jonsson af hauskulldzstodum. Magnus jonsson af vollum. Teitur finzson prestar fyr greindzs holabiskupsdęmis. ath þier heyred ok taked af vorum fyr greindum officiale ok radzmanne hans fullkomin ok skyldulighan̄ reikningskap af fÿrgreindu starfe fra þan fyr greinda tid. ok til þess hann werdr honum giorande. ok sierdeilis af sier hueriu are vm sig ok ath þier fylgit ok haldit þar ut j fyr greindrar holakirkiu ok stadarins gamlan ok godhan wana epter þui sem þad kann skynsamligazt til ganga af beggia halfu. oforsomad ok skadlaust epter yduare beztre makt ok skynseme ydra modr holakirkiu. oss ok honum. Skipum wij ydr samaleidis til ath taka af honum riettan ok skynsamlighan reickningskap af suo micklum peningum sem hann hefer upp borith af helmingi allra biskupstiunda utlausna ok fieseckta. sem fÿr greindre holakirkiu ok oss fallin eru sidan wij þeim logdum ok gafum til upphelldis fyr greindre holakirkiu. sub anno domini Mcdxxxix° sem wort bref þar wm giortt vtuisar. ok samþyckt war j wore prestastefnu j vidiuollum sama biskupsdęmis sub anno domini Mcdxl vm kyndilMesso tid [ok] wij þad skipad haufum enn stendur oreiknad nęr greindri hola kirkiu ok uorum fyr greindum officiale ok radzmanne ok malskę[1]) icke enn er komed til hennar upphelldis sem wij adur rad þar um haufum giortt. ok þeim sama uorum fyrgreindum officiale ok radzmanne ma betur uiturlickt uera. Bidium wij ydr fyr greinda wora elskuligha sonu abota prior ok presta ok sierhuern wm sig ok suo biodum j krapte heilagrar hlÿdne ok vndir heilagrar kirkiu hęstu banzs pino ef þess þarf med ath þier heÿrande ok takande fÿr greinda reikningskape bÿuised ydr suo hier ut j til ydrar modur heilagrar holakirkiu ok oss ok suo uorn̄ fyr greindan officialem oc radhsmann. sem þęr meghit ok uiled med sanninde ok ostrafader tyrer wors herra sidazsta dom oss ok audrum dande monnum bÿkender uera. ok ad þier suo siaed til ok rad wm giored nu ok suo huertt ar hier epter ath þeir fyr greinder peningar sem wij gefit haufum

[1]) þannig.

fyr greindre holakirkiu til uppheldis uerde til samans tekner ok til hennar lagder; j allañ mata sem vij adur rad þar wm hafum giortt ok wortt bref þar wm giortt utuisar ok fyr skrifath star. ok sem þier giarna uiledh ath wij icke þeim skulum aftur krefia ok þar wm rad giora. sem þad epter uortt fyr greintt bref ok presta samþyckt j uore makt ok uilia stendur ef þad af tilskipudum af oss prelatum ok prestum forsomad edr icke uor skipan þar wm fullgiord ok halldin yrde. Bidium ok biodum wij ydur samleidis ef þier finnedh uors fyr greindz officialis ok radhsmanz huoratueggiu reikningskape laugligha ok skiallegha hafi til geingit sem þad ber wm aull fyr greind stycke sem fyr skrifath star ok wij fulkomlegha trwm ok trę(y)stum. ath þier þa taket strax eitt fulltt transumptum af þeim huorumtueggium fyr greindum reikningskopum ef þier þeim suo finnedith[1]) hafit. ath þier þa jnnan tuo manudu þar epter sendit oss medh yduartt uissubodh ok til skrifith oss undir ydra allra opid bref ok jnsigle suo latanda sem hier epter stendur huersu þier hafit hans fyr greinda reikningskape fundith standande ok ef oss þar efter ber med riett honum gefa þar upp æ uortt fulltt ok laugligtt kuittunarbref fyrer oss ok alla uora efterkomendur holakirkiu formenn wm wij þa erum j landit. Erum wij þa ok icke j landit þa gefum wij ydr med þetta sama wortt bref uora fulla mackt til at gefa honum suodan kuittunar bref sem honum hier wm ber ath hafa ok fyr skrifath star þo suo wm hann skilst med fyr greintt radzmanz starf medan wij erum i landit. ath hann þa skal epter þui sem oss þicker bijhof uera hallda fyrer oss medh sinum bokar eide ath hann hefer riettan ok sannan reikningskap ok fulla bijtaling giortt heilagri holakirkiu ok oss af aullum fyr greindum styckium ok fyr greindan tid efter þui sem honum ber upp a guds uegna med riett ad giora. Skær þat ok suo ath hann icki skillzt fra fyr greindu starfe medan wij erum j landith edr j life ath þa skal standa til vorn efterkomande hola kirkiu biskup edr formann med samþycke kongs af norghi ok erkibiskups af nidarose taka af worum fyr greindum officiale ok radzmane suodan fyr greindan bokareidh. Ok j aul(l)um fyr greindum styckium ok j sierhueriu wm sig ok suo j uorum biskuplighum riette mackt og uald sem wij epter skipan Erchibiskups af nidarose haufum yfer hola kirkiu biskupsdęmi oss

[1]) þannig.

forsomat j allan mata fyrer utan alltt fals ok undirhyggiu. Skulu þier ok sem fýst uerda ýfer eins wm tid ok stad nęr ok huar þier skuledh saman koma ath taka fyr greindan reickningskap.[1])

Ok til saninda hier wm settum wij wortt jnsigle fyrer þetta bref skrifat j skalhollte jn festo translacionis sancti thorlaci episcopi anno domini ꝏ cd xl iij°.

---

### 683. 21. Júlí 1443. í Skálholti.

Goðsvin biskup í Skálholti skipar Reynistaðarklaustri í kost með systur Margréti Þorbergsdóttur árlega hundrað frá Skálholti, annað hundrað frá Hólum og þriðja hundraðið frá Kirkjubæjarklaustri.

AM. Fasc. XI, 11. frumritið á skinni. Innsiglið er dottið frá. Bréfið er frá Reynistaðarklaustri. Það er með sömu hendi og Fasc. XI, 10 frá sama degi (Nr. 684).

Þath gervm víj Godsvin med gvds nad biskup j skælhollti forman ogh vmbodsman heilagrar hola kirkiv godvm monnum viturligth ath víj hofum skipat ogh gefit til Reýnenes klavstur ordinis sancti benedicti hola biskupsdæmis svo sem lifer ogh blíjfur j þvi klavstri syster Margreth þorbergsdotter henne kost til hialps af fýrgreindri skælhollzkirkiv ogh svo af holakirkiv ogh samaleidis af kirkivbæiarklavstur fýr grein(d)s ordinis af hverivm fýr sagth eith hverth hvndrad. biodvm víj vorum Razmonnum j skælhollti ogh svo j holvm ogh samaleidis abbadíjsi j kirkivbæiar klavstur vnder hlydne ath lvki ærliga þan fýrgreindan stad hver fýr sagt þessi fýr greind hvndrvd til fýr greinz Reýnenes klavsturs bíhof sama klavstursins Razmane fyrer vtan allth hindur. Ogh til sannenda hier vm settum víj vorth jnzsigli fýr þetta bref skrifad j skallhollti næsta dag epter translacio sancti thorlaci anno domini ꝏ° cd° xl° tercio.

---

### 684. 21. Júli 1443. i Skálholti.

Goðsvin biskup í Skálholti samþykkir kaup þeirra Barbaru abbadísar á Reynistað við Guðmund Björgólfsson á jörðunni Skíðastöðum fyrir Skarð á Reykjaströnd (sjá bréf frá 24. Júlí 1443).

---

[1]) reicknaıskap, frbr.

AM. Fasc. XI. 10. frumritið á skinni. Innsiglið er dottið frá. Bréfið er frá Reynistaðarklaustri. Það er með sömu hendi og Fasc. XI, 11, frá sama degi (Nr. 684). Sbr. Nr. 686.

Þat gervm víj godsuin med guds nad biskup j skalholllti forman ogh vmbodsman heilagrar holakirkiv godvm monnvm viturligth med þessv vorv brefi ath víj hofvm samþýckth þav iardakavp er syster barbara abbadíjs ath stad j Reýnenesi hefer keýpth med gvdmvnd biavrgolfsson æ klavstursins vegna ath fyr greind systir barbara keýpti ath adur nefnndvm gvdmvndi jordina skidastadi j laxardal er liggur j hvams kirkiv soknn fyr fimtigi hvndrada. hier j mot gaf syster barbara skard er liggur j fagranes kirkiv soknn. Ogh med þvi ath oss lizth þetta fyr greint jardakavp æ stadarens vegnna avllungis skadlavst vera þvi samþýckivm víj þetta iardakavp æfenliga halldaz skvlv kvith ogh obrigdanligth fyr oss ogh ollvm vorvm lavgigvm epterkomendvm. ogh til sannenda hier vm settvm víj vorth jnzigli fyr þetta bref skrifat j skalholllti en næsta dag epter translacio sancti thorlaci anno domini ∞° cd° xl° iij°.

---

685.

23. Júli 1443. í Skálholti.

Godsvin biskup í Skálholti áminnir alla skattbændr milli Kleifa í Seyðisfirði og Kjálkafjarðar undir banns pínu að lúka Holtskirkju í Önundarfirði eyristoll samkvæmt máldaga kirkjunnar.

AM. dipl. afskrr. Nr. 2328 »Eptir original fra Holltz kirkiu i Önundarfirdi, accuratissimé« (AM.). AM. dipl. afskrr. Nr. 2330 eptir transskripti Holtskirkju frá 24. Nóvember 1492, en það, sem þar munar frá frumritinu, er afbakanir einar að mestu.

Uíj Godhsuin medh Guds nad biskup j skalhollte Giorum godum monnum viturlickt med þessu voru opnu brefe ath wor kęre son olafur jsleiksson prestur hefer kęrtt fyrer oss ath j morgum stodum luckazt eigi suodan gamlar yskylldur og gud-tollar sem godfuser menn hafa vm langan tima huer epter annan gefit med goduilia og golldit arligha til kirkiunnar sancti laurencij[1]) i hollti j aunundarfirde fyrer sinne sal. og sinna epter

[1]) laurcij, frb.

komande erfingia epter þui sem maldaghi fẏr greindrar holltzkirkiu utuisar. þui aminnom wíj alla goda menn og sierhuernn wm sig þa sem þetta mal uardar ath þer lukith hiedan af reiduligha huertt ar sem ẏdr ber med fullri skylldu suodan[1]) fyrrgreindar jskylldur til kirkiunnar j[2]) hollte sem fẏr skrifath star. Takannde þar firir æuenlig laun af uorum herra. jumfrv marie og sancti laurencij. Enn huer sem audruuis giorer og dirfizst hiedan fra ad hallda rangligha vndir sig med þriosku og ohlydne fẏr greindum gaumlum og nẏiom gudtollum efter þad þeir hafa heyrtt þetta uortt aminingar[3]) bref lysum wij fallna wera j heilagrar kirkiv forbod. og hestu banz pino af sialfu uerkino. Setium wıj þeim xxx dagha fyrer[4]) þriar laugligar aminingar[3]) ath þeir þar fyrer jnnan kome til fullrar betringar vid heilagha kirkiu. fimtan þar af fyrer hino fystu. atta þar nest epter komannde fyrer þa adra og siau hino sidustu fyrer þa þridiu. hueriom endaudum og yferbot þa eige fram kominni afsetium wíj þeim fadme heilagrar kirkiu og hennar sakramentis og samneyte annara kristinna manna. Skulu þeir halldazst af aullum suo sem bannsetter menn þadan fra þar til þeir settaztt og fulkomligha med audmyckt yferbęta med gud og heilaga kirkiu. og til sanninda hier wm settivm wíj wortt jnnsigle fyrer þetta bref skrifat j skalhollte jn festo sancti appollinaris episcopi et martiris anno domini ꝏ cd xl iij°.

---

686. 24. Júli 1443. á Reynistað.

Guðmundr Björgólfsson og Ragneiðr Þorvarðsdóttir kona hans selja klaustrinu á Reynistað jörðina á Skíðastöðum í Laxárdal fyrir jörðina Skarð á Reykjaströnd, og tilskildu það, að Barbara abbadís á Stað ætti að láta kenna syni þeirra til prests, og fór kaupið fram tíu dögum áðr en það væri bréfað (Sbr. Nr. 684).

AM. Fasc. XI, 12, frumritið á skinni. Fyrsta innsiglið er fyrir bréfinu, en hin eru dottin frá. Bréfið er frá Reynistaðarklaustri.

---

[1]) allar, transskr.; [2]) sl. frbr.; [3]) amingar frbr.; [4]) ꝼhr', frbr.

bref vm skidastade.

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edr heyra senda sira teitur finnzson. jon diakne snorrason. halldor steindorsson. bergvr vigfvsson. einar bavdvarsson kvediu gvds ok sina kvnnigt giorandi ath þꜳ er lidet var fra hinngatbvrdi vors herra jehsv christi þvshvndrvt ok cccc hvndrvt fiorirtiger ok iij ar. ath drottensdaginn fyrer þorlaksmessv vm sumaret[1]) j bænhvsenv ꜳ skidastavdvm j laxardal vorvm ver j hia ok heýrdvm ꜳ ord enn savm ꜳ handaband þeirra frv barbarv abbadisar er þꜳ var formann klavstvrsens ok stadarens j reýnesnesi af einne alfv. Enn gvdmvndar biorgolfssonar ok ragneidar þorvardzdottur konv hans af annari ath svo fyrer skildv ath greind hion gvdmvndvr ok ragneidvr selldv stadnvm j reýnesnesi jordena ꜳ skidastavdvm j laxardal er stenndvr j hvams kirkiv sokn til æveulegrar eignar vndan sier ok avllum sinvm erfingivm ok epterkomendvm med avllvm þeim gaugnvm ok gædvm eignvm ok jtavlavm[2]) hlvtum̄ ok hlvnenndvm sem greindri jordvne ꜳ skidastavdvm hefer fyllgt ath fornv (ok) nyiv ok þav yrdv fremz eigandi at. enn þar ꜳ moti gaf frv abbadis stadarens uegna fimtige hvndrada j svo ordnvm peningvm. jordina j skardi er stendvr ꜳ reykiastravnd j fagranes kirkiv sokn fyrer þritig(i) hvndrada. þar til skylldi fru abbadisen̄ taka son gvdmvndar vpp ꜳ stadarens kosnat til skola. klæda hann ok fæda þar til er hann mætti vel vigiazt fyrer kvnnattv saker ef hann villde. skýlldi sꜳ kostnadur lvkazt fyrer .xx. hvndrvt j fur greint verd skidastada. Enn ef sveinnenn kynne ath deyia eda ef hann vildi eigi læra þꜳ skýlldi fram falla fyrer hann fiogur[3]) kvgillde ꜳ hverivm tolfmanavdvm vpp j iordna[2]) ꜳ skidastavdvm. skilde frv abbadis allar flýtningar huala ok vidar ok skreidar frialst ꜳ lannd leggia ꜳ skardz rekka reynesnes stadar vegna. ok svo skips satvr med. kynne jorden j skardi ꜳ nakkvn[2]) mata favl ath verda skilldi frv abbadis hana aftur af gvdmvndi ok ragneidi j þeirra hanndabanndi vnder stadinn (ok) klavstvrit j reynesnesi fyrer þriatigi hvnndrada en þav savgdv bædi jꜳ vitt. En ef jordin skidastadir kýnni med logvm af ath gangga skylldi iordin̄ skard falla vnnder stadin aftur til fvllra(r) eignar. ok

[1]) þ. e. 14. Júlí; [2]) svo; [3]) fiorgur. frbr.

þar til .xx. hvndrvt j þarfligvm peningvm fyrer kostnad ok kenzlv sveinsins sonar gvdmvndar ok ragneidar. skylldv þratt nefnd hion gvdmvndvr ok ragneidr svara avllvm laga riftingvm a jordinni skidastavdvm. Enn stadarens vmbodsmadr hallda til laga,

ok til sannenda hier vm settvm ver fyrnefndir menn vor insigle fyrer þetta jardarkavps bref er skrifat uar ath stad j reýnesnesi midvikvdaginn næsta fyrer jacobs Messo a sama are sem fyr seger.

---

687. 24. August 1443. i Kaupmannahöfn.

Kristopher konungr af Bayern tilkynnir sýslumönnum sínum í Noregi og Björgynjarmönnum, að hann hafi leyft borgarmönnum í Amsterdam á Hollandi að verzla í Noregi gegn venjulegu gjaldi, en undan tekr verzlun á Íslandi og í öðrum skattlöndum ríkisins, því verzlun þar sé með öllu bönnuð.

Dipl. Norv. V, Nr. 720 eptir frumritinu, sem er í skjalasafninu í Amsterdam, og sem innsigli konungs er enn fyrir.

Wy Cristoffer van godesgnaden to Dennemarcken Sweden Norwegen der Wende vnde der Goten koninck pfaltzgraue bij deme Rine vnnd hertigh in Beyern doen witlik allen de dessen vnsen breff zeen offte horen lesen jn vnseme rike Norweghen vnde besundern vnsen leuen getruwen vogheden laghmannen borgermeistern reatmannen vnnd eren vmbodesmannen besundern jn vnser stat Berghen jn Norweghen dat de van Ampsterdam vte Hollant moghen vriigh vngehindert vnnd veligh kopslaghen jn vnsem vorbeno^dem^ rike Norweghen wor en des behoff wert sunder in Jislande vnnd andern schatlanden de vorboden sin vnnd geuen vnsen vorbenomeden vogheden vnnd ambitmannen eren wonliken tollen vnnd rechticheit de en mit rechte boert wt to geuende. Worumme wi beden vnnd beuelen vnsen vorbeno^den^ vogheden vnnd ambitmannen dat see de worbenomeden jnwonre von Ampsterdam wor se komende werden jn vnseme rike Norweghen vorbenomet van vnser weghen vorderen vnd vorderen laten vnnd nicht hinderen laten vnder vnser koninckliken hulde vnnd vngnade so lange also se dat van vnser gnade hebben.

Geuen vnd screuen vp vnsem slote kopenhauen vnder

vnsem secrete die beati Bartholomei apostoli anno domini mcd quadragesimo tercio.

---

688. **21. Oktober 1443. í Kaupmannahöfn.**

Kristopher konungr af Bayern tilkynnir sýslumönnum sínum í Noregi og Björgynjarmönnum, að hann hafi gefið Zierikzeemönnum í Zelandi á Hollandi verzlunarleyfi í Noregi gegn venjulegu gjaldi, en undan skilr Ísland og önnur eylönd.

M. Pontanus Rerum Danicarum Historia 1631 lib. X, 623. Í Zeverii Boxhornii Apologia pro navigationibus Hollandorum adversus Pontum Hevterum og víðar er bréfið prentað og heimfært til 1445, og þó tekið eptir bók Pontanusar. Afskript frá 16. öld af bréfi þessu á hollenzku er í Ríkisskjalasafni Dana (»Nederlandske Privilegier«), og er dagsetning þess 21. Oktober. Sbr. William Christensen: Unionskongerne og Hansestæderne, Kh. 1895 bls. 97—98.

Nos Christophorus Dei gratia Danię, Svecię, Norvagię, Vandalorum, Gothorumque Rex, Palatinus Rheni, dux Bavarię, constare omnibus volumus has lecturis, et maxime regni nostri Norvagiæ dilectis, fidelibus, præfectis, judicibus, consulibus ac senatoribus aliisque civitatis nostræ Bergensis incolis atque indigenis, indulsisse nos civibus ac civitati Ziriczeensi, quæ est in comitatu Zelandiæ, libere ac tuto intra regnum nostrum prædictum Norvagiæ, exceptis Islandia aliisque in vicino insulis prohibitis, negotia sua commerciaque exercere, solutis, quæ pro more debentur, oneribus ac vectigalibus. Quapropter mandamus atque imperamus prædictis nostris judicibus, præfectis, ceterisque, ut prænominatos cives oppidi Ziriczeensis, intra regnum nostrum Norvagiæ negotiantes, provehant et promoveant, eisque commodent ac esse adjumento velint; nec ipsis ullo modo molestiam exhibere quenquam permittant: nisi regiam nostram incurrere inclementiam cupiant: idque quamdiu hac nostra fruantur gratia.

Datum in arce nostra Haffniensi anno domini 1443.

---

689. 23. Oktober 1443. í Kaupmannahöfn.

Kristopher af Bayern Danakonungr ritar Henriki Einglakonungi hinum sjötta umkvörtun yfir megnum yfirgangi enskra þegna á þegna sína, en einkum á Íslandi, og beiðist þess að reistar sé skorður við slíkum ágangi og óskunda, og að skaðabætr fullar sé veittar.

AM. 295. Fol. bl. Lij. á pappír c. 1500.

Cristoferus dei gracia Dacie Swecie Norwegie Sclauorum Gothorumque Rex Comes palatinus Reni et Dux Bauarie, serenissimo et illustrissimo principi eadem gracia Anglie et Ffrancie Regi et Hibernie Domino et cetera. Salutem et Regie felicitatis prosperum jncrementum.

Serenissime princeps ffraterque noster carissime, Diuerse, diuersorum nostrorum subditorum querimonie quam pluribus vicibus coram nobis exarate sepissime replicate, animum nostrum non sine cordis suspirio frequencius conturbarunt funestis vocibus et sonoro gemitu querelando, qualiter quidam subditorum terrarum vestrarum terras nostras et dominia precipue Jslandiam citra et contra nostrum concensum voluntatem et permissionem sub negociandi et mercandisandi colore accesserant et invaserant accedunt et invadunt censum nostrum theolonea aliaque tributa nobis jure Regio cedencia et cedere debencia deportando dirimendo et subtrahendo, subditos nostros jmmanissime talliant spoliant ad abbissumque durissime periciunt paupertatis, in nostra maxima preiudicia dispendia vilipendia et contemptum, Quorum malorum ferocia non contenti malis mala accumulantes, jncolas nostros bonis temporalibus exutos de terris natiuis ad fines exteros deportauerant et deportant nedum leges terrarum nostrarum, verumeciam legem fauiam de plagiis per viuorum subtraxionem vnde Romanorum Jmperium capitalem minatur summam verissime jncidendo, Jpsis eciam deportatis et subtractis seruitutem pharaonicam jn omni vilitatis opere ingerunt et jnfligunt non solum jure nostro regio quinymmo christianitatis vinculo humanitatis jntuitu et pietatis conpassu despectis penitus et contemptis, Qua propter tantis flagiciis celeritatis indicere terminum tantis suspiriis pietatis applicare remedium nostrisque dominiis et terris felicitatis rependere gubernationem volentes,

